# FORNMANNA SÖGUR,

EPTIR GÖMLUM HANDRITUM

ÚTGEFNAR

AÐ TILHLUTUN HINS

KONÚNGLIGA

NORRÆNA FORNFRÆÐA FÈLAGS.

Urðar orði
kveðr engi maðr.

*Fjölsvinnsmál.*

SJÖUNDA BINDI.

Sögur Noregs konúnga frá Magnúsi berfætta
til Magnúss Erlíngssonar.

Kaupmannahöfn, 1832.
Prentaðar í enni *Poppsku* prentsmiðju.

# SÖGUR

# NOREGS KONÚNGA FRÁ MAGNÚSI BERFÆTTA TIL MAGNÚSS ERLÍNGSSONAR.

EPTIR GÖMLUM SKINNBÓKUM

ÚTGEFNAR

AÐ TILHLUTUN HINS

KONÚNGLIGA

NORRÆNA FORNFRÆÐA-FÈLAGS.

Kaupmannahöfn, 1832.

Prentaðar í enni Poppsku prentsmiðju.

# Formáli.

Hið sjöunda bindi af Fornmannasögum, sem hèr kemr fyrir almenníngs sjónir, hefir inni að halda sex smásögur af Noregs konúngum, frá Magnúsi berfætta ok til Magnúss Erlíngssonar; eru þær í gömlu skinnbókinni að mestu leiti óaðgreindar, en hèr aðskildar eptir efninu ok sumparti eptir Heimskrínglu.

Fyrst er *Magnússaga berfætta,* allt þartil er hann fèll á Irlandi.

Þá *Sigurðarsaga Jórsalafara ok Eysteins ok Olafs,* bræðra hans, allt að dauða Sigurðar konúngs, sem lifði þeirra leingst.

Þarnæst sonar hans *Magnúss blinda,* eðr heldr *Haralds konúngs gilla,* sem eiginliga var konúngr í landinu, þángat til hann var myrðr af Sigurði slembidjákni.

Þarnæst sona Haralds ok helzt *Inga,* sem sigraði bræðr sína *Sigurð* ok *Eystein* ok aðra mótstöðumenn, nema Hákon Sigurðarson.

Tekr þá við Saga *Hákonar* þessa, er kallaðr var *herðibreiðr,* ok segir frá því helzt, hversu hann felldi þá Gregoríum Dagsson ok Inga konúng; en þá var tekinn til konúngs á móti honum Magnús, son Erlíngs skakka, ok fèll hann it fyrsta sinn er þeir mættust i bardaga.

Þá er eptir *Saga Magnúss Erlíngssonar*; þykir þat eitt rètt at skipta þannig sögum þessum. Heimskríngla hefir aðgreint þær mjög öðruvísi, ok smeygt inn 2 kapítulum um jarteignir Olafs konúngs ens helga, að öllu leiti óviðkomandi Sögu Hákonar herðibreiðs,

í byrjun af 21. kap. (bls. 279, l. 5) á milli orðanna: „*sendi hon þau orð bónda sínum, at hann skyldi aldri trúa þeim*" ok „*En er Erlíngr varð þessa vís*"; byrjar Heimskríngla þá sögu Magnúss Erlíngssonar á þessum stað, ok hefir þessvegna orðit at umbreyta orðatiltækinu nokkut, sem annars í *Á*, er lagt er til grundvallar fyrir 3. deild Heimskrínglu, að öllu leiti er samhljóða okkar *A*. Hinsvegar þykir efnit sjálft útheimta, að Saga Hákonar ljúkist með 29. kap., sem inniheldr lýsíng hans ok auknefnis hans, eptir þat búit er að segja frá dauða hans ok greptrun. Saga Magnúss Erlíngssonar nær ekki til dauða hans, heldr, rètt viðlíka ok Inga konúngs, einúngis þartil er sá hófst ámóti honum, hverjum auðit varð loksins at stíga yfir höfuð honum, en þat var Sverrir konúngr, hvers Saga lesendum mun fyrir sjónir lögð í þeim 2 bindum, er næst koma eptir þetta.

Aptarst er hèr viðbætir úr Morkinskinnu, sem seinna mun getit verða.

Nefndar 6 Sögur ásamt viðbætirnum, sem í þessu bindi finnast, eru úr enum sömu þrimr handritum teknar ok hinar í sjötta bindinu, ok er þar í formálanum búit þeim að lýsa; þarf því hèr ekki nema fátt eitt at nefna um þessar skinnbækr; þeim mun heldr, sem hèrmeð fylgja þrjú eyrgrafin sýnishorn af þeim er hverri lýsíngu betr, sýna sèrhverrar rithönd ok annat ásigkomulag.

Þat var eptir því tekit að Nr. 66 i arkarformi í Arna-Magn. safninu, sem merkt er *A*, ok hèr einsok í undanfaranda bindi er lögð til grundvallar, mjög nákvæmliga hefir *ie*, allstaðar, jafnvel þó bundit sè orðit, þar sem skrifarinn hefir viljat gefa til kynna hljóðit *è*, en hvörgi nærri allstaðar, þar sem nú heyrist *è* í íslenzku tali; þótti þetta sýna, hvörnin framburðrinn hefir verit á hans dögum, þat er á öndverðri 14$^{du}$ öld, ok hefir því nákvæmliga fylgt verit í þessu bindi, er

þá eintómt *e* seinast í einsatkvæðisorðum: *fe, feit, fegjafir, femildum, fefaung, dánarfe, lausafe, ránfe, kne, tre, teið, hleborðs, at ek se, þú ser, ver sem, þeir se* (l. sint); *ek se* (video), *hann ser, ne;* einnig í fyrirnöfnum: *mer, ver, þer* (tibi), *þer* (vos), *ser*, bæði í eintali ok margt. ok í *her, heðan, heðra, heruð, sneri, reru*, líka: *með velum, Heðinn, Petr*, (ok jafnvel í miklu nýrri skinnbókum: *Slesvík*). Önnur regla, sem *A*, ásamt öðrum góðum skinnbókum fylgir, er að hafa ð fyrir *t* í niðrlagi orða, þar sem *t* gengr á undan, t. d. *litið, látið* o. s. fr.; líka *en* fyrir l. [1]) sed ok [2]) quam; *enn* fyrir etiam, adhuc; er því einnig fylgt hèr í textanum; en öðru sleppt, sem minna þótti áríða, t. d. *ft* fyrir *pt* allvíða í: *eftir, aftr, skifti*, o. þvíl.

Hrokkinskinna, *H*, er aungum mun betri eðr greiniligri hèr en í fyrra bindi, en þó nákvæmliga samanborin ok stöku staðir úr henni uppfylltir. Hefir hon einnig: *fee, see, se ek*, en *hieðan; en*, l. quam.

Morkinskinna, *M*, er í þessum parti af bókbindaranum mjög misbundin, en annars viðlíka ásigkomin, ok búit er að lýsa henni í formálanum við 6ta bindi. Hon er hèr nákvæmliga samanborin, þótt allvíða væri ógeranda að innfæra allan orðamuninn. Sigurðarsaga slembis er hèr aptan við innfærð úr henni til sýnis, sèrílagi vegna fjölda vísna, sem vantar í hinar. Líka frásagnir tvær, önnur frá skáldinu Einari Skúlasyni, önnur frá Gregorió Dagssyni, sem er að öllum líkindum sönn saga, en vantar í hinar báðar.

Heimskríngla Snorra Sturlusonar (*Hk*) er einnig samanlesin við textann í þessu bindi, en þegar farit var nokkru nær, fannst hennar texti ok sèrílagi orðamunr óáreiðanligr; varð þá að gá at handritunum; en af 3ja parti hennar eru einúngis 2 skinnbækr til, önnur Nr. 45 í arkarformi í Arna-Magn. safninu, merkt *E* í útgáfunni einsok hèr; önnur Nr. 47 í arkar-

formi í téðu safni (Eyrspennill), lögð til grundvallar við 3. p. *Hk*, ok í athugagreinunum nefnd *A*. Þetta nafn getr þó hvorki staðizt í Hk., þareð *A* merkir alla aðra bók í hinum tveimr fyrri pörtunum, hvaðan einnig sá hálærði seinni útgefari Skúli heitinn Thorlacius hefir villzt á því (Form. bls. 15), nè heldr hèr, þar sem *A* einnig merkir aðra bók, þó í rèttritun ok fleiru nokkuð svipaða, er hon því hèr einsok annarsstaðar merkt *Á*, þar eð ekki varð nærri komizt hinu merkinu; þó eru þessar tvær skinnbækr einúngis hèr ok hvar hagnýttar einna helzt í vísunum.

Textinn allr í þessu bindi er útskrifaðr úr skinnbókunum af mentuðum Islendíngi, en þarnæst nákvæmliga samanborinn við skinnbækurnar sjálfar ok leiðrèttr þareptir af Prófessóri í Austrlanda túngumálum ok bókaverði háskólans R. Rask; sá sami hefir einnig samanborit hann við *H*, *M*, *Hk*, ok hèr ok hvar, þegar þurfa þótti, við *E*, *Á*, til þess að safna þeim töluverðasta orðamuu úr þeim. Registrit er tilbúit af úngum íslenzkum stúdenti.

Kaupmannahöfn þann 3. Sept. 1832.

# Saga Magnúss konúngs berfætts.

Magnús, son Ólafs konúngs, var til konúngs tekinn [í Víkinni[1] þegar eptir andlát Ólafs konúngs yfir allan Noreg. En er Upplendíngar spurðu andlát Ólafs konúngs, þá tóku þeir til konúngs Hákon þórisfóstra, bræðrúng Magnúss. Síðan fóru þeir Hákon ok þórir norðr til þrándheims; ok er þeir komu út til Niðaróss, stefndu[2] þeir Eyrarþíng[3]; beiddi Hákon ser þar konúngsnafns: var honum þat veitt, at bændr gáfu honum konúngsnafn yfir hálfu landi, sem faðir hans hafði haft, Magnús konúngr Haraldsson. Hákon konúngr tók af við þrændi landauragjald, ok gaf þeim margar aðrar rèttarbætr; hann tók ok af við þá jólagjafir; snerust allir þrændir til vináttu við Hákon. þá tók Hákon konúngr ser hirð, fór hann síðan til Upplanda, ok veitti Upplendíngum allar slíkar rèttarbætr sem þrændum; voru Upplendíngar ok fullkomnir vinir hans. þá var þetta kveðit í þrándheimi:

[1]) *v. í H.* [2]) *þannig H, R*; ok stefndu *A.* [3]) Eyraþíng, *H.*

Úngr kom Hákon híngat,
hann er beztr[1] alinn manna,
frægðar-mildr, á foldu,
fór með Steigar-Þóri:
syni Ólafs bauð[2] síðan
sjálfr upp Noreg hálfan
mildr, en Magnús vildi
málsnjallr hafa allan[3].

2. Magnús konúngr fór um haustit norðr til Þrándheims, ok er hann kom inn til Niðaróss, fór hann í konúngsgarð, ok var þar at herbergi; dvaldist hann í bænum öndverðan vetr. Hann hèlt 7 skipum[4] í vök þýðri í Nið fyrir konúngsgarði. En er Hákon spurði at Magnús, frændi hans, var austan kominn, þá fór hann norðr til Kaupángs, ok tók ser herbergi í Skúlagarði ofan frá Klemenskirkju; þat var hinn forni konúngsgarðr. Magnúsi konúngi líkaði illa stórgjafir þær er Hákon konúngr hafði gefit bóndum til vinsælda ser, þótti Magnúsi sín eign gefin, ok ýfðist mjök hugr hans við þat, ok þóttist mishaldinn af [við frænda sinn[5], er hann hafði miklu minni tekjur, en faðir hans hafði haft, eðr hans forellri, ok kendi Þóri völdin. Hákon konúngr ok Þórir urðu þessa varir; var þeim mikill uggr á, hver tiltæki Magnús konúngr mundi hafa, þótti þeim grunsamligt, er Magnús hafði á floti lángskip tjölduð ok búin. Eitt kveld mjök síð

(1 æzstr, *H.* 2) *H, Hk, R; v. í A.* 3) *þessa vísu v. í M* 4) lángskipum, *H*; lángskip *R.* 5) frænda sínum, *H, M, R.*

lagði Magnús konúngr brott skipum sínum tjölduðum út undir Hefríng, ok bjuggu[1] þar um nóttina. Þeir gerðu elda stóra á landi uppi. Þá hugði Hákon, [ok þat lið er í bænum var, at þat mundi gert til svika við þá[2], lèt hann blása liðinu út á eyrar, ok sótti þagat allr bæjarlýðr; [voru þeir í liðsafnaði[3] um nóttina. En um morgininn er lýsti, ok Magnús konúngr sá her (manns) á eyrunum, þá hèlt hann skipum sínum út eptir firði, ok fór suðr í Gulaþíngslög. Hákon konúngr bjó þá ok ferð sína, ok ætlaði landveg austr í Vík. Hann átti áðr mót í bænum; talaði þá, ok bað menn vináttu, ok hèt öllum mönnum sinni vingan; sagði hann ser vera mikinn skugga[4] á, hvat Magnús frændi hans myndi ætlast fyrir. Hákon sat á hesti, ok var ferðarbúinn. Allir menn hètu honum vináttu með góðvilja ok sínu liði, ef hann þyrfti, ok fylgði honum allr lýðr út undir Steinbjörg; þat var litlu eptir[5] kyndilmessu. Fór Hákon konúngr þá upp til Dofrafjalls; en er hann fór um fjallit, reið hann leíngi dags eptir rjúpu einni, er flaug fyrir honum; þá tók hann banasótt, ok andaðist þar á fjallinu. Var lík hans flutt norðr til Niðaróss, ok kom þar hálfum mánuði síðar en hann hafði þaðan farit. Ímóti líki hans gekk allr lýðr, ok flestir grátandi, þvíat alþýða unni honum hugástum. Lík Hákonar konúngs var jarðat at Kristskirkju. [Hák-

1) lágu, *H.* 2) at þ. l. e. í b. var mundi þetta gjöra til sv. v. sig, *H*, *R.* 3) var þar liðs samfnaðr, *H.* 4) grun, *H.* 5) fyrir, *H*, *R.*

on konúngr var hálffertögr, þá er hann andaðist[1]. Hann hefir einnhverr höfðíngi vinsælstr verit í Noregi af allri alþýðu. Hann hafði farit norðr til Bjarmalands, ok átti[2] þar mikla orrostu, ok fèkk sigr.

3. Magnús konúngr fór um vetrinn í Vík austr; en er váraði hèlt hann suðr til Hallands með[3] liði sínu ok herjaði; hann brendi þar sem heitir Viskardalr[4] ok enn fleiri heruð; fèkk hann þar fe mikit, [ok fór síðan aptr í ríki sitt. Svâ segir Björn hinn krepphendi í Magnússdrápu[5]:

Vítt lèt Vörsa-drottinn[6]
(varð skjótt rekinn flótti)
(hús sveið Hörða-ræsir)
[Halland farit[7] brandi;
brendi buðlúngr Þrænda[8]
(blès -kastar hel[9] fasta)
(vakti viskdœlsk[10] ekkja)
(við-)[11] mörg heruð síðan.

Her getr þess, at Magnús konúngr gerði hit mesta hervirki á Hallandi[12].

4. Sveinn er maðr nefndr, danskr at kyni, son Haralds, er kallaðr var flettir. Sveinn var hinn mesti víkíngr, ok bardagamaðr hinn hraustasti, ættstórr í sínu landi. Hann hafði verit í kærleik-

---

1) oc höfþo þeir frændr ráþit landino eigi fulla 2 vetr, er Hácon konongr andaþiz, *M*; o. h. þ. Magnús konongr þá ráðit l. 2 vetor. Hákon konongr var maðr vel hálf-þrítogr at aldri, *Hk*. 2) háit, *H*; háð, *R*. 3) *v. í H*. 4) *M*; Víkardalr, *A*; Víkarsdalr, *Hk*. 5) sumt við ráni, en sumt með útlausnom, sem Björn segir, *M*. 6) Vorsadr. *H*, *Hk*; *en M hefir* Vörsadr. 7) heldr land varit, *H*, *R*. 8) þrønda, *M*. 9) vel, *H*; hræ, *M*. 10) *M*; vikdælsk, *H*; vigdælsk, *A*. 11) vitz, *M*. 12) *þenna kap. hefir M miklu seinna eptir Sveinkaþátt.*

um við Hákon konúng Magnússon; en eptir fráfall Hákonar konúngs, þá trúði Steigar-Þórir illa, at hann mundi komast í sætt ok vináttu við Magnús konúng; báru þeir Þórir ok Sveinn þá saman ráð sín[1], þat er síðan varð frammgengt, at þeir reistu flokk [í mót Magnúsi konúngi[2] með styrk ok fjölmenni Þóris; en fyrir því at Þórir var gamall ok þúngfærr, þá tók Sveinn forstjórn yfir flokkinum ok höfðíngja nafn. At þessu ráði hurfu fleiri höfðíngjar, var þar einn ágætastr[3] maðr Egill, son Ásláks af Aurlandi[4]; Egill var lendr maðr; hann átti Íngibjörgu, dóttur Ögmundar Þorbergssonar ok systur Skopta í Gizka. Skjálgr hèt einn auðigr maðr, er til liðs kom með þeim. Þess getr Þorkell[5] hamarsskáld í Magnússdrápu;

Vítt dró sínar sveitir
saman stórhugaðr Þórir,
heldr várut þau[6] höldum
haglig ráð með Agli;
snörp[7] frá ek á því er urpu
endr Skjálgs vinum[8] lendir
menn við morðvals[9]-brynni
mein um afl ser steini.

Þeir Þórir[10] hófu flokkinn á Upplöndum, ok komu ofan í Raumsdal á Sunnmæri; öfluðu ser

1) *v. í Hk; kannske rèttara:* ráð sín um þat. 2) *þannig H; v. í A.* 3) ágætr, *H.* 4) Örlandi, *Hk.* 5) *þannig H fullum bókstöfum, einnig Hk; en A hefir hèr* Þorb. 6) þá, *H.* 7) *H, M;* snavp, *A.* 8) vinir, *Hk, rángt.* 9) morðhauks, *Hk.* 10) *þannig H, Hk, R;* þrír, *A.*

þar skipa, fóru síðan norðr til Þrándheims. Sigurðr ullstreingr hètlendr maðr, son Loðins Viggjarskalla; hann skar upp herör, þegar hann spurði at flokkr þeirra Þóris var kominn, ok stefndu[1] liði öllu til Viggjar[2]. Þeir Sveinn ok Þórir hèldu þángat, ok börðust við Sigurð, ok fengu[3] sigr, ok veittu mikit mannspell. Sigurðr flýði, ok fór á fund Magnúss konúngs; en þeir Þórir fóru inn til Kaupángs, ok dvöldust þar um hríð í firðinum, ok kom mart lið til þeirra.

5. Magnús konúngr spurði þessi tíðindi, ok stefndi þegar liði saman, ok efldist at skipum; ætlaði síðan norðr til Þrándheims at þeim Þóri[4]. Svâ segir Gisl[5] Illugason, er þá var með Magnúsi konúngi:

Úngr framdi' hann sik,
þá er alendr vildu
lofsælan gram
landi ræna
Imdar-faxa[6];
en jöfurr[7] sótti
Báleygs-viðu
með blám hjörvi[8].

Magnús konúngr dró saman lið sitt í Osló, ok fór þaðan þá er hann var búinn. Svâ segir Gisl:

---

1) stefndi, *R*; *en M kemst hèr svo að orði:* þat er sagt, áþr Magnús konúngr føri at þeim, at hann sendi Sigurþ ullstreng til mótz viþ Þóri, oc marga aþra vini sína; þeir scáro upp herör, oc sendo um land, oc sömnoþo liþi í móti Þóri, oc stefndu því. 2) *þannig H, M;* Viggju, *A, Hk.* 3) fjengu, *H venjuliga.* 4) *þat sem eptir er af þessum kap. v. í Hk.* 5) Gísli, *R.* 6) Imþar faxa, *M.* 7) ofra, *H, R, misskrifat.* 8) *þessa vísu v. í Hk.*

Ýtti[1] ör Osló[2]
til Egils fundar
lofðúngr liði
lands at krefja;
fylgdu ræsi
ok Rygir sunnan
linns-láð-gefendr
ör lögum tvennum[3].

Konúngr sigldi norðr með landi ok fèkk raðbyri allt norðr um Stað[4]; lèt hann fast sækja ferðina; var þegar róit, er eigi gaf at sigla. Svâ segir Gisl:

Sjá knátti[5] þá
siklíngs flota
vel vígligan,
vanan[6] sigri,
er fyrir Yrjar
í aga miklum
óþrotligt[7] lið,
árar knúði .

Magnús konúngr lagði at landi öllu liðinu fyrir innan Örvarhamra[9]; gekk hann þar upp, ok átti húsþíng, ok er þíngit var sètt, stóð konúngr upp, ok talaði: þat mun yðr kunnigt, at vârir landsmenn hafa reist flokk í móti oss innanlands, ok hafit hernað í ríki vâru, ok hafa tekit ser til höfðíngja þann mann, er því síðn er her í Noregi

1) *þannig H, M*; ýtim, *A.* 2) Avsló, *M.* 3) *Vísuna v. í Hk.* 4) *H*; staði, *A.* 5) hnáttu, *H.* 6) ok vanan, *H, M.* 7) óþrottligt, *H.* 8) *Vís. v. í Hk.* 9) Avrvahamra, *H.*

til ríkis borinn, at hann á einga ætt her í landi. Því bið ek yðr at þer veitið mer trúliga fylgd, ok styrki hvârir aðra, at reka af höndum þetta illþýði. Hvat megi meiri skömm ok úvirðíng gera sínum konúngi, þeim er rèttborinn er til ríkis, en þeir, sem vârir höfðíngjar ok lendir menn skyldu heita, hafa gert við mik, tekit útlendan mann ok ekki konúngborinn til ríkis, svâ sem þessi maðr er, Sveinn son Haralds flettis, danskr at allri ætt, ok þó smáborinn? Þat var nökkur vârkunn, meðan Hákon frændi vârr lifði, at þeir hèldi undir hann ríki, því at hann sýndi sínum vinum mikinn örleik ok góðvilja; lètum ver ok nökkut vârt samþykki þartil svíva, því at hann var kallaðr jafnborinn til ríkis sem ek; en þetta er úsæmanda, sem nú er upptekit, ok ekki má ek konúngr heita, nema ek eyða þessum úaldarflokki, ok hegnag slíkan níðíngskap, ella er ek úlíkr mínum frændum ok forellrum. Er yðr ok vel veitandi mer styrkr til þessa, mun þat vel fyrirmælast af öllum góðum mönnum ok rèttsýnum. Er þat ætlan mín um þá menn alla, er gengit hafa undir þá Þóri, at ver skulum brenna bygð þeirra, en drepa þá sjálfa, ef ver nám, en taka fe þeirra at herfángi. Lauk konúngr svâ sínu eyrindi, at allir hans menn rómuðu vel. Svâ segir Gisl Illugason:

Átti hilmir
húsþíng við sjó[1],

1) sjá, *M.*

þat var fyrir innan
Örvahamra;
bjóst[1] at brenna,
en búendr[2] flýðu,
stórráðr konúngr
af[3] Staði utan[4].

6. Þeir Þórir lágu í[5] Hefríng, þá er þeir spurðu at Magnús konúngr var kominn utan á fjörðinn með lið sitt; voru þeir Þórir áðr albúnir at halda út eptir firði. Þeir lögðu þá skipum sínum yfir við[6] Vagnvikaströnd[7], flýðu þeir frá skipum á land upp, ok komu fram í Þexdal í Seljuhverfi. Þess getr Gisl, at þeir Þórir flýðu, þegar þeir spurðu til konúngs:

Raufst[8] við rostu,
[rymr varð[9] í her,
helmíngr Egils,
við Illaðir utan[10];
[máttu eigi[11] hersar
fyrir Haða-drottni
láðgöfguðum[12]
landi ráða[13].

Þórir var borinn í börum um fjallit, þvíat hann var svâ fóthrummr, at hann mátti eigi gánga. En er þeir komu í Seljuhverfi, [rèðu þeir ser til

[1]) bjósc, *M.* [2]) bændr, *H*; búöndr, *M*, [3]) fyrir, *H*, [4]) *þessa vísu v. í Hk.* [5]) við, *H*, *Hk*, [6]) at, *M*, [7]) Vagnvík á Strönd, *R*, *Hk*. [8]) Riauſt, *H*; rauſsc, *M*. [9]) rymm var, *H*. [10]) austan, *H*. [11]) máttut, *H*. [12]) *þannig H*, *M*; láðgöfugum, *A*. [13]) *Vís. v. í Hk.*

skipa, hafði Þórir mikit skip ok gott, er hann hafði gjöra látit; fóru þeir norðr á Hálogaland[1]. En Magnús konúngr fór norðr eptir þeim, þá er hann var búinn ör Þrándheimi. Þeir Þórir fóru allt norðr til Bjarkeyjar, ok stökk Jón undan, ok Viðkunnr son hans. Þeir Þórir ræntu þar lausafe öllu, en brendu bæinn ok lángskip gott, er Viðkunnr átti. Þá mælti Þórir, er snekkjan brann, ok hallaðist á bakborða: betr á stjórn[2], Viðkunnr, segir hann; þá var þetta kveðit:

Breðr[3] í Bjarkey miðri
ból, þat er[4] ek veit gólast,
tæra þarft af Þóri
(þýtr vandar[5] -böl) standa:
Jóan[6] mun eigi frýja
elds ne ráns, er kveldar,
svíðr bjartr logi breiðan
[bý, leggr[7] reyk til skýja.

Þeir Jón ok Viðkunnr fóru dag ok nótt, til þess er þeir fundu Magnús konúng. Þeir Sveinn ok Þórir hèldu ok norðan[8] sínu liði, ok ræntu víða um Hálogaland. En er þeir lágu á firði þeim er Harmr[9] heitir, þá sá þeir siglíng Magnúss konúngs, ok þóttist Þórir eigi hafa til lið at ber-

1) *þannig H. einnig hèrumbil, M; frá [ vantar í A.* 2) stjórnborða, *Hk.* 3) *H, Hk, R,* bræðr, *A.* 4) *v. i A.* 5) *þannig M, Hk;* þeyrvandar, *A;* þrekvandur, *H.* 6) *M venjuliga;* Jón, *A H.* 7) *þannig H, M;* býlekkr, *A.* 8) norðr, *Hk.* 9) Heymur, *H; en M hefir:* á firþinom Harme.

jast; reyi u þeir þá undan, ok flýðu. Reri Sveinn út til hafs, en sumt lið þeirra reri inn í fjörðinn. Þeir Þórir ok Egill reru til Hesjutúna[1], ok hugðust fengit[2] hafa meginland, en [þar var þó Vambarhólmr heitandi ok eyland[3]. En er þeir reru at landi, þá mæltu menn Þóris: hvar sá menn jafnfrítt skip, ok ekki mun betra gert hafa verit, síðan Ormrinn lángi var gjör; þetta skip er ok vöskum dreingjum skipat, þeim er líkligir eru til góðrar varnar.

7. Magnús konúngr sneri eptir þeim Þóri, ok er skip konúngs komu mjök at hólmanum, þá reyndust illa menn Þóris, ok runnu frá honum. Þá mælti Þórir: svâ lètu þer sem vârt skip myndi eigi verr skipat en Ormrinn lángi var, en[4] svâ sýnist mer sem skipti muni á vera um skipanina; get ek þar fèlli fleiri, en [her renni fleiri[5]. Þat fór ok svâ, at svâ gersamliga flýði lið frá Þóri, at þeir Egill voru tveir einir eptir. Þá mælti Þórir til Egils: flýþú,[6] mágr; þat er skaði mikill, ef þú týnir lífi, svâ góðr maðr ok vaskr dreingr sem þú ert. Egill svarar: ekki ero menn ofmargir hjá þer, þótt ek se[7] einn[8]. Þórir sat í fyrirrúmi á skipi sínu, þá er konúngsskipin rendu at þeim. Þá kallaði Sigurðr ullstreingr á Þóri, ok mælti: erþú heill, Þórir? Hann

1) Seljotúna, *M.* 2) tekit, *H.* 3) þat var eyland, ok heitir Vambarhólmr, *H*; *einnig M.* 4) *H*; ok, *A.* 5) rynne færi, *H.* 6) flý nú, *M.* 7) sjác, *M.* 8) ok eigi mondi dóttir þín þat etla at ek monda flýja frá þer, *b. v. M.*

svarar: heill at höndum, en hrummr[1] at fótum. Þá var þetta kveðit:

Spurði Ullstreingr orði
(at rendust[2] skip hvatla)
(sverð bitu snarpa[3] fyrða
slætt)[4] hve Þórir mætti:
lundr kvaðst[5] heill at höndum
hjörs, frágum þat gjörva,
(gerði glamm á borði
grjóts), en hrummr[6] at fótum.

Þá voru þeir handteknir Þórir ok Egill, ok lèt konúngr flytja þá upp á Vambarhólm. En, er þeir voru handteknir, mælti Sigurðr: feitr er þú enn, Þórir! svâ gamall maðr. Matr minn veldr því ok munngát, segir hann. En er þeir voru leiddir upp á land[7], þá reikaði Þórir á fótunum, er hann var hrummr, ok hrataði áframm. Þá mælti Viðkunnr: betr á bakborða[8], Þórir! Síðan reistu þeir gálga. En er Þórir sá þat, mælti hann:

Várum felagar fjórir,
færðum[9] einn við stýri.

Ok er Þórir var leiddr at gálganum, mælti hann: ill eru ill ráð. Þórir var manna mestr,[10] bæði digr ok hár. Síðan var hann heingdr; en er upp reið

---

1) hrumr, *H*; hrumaþr, *M*. 2) renduse, *M*; rendo, *Hk*. 3) snarpra, *Hk*. 4) *þannig A, H, R, M*; sætt, *Hk*. 5) qveðst, *H*; qvaze, *M*. 6) *A, H*; hrumr, *M*. 7) Þórir... oc með honum Egill af Förlandi, enn curteysasti maðr oc allra manna vaskastr, *b. v. M*. 8) bakborð, *H*. 9) forþom, *M*; forðom, *Hk*. 10) ok feitastr, *b. v. H*.

gálgatreïð, þá var Þórir svâ þúngr, at slitnaði af honum höfuðit, ok fèll búkrinn til jarðar. Því næst var Egill leiddr til gálgans; þá mælti hann til konúngs þræla, er hann skyldu heingja: eigi skulut þer af því þetta við mik gera, at festa mik upp, at eigi væri hverr yðvar makligri at hánga. Svâ segir Þorkell hamarskáld:

Orð frá ek Agli verða
(unnar-dags) á munni
(sól!) við siklíngs þræla
satt einarðar latta:
hvern þeirra kvað hærra[1]
(hjaldr-bliks)[2] en sik miklu
(beið of mikit eyðir
ángr) makligra at hánga.

Þá mælti Egill til konúngs manna: þat ætla ek at þer hyggit allgott til at sjá fótalætin mín í dag[3]. Þeir svöruðu: ætlar þú eigi at þú munir[4] ráða, hversu þer skal bregða við banann? Þat mun nú sýnast, segir hann, hvârt ek má nökkuro um þat ráða. Því næst var [virgill dreginn[5] á háls honum; en er hann hóf upp; þá stè hann (öðrum) fætinum á aðra ristina, ok brást ekki við síðan; lèt hann svâ líf sitt at allir hörmuðu, þeir er við voru, er svâ hraustr dreingr skyldi svâ fara[6]. Magnús konúngr sat hjá, er þeir

[1]) hera (*þ. e.* hæra), *M.* [2]) *þannig M, Hk*; höldr-bliks, *A*; hjol bliks, *H.* [3]) Hann var í hálfsciptom kyrtli, *b. v. M.* [4]) monir því, *M.* [5]) *þannig M*; viðinn dreginn, *A*; et sterkasta reip dregit, *H.* [6]) *Frá vísunni hèrtil v. í Hk.*

Þórir voru heingdir, ok svà reiðr, at eingi var svà djarfr hans manna, at þyrði biðja þeim friðar. En þá er Egill hèkk[1], mælti konúngr: illa koma þer góðir frændr í þörf, Egill! Í því sýndist at konúngr vildi beðinn hafa verit, at Egill gengi undan. [Aftöku Þóris getr Björn hinn krepphenti:

Snarr rauð Sygna-harri
sverð á úthlaupsferðum,
vítt nam[2] vargr at slíta
varma bráð á Harmi[3];
fráttu hve fylkir mátti,
(fór svà at heingdr var Þórir),
([för varð[4] Gunnar-gjörvis
greið), drottinssvik leiða[5]?

8. Magnús konúngr fór suðr[6] til Þrándheims, veitti þar stórar refsíngar þeim mönnum, er sannir voru at landráðum við hann, brendi bygðir þeirra, en drap suma, sem her segir:

Hrafngæðir[7] [nam hræða[8]
hlífar-styggr,[9] í bygðum,
þrænzka drótt, er þótti
þeim markar-böl sveima;

---

1) sparn gálgann, *Hk.* 2) rann, *M*, *Hk.* 3) hrafni, *H*; armi *M*, *en þar v. seinna helmíng vísunnar.* 4) fyrr var, *H.* 5) *Istaðinn fyrir þenna vísuhelmíng hefir M*: oc enn:

Víkínga letr vengis — vítt rýðr járn á ýtom
vallbaugs hati falla; — Ólafs mögr en fögro.

6) norðr, *H.* 7) Hravngæðir, *H*; Hrafngreddir, *Hk.* 8) vann hrædda, *Hk.* 9) hlífar stygðr, *Hk.*

hygg ek at hersa tveggja
herbaldr lyki aldri
[sinniör vera[1] svâru
svángr fló[2] örn til hánga[3].

Svâ segir Gisl:

Hyrr sveimaði,
hallir þurru,
gekk hárr logi
um heruð[4] þeirra:
sjá knátti þar,
er salir fèllu,
landráð konúngs,
um liði Þóris.[5]

Sá þrændir þann beztan sinn kost, at gefast á konúngs vald, ok biðja ser miskunnar; tók Magnús konúngr sættum við þá er þess beiddu, sem Gisl segir:

Sættist síðan
(siðr batnaði)
hugfullr konúngr
við hatendr sína:
þann gat[6] bragníngr[7]
er bóendr áttu
rètt ráðspakir
[rekkum launat[8].

Gerðist Magnús konúngr þaðan af ríklundaðr,

---

[1]) *þannig Hk*; syndr or [vara] ra, *A*; syndr or vara *H*; syndur aurvara, *R*. [2]) sló, *H*. [3]) *Niðrlag fyrirfaranda kap. frá orðinu:* undan, *og byrjun þessa hingat til v. í M.* [4]) hús, H. [5]) *Vís. v. í Hk.* [6]) gaf, *H*, *M*. [7]) brögnom, *M*. [8]) røkþom launa, *M*; *en þessa vísu v. í Hk.*

hegndi mjök illþýði ok ránsmenn[1], ok friðaði svâ fyrir kaupmönnum ok öðru siðgóðu fólki. Svâ segir Gisl:

Gramr vann gjörvan
(en glatat þjófum)
kaupmönnum frið,
þanns[2] konúngr bætti[3];
svâ at í Elfi
[öxum hlýddi[4]
flaust fagrbúin
[fírum at[5] skorða[6].

Sveinn Haraldsson flýði fyrst á haf út, sem áðr var sagt, ok svâ suðr til Danmerkr; var þar allt þartil er hann kom ser í sætt við Eystein konúng Magnússon, ok var með honum vel siðaðr. Gerði Eysteinn konúngr Svein skutilsvein sinn, ok hafði hann í kærleikum ok virðíngu[7]. Magnús konúngr hafði nú einn ríki í Noregi, hann friðaði vel fyrir landi sínu, eyddi öllum víkíngum ok útilegumönnum; hann var herskárr ok starfsamr, ok í öllu lyndi líkari Haraldi föðurföður sínum heldr en Ólafi konúngi föður sínum.

9. Maðr er nefndr Sveinki Steinarsson, hann bjó austr við Elfi, hinn ríkasti maðr; hann hafði fóstrað Hákon Magnússon, áðr Steigar-þórir tók við honum. Sveinki hafði þa enn eigi gefizt upp í vald Magnúss konúngs, þvíat hann hafði haft

1) ránsmönnum, *H.* 2) þann, *H.* 3) bøtti, *M.* 4) eyjum hlýddu, *H.* 5) í fjöru, *M.* 6) *Vis. v. í Hk.* 7) virc þom, *M.*

svâ mikla ást við Hákon konúng fóstra sinn, [at hann hugði seint af andláti hans. Magnús konúngr heimti til sín Sigurð ullstreing, ok sagði at hann vildi senda hann í Vík austr, at boða Sveinka af löndum ok konúngs-eignum: hann hefir enn ekki hneigt sik til við oss, segir konúngr, eðr vârn sóma gert, en ek vil at allir lendir menn í vâru ríki lúti til vâr, eðr stökkvi af eignum sínum ellar[1]. Þar eru ok lendir menn vârir í Víkinni austr, nefni ek til þess Svein bryggjufót, Dag Eilífsson, Kolbein klökku[2]; þeir munu flytja vârt mál, ok veita þer lið til rèttinda ok laga. Sigurðr svarar: eigi [veit ek þess lends manns vân í Noregi, at 3 lenda menn muni tilþurfa aðra en oss, at koma flutníngi við[3]. Konúngr mælti: þú tekr eigi til þeirra liðsinnis, ef eigi þarf. Sigurðr bjó ferð sína, ok hèlt einu skipi austr í Vík. Hann stefndi saman lendum mönnum. Síðan var þíngs kvadt um Víkina, ok þeim tilboðit austan Elfargrímunum; kom þar saman fjölmenni mikit, ok þeir lendir menn, sem áðr eru nefndir; sögðu þeir Sigurði at honum mundi Sveinki reynast ekki lítill undir höndum: þvíat hann hefir mikit vald ok ríkdóm austr þar við Elfina, sögðu þeir; viljum ver þess beiða, at þú farir í fyrstu

[1]) ella, *H*, *M*. [2]) *kallast í M* Kolbeinn clacca, *en í Hk* Kolbjörn klakki; *í A*, *H* Kolbeinn klokka. [3]) vissa ek vânir þess lenz mannz í Noregi, at 3 lenda menn þurfti í móti aþra en oss, *M*; vissak þess manns vân í Noregi, er þrír lendir menn mundi þyrfa til at koma við mitt fulltíngi, *Hk*.

mjúkliga at við hann, ok flytir vægiliga þitt eyrindi, en eigi með ákèfð, þvíat þat eitt mun hæfa við svâ ríkan mann ok úeirinn. Sigurðr svarar: mikill er afli Sveinka, ef þer þrír með [mínu fulltíngi[1] fáit eigi haldit konúngs málum til rèttinda fyrir honum; [þvíat ek ætla þat eitt at flytja, er eigi mun[2] úsannligt þykkja, þótt þeir reiðist[3] við. Þeir sögðust at vísu skyldu styðja[4] ok styrkja konúngs mál, ok beggja þeirra, en kváðu eigi víst at þat kæmi til nökkurs frama.

10. En síðan þíngit var sett, áttu menn at bíða Sveinka um hríð; síðan var sèn ferð þeirra[5], var þat lið svâ vel búit at vâpnum, sem á eina ísmöl sæi; komu þeir Sveinki á þíngit, ok settust allir í einn hríng, þeir höfðu 5 hundruð manna. Þá stóð Sigurðr upp ok mælti hátt: Guðs kveðju ok sína sendir Magnús konúngr guðs vinum ok sínum, einkanliga öllum lendum mönnum ok ríkum bóndum ok þarmeð allri alþýðu, ok með kveðju fögr orð ok vináttuheit öllum þeim er til hans vilja hneigjast· Þer munit spurt hafa at konúngr hefir hreinsat ríki sitt af hernaðarmönnum, er áðr gerðu mörg ok mikil illvirki í þessu landi; vildi guð nú enda láta áverða þeirra ofstopa, er með fádæmum höfu þá ofdirfð ok níðíngskap, at taka þann mann til höfðíngja í *móti* Magnúsi konúngi, er ekki var ættborinn til lands þessa; nú fór þat mál eptir vân ok rèttindum. Nú vill konúngr

1) mínum flutníngi, *H.* 2) oc lèt sitt mál eigi myndo *M.* 3) røþiz (*þ. e.* ræðist), *M.* 4) flytja, *H.* 5) manna, *M*, *Hk*.

sýna sik í allri blíðu ok góðum friði til allra sinna manna, þeirra er til hans vilja þjóna, býðr sik til forystu, ok vera brjóst fyrir öllum Noregs mönnum, stórum ok smám, ríkum ok fátækum; þarímót vill hann hafa af sínum landsmönnum góða þjónustu ok fylgd sæmiliga, ok er mönnum einsætt at taka vel hans málum; svâ mikit gott sem hann má [1] yðr gera, ok svâ vill hann gjarna öllum þeim er þess gerast verðir[2]. Þá stóð upp maðr í flokki þeirra Elfargrímanna, mikill vexti ok þrekligr í loðkápu, ok hafði refði um öxl, danskan hött[3] mikinn á höfði; hann mælti: era hlums[4] vant, kvað Refr, dró hörpu at ísi. Hann talaði ekki fleiri orð, ok settist niðr. Litlu síðar stóð upp Sigurðr ullstreingr, ok tók svâ til orða: Litlar greinir [ok teingíngar[5] höfum ver konúngs mála ör flokki yðrum, Elfargrímanna, ok meðallagi vingjarnligar til vâr, en sik sýnir hverr í slíku. Nú at gera berara konúngseyrindi, þá beiðist hann landskylda af ríkismönnum[6] ok leiðángrsgerða ok annars konúngligs sóma, er þer erut honum skyldir at veita; renni hverr hug sínum heim, hvernveg þat mun gert hafa, unni ser sóma, en konúngi rèttra laga, ef áðr hefir nökkut áskort, ok minnist á hversu þessum hefir farit, er mót honum risu (fyrir) skömmu. Sett-

1) *Þannig H, M; en A b. v.* af. 2) *Hk hefir þessa ræðu nokkru styttri.* 3) *M*; hatt, *A.* 4) *Þannig líka H, Hk; M hefir* hlūs. 5) *v. í H, en finnst í M, Hk.* 6) jafn vel sem smærom mönnum, *b. v. M.*

ist Sigurðr niðr. Sami maðr sem fyrr reis upp í flokki Elfargríma, varpaði nökkut svâ hettinum, ok mælti: snæliga snuggir[1], kváðu Finnar, áttu andra fala[2]. Sigurðr hafði þá tal við lenda menn, ok sagði at ekki myndi leingr þurfa at draga fjöðr um sköruligt eyrindi konúngs. Þeir báðu hann enn vægiliga tala, sögðu at honum myndi Sveinki reynast [harðr viðfángs[3], sem nökkut mátti finnast á hans orða atvikum. Sigurðr sagði þat ekki mundo fást af ser, at hann vægði leingr orða atkvæðum. Hann var í rauðum skallatskyrtli, ok hafði vesl[4] blátt yfir ser. Sigurðr stóð upp ok var reiðuligr, varpaði veslinu ok mælti: Nú er svâ komit at hverr verðr sín at gæta, ok þarf ekki leingr yfir þessu at hylma[5], eðr[6] af manni at skera, er nú sèt hvers ver þykkjum verðir, ok er þat þolanda, en hitt er meira vert er hneisuliga er svarat konúngs eyrindi; [virðir þó hverr sik[7]. Maðr heitir Sveinki ok er Steinars son, býr austr við Elfi, ok hefir leingi setið yfir konúngs eignum, ok dregr[8] á sik mikit ofbeldi ok dramb, en mer þykir líkligt at konúngr vili vera honum meiri; vill konúngr hafa af honum sem öðrum sínum undirmönnum rèttar skuldir ok vísar eignir, [ellar bjóða[9] honum af löndum; ok er ekki at slota við eðr svara skotyrðum, því-

1) sveinar! *b. v. M, Hk.* 2) sezc niþr siþan, *b. v. M, Hk.* 3) afarúþigr, *M.* 4) *þannig H, M*; vetzl *A.* 5) ylma, *H.* 6) ne, *M.* 7) ok virðir hverr sig í því, *H.* 8) dregit, *H.* 9) ella boða, *H*; eþa bjóþa honum ella, *M.*

at honum mun fást nökkurr jafnríkr, þótt hann taki úvirðiliga vâru máli; ok er honum nú betra en síðar, at snúa áleiðis sínu ráði með sæmd, en bíða eigi hneisu með þrjózku ok þrályndi. Þá settist Sigurðr niðr, en Sveinki stóð upp, ok kastaði hettinum á bak ser aptr, ok mælti: Putt, putt[1], skömm hunda! skitu refar í brunn karls. Heyr á firn ok endimi; ermlaus maðr ok af bakskyrtan! hvat boðar þú mer af löndum? Sendir voru fyrr til þessa tveir menn, þer mjök skyldir, Sigurðr ullband! hèt annarr Gilli bakrauf, en annarr átti verra nafn, vâru nótt í húsi, ok stálu [hvar sem þeir komu[2]; hvat boðar þú oss af löndum? Var minna karp[3] þitt, meðan Hákon konúngr fóstri minn lifði, er þú vart svâ hræddr, ef þú vart á veg hans, sem mús í skreppu, varþú huldr fötum sem hundr á skipi, var þer svâ troðit í kýl sem korni í belg, vartu svâ eltr af óðalum sem arðsgeldíngr ör stóði, stúr þú einnveg andarrúm sem otr í kelpu; [mun þú boða mer af löndum[4]? Lát heldr góðra gjalda vert, ef þú kemst með fjörvi á brott; ok stöndum upp allir at þeim! Spruttu þá upp allir hans menn, ok gerðu mikit vâpnabrak. Sá þá Sveinn bryggjufótr ok aðrir lendir menn þat eitt ráð, at skjóta hesti undir Sigurð, ok reið hann sem skjótast á skóg á brott; lauk svâ því þíngi, at Sveinki fór heim til búa sinna, en Sigurðr fór

[1]) Ullband! *b. v. H.* [2]) hvars qvâmo, *M.* [3]) *þannig A, M, E,* Å; kapp, *Hk.* [4]) hvattá? *b. v. M*; *en Hk* hvat þá.

landveg við annan mann norðr til Þrándheims, ok komst svâ við illan leik til fundar við Magnús konúng, ok sagði honum svâ búit.

11. Konúngr mælti: þurftir þú (nú) nökkut traust[1] þeirra hinna lendu manna? Sigurðr lèt illa yfir sinni ferð, ok kvaðst fyrir hvern mun hefna vilja, ok eggjaði konúng mjök. Konúngr svarar: Ofmjök dragast lendir menn þá framm, er þeir vilja eigi þess gæta [at veita skylduhlýðni konúngi sínum[2]; hefir þeim þat ok aldri vel gefizt í þessu landi: fyrst um daga Ólafs konúngs hins helga, sem fór um mál þeirra Erlíngs Skjálgssonar; svâ ok um Einar þambarskelfi, er jafnbjóða vildi at ríkdómi Haraldi konúngi frænda vârum; svâ gafst ok nú Steigar-Þóri ok Agli; heyrir þat til konúngstign at [lægja uppgáng ok ofrkapp[3] sinna undirmanna, ef þeir kunna eigi at meta sik sjálfir; er Sveinki víst ríkr maðr, en þó kann vera at hann ætli ser ofhátt, ef hann vill við mik þreyta[4]. Lèt Magnús konúngr þá búa 5 skip; fór hann þegar hann var búinn suðr með[5] landi, ok svâ austr í Vík; þá hann þar veizlur at lendum mönnum sínum. Konúngr segir þeim at hann vildi finna Sveinka: er því fyrir yðr at lýsa, segir hann, at ek ætla einn at vera konúngr yfir Noregi, meðan eingi annarr er mer jafnborinn til ríkis þessa; mundi ek þat vilja at lendir

1) traustS, *M.* 2) er til konongs kömr, *M.* 3) leggja ofstopa ok ágáng, *H.* 4) *þessa ræðu konúngs v. í Hh.* 5) *þannig H*; at, *A.*

menn se eigi svâ ofkátir, at sjálfir mínir heimolligir höfðíngjar fari svâ stopalt ok svírvirðliga fyrir þeim, sem Sigurðr ullstreingr hefir nú farit fyrir Sveinka. Þeir sögðu konúngi at Sveinki var maðr bæði ríkr ok údæll: [skortir hann hvârki, sögðu þeir, liðsafla ne vápnabúnað[1].

12. Magnús konúngr fór ör Víkinni ok þessir lendir menn með honum: Sveinn bryggjufótr, Dagr Eilífsson, ok Kolbeinn klakka[2]. En er þeir komu fyrir bæ Sveinka, þá beiddust hinir lendu menn at gánga fyrst á land ok vita tíðindi: þvíat oss er grunr á, sögðu þeir, at Sveinki hafi mannfjölda fyrir, ok eigi síðr í skógum umhverfis. Konúngr bað þá ráða: en vitið þat þó til viss, segir hann, at ek mun búinn at gera bóndum einhverja harða hríð, ef þeir færa sik eigi sjálfir í hóf. En er þeir komu upp á land, sá þeir at Sveinki var á ferð kominn frá bæ sínum með her manns, var þat lið allvel búit. Þeir hinir lendu menn brugðu upp hvítum skildi, ok er Sveinki ser þat, þá stöðvar hann lið sitt, ok hittast þeir. Þá mælti Kolbeinn: Magnús konúngr sendir þer, Sveinki! kveðju, ok þat með, at hann bað þik gæta sæmdar þinnar ok tignar konúngs, ok búast eigi við úfriði, eðr því at berjast við konúng; viljum ver bjóðast til at bera friðmál millum yðvar, er þú miklu vitrari maðr, en þú munir at óreyndum sökum vilja eflast móti konúngi

[1]) en orof bæði manna ok vâpna, *M.* [2]) klokka, *A*; klukka, *H*.

þínum rèttteknum[1] ok ættbornum til lands þessa, hefir þat enn eingum manni vel gefizt. Sveinki svarar: Ekki ætla ek fyrri at gera konúngi úfrið; fórum ver fyrir þá skyld í móti yðr, at ver vildum eigi at þer træðit akra vâra, eðr veitið oss [annan úmaka[2]. Nú munum ver her bíða, ef þer vilit finna konúng. Þeir sneru þá aptr til konúngs, ok sögðu honum allt kyrt ok friðvænligt frá Sveinka: vill hann, sögðu þeir, allt sitt mál leggja á yðvart vald ok dóm. Skjótr er dómr minn, segir konúngr: flýi hann af landi á brott ok komi aptr aldri, meðan mitt ríki er í Noregi; láta skal hann ok feït allt. Kolbeinn svarar: mun yðr eigi þat meiri sæmd, herra! ok öðrum betra tilspurníngar[3], at þer gerit hann ör landi með svâ miklu fè, at hann megi sæmiliga halda sik annarsstaðar með ríkum mönnum, en hann mun aldri (aptr) koma, meðan ver höfum löndhans; en þer gerit þá þó ríkdómliga; hyggit at ok virðit til yðr sjálfa ok yðra tign, ok enn nökkut fyrir vár orð, ef yðr líkar. Konúngr mælti: fari hann á brott þegar! Þeir hittu Sveinka, ok sögðu honum blíð orð konúngs, ok þat með, sögðu þeir, at hann beiddi, at þú myndir gera þat honum til sæmdar fyrir þín afbrigði, at fara ör landi, með svâ miklu fe, at þú ser vel sæmdr af; er þetta hvârstveggja ykkars virðíng, sem þú mátt hugsa. Sveinki mælti: skipan er þá ávorðin, ef konúngr mælir vel til mín eðr

1) rèttkosnum, *M.* 2) annað ómak, *H.* 3) til sp., *H.*

friðsamliga, ok[1] fyrir hví myndi ek lönd mín flýja eðr eigur? Heyr á firn! Betra þykki[2] mer at falla á fè mínu, en flýja óðul mín eðr eigur; segit svâ konúngi, at Sveinki mun eigi flýja eitt ördrag. Kolbeinn svarar: eigi er þat einsætt, vinr! þvíat betra er at vægjast[3] til virðíngar við hinn bezta höfðíngja, en bægjast til stórvandræða. Góðum dreing er þar gott sem hann lifir; munþú þar mest metinn, sem ríkastir menn eru fyrir, en haldit hluta þínum fyrir slíkum höfðíngja. Virð nú til vârt lángt fóstbræðralag ok fullkomit vinfengi, ok gjör fyrir vár orð, at þú drep eigi hendi við þessu boði konúngs, ok firr svâ marga góða menn miklum vandræðum; ok ef þú gerir sem ver beiðum, þá viljum ver bjóðast til forvistar ok trúligrar geymslu um eignir þínar; ok þat með, ef þú kemr aptr til eigna þinna, sem ver væntum, þá skalþú aldri gjalda skatt, nema þat se þinn vili; skulum ver þartil leggja bæði fe ok fjör, ef þess þarf, at koma þessu á leið við konúng. Sveinki þagði um stund, ok svaraði síðan: vitrliga er eptir þessu máli leitað af yðr, en þó grunar mik at þer munit sýnt hallat hafa konúngs eyrindi; en þó fyrir svâ mikinn góðvilja sem þer sýnit í þessu máli, þá skal virða orð yður, at ek mun fara brott, ok vera ör landi vetrlángt, ef ek skal þá síðan í friði hafa eigur mínar. Segit svâ konúngi, at ek geri þetta fyrir yður orð en ekki konúngs, þvíat ek finn með yðr

1) eðr, *H.* 2) þykkja, *A.* 3) vægja, *H*; hneigjast, *M.*

nú sem fyrr sanna vingan til vár. Fara þeir nú ok finna konúng, ok segja at Sveinki leggr allt sitt mál á hans dóm: ok beiðist þarfyrir sæmdar af yðr, herra! sögðu þeir; mun hann vera í brottu 3 vetr, en koma þá aptr, ef þat er beggja ykkar vili; gerit nú þetta fyrir konúngdóm yðvarn ok bæn vâra; alls[1] er hans mál á yðrum dómi; takit af honum þessar sættir, en ver skulum allt viðleggja, at hann komi aldri aptr, nema at yðrum vilja. Konúngr svarar heldr seint: dreingiliga ferr yðr; ok fyrir yðrar sakir skulum ver svâ gera, sem þer beiðit; segit honum svâ. Þeir þökkuðu konúngi. Fóru þeir þá ok fundu Sveinka, ok sögðu honum blíð orð konúngs: erum ver því fegnir, sögðu þeir, ef þer mættið sættast; beiddist konúngr at nefndir væri þrír vetr til yðvarrar brottvistar, en ver vitum þó at fyrr mun hann þik eigi þykkjast mega án vera í landinu, ok er virðíngarráð at neita þessu eigi. Sveinki svarar: hvat se þá heldr en ek gera konúngi eigi skapraun í hervist minni. Takit her nú, Kolbeinn! við mínum varnaði. Stóð Sveinki upp, ok sneri með liði sínu heim á bæinn, ok þegar á brott; var hann búinn við öllu þessu áðr.

13. Kolbeinn var eptir, ok bjó konúngi ágæta veizlu, ok lèt sem Sveinki hefði áðr svâ ráð fyrir gert. Sveinki reið upp á Gautland, með liði því er hann vildi með ser hafa; konúngr þá veizlu at búi Sveinka. Eptir þat fór hann norðr

[1]) allt, H; er allt er á þínom dómi, M, Hk.

í Víkina, ok gerðu lendir menn honum veizlur, ok dvaldist hann þar um stund, ok undi vel sættum þeirra Sveinka; voru þat þá kallaðar konúngseignir, er Sveinki hafði átt, ok skyldi Kolbeinn varðveita; hèldu þeir hinir lendu menn þessu öllu konúngi sem mest til virðíngar, en gættu þó alls sem bezt þess er Sveinki átti. Eptir þat fór konúngr norðr með landi allt til Þrándheims með liði sínu; lagðist þá illþýði ok ránsmenn[1] á Elfargrímana, er þar er höfðíngjalaust; [sendu lendir menn þá orð konúngi, at eyðast mundi ríkit austr þar, ef leingi er höfðíngjalaust[2]: sýnist oss einsætt, herra, sögðu þeir, at þer kallit Sveinka aptr í land, ok unnit honum straumbrots fyrir; þvíat hann mun sízt harðfengi tilskorta, at reka illþýði af höndum, ok eyða víkíngum. Konúngr ser at þetta mun satt vera, ok með fortölum vina sinna sendi hann tysvar menn eptir Sveinka, en hann fór eigi, fyrr en Magnús konúngr sjálfr kom suðr til Danmerkr, þá fundust þeir Sveinki, ok sættust með fullu; fór Sveinki þá til eigna sinna ok búa, ok var síðan hinn mesti vin Magnúss konúngs ok styrkr ríkis hans austr þar; hèldu þeir kærleikum, meðan þeir lifðu.

14[3] Eptir aftöku Steigar-Þóris ok Egils er sagt at Hákon son Páls jarls Þorfinnssonar kom til Noregs austan af Svíþjóðu til fundar við Magn-

---

[1]) *raufarar, M.* [2]) *þannig H, einnig hèrumbil M, en frá [er hlaupit yfir í A.* [3]) 14—19, *kap. v. í M, Hk.*

ús konúng frænda sinn. Hákon hafði þá leingi verit á brott ör Orkneyjum, þvíat hann þótti eigi þar mega vera fyrir újafnaðar sakir. Magnús konúngr tók vel við honum. Þar frètti Hákon þau tíðindi af Orkneyjum, at Erlendr jarl, föðurbróðir hans, ok synir hans rèðu þar mestu, ok voru allvinsælir; en Páll jarl, faðir Hákonar, var afskiptalítill[1] um ríki. Þat þóttist hann ok spurt hafa af þeim mönnum, er vestan komu, ok helzt mæltu trúnað sinn fyrir honum, at Orkneyíngar[2] myndi lítt lánga til, at hann kæmi vestr þagat; höfðu þeir þá frið góðan ok kyrsæti, en þeim var uggr á, ef Hákon kæmi austan, at af honum myndi standa styrjöld ok úfriðr. En er Hákon hugsaði slíka hluti fyrir ser, þá þótti honum eigi örvænt, at frændr hans myndi halda ríkinu fyrir honum, en láta honum eigi úhætt, ef hann kæmi fámennr vestr þagat. Beiddi hann þá Magnús konúng frænda sinn styrkja sik, til at ná ríki, því er hann var ættborinn til, í Orkneyjum, en konúngr tók því seinliga. Hákon var vitr maðr, ok þóttist hann þat skilja af orðum konúngs, þá er þeir töluðust við, at konungr myndi vera stórráðr, ok ágjarn á ríki annarra höfðíngja. Hákon tók (þá) þat tal fyrir konúngi, at þat væri höfðínglig bragð, at hafa leiðángr úti, ok herja vestr um haf, ok leggja undir sik Suðreyjar, sem gerði Haraldr hinn hárfagri, ok ef hann fengi ríki í Suðreyjum, at þaðan væri hægt at herja á Írland

1) *þannig H.* allskipta lítill, *A.* 2) Orkneyínga, *H, R.*

ok Skotland, en ef hann kæmi undir sik þeim löndum, þá væri gott at eflast þar með styrk Norðmanna á mót Einglismönnum, ok hefna þar Haralds konúngs föðurföður síns[1]. En er þeir töluðu þetta, þá fanst þat brátt á, at konúngi fèllu slíkar ræður vel í skap, ok svarar svâ: þetta er bæði mælt dreingiliga ok höfðíngliga ok nær mínu skapi, en þat skalþú hugsa, Hákon! ef ek geri þetta fyrir þín orð, at fara með her vestr um haf, at þer skal eigi á úvart koma, þótt ek bori[2] frekan atsúg til ríkja þeirra, er liggja fyrir vestan hafit, ok gera ek at því eingan mannamun. En er Hákon heyrði þenna örskurð, lèt hann ser fátt um finnast, þóttist skilja hvartil var mælt. Lèt hann þá af at eggja konúng á ne einar herferðir; þurfti þá ok lítils við, þvíat eptir þessa ræðu sendi konúngr boð um allt ríki sitt, at leiðángr skyldi úti vera um sumarit eptir; gerði hann þàt bert fyrir alþýðu, at hann ætlaði her þeim at halda vestr um haf, hvat sem síðan gerðist til tíðenda í hans ferðum. Bjuggust menn þá af öllu landi til þessarrar ferðar með konúngi.

15. Á dögum Magnúss konúngs kom utan af Íslandi til Noregs sá maðr er Gisl[3] hèt, hann var son Illhuga Þorvaldssonar, Tindssonar. Tindr var bróðir Illhuga svarta. Gisl. var 17 vetra gamall, þá er hann fór til Noregs; hann lèt lítit yfir sik, ok var laungum hljóðr. Hann tók ser vist með ríkum manni, er hèt Hákon á Forborða.

1) þíns, *H.* 2) bora, *H.* 3) *þannig A, H.*

Gisl lèt fátt til sín taka um vetrinn, ok (var) aldri glaðr. Hákon mælti eitt sinn til Gisl: ek hefi hugleidt skaplyndi þitt, ok sýnist mer (þú) jafnan með miklum áhyggjusvip, ok mun vera annathvárt, at þú býst við stórræðum nökkurum, ella eru þer stórir hlutir á höndum. Nú seg mer, hvat þer býr í skapi, ok þótt þú eigir um stórt at ræða[1], mun ek mega leyna; en ef þú vill eigi segja mer, ok farir þó svâ heðan til nökkurra stórvirkja, þá mun mer þat illa líka. Gisl svarar: þú getr rètt, ok skal ek segja þer satt af. Maðr heitir Gjafaldr[2], ok er mer sagt at nú se hirðmaðr konúngs. Gjafaldr var at drápi föður míns, ok veitti honum banasár, svâ at ek sá uppá út á Íslandi, með Þormóði Kollasyni mági sínum. Nú er ek því kominn her til lands, at ek ætla at fá hefnt föður míns, eðr liggja her drepinn. Sú er úvæn ætlan, segir Hákon, þvíat Gjafaldr er með Magnúsi konúngi í miklum kærleikum, ok mun útlendum manni eigi hægt at ná honum, en ekki skal ek gera þer til úliðs. Magnús konúngr sat þann vetr í Niðarósi, ok Gjafaldr með honum vel virðr. Gisl fór til bæjarins, ok gerði þat bragð á með ráði Hákonar, húsbónda síns, at hann lèt steypa heitu vaxi á andlit ser, ok lèt þar harðna á, var hann þá vanheiligr at sjá. Hann sat um Gjafald, ok fengust honum eigi hæglig færi á.

16. Þat var einn þváttdag, at Gisl stóð við

1) vera eðr ráða, *H.* 2) Gjafvaldr, *H.*

stræti nökkut snemma dags, ok heyrði hann gný mikinn; hann sá hvar Magnús konúngr fór ok sveit mikil manna með honum, þar sá hann Gjafald. Þá gekk kona út ör garði einum, ok hafði barn í faðmi, þar var Helga Þormóðsdóttir, kona Gjafalds; hon kallaði á hann, ok gekk hann til fundar við hana, en konúng ok sveitina bar undan framm. Síðan gekk Gjafaldr at strætinu við annan mann. Þá sneri Gisl í móti honum, ok hjó til hans, kom höggit á öxlina, hljóp höndin niðr, en gekk eigi af. Gjafaldr snerist við honum, Gisl hjó þá á aðra öxlina, ok fór þat sár nær því sem hit fyrra; fèll þá Gjafaldr. Gisl hljóp ofan á bryggjurnar, þar sem flaut einn bátr hlaðinn skíðum, hèt sá maðr Þorsteinn, íslenzkr, lítill vexti, er átti bátinn. Gisl hljóp út á bátinn til Þorsteins, ok svörfuðust skíðin utanborðs, en hann reyri yfir til Bakka; ok er þeir komu á ána miðja, stóð Gisl upp, ok kallaði á bryggjurnar: sár þau, segir hann, er fengit hefir Gjafaldr, hirðmaðr Magnúss konúngs, ef at sárum gerist, en víg, ef at vígi gerist, lýsi ek mer á hendr, hèt ek Vígfús í morgin, en í kveld væni ek at ek heiti Úfeigr. Síðan lendu þeir upp frá Bakka, ok hljóp Gisl þar á land. Þá var blásit í bænum, ok farit at leita mannsins bæði á skipum ok landi. Hann fanst í hrísum nökkurum, ok var færðr til bæjarins. Konúngsmenn kendu Þorsteini, at hann hefði flutt Gisl yfir ána, ok gáfu honum sök á, sögðu hann ok dauða verðan. Þá mætti Gisl: gefit

honum ekki sakir á því, er hann er eingu[1] af valdr. Gisl greip til Þorsteins, er hann gekk hjá honum, var hann svâ lítill at hann tók varla undir hönd honum. Gisl varp honum á lopt annarri hendi, ok mælti: sjáit nú her til, segir hann, hvat mundi veslíngr þessi varða mer bátinn, ef ek vildi til sækja, er ek veifi honum sem barni; látið hann fara í friði, þvíat hann er saklaus. Þeir gerðu svâ, ok sögðu at Gisl talaði vel ok dreingiliga. Gisl var settr í fjötur þann, er gera hafði látið Haraldr konúngr Sigurðarson, ok eingi maðr hafði ur komizt. Hann sat í jarðstofu einni, er kona nökkur átti völd á; þá var fjölmenni mikit í bænum. Þar voru þrjú íslandsför: rèð fyrir einu skipi Teitr, son Gizurar biskups; þar var þá ok Jón prestr Ögmundarson, er síðan var biskup[2], ok var eigi færra íslenzkra manna í bænum en 3 hundruð. Magnús konúngr var ákafa reiðr, sat hann á stefnu ok bæjarbiskupinn með honum; ok þar var Jón prestr, hann var vinr biskups. Konúngr bað drepa manninn; í því kvað við nónklokka. Konúngr mælti: er[3] nú nón? ok sjái til sólar! Svâ var þá gert, ok var öndvert nónit. Þá mælti biskup: herra! eiga verðr maðrinn helgar[4] frið á ser, þótt hann hafi stórt tilgert. Konúngr mælti: þetta er prettr yðvar, ok hafi þer ráðagerð í móti mer. Eigi er þat, herra, segir biskup, en[5] sjáit svâ fyrir,

1) eínkis, *H.* 2) at Hólum, *b. v. H.* 3) eru, *H.* 4) helgi, *H.* 5) síðan, *b. v. H.*

sem bezt samir. Síðan söfnuðust saman íslenzkir menn, voru þar margir frændr ok vinir Gisl[1], ok ræddu um málit, hverja meðferð hafa skyldi. Sýndist þeim í mikit vandkvæði komit, ok urðu eigi ásáttir.

17. Nú kom drottinsdagr, var þá sent til konúngs, ok sagt at Gjafaldr vildi finna hann. Konúngr kom á fund hans; þá mælti Gjafaldr: nú vil ek skipa, herra! til fjáreigna minna, þvíat eigi veit, hversu lángt tóm til gefr, en biðja vil ek at þer gefit Gisla grið, þvíat skörugliga hefir hann hefnt síns föður. Þess er eingi vân, segir konúngr. Gjafaldr mælti: þat veizt þú, konúngr! at mjök leingi hefir ek þer fylgt, ok lagt stundum mitt líf fyrir þitt líf, ok verit búinn til þess alls, sem þú hefir viljat fyrir mik leggja, hvârt sem var gott eðr íllt; en nú kann vera, at sjá se hinn síðasti fundr okkarr, hefir ek nú talat við kennimenn, ok gert þeim í kunnleika ráð mitt, ok tekit þjónostu (af þeim), ok segja þeir mer svâ, at ek mun vera hjálparmaðr, ef nú fyrirgef ek þat, er við mik er misgert. Nú vænti ek þess, herra! at eigi munir þú byrgja svâ fyrir mer himinríki, at sjá se dauðamaðr. Bezta[2] ferr þer, segir konúngr. Gekk hann í brott, en Gjafaldr andaðist litlu síðar.

18. Snimma annan dag vikunnar áttu Íslendíngar stefnu; þá mælti Teitr: her horfist eigi sköruliga á um vârt mál, ef samlandi vârr ok

1) Gils, *H.* 2) Hið bezta, *H.*

fóstbróðir mikilsverðr er drepinn, en allir megum ver þat sjá, hversu mikit vannkvæði er at bindast við mál þetta, at sá veðsetr sik ok fe sitt. Nú legg ek þat til ráðs, at ver gefim á konúngsdóm, en ef þess skal eingi kostr, at maðrinn hafi líf, þá sem ver allir drepnir eðr hafim vârt mál ella; viljum ver þeim atfylgja er formaðr gerist. Þeir kváðust allir hann vilja fyrir ser hafa, ok hans ráðum atfylgja. Hann svarar: svâ megit þer ætla, at allir skulu þer sverja mer eiða, at hvârki sparit þer yðr ne fe yðvart, til þess sem ek vil framfara um þetta mál. Þetta gerðu þeir. Eptir þat tóku þeir bað, ok í því var blásit; hljóp Teitr þegar ör baðinu, var hann í skyrtu ok línbrókum, ok hafði gullhlað um enni, en yfir ser skallats skikkju hálfskipta, rauða ok brúna, ok undir gráskinn, ok snúit út skinnunum. Þá voru þar samankomnir allir íslenzkir menn; en þat er eigi allt í senn er blásit er, ok menn koma til móts. Þá mælti Teitr: snúum nú þegar at stofunni, þar sem Gisl er, ok verðum fyrri at bragði en konúngsmenn. Þeir gengu snúðigt eptir strætinu, ok varð af gnýr mikill, en konan hafði gert skjá fyrir stofuna. Hon hljóp af húsinu, ok sagði Gisli: mikil úhamíngja er þat, er þú komt her niðr, þvíat nú fara her konúngsmenn. Gisl svarar: látum okkr ekki þat ángra, fóstra! Hann kvað þá vísu þessa:

Kátr skal ek enn, þótt[1] ætli
aldrán viðir skáldi
(járn taka oss að orna)
undateins (at beinum);
hverr deyr [seggr, en[2], svarri[3]!
snart er dreinskapat hjarta;
prúðr[4] skal ek enn í óði
eitt sinn á þrek minnast.

Þvínæst hjuggu þeir upp hurðina, ok brast við hátt. Þá at eins sá menn at Gisl kiptist við, ok þó lítt. Teitr hjó af honum fjöturinn; ok, tók hann í sinn flokk; gengu svâ til mótsins. Þá gekk öðrum megin at mótinu Sóni[5] gestahöfðíngi, ok ætlaði þá eptir manninum. Hann mælti: eigi voru þer nú tómlátir, Íslendíngar! hygg ek nú at þer ætlit yðr dóminn um manninn en eigi konúngi. [Er þat ok vel at þeir ræki minni til, hvat þeir hafa gert[6] þenna morgin; ok reiðsi hefir Magnús konúngr um minni mótgerðir, en drepinn se hirðmaðr hans af þeim Mörfjöndunum[7].

19. En er þíngit var sett, þá stóð upp Sigurðr ullstreingr ok mælti: Þat ætla ek at flestir menn munu vita, at veginn er lögunautr vârr, Gjafaldr; kom maðr af Íslandi utan, ok þóttist eiga sakir við hann, ok hafði þá atferðina at hann veitti honum

---

1) *þannig A.* þó at, *H.* 2) *þannig H*; seggr hinn, *A.* 3) svari, *H.* 4) brúðr, *H.* 5) Sóne, *H.* 6) *þannig H*; Væri þat ok vel at þer rækit minni til, hvat þeir hefði gert, *A.* 7) mannfjandunum, *H.*

þegar banasár, en leitaði eigi eptir bótum, sem öðrum mönnum er títt; mun oss svâ sýnast, konúngsmönnum, at lítið mun fyrir þykkja at bleðja af hirð konúngs, ef þessa skal hafa atförina, at höggva niðr hirðina; má vera at þeir láti svâ gánga allt at höfðinu, ok þyrmi eigi heldr konúnginum en öðrum mönnum. Nú ero slíkt mikil endimi, ok stórrefsínga vert, ok er eigi at bættra, þótt þar se 10 drepnir af íslenzkum mönnum, sem einn er af vârum mönnum; ok hegna þeim svâ sína ofdirfð, at taka menn ör konúngs valdi. Síðan þagnaði hann. Þá stóð upp Teitr biskupsson ok mælti: hvârt vill konúngr leyfa mer at tala eyrindi? Konúngr spurði mann, er stóð hjá honum: hverr er sjá maðr? segir hann. Hann svarar: herra! þat er Teitr biskupsson. Konúngr mælti til Teits: fyrir eingan mun vil ek þer leyfa at mæla, þvíat öll þín orð, þau er þú mælir, munu mikit spilla, ok væri makligt at ör þer væri skorin túngan. Þá stóð upp Jón prestr Ögmundarson ok mælti: vill konúngr leyfa mer at mæla nokkur orð? Konúngr spurði: hverr mælir nú? Maðrinn svarar: prestrinn sá hinn íslenzki, hann Jón. Konúngr mælti: leyfa vil ek þer at tala. Þá hóf Jón prestr svâ sitt mál: Guði er þat at þakka, at löndin ero kristin orðin, Noregr ok Ísland, þvíat áðr óðu[1] saman menn ok fjandr, en nú geingr fjandinn eigi svâ djarf-

1) *óðu* eðr *óð A*; *óð*, *H*; *óðu*, *R*.

liga í sýn við menn; fær hann nú menn til at bera (framm) sín eyrindi, sem skamt er á at minnast, at fjandinn mælti fyrir munn þessum, er nú talaði; var fyrst veginn maðrinn einn, en síðan fýsti hann, at drepa skyldi 10; ok þat hygg ek at slíkir menn muni mest atvinna í sinni illgirnd ok vândum fortölum, at eyða rèttlæti ok miskunn ok öðrum góðum siðum höfðíngjanna, en hvetja þá ok hvessa til grimdar ok glæpa, ok gleðja svâ fjandann í kristinna manna drápi. En jafnt erum ver, herra konúngr! þínir þegnar, sem þeir er her eru innanlands; skyldu þer at því hyggja, er settir erut her í heiminum höfðíngjar ok dómendr yfir fólkinu, at þer berit merkíng þess dómandans, er koma mun at efsta dómi, at dæma alla veröldina. Nú mun yðr, herra! mikit viðliggja, at þer dæmit rètta dóma en eigi ránga; þvíat til hvers þíngs ok móts kemr sjálfr almáttigr guð ok hans helgir menn, vitjar guð góðra manna ok rèttra dóma; svâ kemr ok fjandinn ok hans árar at vitja vândra manna verka ok rángra dóma; ok utan ef mun sá dómandi koma um síðir, er alla hluti mun rètt dæma. Hyggit at nú, herra konúngr! hvârr eldrinn mun vera heitari ok lángærri, sá lagðr er í eikistokkinn, er gjörr er um ofninn, eðr hinn sem kveiktr er í þurru limi. Nú ef þú, konúngr! dæmir ránga dóma, þá mun þer orpit í þann eldinn er í eikistokkinn er lagðr, en ef þú dæmir rètta

dóma, eptir þínu viti, þá er þó vân at þú skírir þik í hreinsanareldi, þeim er af þurru limi er gjörr. Svà lauk Jón prestr sinni ræðu. Þá mælti konúngr: strítt hefir þú talat, prestr; en ekki fannst[1] þat á, at hann reiddist mjök við. Þá stóð upp Gisl ok mælti: villtu leyfa mer, konúngr! at tala lítið eyrindi? Konúngr spurði, hver nú mælti. Honum var sagt. Eigi vil ek banna, segir konúngr. Gisl mælti: þá tek ek þar til máls, er faðir minn var veginn; vâru at því verki Gjafvaldr ok Þormóðr, þá var ek 6 vetra gamall, en Þorvaldr bróðir minn 9; vârum við þar viðstaddir, er faðir minn var drepinn. Þá mælti Gjafaldr, at okkr bræðr báða skyldi drepa, en eigi er karlmannligra frá at segja, herra! at þá var grátraust í kverkum mer. Konúngr mælti: dreingiliga hefir þú þá grátraust á brott fært. Gisl mælti: þat er satt at segja, herra! at ek hefi leingi í vâr setit um Gjafald, ok þá tysvar, er mer gáfust helzt færi á, virða ek til kirkjuna í annat sinn, er þetta verk fórst fyrir, en í annat sinn lèt ek standa fyrir nónhríngíng, ok virði ek svâ, at því gæfi nónhríngíngin mer nú líf; en kvæði hefir ek ort um yðr, ok vildi ek hljóð hafa. Konúngr mælti: kveð þú, ef þú vill. Hann flutti kvæðit sköruliga, en ekki var þar mikill skáldskapr í því kvæði. Síðan mælti Gisl til Teits: þer hafit sýnt við mik mikinn manndóm, en nú vil ek eigi leggja yðr í

[1]) fann, *H.*

hættu leingr, vil ek gánga á vald Magnúss konúngs, ok færa honum höfuð mitt. Gjör nú sem þú vill, segir Teitr. Tók Gisl þá af ser vâpnin, gekk yfir mótfjalirnar, ok lagði höfuð sitt í knè konúngi, ok mælti: gerit nú slíkt af höfði mínu, sem yðr sýnist, kann ek þökk ef þer vilit gefa mer, ok gera mik at slíkum manni, sem yðr sýnist fallit. Konúngr svarar: ráð sjálfr höfði þínu, en gakk inn til borðs í rúm Gjafalds, [tak þar vist ok drykk, ok halt slíka þjónostu, sem hann hefir haft áðr[1]; geri ek þetta mest fyrir bæn Gjafalds vinar míns. En nú gángi 8[2] íslenzkir menn til festu; en ek geri fyrir víg Gjafvalds 16 merkr gulls; skal gefast upp helmíngr fyrir[3] sakir, en sína mörk gjaldi hverr yðvar festumanna. Þeir þökkuðu konúngi, ok sættust at því. Þá mælti konúngr til Jóns prests: vel virðist mer þitt formæli, hefir þú af guðs hálfu talat; vildi ek gjarna vera undir þínum bænum, þvíat þær munu mikit mega við guð, þvíat ek trúi at saman fari guðs vili ok þinn. Hann játti konúngi bæn sína. Ok einn dag, er Jón prestr gekk at stræti, mælti maðr til hans: gakk inn í herbergit, Sigurðr ullstreingr vill finna þik. Hann gerði svà. Sigurðr mælti: eigi veit ek, prestr! nema orðin þín hafi bitit mik, þvíat ek er sjúkr, ok vildi ek at þú sýngir yfir mer. Hann gerði svâ ok signdi hann. Þá mælti Sigurðr: mikit mega

1) vinar vors, *H*. 2) *H sýnist hafa*: 10. 3) þinar *b. v. H.*

orð þín, bæði hörð ok góð, þvíat nú er mer gott. Sigurðr gaf Jóni presti góðar gjafir, ok skildust þeir vinir. Þessi Sigurðr lèt fyrst setja múnklífi í Niðarhólmi[1], ok gaf þartil stórar eignir. Eptir þetta fóru þeir til Íslands, Jón prestr ok Teitr biskupsson; gerðist Teitr ágætr maðr, ok varð skammærr; en Jón prestr varð biskup at Hólum, ok er nú sannheilagr.

20[2]. Nú er þar til at taka, sem fyrr var fráhorfit, at Magnús konúngr bjó ferð sína ör landi; hafði hann með ser son sinn, er Sigurðr hèt. Gisl Illugason fór með konúngi ok margir aðrir ágætir menn; hafði hann bæði mikit lið ok frítt ok góðan kost skipa; hèlt Magnús konúngr her þeim vestr um haf, fyrst til Orkneyja. [Hann tók höndum jarlana Pál ok Erlend, ok sendi þá báða austr til Noregs, en hann setti eptir til höfðíngja yfir eyjunum Sigurð son sin, ok fèkk honum ráðuneyti[3]. Þess getr Þorkell hamarskáld, at Magnús konúngr fór vestr um haf:

Vestr lèt varga-nistir
(vann hilmir frið[4] bannat)
(hrönn brutu hlýrin[5] stinnu)
hugprúðr föru[6] snúðat.

Magnús konúngr hafði með ser ör Orkneyjum sonu Erlends jarls, Magnús ok Erlíng[7], [ok Hák-

---

1) Niðarósshólmi, *H.* 2) *Hèr koma til aptr M, Hk.* 3) *v. í H, M, E, en finnst í Hk.* 4) lið, *H.* 5) stýri en, *H*, hlýr en, *M*; hlýr enn, *E.* 6) *þannig M*; foru *A, E*; favr, *H.* 7) Hallend *eðr* Hellend, *H.*

on Pálsson[1], ok mikit lið annat[2]; hèlt hann öllum her sínum til Suðreyja: en er hann kom þar, tók hann þegar at herja; brenna bygðir, en drepa mannfólkit, ok ræna, hvar sem þeir fóru; en landslýðr flýði víðsvegar, sumir upp á Skotland eðr inn í fjörðu, sumir suðr á Satíri eðr til Írlands; sumir gengu til handa Magnúsi konúngi ok þágu grið. Vann hann fyrst Ljóðhús, ok brendi þá bygð; þarnæst herjaði hann [í Ívist[3], brendi þar ok rænti fe öllu. Svâ segir Björn hinn krepphenti:

Lèk of Ljóðhús fikjum
limsorg óð[4] nær[5] himni,
vítt var[6] ferð á flótta
fús, gaus eldr ör húsum[7]:
örr skjöldúngr fór eldi
Ívist[8], búendr mistu
(róggeisla vann ræsir
rauðan) lífs ok auðar.

Síðan herjaði hann á Skíði, ok eptir þat vann hann eyjarnar Tyrvist[9] ok Myl, sem Björn segir:

Húngr-þverrir lèt herjat
hríðar-gagls á Skíði[10],

---

1) *v. í M.* 2) *Vísuhelminginn og þessar línur v. í Hk.* 3) *þannig A, H.* 4) *H, v. í A, Hk.* 5) nærri, *Hk af getgátu útgefaranna.* 6) varð *H*; bar, *Hk.* 7) *þenna vísuhelming v. í M, er þar nokkut umbreytt röð þessara atburða; tekr konúngr þar fyrst Ljóðhús, þá "Seið," þá Tyrvist og Ivist, en ekki nefnist þar enn Myl.* 8) *þannig H, Á*; í vist, *A, Hk.* 9) Tyrfist, *H.* 10) *M tengir hèrvið 2 seinustu vísuorð í þessum kap. en sleppir hèr því sem eptir er af þessari vísu; þykir þat rángt, þareð ekki er ennþá getit Manar í textanum.*

tönn rauð Tyrvist[1] innan
teitr vargr[2] í ben margri:
grætti[3] Grænlands drottinn
(gekk hátt Skota-sökkvir[4])
(þjóð rann mylsk[5] til mæði[6])
meyjar suðr í eyjum[7].

Magnús konúngr kom með liði sínu í eyna Helgu, ok gaf grið ok frið öllum mönnum, þeim er þar voru, ok allra manna varnaði. Þat segja menn at Magnús konúngr lyki upp Kolumkilla[8] kirkju hina[9] litlu, ok gengi (þar) eigi inn; lauk hann þegar hurðina í lás, ok mælti at eingi maðr skyldi vera svâ djarfr, at þar gengi inn, ok hefir sú kirkja aldri verit upplokin síðan. Þá lagði Magnús konúngr liði sínu [til Ílar[10]; herjaði hann þar ok brendi; [en er hann hafði vunnit þat land, þá fór hann suðr undir Satíri, ok herjaði þar á bæði lönd, upp á Skotland ok út á Írland, fór hann svâ herskildi allt suðr til Manar, ok herjaði þar sem annarsstaðar[11]. Svâ segir Björn:

Vítt bar[12] [snarr á[13] slètta
Sandey konúngr randir;
rauk um Íl, þá er jóku
alvalds menn á brennur;
[Satíris hnè sveitar[14]

1) Tyrfvist, *H.* 2) vargs, *Hk.* 3) grøtti, *M á öðrum stað seinna.* 4) *þannig Å*; skukkvir *eðr* savkkvir *A*; sóknir, *H*; stökkvir, *M.* 5) mulse, *M.* 6) møþi, *M.* 7) eyjar, *M. Å.* 8) Kolumba, *Hk.* 9) enni, *H, Hk.* 10) út á Mulse, *M.* 11) *v. í M.* 12) herr, *M.* 13) snjallr of, *Hk.* 14) Sanuþiri laut sunnar, *Hk.*

seggja-kind und eggjar;
sigrgæðir rèð síðan
snjallr Manverja falli[1].

21. Lögmaðr[2] hèt son Guðrauðar Suðreyjakonúngs. Lögmaðr var settr til landvarnar í Norðreyjum[3]. En er Magnús konúngr kom til eyjanna ok herjaði, þá flýði Lögmaðr higat ok þagat um eyjarnar; en at lyktum gátu menn Magnúss konúngs tekit hann með skipsögn[4] sína, þa er hann vildi flýja út til Írlands; lèt konúngr hann í járn setja ok hafði í gæzlu, sem Björn segir:

Hætt var hvert þat er átti
hvarf Guðrauðar arfi,
lönd vann lofðúngr Þrænda
Lögmanni þar bannat
nýtr[5]; lèt nesjum utar
naðrs-bíng-töpuð fenginn
Egða-gramr þar [er umdu[6]
úngr vèttrima túngur.

Þess getr ok Gisl Illugason, at Magnús konúngr rak hernað um eyjarnar, ok tók höndum Lögmann[7], ok hafði í sínu valdi; hann kvað:

Tók fyrir[8] Skíði,
en Skotar flýðu,
jöfra ægir[9]

1) *Istaðinn fyrir þenna vísuhelming hefir M hèrvið tengt* grøtti Grænlands drottinn *o. s. fr., sjá bls.* 42 2) Lavgmaðr eðr Lavghmaðr *H.* 3) Suðreyjum, *H.* 4) skipsböfn, *H.* 5) *þannig M, Hk;* nýt, *A;* nýtt, *H.* 6) eirðu, *H.* 7) við Skorpu, *b. v. E.* 8) á, *M, E.* 9) øgi, *M.*

Ívistar gram[1]:
hafði fylkir,
[sá er framm[2] tæði,
Lögmann konúng[3]
í liði sínu[4].

22. Síðan hèlt Magnús konúngr liði sínu til Bretlands, ok lagðist í Aungulseyjar-sund[5]. Þar kom í mót honum herr mikill af Bretlandi[6]. Rèðu fyrir því liði jarlar tveir, Hugi hinn prúði ok Hugi hinn digri. Þeir [voru báðir[7] valskir at ætt. Svâ segir Gisl:

Ættlöndum vann
[eyja-dróttar[8]
fólkvörðr und sik
fjórum þrúngit,
áðr en hitti,
sá er hamalt fylkti,
vedr-smiðr Viðurs
valska jarla[9].

Jarlarnir lögðu þegar til orrostu[10], varð þar hinn snarpasti bardagi; svâ segir Gisl, ok hrósar því at hann var í þessi orrostu með Magnúsi konúngi:

Háðum hildi
með Haralds frænda

[1]) *þannig H*; gramr, *M*; gra, *A*. [2]) sá frami, *H*; sá er frami, *M. E.* [3]) konúngr, *H.* [4]) *þessa vísu v. í Hk.* [5]) ok herjar þar á bæþi lönd upp á Bretland oc út (á) Aungulsey, *b. v. M.* [6]) *H, einnig A, lagfært fyrir* Einglandi. [7]) bræðr vorn. *H.* [8]) eyjar drottinn, *H*; eyja drottinn, *E. M.* [9]) *Vísuna v. í Hk.* [10]) þeir síbyrþo saman sciponom, gengu þar hiþrar með ópi, *b. v. H.*

Aunguls við ey
innanverða[1]:
þar er af reiði
ríkis vendir
konúngr ok jarlar
kapp sitt brutu[2].

Gerðu Norðmenn í fyrstu allharða skothríð. Hugi hinn prúði var albrynjaðr, svâ at ekki var bert á hǫnum nema augun ein. Magnús konúngr skaut af handboga, ok annar maðr háleyskr er stóð hjá honum. Þeir skutu báðir senn at Huga hinum prúða, kom önnur örin í nefbjörg hjálmsins, ok lagðist nefbjörgin fyrir út af annanveg. Svâ segir Gisl:

Margan höfðu
Magnúss liðar
björtum oddi
baugváng skorit[3]:
varð hertoga
hlíf at springa
kaps vel skipuð
fyrir konúngs darri[4].

Annat skotit kom í auga jarlinum; flaug þat aptr í gegnum höfuðit, ok út um hnakkann, ok var þat konúnginum kent af flestum mönnum, sem Björn segir:

Lífspelli rèð laufa-
lundr í Aunguls-sundi;

[1]) *þannig E, H, M;* sunnan, *A.* [2]) *Vís. v. í Hk.* [3]) skotit, *H.* [4]) *þannig líka M, án orðamunar, vís. v. í Hk, ei finnst í E.*

broddr fló, þar slög snuddu[1],
snúðigt [Huga hins[2] prúða:
öll hefir Jóta fellir
eylönd farit brandi;
vítt liggr dygs und[3] dróttum
döglíngs grund um[4] stundir.

Þat segir ok berliga Þorkell hamarskáld, at Magnús konúngr hafi veitt jarlinum bana, þótt Gisl þykki hinsig[5] ei síðr tilvísa[6] í sinni vísu, þeirri sem áðr er rituð. Þorkell kvað:

Dundi broddr á brynjur[7],
bragníngr skaut af magni,
sveigði allvaldr[8] Egða
álm, stökk blóð á hjálma,
streings fló hagl á hrínga,
hnè ferð, en lèt verða
Hörða-gramr í harðri
[hjarlssókn[9] banat jarli.

Þar fèll Hugi jarl hinn prúði ok allmikit lið af Bretum, þvíat Magnús konúngr skaut allákaft, ok allr hans herr barðist hit fræknligsta, sem Gisl segir:

Böðkennir skaut
báðum[10] höndum,
allr vá hilmis
herr prúlliga:
stukku af álmi,

1) snuðu *H*; *en* snuddv, *M. Hk.* 2) Hugans, *M.* 3) fyrir, *H.* 4) -of, *Hk.* 5) hinnveg, *H.* 6) tilyrkja, *H.* 7) brynju, *M*; *Hk.* 8) *H*, *M*; allvald, *A.* 9) hjarl skavll, *H.* hjarl sókn, *M*, *Hk.* 10) bøþom, *M*; *en* báðom, *E.*

þeims jöfurr sveigði,
hvítmýlíngar,
áðr Hugi fèlli[1].

Flýðu þá allir Bretar, þeir er eptir lifðu, fèkk Magnús konúngr mikinn sigr í þessi orrostu. Hann eignaðist þá Aungulsey, svâ sem hinir fyrri Noregs konúngar höfðu eignazt ríki leingst suðr. Aungulsey er þriðjúngr Bretlands.

23. Eptir þessa orrostu sneri Magnús konúngr aptr liðinu, ok hèlt fyrst til Skotlands; þá fóru menn milli þeirra Melkólms[2] Skotakonúngs, ok gerðu þeir sætt milli sín, með því móti at Magnús konúngr skyldi eignast allar eyjar fyrir vestan Skotland, þær er fara mætti stjórnföstu skipi í milli ok meginlands. Magnús konúngr lagði skip sín sunnan at Satíri. Þá lèt hann draga skútu yfir Satíriseið, ok leggja stýri í lag. Konúngr sjálfr settist í lyptíng, ok hèlt um hjálmunvöl, ok eignaðist svâ land allt, þat er lá á bakborða. Satíri er mikit land, betra en hin bezta ey í Suðreyjum nema Mön. Þar er eið mjótt í milli ok Skotlands, svâ at þar eru opt dregin skip yfir. Magnús konúngr fór þaðan til Suðreyja, [en sendi menn sína í Skotlands-fjörðu[3], ok lèt þá róa með öðru landi inn en öðru út, ok eignaðist hann svâ allar eyjar [fyrir vestan Skotland[4], bæði bygðar ok úbygðar. [Þar voru þá með Magnúsi konúngi

1) *Vís. v. í Hk.* 2) Melkólfs, *H*; Mælkólfs, *Hk.* 3) fyrir vestan Skotlandsfjörðu, *H.* 4) *v. í H.*

margir lendir menn af Noregi, er honum höfðu fylgt austan um sumarit, Viðkunnr Jónsson, Sigurðr Hranason, Serkr ör Sogni, Dagr Eilífsson, Skofti ör Gizka ok synir[1] hans Ögmundr ok Finnr (ok) Þórðr[2]; Eyvindr olbogi, stallari konúngs, Kali[3] af Ögðum Sæbjarnarson, Þorleifssonar hins spaka, er Hallfröðr meiddi, ok Kolr son hans. Kali[4] var spekíngr mikill ok orti vel. hann var kærr konúngi. Kali hafði fengit sár mörg ok eigi mjök banvæn í bardaganum í Aungulseyjar-sundi.

24. En er Magnús konúngr kom til Suðreyja um haustit, þá gerði hann þat bert (fyrir liðinu), at hann myndi þar sitja um vetrinn, en leyfði þeim mönnum heimför, er honum þótti mest nauðsyn á vera. En er liðsmenn vissu þat, þá kurruðu þeir illa um brottvist sína, ok gerðust heimfúsir. Konúngr átti þá tal við ráðuneyti sitt, ok sá yfir sár manna; þá fann hann Kala, ok frètti eptir sárum hans; hann kvað lítt gróa, ok lèzt eigi vita til hvers draga myndi. Konúngr leitaði ráða við hann. Kali mælti: er eigi þat nú, herra! at á brott skjótist vinir yðrir, fleiri en þer hafit orlof tilgefit? Konúngr kvaðst ætla at eigi mun þat vera. Kali bað hann eiga vâpnastefnu, ok kanna[5] svâ lið sitt. Konúngr gerði svâ, saknaði hann þá margra manna, ok sagði Kala. Kali kvað þá vísu:

1) *H*; son, *A*. 2) *H*; *v. í A*. 3) *þannig H*, *einnig A seinna, en hèr* Karl. 4) *þannig H*; Kolr, *A*. 5) *H*; kannaði, *A*.

Hve launa þer[1] þínir
[þíngríkir höfðíngjar[2]?
vestr bifast rengr[3] í röstum[4],
reyndu oss jöfurr hnossir.

Þá svarar konúngr:

Auð hefig minn, þanns[5] mönnum
margteitum rèð ek[6] veita,
(húf læt ek klökkvan klífa
kólgur) illa fólginn.

Eptir þar hèlt Magnús konúngr vörð á, at menn hans skytist eigi frá honum[7]. Þess getr Gisl, at þeir menn sigldu austr til Noregs um haustið, er Magnús konúngr gaf orlof til heimferðar:

Höfðu seggir,
þá var sókn lokit,
heimför þegit
af[8] höfuðsmanni;
landsmenn litu
yfir[9] liði göfgu
segl sjá-drifin
sett við húna[10].

Magnús konúngr fèkk til handa Sigurði, syni sínum, Bjaðmynju, dóttur Myrjarkjak[11] Þjálfasonar, konúngs af Kunnaktum[12] á Írlandi, [var

1) *v. í H.* 2) þingmæltir dýrlíngar, *M.* 3) rang, *H.* 4) *H, M*; rostum, *A.* 5) *M*; þann er, *A.* 6) *v. í H.* 7) *Niðrlag fyrirfar. kap. og byrjun þessa frá orðunum* bygðar ok úbygðar *og hèrtil v. í M, Hk, að undanteknum vísunum, sem M smeygir inn seinna.* 8) at, *M.* 9) um, *M.* 10) húno, *M*; *Vísuna v. í Hk.* 11) Myrjarkak, *H*; Myrjartaks, *Hk.* 12) Kunactum, *H*; Kunnoktum *Hk.*

Sigurðr þá 9 vetra, en mærin 5 vetra. Þann sama vetr, er Magnús konúngr var í Suðreyjum, andaðist Kali Sæbjarnarson af sárum[1].

25. Um vârit snemma fór konúngr ör Suðreyjum fyrst til Orkneyja; þá frètti hann austan af Noregi andlát jarlanna; hafði Erlendr jarl andazt í Niðarósi, ok var þar jarðaðr, en Páll í Björgyn. Þá gipti Magnús konúngr Gunnhildi, dóttur Erlends jarls, Kol Kalasyni í föðurbætr, ok fylgdu henni heiman eignir í Orkneyjum ok bú í Papey[2]. At brúðlaupi sínu gerðist Kolr lendr maðr Magnúss konúngs, sem faðir hans hafði verit; síðan fór hann austr til Noregs með konúngi ok heim á Agðir með konu sína, ok settist at búum sínum. Magnús konúngr setti Sigurð son sinn höfðíngja yfir [öll ríki, þau[3] er hann hafði vunnit undir sik fyrir vestan hafit, ok gaf honum konúngsnafn[4],

---

1) *v. í Hk; en M kemst hèr svâ at orði:* Magnús konúngr hafþi eptirlátit í Orcneyjum Erlíng, son Erlenz jarls, en Magnús bróþir hans hafþi hlaupiz frá konúngi it fyrra sumarit oc til Scotakonúngs, oc voro leystir sporhundar í scóginn, oc þegar villtisc þeim vegr. Oc er Magnús konúngr var staddr í Orcneyjom, þá sendi Melkólmr Scotakonúngr dóttor sína út til Orcneyja Magnúsi konúngi, til sættar við hann: en Magnús konúngr gaf hana Sigurþi syni sínom, oc var hann þá 9 vetra, en mærin 5 vetra. 2) Vapey, *H.* 3) öllum ríkjum, þeim, *H*; Orkneyar oc Suðreyar, *Hk.* 4) oc fècc hann í hönd Hákoni jarli Polssyni frænda sínom til ásjá, oc þeim Erlíngi Erlenzsyni við styrc þeim, er Sigurþr konúngr hafþi af því ríki, er hann var ifir settr, oc var með þvílíkom hætti bundin sætt oc vinátta milli Magnúss konúngs oc Melkólms konúngs, föþur Davíd konúngs, er var í Scotland eptir föþur sinn, *b. v. H*; ok fèkk hann í hendr Hákoni Pálssyni frænda sínum, *b. v. Hk.*

en Magnús konúngr fór um sumarit austr til Noregs með liði sínu; fengu þeir í hafi storm mikinn ok stóran sjá, svá sem Gisl segir:

Vâgr þrútnaði,
en vefi keyrði
steinóðr á stag
storðar-galli:
braut dýrr dreki
und Dana skelfi
hrygg í hverri
hafs-glymbrúði[1].

Her segir at Magnús konúngr hafði dreka mikinn ok allvel búinn, er hann sigldi vestan, var þessi ferð hin vegligsta. Svâ segir Gisl:

Blár ægir skaut
búnum svíra
gjálfr hljóp í gin
gollnu höfði:
skein af hausum[2]
sem himins-eisa
döglíngs dreka
djúps valfasti[3]

Skofti Ögmundarson[4] var lendr maðr ágætr í Noregi; hann bjó í Gizka á Sunnmæri. Hann átti Guðrúnu, dóttur Þórðar folafóts[5]. Börn þeirra voru Ögmundr ok Finnr, Þórðr ok Þóra,

[1]) *Líka M án orðamunar, en í Hk v. vísuna.* [2]) *þannig H, M*; höfðum, *A.* [3]) *Vís. v. í Hk.* [4]) þorbergssonar, *b. v. Hk.* [5]) Folasonar, sem bar merki Olafs konúngs á Sticklastöðum, er hann fèll, *Hk.*

er átti Ásólfr Skúlason. Synir þeirra Skofta voru hinir mannvænligstu ok vinsælstu. [Allir þeir feðgar höfðu farit vestr um haf með Magnúsi konúngi, sem áðr er sagt, ok komu aptr í land með honum[1].

26. Steinkell Svía-konúngr andaðist nær falli Haraldanna[2], en Íngi son hans[3] var konúngr í Svíþjóð, þá er Magnús var konúngr yfir Noregi. Íngi var góðr konúngr ok ríkr, allra manna mestr ok styrkastr. Magnús konúngr taldi þat verit hafa landaskipti at fornu, at Gautelfr hefði skilit ríki Noregs-konúngs ok Svía-konúngs, en síðan vatnit Vænir[4] til Vermalands. Taldist Magnús konúngr eiga alla bygð, þá er liggr fyrir vestan Væni, en þat var Sunndalr ok Norðdalr, Vear ok Jardynjar[5] ok allar markir, þær er þar liggja til; en þat hafði þá lánga stund legit undir Svíakonúngs veldi ok til Gautlands vestra at skyldum; ok markamenn vildu vera undir ríki Svíakonúngs þá sem fyrrum. Magnús konúngr reið ör Víkinni uppá Gautland; hann hafði mikit lið ok frítt; en er hann kom í markbygðina, herjaði hann ok brendi, ok fór svâ um allar bygðir. Gekk þá allt fólk undir hann, þar sem hann fór, ok sór honum hlýðni; vann hann undir

---

1) *v. í Hk, en allt frá vísunni v. í M.* 2) Hákon hèt sá konúngr, er næstr var í Svíþjóð eptir Steinkel konúng, *b. v. Hk.* 3) Steinkels konúngs, *Hk.* 4) *þannig H*; Vènir, *A venjuliga, þó eigi allstaðar.* 5) Varþynjar, *M*; Varðynjar, *Hk.*

sik í þeirri ferð mikit ríki af Gautum ok mörg heruð. Svâ segir Gisl Illugason:

Framdist síðan
á Svíadrottni
austr frá[1] Elfi
Upplanda-gramr;
liðskelfir tók
ör lögum[2] Gauta
fimtán heruð
fránni eggju[3].

Þessa hernaðar getr Þorkell hamarskáld í Mágnússdrápu:

Hraustr lèt Elfi austarr[4]
alvaldr saman gjalla
(vitr stillir rauð völlu)
valskan brand ok randir:
varða[5] víg þar er herðir[6]
vellmildr[7] konúngr fèllu
bolr[8] lá gauzkr und gulri[9]
gras arnarkló þrasi[10].

En er Magnús konúngr kom til Vænis, þá leið á haustið. Þá fóru þeir út í Kvaddíngsey[11], ok gerðu þar borg af torfi ok viðum[12], ok grófu díki um. En er þat virki var gert, þá var tilflutt vist ok (önnur) faung, þau er þurfti. Konúngr setti þar til gæzlu 3 hundruð manna, ok

1) viþ, *M.* 2) liði *eðr. kannske* landi, *H.* 3) *Vís. v. í Hk.* 4) aulfar, *H.* 5) verða, *H.* 6) gjörði, *H.* 7) *þannig H, M;* velmildr, *A.* 8) *þannig H, M;* bolar, *A.* 9) golri, *M.* 10) *Vís v. í Hk.* 11) *Einnig, þó óglöggt, H;* Kvaldínsey, *Hk.* 12) grjóti, *H.*

voru þar höfðíngjar fyrir Finnr Skoptason ok Sigurðr ullstreingr, höfðu þeir hit fríðasta lið, en konúngr sneyri þá með [sumt liðit[1] út í Víkina. En er Svíakonúngr spurði þetta, þá dró hann her saman, ok fóru þau orð um, at hann myndi ofan ríða, en þat frestaðist um hríð. Þá kváðu Norðmenn þetta:

Alleingi dvelr Íngi
ofanreið, hinn þjóbreiði.

En er ísa lagði á vötn, þá reið Íngi konúngr ofan, ok hafði nær 30 hundraða manna. Hann sendi orð Norðmönnum, þeim sem í borginni voru, bað þá brott fara, ok aptr til Noregs, með allt herfáng þat er þeir höfðu; ok er sendimenn báru þeim konúngs orð, þá svaraði Sigurðr ullstreingr, at Íngi konúngr myndi öðru verða við at koma, en vísa þeim í brott í haga sem hjörð, ok kvað hann nær myndu áðr gánga verða. Sendimenn báru slík orð aptr til konúngs. Þá reið Íngi konúngr út á eyna með allan herinn. Þá sendi hann öðru sinni menn til Norðmanna, bað þá brott fara, hafa vâpn sín ok klæði ok hesta, en láta eptir annat ránfe. Þeir [neittuðu þessu[2]. Síðan veitti konúngr þeim atgaungu, ok skutust þeir á. Þá lèt konúngr bera til viðu ok torf, ok fylla díkit. Því næst lèt hann taka akkeri, ok dreingja[3] við ása lánga, ok bera þat upp á timbrveggina, ok draga svâ í sundr. Þá voru ok gerfir eldar

1) lið sitt, *H.* 2) neittu því, *H.* 3) binda, *H.*

stórir, ok skotit logandi bröndum at þeim. Þá báðu Norðmenn griða. Konúngr bað þá útgánga vâpnlausa. En er þeir gengu út, þá var hverr þeirra sleginn lurkshögg[1], fóru brott við svâ búit, ok heim í Noreg; en allir Markamenn snerust til sætta ok aptr undir Svíakonúng. Norðmenn fóru á fund Magnúss konúngs, ok sögðu honum sem farit hafði með þeim Ínga konúngi.

27. Þegar er vâraði, ok ísa leysti, fór Magnús konúngr með liði sínu austr til Elfar, ok hèlt upp eptir hinni eystri kvísl, ok herjaði víða um veldi Svíakonúngs. En er hann kom þar, sem Foxerni[2] heitir, þá gengu þeir á land upp frá skipum. Ok er þeir komu yfir á eina[3], þá er þar verðr, þá kom móti þeim herr Gauta, ok varð þar orrosta mikil; vurðu þá Norðmenn bornir ofrliði, ok sneru á flótta, ok var áðr drepit mart manna af þeim[4]. Magnús konúngr flýði, ok allir hans menn; Gautar fylgdu þeim, ok drápu hvern sem þeir náðu. Konúngr var auðkendr, manna mestr, ok hafði rauðan hjúp yfir brynju, hárit silkibleikt, er fèll á herðar honum aptr. Ögmundr Skoptason reið á aðra hlið konúngi, hann var ok manna mestr ok fríðastr; hann mælti: gef mer hjúpinn, konúngr! Konúngr svarar: hvat skal þer hjúprinn[5]? Ek vil hafa, segir Ögmundr, gefit hefir þú mer

1100

1) limahögg, *Hk.* 2) Voxerni, *M.* 3) *H*; eyna, *A.* 4) við fors einn, *b. v. Hk.* 5) segir hann, *b. v. H.*

stærrum. Þar var svâ háttað landslegi, at þar voru víða vellir slèttir, ok sá þá ávalt hvârir aðra, Gautar ok Norðmenn. Þá voru enn skógarkjörr ok kleifar nökkurar, ok sal þá sýn í milli þeirra. Þá fèkk konúngr Ögmundi hjúpinn, ok fór hann í. Síðan fóru þeir framm á völluna. Sneri þá Ögmundr ok hans sveit þvers annan veg frá liðinu. En er Gautar sá þat, þá hugðu þeir, at þar færi konúngr, ok riðu þagat allir eptir. Reið konúngr leið sína til skipa, en Ögmundr dró nauðuliga undan, ok kom þó heill til skips. Hèlt Magnús konúngr þá ofan eptir ánni, ok síðan norðr í Víkina[1].

28. Sá maðr kom til Magnúss konúngs, þá er hann var í Víkinni, er Giffarðr[2] hèt, hann kvaðst vera góðr riddari[3]. Konúngr tók vel við honum. Giffarðr var valskr at ætt ok eðli. Þá bjóst Magnús konúngr at ríða uppá Gautland, þvíat hann þóttist þar eiga ákall[4], at gjalda Gautum þann svaðil, er hann þóttist farit hafa fyrir þeim um vârit. Þá hafði hann mikit lið. Gengu þá Vestrgautar undir hann um hinar nyrðstu[5] bygðir. Síðan settust þeir við landamæri, ok bjuggu í tjöldum, ætluðu þaðan til áreiðar. Íngi konúngr frá þat, safnaði hann þegar liði, ok stefndi á fund Magnúss konúngs.

---

1) *Þenna kap. v. í M.* 2) Gíparðr, *Hk.* 3) *M getr í öndv. 26. kap. um komu þessa riddara ok burtför, er þar yfir höfuð efninu öðruvísi niðrraðat ok styttra frásagt.* 4) tilkall, *H.* 5) næstu, *H.*

En er Magnúsi konúngi kom njósn um ferðir hans, þá eggjuðu liðshöfðíngjar Magnús konúng at hverfa aptr, en konúngr vildi þat víst eigi, ok hèlt með lið sitt mót Inga konúngi, fyrr en hann varði á náttarþeli. Þeir fundust þar sem heitir Foxerni[1]. En er Magnús konúngr skipaði liði sínu til atgaungu, þá spurði hann hvar Giffarðr væri, ok fanst hann eigi þar með liðinu. Þá mælti konúngr:

Vill hann eigi flokk vârn fylla,
falsk riddarinn valski.

Þá tók undir skáld, er var með konúngi:

Spurði gramr, hvat gerði
Giffarðr, þá[2] er lið barðist;
ver ruðum vâpn í dreyra,
varat hann kominn þannig:
framreiðar[3] var fnauði[4]
fulltrauðr á[5] jó rauðum,
vill eigi flokk vârn fylla,
falsk[6] riddarinn valski.

Því næst tekst þar orrosta, ok sneri þegar mannfalli á Svía; þvíat þeim kom á úvart atreið Norðmanna. Magnús konúngr barðist alldjarfliga, hjó hann á tvær hendr, ok reið í gegnum fylkíngar Svía, svâ at ekki stóð við, sem Gisl segir:

Reið fólkhvötuðr
fyrst í gegnum

[1]) þar sem fyrr hafþi orþit fundr þeirra konúnga, *b. v. M.* [2]) þar, *M.* [3]) *H, Hk*; framreið, *A*; fram reiþ þar, *M.* [4]) frændi, *H.* [5]) af, *M.* [6]) fask, *H*, *misskrifat.*

safnað[1] Svía
sigri hnugginn:
málmr dreyrugr varð
á meðal hlaupa
hauss ok herða
hans andskota[2].

Ok allir Norðmenn börðust alldreingiliga, varð þar hit mesta mannfall af Svíum; var Magnús konúngr fyrstr ok fremstr allra sinna manna. Svâ segir Gisl:

Helmerki[3] blès,
en huginn gladdist,
fránu[4] höfði
feðr Sigurðar:
þann sá ek fylki
með frama mestum
snörpu sverði
til sigurs vega[5].

Gisl vâttar þat at hann var með Magnúsi konúngi í þessi orrostu ok víða annarsstaðar, sem hann kvað:

Fylgda ek fræknum,
sem ek framast kunna,
Eysteins föður
í atals drífu;
opt brá ek hjörvi
með Haralds frænda

1) sonnut, *M.* 2) *Vís. v. í Hk.* 3) Holmerki, *H, M.* 4) *H*; fránum, *A, M.* 5) *Vís. v. í Hk.*

vanr vâsförum,
þar[1] vega þurfti[2].

29. Svâ lauk þessi orrostu, at fjöldi lá eptir af Svíum, en Íngi konúngr frelstist með flótta; fèkk Magnús konúngr mikinn sigr. Þá reið Giffarðr af landi ofan, ok mæltist eigi vel um, er hann var eigi við orrostuna, at veita Magnúsi konúngi, fèkk hann ok þarfyrir íllt orð ok gabb af konúngsmönnum; fór hann brott ok vestr til Einglands með kaupmönnum. Þeir fengu útivist harða í hafi. Giffarðr var liðlítill; lá hann laungum, þá er aðrir jósu. Þar var á skipi íslenzkr maðr einn, húsvíkskr at ætt, ok var þá nýkominn utan af Miklagarði; hann hèt Eldjárn. Þat var eitt sinn, þá er Eldjárn gekk til at ausa, ok sá hvar Giffarðr lá, at hann kvað:

Hví samir hitt at dúsa
hirðmanni geðstirðum?
vestu[3] nú, þó kjöl kosti,
knár, riddarinn hári!
Þat er satt at ek býð byttu
breiðhúfuðum[4] reiða
austr er til hár í[5] hesti
hvaljarðar Giffarði.

Þeir tóku Eingland, ok fór Giffarðr þegar frá skipi til hinnar næstu borgar, ok er hann fann greifa þann, er yfir var skipaðr borgina, bað

1) þars, *M.* 2) *Vís. v. í Hk.* 3) verþr, *M*; verðu, *Hk.* 4) breiþhúfoþo, *M*; breiðbúfom þer, *Hk.* 5) of, *M.*

Giffarðr hann rètta mál sitt við Norðmann, kvað hann hafa níddan sik í kveðskap. Greifinn var maðr úngr, ok hafði mjök nýtekit vald, en þó kveðst hann myndu líta á mál hans, eptir þeim efnum sem honum þætti tilstanda. Var þá móts kvadt, ok Norðmanni tilboðit; ok er mótit var sett, þá var uppborit fyrir greifann málit. Eldjárn kvað þat eigi satt, at hann hefði níddan Giffarð: mun ek enn kveða, segir hann, ef greifinn vill. Hann svarar: ek hefir enn lítt setið yfir málum[1] manna, ok þó kann ek einna sízt at skynja þat, sem þer kallit kveðit, en hvat mun varða, þótt ver heyrim. Eldjárn kvað:

Frá ek at flótta rákut[2],
falsk[3] annat lið manna,
þar var harðr, er ek heyrða[4],
hernaðr á Foxerni;
varð hjálm-þrimu-herðis
hár[5], er staddir váru[6],
gángr, þar[7] er gauzka dreingi
Giffarðr í hel barði[8].

Þá mælti greifinn: ekki kann ek í skáldskap, en þó skil ek at þetta er ekki níð, heldr er þer, Giffarðr! at þessu vegr ok lof, ok ekki kann ek her annan dóm á at leggja. Giffarðr þóttist eingu kunna at svara, þvíat hann vissi

1) molum, *M.* 2) *þannig M;* ráku, *A*; ræki, *H.* 3) falk, *Hk*; fasc, *M*; *misskrifat.* 4) heyra, *H.* 5) þar, *b. v. Hk.* 6) várot, *Hk.* 7) þá, *Hk.* 8) barðir, *Hk.*

tilefni sín, at honum var þetta háð en ekki lof, en vildi víst eigi gera bert fyrir mönnum, hversu hann hafði farit á Foxerni. Skildu þeir við svâ búit, líkaði Giffarði allilla þessi málalok; fór hann brott.

30. Magnús konúngr fór af Gautlandi heim norðr í Nóreg eptir orrostu þeirra Ínga konúngs. Þessi vísa er kend Magnúsi konúngi, at hann hafi kveðit til Mathildar[1] keisaradóttur:

[Ein er sú[2] er mer meinar,
Makthildr[3], ok vekr hildi,
(már drekkr suðr or sárum
sveita) leik[4] ok teiti:
sá kennir mer svanni,
sín lönd er verr röndu,
(sverð bitu Högna hurðir)
hvítjarpr sofa lítið.

Ok enn kvað hann:

Hvat er í heimi betra
(hyggr skáld á[5] þrá sjaldan)
(mjök er lángr, sá er dvelr dreingi,
dagr) en [vífit fagra[6]:
þúngan ber ek af þíngi
þann harm, er ek skal svanna
(skreytast[7] menn at[8] móti)
minn aldregi finna.

---

1) Matthildar, *H.* 2) Sú er ein, *M.* 3) Matthildr, *H*, *Hk*; Mattildr, *M.* 4) *þannig H*, *M*; læk, *A.* 5) af, *M*, *Hk.* 6) víf en fögru, *M*; víven fögro, *Hk.* 7) skreytist, *H*; screytasc, *M.* 8) ú, *M*, *Hk.*

Magnús konúngr hafði spurt vingjarnlig orð keisarans dóttur til sín, þau er hon hafði svâ mælt, at henni þótti slíkr maðr sæmiligastr, sem Magnús konúngr var. Þá kvað hann þetta:

Jörp mun eigi verpa
ormlína[1] á glæ sínum,
(orð spyr ek gullhríngs Gerðar
góð) um[2] skáld í hljóði:
ann ek, þótt[3] eigi finnag[4]
opt, guðvefjar-þóptu
(viti menn at ek hygg henni[5])
hála[6], ræktar málum.

31. Annat sumar eptir orrostu þessa, er þeir Magnús konúngr ok Íngi Svíakonúngr áttu, var lögð konúngastefna í Elfi við Konúngahellu. Kom þartil Magnús konúngr ör Noregi ok Íngi Svíakonúngr, ok Eiríkr[7] Sveinsson Danakonúngr; var sú stefna bundin griðmálum. En er þíngit var sett, þá gengu konúngar framm á völlinn frá öðrum mönnum, ok töluðust við litla hríð, gengu þá aptr til liðs síns; var þá gjör sætt með þeim; skyldi hverr hafa þat ríki, sem áðr höfðu haft feðr þeirra, en hverr þeirra höfðíngjanna skyldi bæta sínum undirmönnum mannskaða ok rán[8]. Þá fastnaði Íngi konúngr Magnúsi konúngi Margrètu, dóttur sína; [skyldu henni heiman fylgja jarðir þær í Gaut-

1) *seinasti bókst. er óskír í A*; armlinnz á glæ sinni *E*, *Á*; armlín, *Hk*. 2) *þannig M*, *Hk*; mun, *H*; tini, *A*. 3) ec, *b*, *v*. *M*. 4) finna, *H*. 5) hennar, *Hk*. 6) hal á *H*; hæla, *E*. 7) Eirekr, *H*, *Hk*. 8) en hverr þeirra síðan jafna við annan, *b*. *v*. *Hk*.

landi, er þeir höfðu áðr deilt um[1]. Hon var síðan kölluð Friðkolla. Þat var mál manna, at eigi hefði sèt 3 menn höfðíngligri, en þessir voru. Íngi konúngr var þeirra elztr, mestr ok þrekligastr, ok þótti hann [öllum einna formannligastr[2], [en Magnús konúngr skörugligastr ok skjótligastr, en Eiríkr konúngr var einna fegrstr[3]; en þó voru þeir allir orðsnjallir, fríðir sýnum ok göfugligir; fór þá hverr þeirra heim í sitt ríki, ok voru vel sáttir.

32. Magnús konúngr fèkk Magrètar drottníngar, var hon send austan af Svíþjóð til Noregs, ok var henni fengit vegligt föruneyti. Magnús konúngr átti áðr nokkur börn, þau sem nefnd eru: Eysteinn hèt son hans, ok var hans móðerni lítið; annarr hèt Sigurðr, ok var hann vetri ýngri, Þóra hèt hans móðir; Ólafr hèt hinn þriði, ok var hann miklu ýngstr, hans móðir var Sigríðr Saxadóttir ör Vík, göfugs manns í Þrándheimi, hon var friðla konúngs. Svâ segja menn, þá er Magnús konúngr kom ör vestrvíkíng, at hann hafði mjök þá siðu um klæðabúnað, sem títt var í Vestrlöndum, ok margir hans menn, at þeir gengu berleggjaðir, höfðu stutta kyrtla ok svâ yfirhafnir, ok kölluðu margir menn hann berbein eðr berfætt,

1) *v. í Hk.* 2) af ölium þeim öldurmannligastr, *M.* 3) Eiríkr Danakonúngr hafþi fegrsta ásjáno oc ítrmannligsta; en Magnús Noregs konúngr var af þessom öllum miclo kurteisastr oc vasceligastr oc hermannligastr, *M*; *einnig H segir seinast frá Magnúsi Noregs konúngi.*

sumir kölluðu hann Magnús hinn háfa, en sumir Styrjaldar-Magnús. Hann var manna mestr ok hæstr. Mark var gert til um hæð hans á Maríukirkju í Kaupángi, þeirri sem Haraldr konúngr Sigurðarson hafði gera látið; þar hjá norðr-dyrunum voru klappaðir á steinvegginum krossar þrír, merkir einn hæð Haralds konúngs, annarr hæð Ólafs konúngs sonar hans, þriði Magnúss konúngs hæð; er þat markat, hvar þeim var hægt at kyssa; var ofarst Haralds kross, en lægstr Magnúss kross, en Ólafs mark jafnær báðum[1].

33. Skopti Ögmúndarson varð missáttr við Magnús konúng, deildu þeir um dánarfe, hèlt Skopti, en konúngr kallaði til með svá mikilli ifreku, at þat var viðsjáða sjálfan. Voru þá áttar stefnur at, ok lagði Skopti þat til ráðs, at þeir feðgar skyldi aldri vera allir í senn á konúngs valdi, sagði at hlýða mundi, meðan þeir gerði svá. Ok þá er Skopti var fyrir konúngi, flutti hann þat framm, at skyld frændsemi var milli þeirra konúngs: ok þat með, sagði Skopti, at ek hefi jafnan verit kærr bæði þer ok föður þínum, svá at aldri skjöplaðist okkur vináttu, meðan hann lifði; fyrir því megit þer þat skilja, konúngr, at ek myndi þetta mál eigi halda í deilu við yðr, ef ek mælti rángt; en þat bregðr mer til forellris míns, at ek haldi rèttu máli fyrir hverjum manni, ok geri ek

1) *þenna kap. v. í M.*

þar eingan mannamun at. Konúngr var hinn sami, ok mýktist ekki skap hans við slíkar fortölur. Fór þá Skopti heim, en Finnr á konúngs fund, ok bað konúng at hann skyldi þá feðga láta ná rèttindum um þetta mál. Konúngr svarar stutt ok stygt. Þá mælti Finnr: til annars hugði ek af yðr, konúngr, en þer myndit gera mik lögræníng, þá er ek settumst í Kvaddíngsey, er fáir vildu aðrir vinir þínir, ok sögðu, sem satt (var, at þeir) voru framseldir ok til dauða dæmdir, er þar voru, ef Íngi konúngr heíði eigi sýnt við oss meira höfðíngskap, en þú hafðir fyrir oss sèt; ok mun þó mörgum sýnast, sem ver bærim þaðan svívirðíng, ef þat væri nokkurs vert. Konúngr skipaðist ekki við slíkan formála, fór Finnr heim. Síðan fór Ögmundr Skoptason, ok er hann kom fyrir konúng, bar hann upp sín eyrindi, ok bað konúng gera þeim feðgum sinn[1] rètt. Konúngr svarar: þat er rètt, er ek mæli, ok ertu firna djarfr. Þá mælti Ögmundr: koma muntu, konúngr! þessu á leið, at gera oss rángt, feðgum, fyrir sakir ríkis þíns; mun her þat sannast, sem mælt er, at margir launi illu lífgjöfina eða eingu; skal þat ok fylgja mínu mali, at aldri síðan skal ek koma í þína þjónustu, ok eingi vârr feðga, ef ek ræð. Fór Ögmundr heim, ok sást þeir aldri síðan. Skopti Ögmundarson bjó ferð sína ör landi um vârit með 5 skip[2], ok voru öll vel búin, voru með honum synir hans

1) *v. í H, Hk.* 2) skipum, *H.*

Ögmundr ok Finnr [ok Þórðr[1]. Þeir sigldu um haustit til Flæmíngjalands, ok voru þar um vetrinn. Snimma um vârit eptir sigldu þeir vestr til Vallands, en um sumarit sigldu þeir út Njörfasund, ok svâ austr til Rómaborgarlands; þar andaðist Skopti. Allir önduðust þeir feðgar í þessi ferð; Þórðr lifði þeirra leingst; hann andaðist í Sikiley. Þat er sögn manna at Skopti hafi fyrstr Norðmanna siglt Njörvasund, ok var sú för hin frægjasta[2].

34. Magnús konúngr byrjaði ferð sína ör landi, hann hafði her mikinn. Þá hafði hann verit konúngr yfir Noregi 9 vetr. Hann hafði með ser allt hit fríðasta lið, er til var í Noregi. Honum fylgdu flestir ríkismenn, er í-voru landinu, Sigurðr Hranason, Viðkunnr Jónsson, Dagr Eilífsson, Serkr ör Sogni, Eyvindr olbogi, stallari konúngs, Úlfr Hranason, bróðir Sigurðar, ok margir aðrir ríkismenn. Fór hann öllu þessu liði vestr um haf. Þá var þetta kveðit um siglíng Magnúss konúngs;

Vegg [blæs veðr um[3] tiggja
viðr þolir nauð í löðri
læ[4] tekr klúngrs[5] at knýja
keip, en gellr[6] í reipum;
mjórr skelfr Magnús stýrir
móð skerr eik at flóði

1) *þannig Hk; v. í A, H.* 2) 33. *kap. v. í M.* 3) blés vindr undir, *H.* 4) ley, *H.* 5) klúngur, *H.* 6) gelr, *M.*

beit verða[1] sjá[2] slíta
sjötögr vöndr und röndu[3].

Þeir tóku veðr stór, ok vildu margir mínka siglíng ok svipta. Konúngr bað þá sigla djarfliga, ok óttast ekki, hversu sem sjár lèti, sem her segir:

Eggendr[4] bað-at ugga
úhlífinn gramr lífi,
hvegi[5] er lèt hinn ljóti
landgarðr [fyrir barði[6];
satt var[7] at alvaldr átti,
ógnsnart borit hjarta
súð varð í gný græðis[8]
geyst farsælu treystast[9].

Magnús konúngr tók Orkneyjar með öllu liði sínu, hafði þaðan með ser[10] Erlíng, son[11] Erlends jarls, ok mikit lið annat. Sigldi konúngr þá til Suðreyja[12], síðan hèlt hann liðinu til Írlands, ok herjaði þar. Þá kom Myrjartak[13] konúngr af Kunnaktum til móts við hann, ok vunnu þeir báðir saman af Dýflinni mikit ríki ok Dýflinnar-skíði[14]; ok var Magnús konúngr um vetrinn uppi á Kunnaktum með Myrjartak konúngi,

---

1) verðr, *H.* 2) að, *b. v. H.* 3) *Vís. v. í Hk.* 4) Eggjendr, *M.* 5) *þannig, H, M*; hveigi, *A.* 6) hinn harði, *H.* 7) er, *H.* 8) grøþis, *M.* 9) treysta, *H*; treystasc, *M*; *en vís. v. í Hk.* 10) Magnús oc, *b. v. Hk.* 11) sono, *Hk.* 12) oc er hann lá við Skotland, þá ljóp Magnús Erlendzson um nótt af skipi konongs, oc svam til landz, for síðan upp í skóg, oc kom fram í hirð Skot. konongs *b. v. Hk*; (*sjá* 24. *kap.* bls. 50, athug. 1. 4.) 13) Mýrkjartan, *M.* 14) skíri, *Hk.*

en setti menn sína til landsgæzlu yfir ríki þat[1], er hann hafði vunnit. En er vâraði [fóru konúngar[2] með her sinn vestr á Úlaztir[3], ok áttu[4] þar margar orrostor. En er þeir höfðu vunnit [mikinn hluta Úlaztirs[5], þá fór Myrjartak konúngr heim á Kunnaktir, en Magnús konúngr bjó skip sín, ok ætlaði austr til Noregs.

35. Hann lá við Úlaðstir öllu liðinu, ok voru seglbúnir. Þeir þóttust þurfa strandhöggva, sendi Magnús konúngr þá menn sína til Myrjartak konúngs, at hann myndi senda þeim strandhögg, ok kvað á dag um, at sendimenn skyldu aptrkoma, ef þeir væri heilir, hit seinsta fyrir Bartólómêus-messu, en mánudags aftaninn voru þeir eigi komnir. En á sjálfan mánudaginn, þá er sól rann upp, gekk konúngr á land með mestan hluta liðs síns, ok vildi leita eptir mönnum sínum ok strandhöggvi. Veðr var vindlaust, ok sólskin; leiðin lá yfir mýrar ok fen, ok voru þar höggnar yfir klappir, en kjarrskógar voru tveggja vegna frá; þá er þeir sóttu framm um hrísin, varð fyrir þeim leiti nokkut mjök hátt; þaðan sá þeir víða. Þeir sá þá jóreyk mikinn upp á landit, ok ræddu um milli sín, hvârt þat myndi herr vera, eðr myndi þar fara menn þeirra með strandhögg; námu þeir þar stað. Þá mælti Eyvindr olbogi: herra! segir hann, gerit nokkut gott ráð fyrir liðinu.

---

1) því, *H.* 2) fór Magnús konúngr, *H.* 3) Ulaðstir, *M*, *Hk.* 4) átti, *H.* 5) Ulaztir, *H*; þann luta lanzins, *M.*

Fylkjum liði voru, sagði konúngr, ok verum viðbúnir, ef þetta er úfriðr; var þá fylkt. Þeir konúngr ok Eyvindr gengu fyrir fylkíngunni; hafði Magnús konúngr gyldan hjálm á höfði, rauðan skjöld, ok lagðr[1] á leó af gulli; hann var girðr sverði því er Leggbítr hèt, vâro[2] tannhjölt at, ok vafðr gulli meðalkaflinn; var þat hit bitrasta vâpn. Hann hafði kesju í hendi ok silkihjúp rauðan yfir brynju, ok skorit á af gulu silki león hæði fyrir ok á bak; ok var þat mál manna, at eingi hefði sèt herligra mann undir vâpnum ne tígurligra. Eyvindr stallari hafði ok rauðan hjúp, ok var búinn með sama hætti ok konúngr, var hann mikill maðr ok fríðr ok hinn vígligsti. En er jóreykrinn nálgaðist, kendu þeir at þar fóru þeirra menn með strandhögg mikit, er konúngr af Kunnaktum hafði sent þeim, ok hèlt hann öll orð sín við Magnús konúng.

36. Sneru þeir þá aptr til skipa, ok var þat um miðdegis skeið; en er þeir komu út á mýrarnar, fórst þeim seint um fenin. Þá hafði safnazt saman herr fra með alvæpni, var þat svâ mart lið, at úr hverju skógarnefi þusti at þeim mikill mannfjöldi, ok rèðu þegar til bardaga; en Norðmenn fóru dreift, ok fèllu þegar margir. Þá mælti Eyvindr til konúngs: úheppiliga ferr lið vârt, tökum nú skjótt ráð ok gott.

---

1) dreginn, *H*; scrifat, *M*. 2) *þannig M*; ok *H*; *en v. í A*; tannhjöltat, *Hk þykir misskilit*.

Konúngr mælti: blási herblástrinn, ok öllu liðinu saman undir merkit, en þat liðit sem her er skjóti á skjaldborg; förum síðan á hæli út yfir mýrarnar; síðan mun ekki tilsaka, er ver komum framm á slèttlendit. Eyvindr mælti: þat er mitt ráð, at þer leitið til skipanna, sakar oss ekki til, ok er öllu hólpit, ef þer takit undan. Konúngr mælti: ekki vil ek þann kost, er þat ekki konúngligt at flýja frá liði sínu, svâ vöskum dreingjum sem ek á at fylgja; tökum heldr við allir samt Írum sem dreingiligast. Þá kvað konúngr vísu þessa:

Hvatt[1] skulum heimför kvitta,
hugr er minn í Dýflinni[2],
enn til kaupángs-kvenna
kem[3] ek eigi austr í hausti;
unik[4] því, at eigi synjar
íngjan gaman þínga[5],
ærskan[6] veldr[7] því er[8] írskum
ann ek betr en mer svanna[9].

Írar skutu ákaft, ok sóttu at djarfliga, en þó fèllu þeir allþykt, en svâ dreif til landherrinn, at þar sem einn fèll af þeim, komu æ tveir í staðinn. En er konúngr var kominn at hinu neðsta díkinu, var þat fen mikit ok fástaðar yfirfært; þá sóttu Írar at fast, en konúngr varðist

1) *þannig H*, hvat, *A, M.* 2) *þannig M*, Dýflinn, *A*; Dyflin, *H.* 3) kom, *M.* 4) unnig, *H.* 5) gamans þínga, *M.* 6) æska, *H*; orscan (*þ. e.* ørscan), *M.* 7) veld ec, *M.* 8) at, *M.* 9) *Vís. v. í Hk.*

alldreingiliga, ok allir hans menn; svâ segir Þorkell hamarskáld:

> Uppgaungu rèð yngvi[1]
> ítr með helmíng lítinn,
> árræði hygg ek áðan
> Eysteins föður treystast,
> hátt gall hjörr, en sótti
> (hneit egg við fjör seggja)
> (málmsækir[2] rauð mæki)
> Magnús[3] í lið gegnum[4].

Þar fèll þá mart Norðmanna við díkit. Þá kallaði konúngr Þorgrím skinnhúfu,[5] lendan mann sinn upplenzkan, ok mælti til hans: far þú með þína sveit yfir díkit, en ver munum verjast her meðan, ok gæta til, at yðr skaði ekki. Farit síðan á hól, þann er þar verðr, ok skjótit á lra sem ákafast, meðan ver förum yfir fenit; þvíat þer erut bogmenn góðir. En þegar er þeir Þorgrímr komu yfir díkit, tók hann ok allir hans menn eitt ráð, þeir köstuðu vâpnum ok skjöldum á bak ser, ok runnu til skipa ofan. En er konúngr sá þat, mælti hann: údreingiliga skilst þú við þinn konúng; úvitr var ek þá er ek gerði þik lendan mann minn, en útlægan Sigurð hund, aldri myndi hann svâ fara.

37. Magnús[6] konúngr fèkk sár, var lagðr

---

1) *þannig H, M*; ek ýngri *eðr* ýngvi, *A*. 2) málmsøkir, *M*. 3) Magnúss, *M*. 4) *Vís. v. í Hk.* 5) húfo, *M*. 6) Eptir þetta flýþu allir þeir er aptar stóþo, oc ifir fenit, en konúngr sjálfr stóð undir merkino oc barþist, oc hugþi at hlýþa mondi, fyrir því at lánga hríþ hjöggo þeir lra niþr sem búfe, en

með kesju í gegnum bæði lærin fyrir ofan kne. Hann greip skaptið, ok braut milli fóta ser ok mælti: svâ brjótum ver, sveinar, hvern sperrilegginn, ok berjumst enn djarfliga, ekki mun mik[1] saka. Litlu síðar var konúngr höggvinn með spörðu írskri á hálsinn við herðarnar, var þat hans banasár. Viðkunnr Jónsson var þá næstr konúngi, ok þegar í stað hjó hann þann mann í tvau, er konúngi hafði veitt sárit. Fèll þar Magnús konúngr. Þá flýðu flestir Norðmenn. Ok er konúngr var fallinn, ok hann fann at hann var sárr til úlífis, mælti hann til Viðkunns: leita þú nú at hjálpa þer, þvíat mest vân er at her verði vâr skilnaðr, hefir þú vel fylgt mer ok dreingiliga; berþú kveðju mína sonum mínum, ok öllum mínum frændum ok vinum. Eptir þat andaðist konúngr. Viðkunnr tók þá merki konúngs ok sverðit Leggbít, ok bar til skipa. Þeir runnu síðast, Viðkunnr Jónsson, Sigurðr Hranason ok Dagr Eilífsson. Þar fèllu með Magnúsi konúngi Eyvindr olbogi, Úlfr Hranason, Erlíngr son Erlends jarls, ok margir aðrir ríkismenn fèllu af Norðmönnum, en þó miklu fleira af Írum. Viðkunnr Jónsson hafði fengit 3 sár í bardaganum, ok var mjök ágætt hans hreysti ok fylgd við sinn höfðíngja. Af

æ þars einn var hgögvinn, þá como 2 í staþinn af landi ofan. Oc þá er þynntisc um merkit fecc Magnús konúngr lag af spjóti *o. s. fr., M.*

1) þetta, *b. v. H*

þeim sökum tóku synir Magnúss konúngs hann síðan í hinn mesta kærleik. Allir Norðmenn, þeir er undan komust, fóru þegar brott af Írlandi, fyrst [á haf út, ok sigldu skjótt[1] til Orkneyja. En er Sigurðr konúngr spurði fall föður síns, þá rèðst hann til ferðar með þeim; fóru þeir um haustit norðr[2] til Noregs[3]; en Sigurðr lèt eptir dóttur Írakonúngs fyrir vestan haf.

38. Magnús konúngr var þrítögr at aldri, er hann fèll, þá hafði hann verit konúngr at Noregi 10 vetr; var á hans dögum góðr friðr innanlands, en menn höfðu mjök starfsamt ok kostnaðarmikit af leiðángrum. Var Magnús konúngr hinn vinsælsti við sína menn, en bóndum þótti hann harðr. Þat herma menn frá orðum hans, er vinir hans mæltu at hann færi úvarliga, þá er hann herjaði utanlands, er hann gerði sik auðkendan frá öðrum mönnum í hverri orrostu; hann svaraði svâ: til frægðar skal konúng hafa meir en til lánglífis[4].

---

1) *H; v. í A.* 2) austr, *H.* 3) En þá voru settir jarlar yfir Orcneyjar Magnús Erlendsson oc Hácon Pálsson, *b. u. M.* 4) *Kap.* 38 *v. í M.*

# Saga Sigurðar konúngs jórsalafara ok bræðra hans, Eysteins ok Ólafs.

EPTIR fall Magnúss konúngs berfætts tóku synir hans konúngdóm í Noregi: Eysteinn, Sigurðr (ok) Ólafr; hafði Eysteinn hinn nyrðra hlut lands, [en Sigurðr enn syðra[1]. Ólafr var til konúngs tekinn 5[2] vetra eðr fjögurra, ok höfðu bræðr hans báðir til varðveizlu þann þriðjúng er hann átti. Sigurðr var til konúngs tekinn 13 vetra eðr fjórtán, en Eysteinn var vetri ellri. Þá er synir Magnúss konúngs voru til konúnga[3] teknir í Noregi, komu utan af Jórsalaheimi, en sumir ör Miklagarði, þeir menn er farit höfðu út með Skopta Ögmundarsyni, voru þeir hinir frægstu menn af sinni ferð, ok kunnu margskonar tíðindi at segja. Þeir sögðu ok at í Miklagarði fengu[4] Norðmenn fullsælu fjár, þeir sem á mála vildu gánga, ok af þeim nýnæmum fýstust fjöldi manna í Noregi til þeirrar ferðar, ok báðu konúngana at annarhvârr þeirra skyldi

1) *H, Hk*; *v. í A*; Sigurþr hafþi enn eystra lut lands til forræþa . . . en Eysteinn kon. enn nörþra lut, *M.* 2) *M sýnist hafa* 3. 3) *þannig H, Hk*; konúngs, *A.* 4) fengi, *H.*

gerast formaðr þess liðs, er til útferðarinnar réðist, en konúngar játtuðu því, ok bjuggu ferðina með beggja þeirra kostnaði. Til þessarrar ferðar réðust margir lendir menn ok ríkir bændr. En er ferðin var búin, þá var þat afráðit at Sigurðr konúngr skyldi fara, en Eysteinn konúngr skyldi hafa landráð af hendi beggja þeirra[1]. Einum vetri eðr tveimr eptir fall Magnúss konúngs berfætts kom vestan af Orkneyjum Hákon, son Páls jarls. Gáfu konúngar honum jarlsnafn ok yfirsókn í Orkneyjum, slíka sem haft hafði Páll jarl faðir hans. Fór Hákon vestr til eyjanna aptr.

2. Fjórum[2] vetrum eptir fall Magnúss konúngs var albúin ferð Sigurðar konúngs; hafði hann frítt lið ok mikit, er valizt hafði til ferðarinnar af öllu landi, sem Þórarinn stuttfeldr segir:

Dreif til handa
herr framr grami
hollr hauksnjöllum
hvaðan æfa, sva

1) *M hefir þessa frásögn styttri og öðruvísi, segir þar at Sigurðr konúngr fýstist at fara or landi út til Jórsalalands*: oc áþr hann næþi at velja liþit, svâ mjöc sem hann vildi þat vanda til fararinnar, þá vingaþist hann oc þeir brøþr í mörgo lagi viþ landzmenn oc alla alþýþo. Þá tóco þeir brøþr af mönnum áþjáner oc marga ánauþ, oc illar frecor oc álögor, er konúngar oc jarlar höfþo lagt á lýþinn, sem fyrr er sagt í þeirra sögóm, oc snero þeir brøþr svâ ánauþ til frelsis, oc aflaþi þeim þat mikilla vinsælda af allri alþýþo. 2) 3, *M.*

sem [fyrr í[1] för
frètt höfðu rètt
konúngakyn
kraka margspökum[2].

Ok áðr þeir bræðr skildu, mælti Sigurðr konúngr til Eysteins konúngs: Nú er þessi ferð, bróðir! vænliga[3] búin með yðrum styrk ok tillögum, ok væri nú mikit undir at oss tækist stórmannliga, ok nökkut mætti [oss öllum samt[4] til frama vinnast í þessi ferð, eða sálubótar. Eysteinn konúngr svarar: vel mun þer tiltakast, bróðir, ok líklígr erþú til mikillar framkvæmdar[5] ok skörúngskapar; en við skal ek leita at gæta ríkis vårs meðan, með slíkri stjórn sem ek kann. Síðan skildust[6] þeir bræðr[7]. Sigurðr konúngr hafði 60 skipa[8], ok öll vel skipuð. Svâ segir [Þórarinn stuttfeldr[9]:

Svâ kom fylkis
framt lið saman
margspaks mikit
mildíngi vilt[10],
at skip við skip[11]
skar-fögr um[12] lög
hreins guðs[13] heðan
hnigu sextigir.

1) *H sýnist hafa* fyrri. 2) *M hefir hèr eingan orðamun; en í Hk v. vís.* 3) vendlliga, *M.* 4) þess, *M.* 5) frægðar, *H.* 6) skildu, *H*; sciljast, *M.* 7) *Frá vís v. í Hk.* 8) or Noregi, *b. v. H.* 9) Þorvaldr blönduskáld, *M.* 10) viljat, *H.* 11) *þannig A, H, M; aðrir* sköp. 12) of, *H, M, Hk.* 13) goðs, *M*; grams, *Hk*; *en* heiðs grams, *sst.* 6. *bindi, bls.* 184 *af getgátu Prof. Finns Magnússonar.*

3. Sigurðr konúngr sigldi um haustið[1] vestr til Einglands, sem Þórarinn[2] segir:

Óðu at Eingla
ættjörðu borð[3]
skaplig skipa
skafin vestr um haf:
þótti þrænda
þarlands sem[4] hvar
yfirmaðr jöfurr
allsherjar snjallr[5].

Þá var konúngr yfir Einglandi Heinrekr, son Vilhjálms bastarðs; tók hann vel við Sigurði konúngi, ok var hann þar um vetrinn. Svâ segir Einar Skúlason:

Vâs-auðigr[6] rèð vísi[7]
vestr helmíngi mestum
óð at ensku láði
ægis marr und[8] harra;
stál[9] lèt hilmir hvílast
heiptglaðr, ok var þaðra
(ne gramr af[10] val Vimrar)
vetrleingis (stígr betri[11]).

4. Sigurðr konúngr hèlt eptir um vârit liðinu vestr til Vallands, [ok kom framm um haust-

1) af Hörðalandi, *b. v. M.* 2) *M. teingir þessa vís. við þá undanförnu, og eignar hana þannig sama skáldi; en H ítrekar nafnit* Þórarinn. 3) börð, *M.* 4) *H, M; v. í A.* 5) *Vís. v. í Hk.* 6) Vâs-öflugr *Hk.* 7) vísir, *H.* 8) við, *E.* 9) stol, *H.* 10) á, *Hk.* 11) *Vís. v. í M.*

ið út á Galizulandi[1], ok dvaldist þar [um vetrinn[2]. Svâ segir Einar:

Ok sá er[3] æztr[4] gat ríki
ól þjóðkonúngr sólar
önd á Jakobs landi
annan vetr und[5] ranni:
þar frá ek hilmi herjar
ljaldr[6] lausmæli gjalda
(gramr [bræddi svan síma[7]
snarlyndr) frömum jarli[8].

En þat varð með þeim atburð, at jarl, sá er rèð fyrir landinu, gerði sætt við Sigurð konúng, ok skyldi jarl setja[9] honum torg til matkaupa allan vetrinn; en þat endist eigi leingr en til jóla, ok gerðist þá íllt til matar; þvíat landit er skarpt ok lítit matland. Þá fór Sigurðr (konúngr) til kastala, þess er jarl átti; jarlinn flýði þegar undan, þvíat hann hafði lið lítið. Sigurðr konúngr tók þar vist mikla ok mikit herfáng annat, ok lèt flytja til skipa sinna; bjóst hann þaðan í brott, ok fór vestr fyrir[10] Spán. Þar bar svâ til, at víkíngar nökkurir[11], þeir sem fóru at fefaungum, komu í móti þeim með galeiðaher[12]. Sigurðr konúngr lagði til orrostu

1) byrjar þeim seint um sumarit oc komo at hausti vestr í Jacobsland, *M*; Galizsíolandí, *skrifar H*. 2) 2. vetr, *þ. e.* annan vetr; *M*, *Hk*. 3) *H*, *Hk*; ok er sá, *A*. 4) œzt, *Hk*. 5) *H*, *Hk*; undir, *A*. 6) hjaldrs, *Hk*. 7) birti svâ svartan, *E*; svan bræddi snemma, *Hk*. 8) *Vís. v.* í *M*. 9) settia, *H*. 10) i, *H*. 11) nocqverir, *M*. 12) Víkíngar höfþu 7 galeiþr, en þau scip ero stór oc torsótlig, *b. v. M*.

við þá, ok hóf svâ hinn fyrsta hernað á heiðna menn. Vann hann af þeim [8 galeiðr[1] með miklu herfángi, svâ sem Halldórr svaldri segir:

Ok fádýrir fóru
Fjölnis hrots at móti[2]
(vígásum hlóð vísi)
víkíngar gram ríkum[3]:
náði herr at hrjóða
(hlaut dreingja vinr feingi
fyrðum hollr), þar er[4] fell-at
fátt lið, galeiðr átta.

Síðan hèlt Sigurðr konúngr til kastala þess á Spáni, er Sintre heitir, ok barðist[5] þar aðra orrostu. Þar sat í heiðit fólk, ok herjaði þaðan á kristna menn. Hann vann þenna kastala, ok drap hvert mannsbarn er þar var; þvíat þat fólk vildi ekki til kristni snúast. Tóku þeir þar stórmikit fe at herfángi, en allt kristið fólk þakkaði þeim þetta verk. Svâ segir Halldórr:

Stór skal[6] ek[7] verk, þau er váru
(Vánardags) á Spáni,
(þrútt vann slaungvir sóttan[8]
Sintre) konúngs inna[9];
gerðist heldr við Hórða[10]
[hermönnum gram[11] berjast

1) 8 galeiþar, *M.* 2) *H sýnist hafa* hrjóts á móti. 3) *Fyrri Vísuhelm. v. í M.* 4) *v. í H, en finnst í M; Hk hefir:* fyrðom hollr, en. 5) átti, *H.* 6) á, *M.* 7) *v. í H.* 8) sáttann, *H.* 9) vinna, *H.* 10) halda, *H*; harða, *Hk.* 11) hermenn gramr, *Hk.*

grátt, þeim er gerfa níttu
goðs[1] rètti ser boðnum.

5. Eptir þat hèlt Sigurðr konúngr liði sínu til þeirrar borgar, er heitir Lissibón; hon stendr á Spáni, ok er hálf kristin en hálf heiðin; þar skilr Spán hinn kristna ok Spán hinn heiðna. Eru heruð þau öll heiðin, er vestr liggja þaðan. Þar átti Sigurðr konúngr hina þriðju orrostu við heiðna menn, ok fèkk sigr; aflaði hann þar fe mikit. Svå segir Halldórr skvaldri:

Suðr vann[2] sigr hinn þriðja
snjallr, við borg, þá er kalla,
lofðúngs kundr[3], er lendut,
Lissibón, á fróni[4].

Þaðan hèlt Sigurðr konúngr vestr fyrir Spán hinn heiðna, ok lagði til borgar þeirrar, er kölluð er Alkassa[5], ok átti[6] þar (hina) fjórðu orrostu við heiðna menn, ok vann borgina; drap hann þar fólk allt, þat er eigi flýði, en tók at herfángi fe allt, ok eyddi borgina, sem Halldórr segir:

Út frá ek yðr, þar er heitir
[Alkassi[7], styr hvassan,
fólk-þeysandi, fýsast
fjórða sinn at vinna:
[unnit frá ek[8] í einni

1) *M*; guðs, *A*. 2) vant, *M*, *Hk*. 3) *þannig Hk*; k., *M*; kind, *A*, *H*. 4) *Líka H án orðamunar*. 5) Alkasse, *E*. 6) *H*; áttu, *A*. 7) Alkass í, *A*, *H og M*, *þó óskírt*; *Alkasse*, *E*. 8) *H*, *Hk*; unnit frá, *M*; frá ek unnit, *A*.

eyddri borg til sorga
(hitti herr á flótta)
heiðins víſs, (at dríſa).

Þá hèlt[1] konúngr framm ferðinni, ok lagði út til Njörfasunda. Þar í sundunum varð fyrir þeim víkíngaherr mikill; lagði Sigurðr konúngr þegar til orrostu við þá; átti hann þessa hina fimtu orrostu við heiðíngja, ok hafði sigr. Svâ segir Halldórr:

Treystuzt egg fyrir austan
(yðr tjóði guð) rjóða
(náskári fló nýra)
Njörvasund[2], (til unda[3]).

6. Síðan hèlt Sigurðr konúngr her sínum austr hit syðra með Serklandi, ok kom til eyjar þeirrar er Forminterra[4] heitir. Þar hafði sezt herr mikill heiðinna manna[5] í helli nökkurn, ok gert steinvegg[6] fyrir framan hellismunnann[7]. Þeir herjuðu víða um landit, ok fluttu til hellis síns allt herfáng. Sigurðr konúngr gekk upp í eyju þeirri, ok fór til hellissins; hann var framan í bergi nökkuro, ok var mjök bratt[8] at gánga upp hallinn til steinveggsins, en bjargit skútti yfir framm. Heiðíngjar voru í hellinum, ok vörðu þaðan steinvegginn, ok hræddust þeir ekki vâpn Norðmanna; en heið-

1) hell, *M.* 2) Nörvasund, *M, Hk.* 3) *H hefir eingan orðamun.* 4) *þannig M;* Formitena, *A.* 5) blámanna, *Hk.* 6) *H, M;* steinveggi, *A.* 7) oc höſþo þat allt saman ser ſire borg, *b. v. M.* 8) viðbrect, *M.*

íngjar máttu bera grjót ok skot niðr undir fætr ser á þá; Norðmenn rèðu ok ekki at sinni upp undir steinvegginn. Þá tóku heiðnir menn pell ok dýrgripi, báru út á vegginn, ok skóku at Norðmönnum, æptu á þá ok frýðu þeim hugar. Þá leitaði Sigurðr konúngr ser ráðs. Hann lèt taka 2 skipbáta, er barkar eru kallaðir, ok draga upp á bergit fyrir[1] hellisdyrnar, ok lèt dreingja með köðlum digrum ok sterkum [allt undir innviðuna ok um stafnana[2]. Síðan gengu þarí svâ margir menn sem rúm höfðu[3]; lètu þeir þá síga skipin ofan fyrir hellinn með reipum. Þá skutu þeir ok grýttu, er á skipinu voru, svâ títt á heiðíngja, at þeir hrukku fyrir af steinvegginum[4] inn í hellinn; þvíat hlífar þeirra voru ekki traustar. Þá gekk Sigurðr konúngr með mestan hluta [liðs síns[5] upp í [bergit, ok brutu steinvegginn, ok komu svâ upp í hellinn[6]. Heiðíngjar flýðu undan inn í hellinn, um þann steinvegg, er hlaðinn var um þveran hellinn, ok vörðust þaðan. Svâ segir Halldórr:

> Böðstyrkir lèt[7] barka
> (bragníngs verk á Serkjum
> fræg hafa gerzt[8]) fyrir gýgjar
> gagnstig ofan síga:
> enn í hall at helli

1) yfir, *Hk.* 2) *v.* *í* *M.* 3) er scytar voro oc höfþo boga, *b.* *v.* *M.* 4) *Hk;* veggjunum, *A.* 5) liðsins, *H.* 6) hallinn undir steinvegginn, oc bruto upp hliþin, þvíat heiþíngjarnir vörþo þá ekki hliþin, *M.* 7) leztu, *E;* *en* Böþsterkir lèzt, *M.* 8) görzc, *M.*

hernenninn fjölmennum
Göndlarþíngs með gengi
gnýþróttr[1] neðan sótti[2].

[Svå segir Þórarinn stuttfeldr frá þessum atburð[3]:

Bauð[4] gramr [guma
gunnhagr[5] draga
byrvarga[6] á bjarg
blásvarta tvá;
þá er í reipum
ramdýr þrama
sigu fyrir hellis-
hlið-dyr með lið.

Þá lèt konúngr flytja til hellissins viðu stóra, ok gera bál mikit í hellisdyrunum, ok slá eldi í; en heiðíngjar, er eldr ok reykr sótti þá, lètu sumir af því líf sitt, en sumir gengu] undir vâpn Norðmanna, sem her segir:

Varð fyrir stafni
styrjar[7] auki[8],
[friðr raskaðist[9]
Formintera;
þar varð eggjar
ok eld þola

1) gnýþrótt, *H.* 2) sóttir, *Hk.* 3) *v. í M.* 4) Bað, *Hk.* 5) *sèst ekki í H, vegna gats á bókfellinu, er endar við merkit], þó sýnist þar einginn töluverðr orðamunr verið hafa.* 6) *M, Hk*; byvarga, *A.* 7) *H, Hk*; styrkar; *A.* 8) gjörnum, *Hk.* 9) friðraskaði, *E*; friðraskaðar, *Hk.*

Blámanna lið,
áðr bana fengi[1].

Var þar gjörsamliga drepit ok brent fólk allt, sem Halldórr segir:

Náði fólk þat er flýði
ferð skundliga[2] undan
(illr varð heimr[3] í helli)
heiðit konúngr[4] meiða
lífs bauð enn þá er unnut
aftíg gamall[5] vígi
(kvöl beið öld í eldi
úsæl) djöfuls þrælum[6].

Þar tóku þeir mest herfáng [einshversstaðar í þessi ferð[7].

7. Þaðan fór Sigurðr konúngr til þeirrar eyjar er Ívitza[8] heitir, ok átti þar hina sjöndu orrostu við heiðna menn. Svâ segir Halldórr:

Margdýrkaðr kom merkir[9]
morðhjóls skipa stóli
(fúss var fremdar ræsir[10]
frið-slits[11]) til[12] Ívitzu.

Eptir þat kom Sigurðr konúngr með liði sínu til eyjar þeirrar er menn[13] kalla Manörk[14]. Þar átti hann við heiðinn lýð hina áttu[15] orrostu, svâ sem Halldórr segir:

---

1) *Vls. v. í M.* 2) scundila, *M.* 3) hreimr, *H, M.* 4) k., *bundit, M.* 5) gamalt, *H, M.* 6) *Vls. v. í Hk.* 7) í einom stað, þess er þeir tóco í ferþinni, *M.* 8) Ivizta, *H.* 9) *sést eigi í M.* 10) *þannig H, M, Hk*; rásir, *A.* 11) *M; en A sýnist hafa* fyrir slits. 12) *H, M, Hk*; i, *A.* 13) Norðmenn, *H.* 14) *þannig einnig M*; Manork, *Hk.* 15) *A, H, Hk.*

Knátti enn hin[1] átta
oddhríð (háit[2] síðan
Finns [lèt gjáld[3]) í grænni
(grams ferð) Manörk verða.

8[4]. Sigurðr konúngr kom um vârit til Sikileyjar, ok dvaldist þar leingi. Þar rèð þá fyrir ríki Roðgeir hertogi, [hann fagnaði vel Sigurði konúngi, ok bauð honum til veizlu. Sigurðr konúngr kom þar með miklu liði, var þar dýrligr fagnaðr: ok stóð Roðgeir hertogi hvern dag frammi, ok þjónaði fyrir borði Sigurðar konúngs[5]: ok hinn átta[6] dag veizlunnar, þá er menn voru komnir til borðs, ok höfðu tekit handlaugar, þá tók Sigurðr konúngr í hönd jarlinum, ok leiddi hann upp í hásætit hjá ser, ok gaf honum konúngsnafn, ok þann rètt at hann skyldi vera konúngr yfir [Sikileyjarveldi, ok svâ jafnan síðan skyldi þar konúngr yfir vera[7], en áðr höfðu jarlar verit í því ríki[8]. Roðgeirr Sikileyjarkonúngr varð hinn ríkasti höfðíngi; hann vann Púl allan undir sik ok margar stóreyjar í Grikklandshafi[9]. Hann var kallaðr Roðgeir ríki. Hans son var Vilhjálmr konúngr í Sikiley, er leingi hafði úfrið við Miklagarðskeisera. Vilhjálmr konúngr átti 3 dætr, en eingan son, hann gipti eina dóttur

1) *E*; in, *H*; hinn, *A*; hina átto, *Hk*. 2) vakit *Hk*. 3) *E*; rauð gjöld, *A*, *H*. 4) *Hèr þykir vanta blað í M.* 5) *þannig H*; ok þjónaði at borði Sigurðar konúngs sjálfr at þeirri veizlu, er hann bauð honum til, var þar ærinn fagnaðr. *A*, *þykir þar vanta í nokkut.* 6) 7da, *Hk*. 7) því ríki meðan hann lifði, *H*. 8) *Hk smeygir hèr inn óekta kafla úr útgáfu Peringskjölds á nýrri íslenzku.* 9) Serklandshafi, *E*.

sína Heinreki keisera, syni Friðreks[1] keisera. Þeirra son var Friðrekr, er síðan varð Rómaborgarkeisari. Aðra dóttur Vilhjálms konúngs átti hertogi af Kipr. Hina þriðju dóttur Vilhjálms konúngs átti Margrit[2] yfirkúsari[3]. En Heinrekr keisari drap þá báða. Dóttur Roðgeirs ríka Sikileyjarkonúngs átti Manúli[4] keisari í Miklagarði, var þeirra son Kirjalax keisari.

9. Um sumarit sigldi Sigurðr konúngr út um Grikklandshaf til Jórsalalands. Hann kom af hafi við Akrsborg, ok lèt þar eptir skip sín. Svâ segir Einar Skúlason:

Húf lèt hilmir svífa
hafkaldan (lof Skaldi
esat[5] um alvalds risnu
einfalt) í Grikk-salti;
áðr við einkar breiða
auðlestir skip festi
(öll beið öld með stilli)
Akrsborg (fegins morgin).

Þaðan fór konúngr upp til Jórsalaborgar, [þá var Baldvini konúngr at Jórsölum, en er hann frètti til ferða Sigurðar konúngs, ok þat at hann ætlaði til borgarinnar[6], þá lèt hann taka ágæt klæði, ok breiða út á veginn fyrir, þar sem Sigurðr konúngr skyldi ríða til borgarinnar. Baldvini konúngr mælti þá til sinna manna: þat er yðr kunnigt, at nú mun koma vâr at vitja

1) *þannig Hk*; Heinreks *A, H.* 2) Margavit, *H.* 3) yfirkussari, *Hk.* 4) Manuel, *Hk.* 5) *Hk*; æsat, *A.* 6) *þannig H*; *v. í A.*

agætr konúngr norðan ör heimi; eru oss flutt mörg ok ágæt hans snildarverk, er hann hefir vunnit á heiðnu fólki, ok styrkta[1] svâ guðs kristni; því skulum ver veita honum mikla sæmd ok virðíng. En í þessum viðbúnaði megum ver reyna hans stórmensku ok ríkdóm: ef hann ríðr rèttan veg at borginni, ok lætr ser lítið umfinnast fyrirbúnað vârn, þá virði ek svâ at hann mun slíkri virðíng vanr í sínu ríki; en ef hann snýr af veginum, ok vill eigi ríða á klæðin, þá þykki mèr vân, at lítill mun vera ríkdómr [í hans[2] landi. Sigurðr konúngr reið (nú) voldulíga at borginni, reið hann þegar framm á klæðin, ok allir hans menn, ok gáfu ser ekki um viðbúnaðinn, þvíat konúngr hafði svâ boðit áðr sínum mönnum, at þeir skyldi láta ser lítið umfinnast, þótt þeir sæi nökkurar nýlundur. Jórsalakonúngr tók við honum með mikilli virðíngu, ok reið með honum út til Jórdánar, ok svâ aptr til Jórsalaborgar. Laugaðist Sigurðr konúngr í ánni Jórdán. Svâ segir Einar:

Get ek þess er[3] gramr fór vitja
(glygs) Jórsala-bygðar
(meðr vituð[4] auðlíng æðra)
ógnblíðr (und sal víðum);
ok leyghati laugast
(leyft ráð var þat) náði

1) styrkja, *H.* 2) hans í sínu, *H.* 3) *v. i H.* 4) *Hk*; vittu, *A*; *en H hefir* mæðr vita.

hauka-fróns í hreinu
[hvatt Jórdánar vatni[1].

Sigurðr konúngr dvaldist mjök leingi í Jórsalalandi um haustit ok öndverðan vetr.

10. Baldvini konúngr veitti Sigurði konúngi agæta veizlu ok öllu liði hans; ok er þeir sátu einn dag báðir samt konúngarnir með mikilli gleði ok skemtan margháttaðri, þá mælti Baldvini konúngr: Ver höfum spurt til margra stórvirkja ok ágætra hluta, er gerzt hafa í yðrum ferðum, herra Sigurðr konúngr! er oss mikil gleði á yðvarri kvâmu híngat í land vârt; hafit þer [sem ek vænti[2] aflat yðr guðs miskunnar ok sáluhjálpar, en veitt oss veraldliga sæmd með vitjan yðvarrar tignar. Nú skulum ver þarímót veita yðr vírðing framar en nökkurum öðrum höfðíngja, þeim sem higat hefir sótt á vârum dögum. Þiggit af oss einnhvern þann hlut, sem yðr sýnist bæði sjálfum yðr mest sæmd ok landi yðru virðulig tign. Sigurðr konúngr svarar: Guð þakki yðr, herra! ok svâ viljum ver, góð orð ok virðuligar viðtökur ok þetta sæmdarboð, er þer hafit nú veitt oss, en ver viljum hugsa fyrir oss um kjörit, ok kveða síðar upp. Veizla sú stóð marga daga með mikilli prýði. Sigurðr konúngr hugsaði optliga, hvat hann skal þess kjósa, er honum se mest til frama, ok hugsaðist honum svâ til, at þat mætti honum verða mest höfuðgæfa bæði í bráð ok leingdar, ef hann

1) hvatr Jordánar vatri, *Hk.* 2) *þannig lika H.*

fengi at þiggja af krossinum helga, er vârr drottinn var píndr á; þvíat eingi maðr hafði fyrr náð, norðr higat í lönd, at þiggja af þeim helgum dómi krossins, er at Jórsölum er varðveitr; en af þeim var miðlat, sem í Miklagarði var, en sá hafði firr verit vârs drottins líkama. Þvíat krossinn var sagaðr í sundr eptir miðju at ráði Helenu drotníngar, ok lèt hon þá búa um hvârntveggja krossinn, ok sendi þann til Miklagarðs Konstantínó syni sínum, er á bak hafði verit, þá er Kristr var píndr, en hinn var eptir at Jórsölum, er mest var dreyrarunninn af drottins sárum. Litlu síðar, sem konúngar hittust, lèzt Sigurðr konúngr hugsat hafa kjörit, ok rèðu þeir með ser, at Baldvini konúngr skal láta þíngs kveðja. En er þíng var sett, talaði Sigurðr konúngr, ok sagði hversu mikla ok margfalda virðíng Jórsalakonúngr veitti honum: ok er oss þó einna mest, segir hann, þökk á því mikla sæmdarboði, er hann bað mik kjósa einn hinn agætasta hlut af sínu ríki, ok nú höfum ver kjörit, sem guð kendi oss; en þat er af hinum dýrðarfulla krossi, er várr drottinn var píndr á. Þá svarar Baldvini konúngr: þetta vandamál, Sigurðr konúngr, er þer beiðizt af hinum helga krossi, verðum ver at ræða[1] ok ráða við höfðíngja landsins, ok forstjóra kristninnar, at eigi megi sva virðast, at ver takim þetta með einræði vâru, er svâ mikit liggr við, því[2] eingi

1) *áforma, H.* 2) *þannig H*; *ok, A.*

hefir fyrr svâ ríkr higat komit, at þessu hafi náð. En eigi vildim ver, Sigurðr konúngr, þessu yðr neitta[1], ef þat þætti lærðum mönnum ok vitrum vera mega. Ræddu þeir þá málit sín í milli, Baldvini konúngr ok patríarka ok aðrir biskupar ok spekíngar; leitaði konúngr ráða við þá, hversu bezt mætti fyrir þessu sjá, ok öllum þeim væri minnst ábyrgð á því ráði, sem tekit væri, en þeir skutu allir á konúngs vald, at hann sæi fyrir, en fýstu þó heldr at hann fengi eigi svâ helgan dóm í hendr Sigurði konúngi. Baldvini konúngr mælti: Guðs forsjá mun heryfir standa, ok þess skulum ver biðja, at guð láti oss því framfara herum, sem honum er[2] mest dýrð í, en oss se eigi sáluháski. Ek hefi spurt, at í því landi, sem Sigurðr er konúngr yfir, se fólk kristið ok mart vel siðat; þar er ok í því ríki einn ágætr staðr, ok í þeim stað hvílir dýrðligr ok heilagr konúngr, er Ólafr heitir; [vinnr allsvaldandi guð fyrir hans verðleika mörg tákn ok stór[3]. Nú víl ek þessum helga konúngi gefa af krossinum, ok til þess hins helga staðar, sem hann hvílir, ok prýða svâ ríki Sigurðar konúngs með helgum dómi krossins, ef hann vill þat sverja, at hann skal í þann stað flytja krossinn, ok þar vera láta, en hvergi annarsstaðar. Þetta samþykktu þeir allir, sem konúngr mælti. Síðan sagði Baldvini konúngr Sigurði konúngi þessa

1) neita, *H.* 2) sé, *H.* 3) vinr allsvaldanda guðs fyrir sina verðleika, *H.*

ráðagjörð. Nú viljum ver fá þer í hendr, segir hann, af hinum helga krossi með þeim skildaga, at þú skalt áðr sverja oss, ok 11[1] áðrir hinir göfgustu menn af þínu liði, at færa þenna helgan dóm til hins heilaga Ólafs konúngs, ok láta þar vera, með þeim öðrum hlutum, sem ver viljum undir eiðstafinn skilja. Þá svarar Sigurðr konúngr: þat mun vera mælt, herra! þá er ek kem heim í mitt ríki, at þat se nokkur fölnan minnar sæmdar, ef ek hefi [til þess[2] farit til Jórsala, at vinna þar tylftareið; en þó mun ek til þess hætta, ef þer, herra! ok patríarkinn við tólfta mann sverit þat, at þer fáit mer af þeim sama krossi, er sjálfr guðs son þoldi á pínsl ok dauða, en eigi af nökkuru öðru tre. Þeir játtuðu því. Var þá tekinn spánn af krossinum helga; fóru síðan eiðar framm eptir þeim skildögum af hvârra hendi, sem áðr var tínt. Þat var ok skilt[3] undir eiðstaf Sigurðar konúngs, at hann skyldi fremja ok styrkja kristinu dóm í sínu ríki með öllum mætti sínum, ok koma erkibiskups stól í Noreg, ef hann mætti, ok láta vera at hins heilaga Ólafs bæði ok helgan dóm krossins. Hann skyldi ok bjóða tíundargjald í sínu landi, ok gera sjálfr. Síðan var sá heilagr dómr fenginn Sigurði konúngi, með þeim hætti sem nú var sagt. Marga aðra helga dóma gaf Jórsalakonúngr honum, ok þarmeð marga dýrgripi ok gersimar. Aflaði Sigurðr

1) *þannig H; v. í A.* 2) *H; v. í A.* 3) skilit, *H.*

konúngr ser á Jórsalalandi sem annarsstaðar mikillar fremdar ok frama. Hann laugaðist í Jórdán, sem áðr er sagt. Þess getr Þórarinn stuttfeldr:

Ey[1] mun uppi
Endils meðan stendr
Sólborgarsalr
[svörgæðis fjör[2];
Þú hefir í vátri
vegsamr þvegizt
geirs gnýstýrir[3]
grans[4] Jórdani[5].

Sigurðr konúngr offraði miklu fe til grafar drottins, ok annarra helgra staða, þar er hann fór. Svâ segir Þórarinn:

Varðir Hörða
hvatr fylkir at
gröf [guðs lofs
skulut[6] kviksáttar[7]
á skín æfa
Ygs[8] fjöldyggra
sól svan-gæli,
siklíngr! en þik[9].

11. Þessu næst fór Sigurðr konúngr ofan til Akrsborgar til skipa sinna. Þá bjó ok Baldvini konúngr her sinn, [at fara á Sýrland[10] til borgar þeirrar er Sætt heitir; sú borg var heiðin. [Til þeirrar farar með honum rèðst Sigurðr

1) œ, *H.* 2) svargæðis favr, *H.* 3) gnýstærir, *H.* 4) grams, *H.* 5) *Vís. v. í Hk.* 6) góðu gulli glaðr, *H.* 7) kviksættar, *H.* 8) Yggs, *H.* 9) *Vís. v. í Hk; er þar allr þessi kap. mjög samandreginn, og ræðunum sleppt.* 10) ok sigldu fram til Sýrlands, *H; en* rèðst *er lagfært fyrir* rèðu, *A.*

konúngr[1]. [Þeir settust[2] um borgina, ok höfðu[3] litla hríð umsetið, áðr heiðnir menn gáfust upp, ok [eignaðust konúngar[4] borgina ok mikit annat herfáng. Sigurðr (konúngr) gaf Jórsalakonúngi borgina; þess getr Halldórr skvaldri:

Borg heiðna[5] þátt[6], bræðir
benja-tíkr! af ríki,
(háðist hverr við prýði
hildr), en gaft af mildi.

En eigi gáfu heiðíngjar fyrr upp borgina, en þeir sá at vunnin myndi verða, þvíat [konúngar börðust[7] á hana bæði með vâpnum ok vígvèlum, sem Einar Skúlason segir:

Sætt frá ek [deili dróttar[8]
(dreingr minnist þess[9]) vinna;
tóku hvast í Hristar-
hríð valsslaungur ríða:
styrkr[10] braut vâlikt virki
vals-munnlituðr gunnar,
fögr ruðust sverð, en[11] sigri
snarr bragníngr [hlaut fagna[12].

Eptir þat fór Sigurðr konúngr til skipa sinna, ok bjóst brott af Jórsalalandi. Þeir silgdu norðr til eyjar þeirrar, er heitir Kipr, ok dvaldist Sigurðr konúngr þar um hríð, fór hann þaðan[13] til Grikklands, ok lagðist[14] öllu liðiun út við

---

1) *V. í H.* 2) Sigurðr konúngr settist, *H.* 3) hafði, *H.* 4) eignaðist hann, *H.* 5) eina, *H.* 6) tókt, *Hk.* 7) *þannig líka H.* 8) dæla drottinn, *Hk.* 9) þat, *H.* 10) starkr, *H*; sterkr, *Hk.* 11) i, *H.* 12) fagnar, *Hk.* 13) þatan, *H.* 14) lagði, *H.*

Eingilsnes[1], ok lá þar hálfan mánuð, ok var hvern dag raðbyri, at sigla norðr eptir hafinu til Miklagarðs; en hann vildi bíða þess byrjar, er þverskeytíngr væri, ok seglum mætti aka at endilaungum skipum, fyrir því at öll hans segl voru sett pellum, bæði þat er aptr vissi ok framm, þvíat hvârigir, aptrbyggjar ne hinir er framm voru, vildu sjá hit úfegra seglanna.

12. Þá er Sigurðr konúngr hèlt inn til Miklagarðs, þá sigldu þeir nær landi; þar eru allt á landit upp borgir ok kastalar ok þorp, svâ at hvergi slítr; þá sá af landi í bug allra seglanna, svâ at hvergi bar milli, sem einn veggr væri. Allt fólk var úti, [þat er sjá mátti[2] siglíng þeirra. Spurt hafði ok Kirjalax keisari til ferða Sigurðar konúngs, ok lèt hann upplúka [borgarhlið þat[3] á Miklagarði, er gullvarta heitir; þat hlið skyldi innríða keisarinn, þá er hann hefði leingi á brott verit af Miklagarði, ok hafi vel sigrazt. Þá lèt keisarinn breiða niðr pell um öll stræti borgarinnar til Laktjarna; þar eru keiserahallir hinar ægæztu. Þat er sagt at Sigurðr konúngr lèti með gulli skúa hesta sína, [ok sinna manna[4], áðr hann reið í borgina. Þá mælti hann til sinna manna, at þeir skyldu ríða ríkmannliga, ok volduliga í borgina, ok láta ser lítið finnast um alla nýbreytni, líta ok eigi til, þótt[5] skú-

1) Aungulsnes, *H.* 2) at sjá, *H.* 3) borgarhliði því, *H.* 4) *v. í H.* 5) *Hèr kemr aptr til M, þó ero þau næstfylgjandi blöð þar mjög rángt innbundin.*

arnir hryti undan hestum þeirra, ok svâ gerðu þeir[1]. Reið Sigurðr konúngr ok allir hans menn með þvílíkan prís í Miklagarð, ok svâ til keiserans hallar hinnar ágætastu, ok var þar allvel fyrir þeim búit. En er Sigurðr konúngr var í sæti kominn ok menn hans, þá komu þarinn tveir sendimenn Kirjalax keisera, ok báru milli sín [fulla tösku af gulli ok silfri[2], ok sögðu at keiserinn sendi þetta fe Sigurði konúngi. Hann leit eigi til, en bað menn sína taka ok skipta með ser. Sendimenn fóru aptr, ok sögðu keiseranum. Hann mælti: sjá konúngr mun vera stórum ríkr ok auðigr, er honum þykir ekki þurfa til slíkra hluta at hneigjast, eðr gjalda þakksamlig[3] orð móti. Bað hann þá nú fara með stóra *cisternam* fulla af gulli. Þeir gerðu svâ, ok komo[4] fyrir Sigurð konúng, ok sögðu at stólkonúngrinn sendi honum þetta fe. Hann svarar þá: þetta er mikit fe; takit mínir menn, ok skipti með yðr. Þeir fóru aptr, er sendir voru, ok sögðu keisera hans ummæli. Hànn mælti: tveim mun skipta um konúng þenna, at hann mun vera [yfirkonúngr flestra annarra[5] at ríki ok auðæfum; eðr mun hann eigi vera svâ vitr, sem ríkum konúngi hæfir. Farit nú [ok færit honum þessa *cisternam* vel fylda af

---

1) en keisarinn lèt fara í móti þeim með leica oc söngfæri, *b. v. M.* 2) í miklum oc stórom töscom bæþi gull oc silfr, *M.* 3) loflig, *M, Hk.* 4) enn, *b. v. M.* 5) yfir öðrum konúngum, *M, Hk.*

rauðu gulli[1], ok lagði keiseri þar ofan á 2 digra gullhrínga. En er þeir komu með þetta fe fyrir Sigurð konúng, ok sögðu at Garðskonúngrinn sendi honum, þá stóð hann upp í móti; tók hann hríngana, ok dró á hönd ser. Síðan talaði hann eyrindi á girzku[2], ok þakkaði keiseranum með fögrum orðum sína[3] stórlyndi; tók nú ok skipti sjálfr þessu fe með sínum mönnum, ok fèkk af þessu mikla virðíng[4].

13. Dvaldist Sigurðr konúngr þar nú nökkura hríð. Þá sendi Kirjalax keisari menn til hans at spyrja, hvârt hann vildi heldr þiggja af keiseranum 6 skippund af gulli[5], eðr vill hann at stólkonúngrinn láti efna til leiks þess, er hann var vanr at láta[6] leika á Paðreimi. Sigurðr konúngr kjöri[7] heldr leikinn. Sendimenn sögðu at keiserann kostaði eigi minna fe leikinn, en þetta gull. Þá lèt keiserinn efna til leiks, ok var leikit at vanda, ok veittu allir leikar betr konúngi [en drotníngu[8] í þat sinni. Drotníng átti hálfan leikinn, ok keptust í öllum leikum menn þeirra, ok segja Grikkir, at þá er konúngr vinnr fleiri leika á Paðreimi en drotníng, at þá mun konúngr vinna sigr, ef hann fer herferð. Þat segja menn, þeir sem verit hafa í Mikl-

---

1) þrlþja sinne, oc førit honum et dýrsta purpuragull, oc hrocaþa af því þessa cisterna, *M.* 2) gricsco, *M.* 3) *þannig líka H, M.* 4) af keisaranum, oc gerþiz svâ til eptir þat, at þeir sáto í eino hásæti, keisarinn oc Sigurðr konúngr, *b. v. M.* 5) ok silfri, *b. v. H*; af rauþo gulli, *M, Hk.* 6) *M, Hk; v. í A, H.* 7) kaus, *M.* 8) *H, M; v. í A.*

agarði, at Paðreimr se á þá leið gjörr [at veggr hárr er settr[1] um einn völl, [svâ til at jafna, sem eitt tún vítt vel ok krínglótt[2], ok [gráður umhverfis með steinvegginum[3], ok sitja menn þará, en leikrinn er á vellinum; eru þar skrifuð margskonar forntíðindi, Æsir, Völsúngar[4] ok Gjúkúngar, steypt af kopar ok málmi, með svâ miklum hagleik at þat þykkir allt kvikt vera, ok sýnist mönnum sem þeir komi í leikinn; er leikrinn settr með svâ miklum brögðum ok vèlum; at svâ sýnist sem menn ríði í lopti. Þar er viðhafðr skoteldr, [ok sumt af forneskjo; þar við ero höfþ allskonar söngføri[5] organ, sinfon[6] ok salterium, hörpur og gígjur[7] ok allskonar streingleikar.

14. Svâ er sagt at Sigurðr konúngr skyldi veita keiseranum snæðíng einn dag, ok bað hann sína menn sköruliga tilbúa alla hluti, þá er hafa þurfti til þeirrar veizlu; ok þá er til var aflat allra hluta, sem sómdi at veita tignum mönnum, þá mælti Sigurðr konúngr at menn hans skyldi gánga á þat stræti borgarinnar, sem eldiviðr var keyptr, sagði atþeir myndi mikinn þurfa. Þeir sögðu at eigi þurfti konúngr ugga, at við-

1) *M, Hk; v. í A.* 2) nær túns vídd, krínglóttan', *E*; svâ til at jafna sem túnsvið kringlótt, *Hk.* 3) garðar umhverfis með steinveggjum, *H*; garðr u. m. st., *Hk ámóti búðum skinnbókum, hefir E* gráðor, *en Å* gráðr. 4) Volsúngar, *Hk.* 5) *þannig M; v. í A, H.* 6) *v. í M.* 7) oc fiþlur, *b. v. M.*

inn myndi skorta, þvíat mörgum hlössum var ekit í borgina hvern dag. En[1] er þeir ætluðu at taka, þá var brottu allr viðrinn; ok sögðu þat konúngi. Konúngr mælti: farit þá ok vitit, ef þer fáit valhnetr[2], eigi munum ver þeim kunna síðr at elda. Þeir fóru ok fengu [svâ miklar[3] sem þeir vildu. Þvínæst kom keisarinn ok höfðíngjar hans ok hirð, ok settust saman með sæmd, ok veitti Sigurðr konúngr með margfaldri prýði ok miklu kappi. Ok er þat fann keisarinn ok drotníng, at þar skorti eingan hlut, þá sendi hon menn til at vita, hverju þeir eldi. Þeir koma at húsi einu, ok sá at þat var fullt af valhnotum, fóru síðan ok sögðu drotníngu. Hon mælti: víst er þessi konúngr stórlyndr, ok mun fátt tilspara síns sóma, eingi viðr logar betr en valhnetr; en þetta hafði hon gert til raunar, hvert ráð Sigurðr konúngr tæki, er hon lèti bera frá þeim eldiviðinn.

15. Eptir þetta bjóst Sigurðr konúngr til heimferðar. Hann gaf keiseranum öll skip sín, ok voru höfuð gullbúin á því skipi, er konúngr hafði stýrt[4]. [Þau höfuð voru sett upp á Petrskirkju[5]. Kirjalax keisari gaf Sigurði konúngi marga hesta, ok fèkk honum leiðtoga um allt

1) oc nú bjósc svâ um, *M.* 2) *þannig líka E*; valhnötr, *M.* 3) þeirra svâ mikit, *M.* 4) oc voro þau scip lengi síþan höfþ til sýnis í Micla-garði, oc sett þar upp, *b. v. M.* 5) þat er sagt at Sigurðr konúngr tóc af scipi sínu höfut mikit oc mjöc vandat, oc setti í Petrskirkjo, *M.*

sitt ríki. Þá fór Sigurðr konúngr brott af Miklagarði, en eptir dvaldist mikill hluti manna hans, ok gekk á mála[1]. Sigurðr konúngr fór utan of Bolgaraland ok þá um Úngaraland, of[2] Pannoníam ok Svafa ok Bæjaraland[3]. Þar fann hann Lótaríum [Rómaborgarkeisera[4], ok fagnaði (hann) Sigurði konúngi forkunnar vel, fèkk honum leiðtoga um allt sitt ríki, ok lèt halda honum torg, svâ sem hann þurfti, til allra sinna kaupa. En er Sigurðr konúngr kom sunnan í Danmörk í[5] Slæsvík[6], þá fann hann þar Eilíf jarl, fagnaði (hann) honum vel ok veitti honum dýrðliga veizlu. Þat var um miðsumarskeið. Í Heiðabæ fann hann Nikolás Sveinsson Danakonúng, tók hann við honum með fagnaði, ok fylgdi honum sjálfr norðr á Jótland, ok gaf honum skip með öllum búnaði, þat er hann hafði [í Noreg[7]. Fór þá Sigurðr konúngr heim 1110
í ríki sitt, var honum þar vel fagnat, [sem skáldit segir;

Herr hauksnörum
harðmóðigr varð[8]. . .

Ok er þat mál manna, at eingi hafi meiri virðíngarför farin verit ör Noregi en þessi var.

[1]) þá mælti spekíngr einn í Miclagarþi, at svâ mondi fara virþíng Sigurðar konúngs sem it úarga dýr er vaxit, geyst í bógonom oc aptr minna; lèt at svâ mondi fara hans konúngdómr, at þá mondi mest um þiccja vert en siþar minna, *b. v. M.* [2]) um, *H.* [3]) Bejaraland, *H.* [4]) konúng Rómaborgar, *H*; í Svafa *b. v. M, E, Hk.* [5]) ok, *A.* [6]) Slèsvík, *H.* [7]) *þannig H*; í Nor. *M*, í Noregi *A.* [8]) *v. í Hk.*

þá var Sigurðr konúngr tvítögr at aldri, en Eysteinn konúngr vetri ellri[1]. [Ólafr konúngr bróðir þeirra var þá 12 vetra[2]. Sigurðr konúngr hafði verit þrjá vetr í þessi ferð.

16. Eysteinn konúngr hafði [mart sýst[3] í landinu, þat er nytsemd var í, meðan Sigurðr konúngr var í útferðinni[4]. Hann lèt reisa Mikjalskirkju ok múnkaklaustr í Norðnesi í Björgyn, ok lagði þar fe mikit til, þat var hit vegligsta steinmustari[5]. Hann lèt þar gera postulakirkju í konúngsgarði; þar lèt hann ok gjöra höll hina miklu, er vegligast trehús hefir gert verit í Noregi; hann lèt ok gera kirkju á Agðanesi, ok þar virki ok höfn, er áðr var öræfi; hann lèt ok gera í Niðarósi í konúngsgarði Nikoláskirkju, ok var þat hús allmjök vandat at efnum[6] ok smíð. Hann lèt ok gera kirkju norðr í Vâgum á Hálogalandi, ok lagði próventur til. [Hann lèt ok gera dreka hinn mikla, er gjörr var í glíkíng þess, sem verit hafði Ormrinn lángi; hann auðgaði konúngdóminn með mörgum farsælligum hlutum[7].

17. Eysteinn konúngr gerði orð hinum vitrustu mönnum á Jamtalandi, ok bauð þeim til sín, [ok fagnaði með[8] blíðu mikilli öllum

---

1) ýngri, *M.* 2) Ero nú margir staþir í Noregi scrýddir af þeim gersim*om* *er* þá flutti Sigurðr konúngr í land; hann gaf til kirkjo ens helga Olafs konúngs eign micla oc dýrliga, *M.* 3) oc eigi ekki atsýst, *M.* 4) *M*; utanferðinni, *A.* 5) *þannig lika, H.* 6) skurðom, *Hk.* 7) *v. í Hk.* 8) *þannig H*; með fagnað iok, *A.*

þeim er komu, ok leiddi brott með vingjöfum[1]; teygði hann þá svâ til vináttu við sik. En er þeir vöndust margir at fara til hans, ok þágu gjafir hans, en sumum sendi hann gjafir, þeim sem eigi komu; þá kom hann sèr í fulla vináttu við alla höfðíngja í landinu ok ríka bændr. Síðan taldi hann fyrir þeim, ok sagði[2] at Jamtr[3] höfðu þat illa gert, er þeir höfðu snúizt brott frá Noregs konúngum í hlýðni ok skattgjöfum; tók þar til máls er Jamtr höfðu gengit undir ríki Hákonar Aðalsteinsfóstra, ok verit leingi síðan lýðskyldir undir Noregs konúnga; inti hann ok þat, hversu mörg þarfindi þeir mætti hafa af Noregi, eðr hversu [mikil úmakindi[4] þeim var þat at sækja Svíakonúng, um þat er þeir þurftu: kom hann svâ sínum fortölum, at Jamtr sjálfir báðu ok buðu honum sína þjónustu, ok snúast til hlýðni við Noregs konúnga, ok költuðu þat þurft sína ok nauðsyn; dró svâ saman þeirra felagskap, at Jamtr gáfu landit undir Eysteins konúngs ríki, ok svörðu[5] honum landit, ok hefir þat jafnan haldizt síðan. Vann Eysteinn konúngr Jamtaland með viti en eigi áhlaupum sem sumir hans forellrar.

18. Eysteinn konúngr var fríðr maðr sýnum, bláeygðr ok nökkut opineygðr, bleikhárr ok hrokkinhárr[6], meðalmaðr á vöxt, spekíngr at viti,

1) oc lèt þá coma í bliþo micla við sie, oc gaddi þá gjofom, *M.* 2) *H*; sögðu, *A.* 3) Jamtar, *H allstaðar.* 4) mjkit ómak, *H.* 5) sóru, *H.* 6) ekki hárr, *b. v. A, Hk*; *en v. í H, M, E. og þykir ofaukit.*

at öllu fróðr, lögum ok dæmum[1], mannfræði ok ættvísi, ráðsnjallr, orðspakr, manna glaðastr ok lítillátastr, hugþekkr ok ástsæll allri alþýðu. Hann atti Íngibjörgu, dóttur [Guttorms Steigar-þórissonar. Þeirra dóttir var[2] María[3], er síðan átti Guðbrandr Skafhogsson[4].

Sigurðr konúngr var mikill maðr vexti, jarpr á hár, sköruligr, ekki fagr, vel vaxinn, fámæltr optast, ekki þýðr, fástúðigr, lítttalaðr á þíngum, siðlátr ok veglátr, stjórnsamr ok refsíngasamr, [ekki[5] mjök lögkænn[6], ok hèlt vel lögin, hann var mildr af fe, ríkr konúngr ok ágætr um marga hluti.

Ólafr konúngr var hárr maðr á vöxt ok fríðr sýnum, glaðr ok lítillátr ok vinsæll við alþýðu. Þeir bræðr Eysteinn, Sigurðr ok Ólafr, þá er þeir voru konúngar at Noregi, þá tóku þeir af fólkinu margar álögur, þær sem Danir höfðu lagt á landslýðinn, þá er Sveinn Alfívuson rèð Noregi, ok vurðu þeir af því stórum vinsælir[7].

19. Eysteinn konúngr hafði í marga staði bætt rètt landsmanna, ok hèlt hann vel upp lögúnum. Hann gerði ser kunnig öll lög í Noregi, var hann spekíngr mikill at viti. Á þeima[8] hlut, sem eptir ferr, má marka, hverr ágætismaðr Eysteinn konúngr var at ráðspeki, eðr

1) dæmisögum, *H.* 2) Steigar-þóris, þeirra börn voro Gothormr oc, *M.* 3) Marta, *H.* 4) Skafhaugsson, *H*; *Hk.* Scafhøgssonr, *M.* 5) *H; v. í A.* 6) ekki mikill lagamaþr, *M*, 7) *Sjá bls. 75, athgr. 1.* 8) *þannig einnig H.*

hversu vinhollr hann var, ok hugkæmr eptir at leita við vini sína, hvat þeim væri at harmi, ef hann sá (þá) úglaða. Sá maðr var með honum, er hèt Ívar, ok var Íngimundarson, hann var íslenzkr, vitr maðr ok ættstórr. Konúngr var ástsamliga til hans, sem sýnast mun. [Þorfinnr hèt bróðir Ívars, hann fór ok utan á fund Eysteins konúngs, ok naut hann þar frá mörgum mönnum bróður síns; en Þorfinnr öfundaði þat, er mönnum þótti hann eigi jafnmenni bróður síns, ok þurfti hans at njóta, ok undi hann því eigi með konúngi, ok bjóst til Íslands. En áðr þeir bræðr skildu, mælti Ívar til Þorfinns: Nú vil ek, bróðir, bjóða þer eyrindi út til Íslands: þú kennir konu þá, er heitir Oddný, ok er Jóans[1] dóttir, ber þú henni þau mín orð með kveðjusendíng, at hon giptist eigi öðrum manni en mer, þvíat hon er svâ af konum, at[2] mer leikr helzt hugr á. Síðan fór Þorfinnr út til Íslands, ok rak ekki eyrindi bróður síns, heldr bað hann þeirrar konu, Oddnýar, ser til handa, ok var hon honum gipt. Litlu síðar kom Ívar út[3], ok þótti Þorfinnr illa hafa [fyrir ser[4] gert, ok undi hann lítt við svâ búit. Fór hann þá aptr til Noregs, ok var enn með Eysteini konúngi í góðu yfirlæti[5]. Hann tók þá fáleika ok úgleði; en er konúngr fann þat, þá heimti hann Ívar á eintal, ok spurði hví hann var úglaðr: en

1) Jóns, *H.* 2) *H*; er, *A.* 3) oc frá þetta, *b. v. M.* 4) við sig, *H*; or haft viþ sic, *M.* 5) *Frá* [Þorfinnr *v. í Hk.*

fyrr, er þú vart með oss, var mikil skemtan at ræðum þínum jafnan; en eigi leita ek því eptir; veit ek at þú ert svâ vitr maðr, at þú munt þat sjá kunna, sem ek veit, at ek hefi eingan hlut afgert við þik[1]; nú seg mer, hvat er. Ívar svarar: þat sem er, herra! má ek ekki frásegja. Konúngr mælti: þá mun ek geta til, eru þeir nokkurir her, er þer getist eigi at? Eigi er þat, herra! segir Ívar. Konúngr mælti: þykkist þú af mer hafa minna sóma en þú vildir? Hann kvað eigi þat vera. Konúngr mælti: hefir þú sèt nokkura þá hluti, at þer hafi svâ mikit umfundizt, at þer þykkir þat illa. Hann lèt ekki þat vera. Konúngr mælti: fýsir þik til annarra höfðíngja? Hann segir þat fjarri fara. Konúngr mælti: vandast mun oss nú at geta; eru nökkurar konur þær [her eðr á öðrum löndum[2], er þer se eptirsjá at? Hann sagði at þat væri[3]. Konúngr mælti: ver eigi þarum hugsjukr; ef sú kona er á Íslandi, þá far þú út, þegar er vârar; mun ek fá þer bæði fe ok sæmdir, ok þarmeð brèf mitt ok innsigli, [til þeirra manna[4], er ráða[5] eigu fyrir kosti þeirrar konu, ok veit ek eigi þeirra manna vânir, at eigi hneigist fyrir mínum vinmælum eðr ógnarorðum[6]. Þúngligar

---

1) ertu oc svâ vitr maþr at eigi mantu grun draga af því er eigi er, *b. v. H.* 2) á yþro landi, *M.* 3) var satt, *H.* 4) *M, H, Hk*; *v. í A.* 5) *M, H*; ráð, *A.* 6) Ivar svarar: eigi má svâ vera. Konúngr mælti: eingi veg má þess vera, segir konúngr; þat mon ec mæla framar, þó at annar maþr eigi hana, þá mon ec þó ná, ef ec vil, þer til handa, *b. v. M.*

er tilfarit[1], herra! segir hann, bróðir minn á þessa konu. Hverfum þar þá frá, segir konúngr, se ek þar gott ráð við[2]: þegar eptir jól mun ek fara á veizlur, ok far þú með mer, munþú þá sjá margar kurteisar konur, ok ef eigi eru konúngbornar, þá mun ek fá þer einhverja. Ívar svarar: herra! því er þúngligar komit mínu máli, herra! at ávalt er ek se[3] fagrar konur ok dreingiligar, þá minnir mik þessarrar konu, ok er minn harmr æ því meiri. Konúngr mælti: þá mun ek gefa þer forræði nökkur ok eigur, at þú skemtir þer við þat. Hann svarar: ekki uni ek því. Konúngr mælti: þá fæ ek þer lausafe, ok far þú kaupferð, þagat[4] sem þú vill. Hann sagðist ekki þat vilja[5]. Konúngr mælti: vandast mun mer nú eptir at leita, [því at ek hefi nú[6] eptirleitað sem ek kann. Nú er einn hlutr eptir, ok er þessi lítilsverðr hjá þessum, sem ek hefi boðit þer, en þó má eigi vita, hvat helzt hlýðir; farþú nú á fund minn hvern dag, þá er borð eru uppi, ef ek sit eigi yfir vandamálum[7], ok mun ek tala[8] við þik um konu þessa, allavega sem þú vill, ok í hug má koma, ok mun ek gefa mer tóm til þessa: því at þat kann henda, at mönnum verðr[9] harms síns lèttara, ef um er talað; ok þat skal þessu fylgja, at þú

1) varit, *H.* 2) til, *H.* 3) sec, *M.* 4) til landa, *b. v. H, M, Hk.* 5) vildo, *M.* 6) en þó má eigi vita, hvat helzt hlýðir; hefir ek, *H.* 7) nauðsynjamálom, *M.* 8) hjala, *M.* 9) verði, *H.*

skalt aldri gjaflaust af mínum fundi fara. Hann svarar: þetta vil ek, herra! ok háfit mikla þökk fyriryðra eptirleitan. Nú gerðu þeir svâ, at jafnan er konúngr sat eigi yfir vandamálum, þá talaði hann við Ívar um þessa kunu[1]; ok bættist honum skjótt, svâ at litlu síðar var hann glaðr ok kátr, sem hann hafði fyrr verit. Var hann síðan með Eysteini konúngi, ok undi[2] vel.

20. Þat er sagt at Sigurðr konúngr tók úgleði mikla, mátti lítt njóta tals hans, ok sat hann skömmum við drykk. Þat þótti ráðgjöfum hans ok vinum þúngt; báðu þeir Eystein konúng gefa til nokkur ráð, svâ at hann yrði viss, hverju gegndi, er menn fengu eingan örskurð mála sinna[3], er Sigurð konúng sóttu at. Eysteinn konúngr svarar: vant þykki mer at leita eptir slíkum hlutum við Sigurð konúng; en þó fyrir bæn manna varð þat at hann hèt (því). Ok eitthvert sinn, er þeir voru báðir saman, vakti Eysteinn konúngr til, ok spurði hvat vyldi[4] úgleði hans: er þat, herra! sagði hann, margs manns hrygð, vildim ver vita hvat tilheldr[5], eða hafit þer nökkur tíðindi fregit, svâ at þat se stórra hluta vert. Sigurðr konúngr svarar: eigi er þat. Eysteinn konúngr mælti: er þat þá, bróðir! at þer vilit fara ör landi, ok afla enn meira ríkis, sem [fyrr gerðut þer[6] ? Hann kvað þat eigi vera. Eysteinn mælti: eru nokkurir þeir menn her í

[1]) kony, H. [2]) sèr, b. v. H. [3]) þeir, b. v. H. [4]) olli, H. [5]) ulber, H; or veldr, Hk. [6]) faðir várr, Hk.

landi, er fyrir reiði yðvarri se vorðnir? Hann lèt at þat væri eigi. [Seg mer þá, bróðir! segir Eysteinn konúngr. Eigi mun ek þat gera, segir Sigurðr konúngr[1]. Eysteinn mælti: hefir þik dreymt nökkut, þat er þer aflar áhyggju? Hann lèt þat vera. Seg mer, bróðir, segir Eysteinn konúngr, hvat þik hefir dreymt. Sigurðr konúngr mælti: eigi skal þat, nema þú ráðir eptir því sem vera mun, ok mun ek glöggt[2] vita, hvárt rètt er ráðit eðr eigi. Eysteinn konúngr svarar: þá er vandi mikill á báðar hendr! sitja fyrir reiði þinni, ef eigi verðr rètt[3] ráðit, en í annan stað hrygð sú ok áfelli, er allt fólk þolir af yðvarri úgleði; en þartil mun ek ráða þó, at hætta á yðra miskunn, þótt eigi verði ráðit eptir því sem yðr líkar, ok segit mer drauminn! Sigurðr konúngr mælti: Þat dreymdi mik, at mer þótti sem ver 3 bræðr sætim á einum stóli fyrir Kristskirkju norðr í Kaupángi, mer sýndist sem hinn helgi Ólafr konúngr, frændi vârr, gengi út af kirkjunni; hann var skrýddr konúngligu skrúði, hann var með hinni dýrðligstu ásjónu, ok mjök blíðligr; hann gekk at Ólafi konúngi, bróður okkrum, ok tók í hönd honum, ok mælti til hans blíðliga: far með mer, frændi, segir hann; mer sýndist hann standa upp, ok gánga með honum inn í kirkjuna. Nökkuru síðar gekk hinn helgi Ólafr út af kirkjunni ok at þer, bróðir, ok mælti at þú skyldir með honum fara; var hann þá þó

1) *v. í Hl.* 2) *H, M*; glökt, *A.* 3) glicliga, *M.*

eigi með jafnmikilli blíðu sem fyrr; gengu þit síðan inn í kirkjuna. En þá vænti ek at hann myndi móti mer koma, en þat varð ekki; þá sló yfir mik hræðslu mikilli ok vanmegni, ok vaknaða ek í því. Eysteinn konúngr svarar: Svâ ræð ek draum þenna, at stóllinn merki ríki vârt bræðra; en þat er þer sýndist Ólafr konúngr koma móti Ólafi, frænda okkrum, með blíðu yfirbragði, þar mun hann lifa skemst vâr bræðra; mun hann eiga gott[1] fyrir höndum; hann er vinsæll ok úngr, ok hefir fátt yfir[1]-liðit, mun hinn heilagi Ólafr konúngr hjálpa honum með guði. En þat er þer sýndist hann mer í mót koma, ok eigi með jafnmikilli blíðu, þar mun ek lifa nökkuru leingr, ok þó verða eigi gamall, ok vænti ek at hans ásjá [mun yfir mer standa[2], er hann kom í móti mer, en þó eigi með jafnmiklum blóma sem Ólafi, bróður okkrum, fyrir því at mik hefir hent mart til afgerða við guð ok boðorðabrota. En þar sem þer þótti frestast kvâma[3] hans til þín, þat get ek ekki[4] merkja heimvân þína[5]; en vera kann at þú mætir nökkuru þúngu áfelli, er þer sýndist sem nökkur úbirta legðist yfir þik, ok get ek at þú verðir vár elztr, ok ráðir leingst ríki þessu. Þá mælti Sigurðr konúngr: vel er ráðit, bróðir! ok

1) hann, *b. v. H.* 2) mune yfir standa, *H*; oc hann moni sína gezlo láta ifir mer vera með guþs miscunn, *M.* 3) *H, M*; kvâmu, *A.* 4) *H*; *v. í A*; *M hemst hèr svo að orði*: þá etla ec þar at ecki megi í því heimvon þína marca. 5) heldr þitt lánglif, *b. v. Hh.*

vitrliga; ok eptir þessu er mest vân at gángi. Tók Sigurðr konúngr þaðan af at gleðjast.

21. Ólafr konúngr tók sótt [litlu síðar[1], þá er hann leiddi til bana. Hann er jarðaðr at Kritskirkju í Niðarósi; hann var hið mesta harmaðr[2]. Síðan rèðu þeir báðir landi, bræðrnir Eysteinn ok Sigurðr, en áðr höfðu þeir verit 3 bræðr konúngar 12 vetr, 5 síðan Sigurðr konúngr kom í land, en 7 áðr. Ólafr konúngr var 15 vetra, þá er hann andaðist; þat var ellefta kalendarum[3] janúaríí[4].

22. Þá er Eysteinn konúngr hafði verit einn vetr austr í landi, en Sigurðr konúngr var þá norðr, þá sat Eysteinn konúngr leingi um vetrinn í Sarpsborg. Bóndi einn ríkr er nefndr Ólafr í Dali; hann bjó í Dali í Aumurð; hann átti 2 börn: son hans hèt Hákon faukr, en Borghildr dóttir; hon var kvinna[5] fríðust, vitr ok fróð mjök; þau

1) *H*; *v. í A*; *á þrettánda ári ríkis þeirra brøðra, M, Hk.* 2) *M b. hèr v.* Móðir Oláfs konúngs var Sigríþr, dóttir Saxa ör Víc, systir Kára austráz, er callaþr var Kári konúngsbróþir, ríer maþr oc vinsæll. Önnor dóttir Saxa í Víc var Þóra, hon gat son þann er Sigurþr hèt, oc síþan callaþiz son Magnúss (conúngs), oc callaþr var Sigurþr slembidjácn. Kári konúngsbróþir átti Borghildi, dóttur Dags (Eilífssonar); var þeirra son Sigurþr austrátt, lendr maðr, faþir Jóans, er átti Sigríþi *systur* Inga konúngs Bárðarsonar. *Hèrmeðer náliga samstemma, Hk.* 3) kalendas, *H, Hk.* 4) *M hefir niðrlag þessa kap. nokkut öðruvísi*: Eptir andlát (Olafs konúngs skiptu) þeir brøþr landi með ser í helmínga, Sigurþr konúngr oc Eysteinn konúngr; hafþi Sigurþr konúngr en eystra lut lanz, en Eysteinn konúngr (en nörþra lut), oc sat han optast í Niþarósi; brátt gerþost noccorar greinir milli konúnga í landsino, *M.* 5) kvenna, *H.*

Olafr ok börn hans voru leingi í Borg um vetrinn, ok var Borghildr laungum á tali við konúng, ok mæltu menn allmisjafnt um vináttu þeirra. En eptir um sumarit fór Eysteinn konúngr norðr, en Sigurðr konúngr fór þá austr[1], ok um vetrinn eptir var Sigurðr konúngr austr í landi í Konúngahellu, ok efldi stórmjök þann kaupstað. Þar lèt hann gera kastala mikinn af torfi ok grjóti, ok grafa um díki; hann lèt húsa í kastalanum, ok gera kirkju. Krossinn helga lèt hann þar vera í Konúngahellu, ok efldi stórmjök þann kaupstað, en hèlt í því eigi eiða sína, er hann hafði svarit í Jórsalalandi, en hann framdi tíund, ok flest allt annat hèlt hann, þat er hann hafði svarit, nema þat er hann setti krossinn austr við landsenda; hugði hann þat vera mundu allmikit til landsgæzlu, en þat varð at hinu mesta úráði, at setja þann helga dóm svâ mjök undir vald heiðinna manna, sem síðan reyndist. Borghildr Ólafsdóttir heyrði þenna kvitt, er kveiktist um tal þeirra Eysteins konúngs ok vináttu; þá fór hon til Borgar, ok fastaði þar til járns, ok bar járn fyrir mál þetta, ok varð vel skír. En er þat spurði Sigurðr konúngr, þá reið hann þat á einum degi, er miklar voru tvær dagleiðir[2], ok kom fram í Dali [at Ólafi[3] um nótt, ok tók Borghildi frillutaki, ok hafði hana brott með sèr. Þeirra son var Magn-

1) aptr, *b. v. H.* 2) *Kap. 22 hèrtil v. í M; en finst í Hk.* 3) til Olafs, *H.*

ús; hann var brottsendr til fóstrs norðr á Hálogaland í Bjarkey til Viðkunns Jónssonar, ok fæddist hann þar upp. Magnús var manna fríðastr sýnum, bráðgjör á vöxt ok afl.

23. Sigurðr konúngr fèkk Málmfríðar[1], dóttur Haralds konúngs Valdimarssonar austan ör Hólmgarði. Valdimar konúngr var son Jarisleifs gamla ok Íngigerðar, dóttur Ólafs sænska, en móðir Haralds konúngs Valdimarssonar var Gyða gamla drotníng, dóttir Haralds konúngs Guðinasonar af Einglandi. Móðir Málmfríðar drotníngar var Kristín, dóttir Ínga Steinkelssonar Svíakonúngs. Önnur dóttir Haralds konúngs Valdimarssonar var Íngibjörg, er átti [Knútr konúngr lávarðr[2], son Eiríks eygóða Danakonúngs; hann var son Sveins konúngs Úlfssonar. Börn þeirra Knúts lávarðar ok Íngibjargar voru þau Valdimar, er konúngdom tók í Danmörk eptir Svein Eiríksson, ok Margrèt, Kristín, Katrín. Margrètu átti Stígr hvítaleðr; þeirra dóttir var Kristín, er átti Karl Sörkvisson Svíakonúngr[3]. Þeirra son var Sörkvir konúngr[4], faðir Jóns konúngs[5].

24. Á dögum þeirra bræðra, Eysteins konúngs ok Sigurðar, kom utan af Íslandi sá maðr er Þórðr er nefndr, austfirzkr at ætt, mikill vexti ok gerviligr, felítill ok fróðr ok orti vel.

1) Málfriðar, *H.* 2) Hnútr jatvarðr, *H.* 3) Svíakonúngs, *H.* 4) *v. í H.* 5) Sigurðr konúngr jórsalafari oc Málmfríþr drottníng átto dóttur, er Cristín hèt, *b. v. M*; *en hèrvið b. Hk enn framar*: sem átti Erlíng jarl skakka.

Hann kom í kaupbæinn í Niðarósi, ok átti þar fátt til forgiptar. Hann kom[1] í garð konu þeirrar er Ása hèt; hon var þá ekkja, ok ekki úng kona, auðig ok ættstór, skyld mjök Viðkunni Jónssyni ok fleirum Bjarkeyíngum. Ása tók við Þórði fyrst [á ráðabið[2], en hèt honum ekki lángvistum. Hann skemti vel, ok annaðist með henni um þá hluti, sem hon kunni honum tilsegja; [reittist þá á[3] um vist hans, svâ at hann var þar um vetrinn, ok í því hærra haldi af húsfreyju sem hann var leingr, ok mæltu menn at tal þeirra bæri opt saman. En er vâr kom, mælti Ása til Þórðar: mer hefir [vorðit vel við þik[4] í vetr; nú mun ek fá þer fe til Einglandsfarar, ok eigum bæði saman. Hann fór til Einglands, ok tókst vel til; [kom hann heim at hausti, ok var með Ásu um vetrinn. Svâ fór fram nökkur sumur, ok gekk mjök í vöxt um hans mál[5]; var hann í kaupferðum á sumrum, en með Ásu á vetrum, ok annaðist um eignir hennar, var hann þá kallaðr Ásu-Þórðr. Frændum hennar þótti at þessu úvirðíng, ok lögðu á hann úþokka; hann var vænn maðr ok liðmannligr; græddist honum fe mikit, ok gerðist hann vinsæll við alþýðu. Þat var einn tíma, at nökkur vinr hans kom at máli við hann, ok sagði honum at þagat til bæjarins var vân Viðkuns Jónssonar: en ek veit, segir hann, at Viðkunnr hefir

1) um qveld eitt, *h. v. M.* 2) um scamma vist, *M.* 3) rèttist þá, *H.* 4) vel líkat til þín, *H.* 5) *v. í H.*

á þer þúngan hug um Ásu frændkonu sína, þvíat nú er þat alræmt at þú glepir hana; nú legg ek þat til ráðs með þer, at þú yrkir kvæði um Viðkunn, ef þú ert tilfærr, ok mættir þú svá koma þer í trygð ok vináttu við hann, þvíat slíkir eru nú mest virðir af frændum Ásu. Þórðr svarar: haf þökk fyrir þín tillög, ok við skal ek leita at yrkja kvæðit. Litlu síðar kom Viðkunnr með mikla sveit manna, ok tók ser skytníng í bænum. Einnhvern dag kom þar Þórðr, ok kvaddi Viðkunn; hann svarar fáliga. Þórðr hóf þá upp kvæðit ok kvað, ok var hljótt meðan, ok er lokit var, mæltist kvæðit vel fyrir. Þá mælti Viðkunnr: vel er kvæðit ort, ok skipt hefir ek nú skaplyndi til þín, Þórðr! ok mun ek gera at því nökkura raun. Hann tók digran gullhríng, ok gaf Þórði. Þórðr lèt sik ekki fe þurfa: vil ek heldr, segir hann, vináttu þína at kvæðislaunum, ef þer þykkir nökkurs vert. Viðkunnr hèt honum því, ok skildust vinir.

25. Liðu þá stundir fram, ok eitt haust er Þórðr kom vestan af Einglandi, lagði hann skip sitt[1] upp í ána Nið, ok veik frá ok ör lægiuu því skipi, er áðr lá fyrir garði Þórðar. Þá var Eysteinn konúngr í bænum ok mart stórmenni: þar var Sigurðr Hranason, Viðkunnr Jónsson, Íngimar af Aski, hann var einn ríkastr lendra manna, ok ofsamaðr mikill; hann hafði

1) skipi síuu, *H*.

lagit skip sitt í lægit Þórðar, ok töluðu menn um, at Þórði myndi eigi duga[1], er hann hafði bægt skipinu Íngimars ör læginu. Þórðr lèt sem hann heyrði eigi, hvat hvergi talaði um. En þá er þeir Þórðr ruddu skip sitt, þá fann hann eigi stafntjald sitt; gekk hann þá á skip Íngimars, ok fann þar svein einn, er svipt hafði undir sik tjaldinu. Þórðr tók sveininn, ok rak bundinn [undan sèr[2] heim í garð sinn, ok lèt þar varðveita; flutti hann allt fe sitt heim í garðinn. Þetta kom allt fyrir Íngimar; hann varð við reiðr, ok kallaði slíkt firn mikil; gekk hann þegar með nökkura menn at garði Þórðar, ok bað hann selja skjótt fram manninn. Þórðr svarar: þat mun mer ekki varligt, at láta gánga údæmdan þjóf um bæinn. Íngimar kveðst þat ætla, at Mörlandi[3] myndi eigi dæma menn hans til dauða; lèt sik svâ koma myndu öðru sinni, at hann skyldi ná manninum, ok Þórðr skyldi aldri verra [ser aflat[4] hafa: má ek ekki, segir hann, heita lendr maðr, ef ek skal eigi hafa ríki við einum íslenzkum stafkarli. Þá kvað Þórðr:

Nú tekr ýgr at ægja[5]
ofkúginn mer drjúgum,
þinn hefir höldr um hlannat[6],
hjaldr-gegninn, mik tjaldi;
trautt mun ek lausan láta,
linnbóls[7]-gjafi! at sinni

1) hlýþa, *M.* 2) *Seinna viðbætt í A*; fire ser, *M*; *v. i H.* 3) her-landi, *M.* 4) för farit, *M.* 5) øgja, *M.* 6) *A, M*; hlammat, *H.* 7) *H*; lindbóls, *A, M.*

vísan þjóf, þótt vafi[1]
ván mín und[2] hlut þínum.

Íngimar gekk í brott mjök reiðr; þá mælti Ása, at Þórðr myndi senda eptir Viðkunni, ok sagði eigi svâ búit duga mundu. Hann gerði svâ; en er Viðkunni komu orð Þórðar, brást hann við skjótt, gekk hann í garð Þórðar, ok upp í loptin til hans með mikla sveit manna. Því næst kom þar Íngimar með marga menn, ok bað þá Þórð láta lausan manninn, eðr ellar[3] mun hann gánga at, ok brjóta upp loptin. Viðkunnr hafði þá svör fyrir þeim; hann mælti: þat er sannligast at þetta mál komi í dóm fyrir lögmönnum; þvíat Þórðr hefir þat eitt atgert, sem hann átti, þvíat honum mætti sök ágefa, ef hann lèti fara sannreyndan þjóf; ok munum ver nú þess at bíða, er at lögum er dæmt. Íngimar svarar: her mun nú at því koma, sem mælt er: stikk mer í, kvað reka, mun þat ok vel fallit, at ver reynim með oss, lendir menn, ok er þat míklu jafnligra, en við Þórðr eigimst við, sneri hann á brott. Þá mælti Viðkunnr til sinna manna: farit nú til fundar við Sigurð Hranason, ok biðit hann her koma, en ef hann hefir orð fyrir eða undanfærslu, þá spyrit eptir, hverr honum veitti mest lið, þá er Finnar vildu taka bú hans. Þeir fundu Sigurð, ok sögðu honum orðsendíng Viðkunns. Sigurðr svarar: ek ætla þar[4] vel ákomit, at þeir

1) wofi, *H.* 2) um, *M.* 3) elligar, *H.* 4) þetta, *M.*

Íngimar reyni með ser; því at þar þykkist hvârr öðrum meiri. Sendimenn báru þá fram ályktarorð Viðkunns. Þá mælti Sigurðr: þat er satt at eingi maðr dugði mer, (jafnvel) sem Viðkunnr; standit upp, allir mínir menn, ok förum at veita Viðkunni lið, ef hann kann þurfa. Þeir vâpnuðust ok gengu í garð Þórðar. Litlu síðar kom þar Íngimar með mikinn flokk manna[1]. Hann mælti: Nú munum ver eptirleita manninum, Viðkunnr! með lítilli vægð, ef eigi er með auðveldi frammseldr. Þá mælti Sigurðr: farit at vægiliga, Íngimarr! ok eptir sannindum, þvíat þat munu menn ætla, at halda rèttindum sínum fyrir þer, þótt þú ser kappi mikill. Íngimar svarar: Era hera at borgnara, [þótt hæna[2] beri skjöld; ok [mikils þykkir nú viðþurfa, er þit erut tveir[3] í móti mer, ok hvârtveggi lendr maðr, en þó skal enn eigi láta fyrirvinnast; vildi ek nú svâ koma í þriðja sinn, at þit drægit[4] eigi manninn með afli af mer. Gekk hann þá brott, dró at ser lið sem flest; fèkk hann mikit fjölmenni. En í annan stað sendi Sigurðr Hranason menn til Eysteins konúngs: ok biðit hann tilkoma, segir hann, segit honum at her munu[5] ellar[6] gerast ofmikil[7] vandræði; en ef konúngr hefir nökkut tregður í at fara, þá spyrit eptir, hverir síðast skildust við

1) en liþit Viþkunns hafþi dreifzt her oc hvar um bøinn, *b. v. M.* 2) at høna, *M.* 3) mikit caupist nú í, ef iþ eroþ 2, *M.* 4) drøgit, *M.* 5) mune, *H.* 6) af, *b. v. H.* 7) af mikil, *M.*

föður hans, þá er hann fèll vestr á Írlandi. Sendimenn fóru ok komu á konúngs fund, ok sögðu honum orð Sigurðar. Eysteinn konúngr svarar: þat þykkir mer þeim ekki[1] ofrefli, tveim lendum mönnum, at eiga við Íngimar, ok kann ek eigi at sjá, at ek þurfi þar til at koma; allir þykkjast þeir miklir fyrir ser. Þá mæltu sendimenn: herra! hvat viti þer til, hverir bezt ok leingst fylgdu feðr þínum, [þá hann barðist síðasta sinn[2] vestr á Írlandi? Konúngr svarar: Viðkunnr ok Sigurðr voru þat; varða[3] þykkir þeim at ek komi, ok skal svâ vera. Gekk konúngr fjölmennr í garðinn til þeirra Sigurðar. Þvínæst kom þar Íngimar [með fjölda liðs[4], ok mælti til Sigurðar: þess þykki mer meiri vân, at oss mun nú saman lenda, ef þer látit eigi lausan manninn. Eysteinn konúngr svarar: eigi samir þat, Íngimar! at gera her í bænum svâ mikit hervirki um svâ[5] vândan mann, ok munum ver eigi uppgefast fyrir þer, allra helzt er ver höfum rètt at mæla. Þá mælti Íngimar: nú gerist mikit málit, er konúngr sjálfr er tilkominn, ok munum ver nú verða frá (at) snúa at sinni. Konúngr bað þá taka þjófinn, ok leiða á mót, var tjaldit bundit á bak honum, [sem siþr er til, síþan var hann dœmdr[6], ok svâ færðr út á eyrar ok þar uppfestr. Þá mælti Eysteinn

1) vera høfis-, *M.* 2) *H*; *v. í A*; öfsta sinni, *M.* 3) oc undir, *M.* 4) oc hefir orhóf manna, *M.* 5) lítinn lut oc, *b. v. M.* 6) *þannig M*; *v. í A*, *H.*

konúngr: hvat ætlar þú, Íngimar! at þjófrinn hafi í öðrum heimi? Gott, segir Íngimar. Nei, segir konúngr, rètt[1] helvíti, ef hann deyr iðranarlaus. Íngimar svarar: þat mun eigi vera, en mislagðar eru þer hendr, dregr framm hluta Mörlandans, en þorir eigi at hefna föður þíns, er drepinn var vestr á Írlandi, sem hundr á beinum; ok þat hygg ek at heldr hafi hann helvíti, en þessi maðr, sem þú lèzt drepa, lítt sakaðan eðr ekki. Spratt hann þá upp, ok sneri þegar til skips síns, ok fór austr í Vík; drap hann þar ármann[2] konúngs. Stökk hann síðan ör landi, ok suðr til Danmerkr. Eysteinn konúngr tálmaði ekki ferð hans, ok gaf eingan gaum at fólskuorðum þeim er hann mælti, ok sýndi í því sem mörgu öðru vit sitt ok góðleika. En Þórðr fèkk Ásu, ok þótti hann vera mikilmenni í marga staði, var hann maðr vinsæll, ok skorti þau Ásu eigi auð[3].

26. Eysteinn konúngr ok Sigurðr konúngr voru einn vetr báðir á Upplöndum, ok tóku veizlur at búum sínum, átti sín bú hvárr þeirra, en skamt var milli þeirra bæja, er konúngar skyldu veizlur[4] taka. Þá gerðu menn þat ráð, at þeir skyldu báðir samt á veizlum vera, ok sínu sinni at hvârs búum. Vâru þeir fyrst báðir samt at því búi, er Eysteinn konúngr átti. En um kveldit, er menn tóku at drekka, þá

[1]) beint, *M.* [2]) mann, *M.* [3]) *M b. v.* oc lýcr her þessi frásögn; *en í Hk v. allan þenna þátt um Þórð austfirzka.* [4]) at, *b. v. H.*

var munngát ekki gott, ok voru menn hljóðir[1]. Þá mælti Eysteinn konúngr: þó eru menn her hljóðir! hitt er ölsiðr meiri, at menn geri ser gaman, ok fám oss ölteiti nokkura, mun þá enn skjótt árætast[2] um gleði manna. Nú mun þat öllum sæmd þykkja, at við Sigurðr, bróðir minn, hefim nökkurar skemtanarræður. Sigurðr konúngr svarar heldr stygt: verþú svâ málugr sem þú vill, segir hann, en lát mik ná at þegja fyrir þer. Eysteinn konúngr mælti: sá ölsiðr hefir opt verit, at menn hafa tekit ser jafnaðarmenn; [vil ek her svâ vera láta. Þá þagði Sigurðr konúngr. Se ek, sagði Eysteinn konúngr, at ek verð at hefja þessa teiti[3]; nú tek ek þik, Sigurðr konúngr! mer til jafnaðarmanns, færi ek þat til at við höfum jafnt tignarnafn ok jafna eign ok ríki; geri ek eingan mun ættar okkarrar eðr uppfæðslu. Þá svarar Sigurðr konúngr: mantu þat, er ek braut þik á bak, ef ek vildi, ok var þú þó vetri ellri? Eysteinn konúngr svaraði: eigi man ek hitt síðr, at þú fèkt ekki leikit, þat er mjúkleikr var í. Sigurðr mælti: mantu, hversu fór um sundit með okkr, at ek mátti kefja þik, ef ek vildi? Eysteinn svarar: ekki svamm[4] ek skemra en þú, ok eigi var ek

1) *M hefir þetta öðruvísi, segir þar at þeir bræðr væri á einni veizlo báðir; Sigurðr konúngr var fálátr*, en sá er veitti var vinr Eysteins konúngs, oc segir at hann vildi gjarna at Eysteinn konúngr leitaði eptir vid Sigurð konúng *o. s. fr.*; *er þar líka mjög öðruvísi orðat þat sem eptir kemr af þessum kap.* 2) áreitast, *Hk.* 3) *þannig Hk*; *v. í A, H.* 4) *þannig A*, svam, *H, M, Hk*; *en hitt er forní mál, og er af því dregit sv.* simma, samm, summit, *þ. e. synda.*

verr kafsyndr; en kunna ek á ísleggjum, svå at eingan vissi ek, þann er þat lèki til móts við mik, en þú kunnir þat eigi heldr en naut. Sigurðr konúngr mælti: höfðíngligri ok nytsamligri sýnist mer sú íþrótt at kunna vel við boga, en ek ætla at þú nytir eigi boga minn, þótt þú spyrnir fótum í. Eysteinn mælti: ekki er (ek) svå bogstyrkr sem þú, en eigi[1] mun minna skilja beinskeyti okkra; ok miklu kann ek betr á skíðum[2] en þú, ok þótti þat enn fyrr góð íþrótt. Þat þykki mer mikill munr at sá, er höfðíngi skal vera annarra manna, se mikill í flokki, styrkr ok vâpnfærr, betr en aðrir, ok af slíkum hlutum auðkendr, þar er margir koma saman. Eysteinn konúngr svarar: eigi er þat síðr einkanna hlutr, at maðr se fríðr sýnum, ok er sá auðkendr í mannfjölda; þykki mer þat höfðíngligt, því at fríðleikinum samir hinn bezti búnaðr; kann ek ok miklu betr til laga en þú, ok svâ, hvat sem við skulum tala, er ek miklu slèttorðari. Sigurðr svarar: vera kann at þú hafir numit fleiri lögpretta[3], því at ek átti þá annat at starfa, en eingi maðr frýr þer slèttmælis, en hitt mæla margir at þú ser ekki allfastorðr, ok lítit mark se at, hverju þú heitr[4], ok mælir eptir þeim er þá eru hjá, ok er þat þó ekki konúngligt. Eysteinn svarar: satt er þat, bróðir, at margir sækja þeir á minn fund, er ek má eigi svâ gott

1) *v. í H.* 2) *Hk*; skipum, *A, H.* 3) lögpretto, *Hk*; lögkróka, *A.* 4) *þannig A, H.*

gera, sem vilinn væri til; dæmir ek opt sakir manna eptir sönnum vitnum, en ef nokkut kemr síðar sannara upp, þá læt ek hvern mann ná rèttindum, hvat sem áðr hefir dæmt verit; heit ek ok optliga því sem ek er beðinn, þvíat ek vildi at allir færi fegnir af mínum fundi, en se ek þann kost, ef ek vil hafa sem þú gerir, at heita öllum illo, en eingan heyri ek þar efndanna frýja. Sigurðr konúngr mælti: þat hefir verit mál manna, at ferð sú er ek fór ör landi væri heldr höfðínglig, en þú sazt heima meðan sem dóttir föður þíns. Eysteinn konúngr svarar: nú greiptu á kýlinu, því er ek hugða at fyrir laungu myndi springa: eigi myndi ek þetta mál vakit hafa, ef ek kynni her eingu til at svara. Nærr þótti mer hinu, at ek gerði þik heiman í þá ferð sem dóttur[1] mína, áðr þú vyrðir búinn. Sigurðr svarar: heyrt munþú þat hafa, at ek átti orrostor mjök margar í Serklandi, ok fèkk ek í öllum sigr, ok margskonar gersimar, er eigi hafa slíkar komit higat í land; var ek þar mest virðr, er ek fann göfgasta menn, en ek hygg þik enn hvergi hafa hleypt heimdraganum. Eysteinn svarar: spurt hefi ek þat, at þú áttir orrostor nokkurar utanlands, nu mun her smátt vera móti at telja: norðr í Vâgum setti ek fiskimanna vist, at fátækir menn mætti þar nærast til lífs hjálpar; þar lèt ek ok kirkju reisa, ok lagði ek fe til prestvistar, at siða þar

[1]) systur, *Hk.*

fólk, er náliga var áðr heiðit, munu þeir menn muna, er þar hjálpast, at Eysteinn konúngr hefir verit í Noregi. [Á Þrándarnesi lèt ek ok kirkju gera, ok lagði ek fe til, ok munu þeir menn muna, er þar byggja, at Eysteinn konúngr hefir verit í Noregi[1]. Um Dofrafjall var mikil för ör Þrándheimi; urðu þar menn opt úti, ok fóru illum förum; lèt ek þar sæluhús gera, ok lagði ek fe til. Ek gerði höfn fyrir Agðanesi, [er áðr var örhæfi[2], en nú er þar hit bezta skipalægi hverjum manni, er ferr norðr [eða suðr með landi[3]. Ek gerði ok stöpulinn í Sundhólmssundi, ok munu þeir menn, er þessa hluta þurfa, vita at Eysteinn konúngr hefir verit í Noregi; nú munu þessa njóta fiskimenn ok kaupmenn, er mest gæði flytja landi [þessu[4]. Höllina miklu[5] lèt ek gera í Björgyn ok Postulakirkju ok riðit í milli, ok munu konúngar, þeir sem eptir oss koma, njóta þessarrar athafnar. Mikaelskirkju lèt ek gera [í Norðnesi[6], ok setja þar múnklífi. [Skipaða ek lögonom, bróðir! at hverr mætti hafa rèttendi við annan, ok ef þau ero haldin mon betr fara landsstjórnin[7]. Ek hefi komit Jamtalandi undir Noreg at hlýðni ok skattgjöfum, [meir með blíðyrðum ok viti, heldr en með ágángi[8]. Nú er þetta smátt at telja, en eigi

1) *v. í Hk.* 2) voro örhøfi oc hafnleysi, *M, Hk.* 3) eðr norðan, *H*; oc kirkja gjör, *b, v. M, Hk.* 4) voru, *H*; oc missir þá eigi allz cónúngdómrinn, *b. v. M.* 5) *H*; *v. í A, M, Hk.* 6) *v. í M, Hk.* 7) *M, Hk*; *v. í A, H.* 8) *M, og hèrumbil Hk*; *v. í A, H.*

ætla ek þetta allt saman úþarfara ríki vâru ok allri landsbygð, ok eigi oss minna til sáluhjálpar, en þer, þótt þú brytjaðir blámenn á Serklandi fyrir fjandann, ok hrapaðir þeim svâ til helvítis. Sigurðr konúngr mælti: [fór ek til Jórsala, ok kom ek við Púl, ok sá ek þik eigi þar; vann ek átta orrostur, ok vartu í öngarri; fór ek til grafar dróttins, ok sá ek þik eigi þar[1]; í þeirri ferð kom ek til Jórdánar, ok svamm[2] ek út yfir ána, en þar á árbakkanum var hrískjörr nokkut[3], ok þar á kjörrinu[4] reið ek þer knút, Eysteinn konúngr! ok mælti ek svâ fyrir, at þú skyldir leysa, eða hafa ellar þvílíkan formála, sem áðr er álagðr[5]. Eysteinn mælti: ekki mun ek leysa þann knút, er þú reitt mer þar, en ríða mátti ek þer þann knút, er miklu síðr fengir þú leyst, þá er þú sigldir einskipa í her minn, er þú komt í land. [Líti nú vitrir menn á, hvat þú hefir umfram, ok vita skolo þer þat, gullhálsarnir, at menn muno en jafnast við yþr í Noregi[6]. [Eptir þetta þögnuðu þeir, ok var hvârtveggi reiðr[7].

27. Svâ er sagt at Sigurðr konúngr jórsalafari tók veizlu inn í Þrándheimi [á Mærinni[8]; þar var þá með honum Sigurðr Hranason, mágr

1) *M, Hk; v. í A, H.* 2) *þannig A*; svam, *hin.* 3) nokkur, *H.* 4) *þannig lagfært fyrir* kjörrinnm *A*; kjarrinu, *H.* 5) Þá vann ec borgina Sídon með Jórsalakonúng i oc, höfþom ver eigi þinn styrc eðr ráð til, *b. v. M.* 6) *þannig M*; *Hk*; *v. í A.* 7) *v. í M.* 8) norðr at konúngsbúi, *M.*

hans, er átti Skjaldvöru, systur Magnúss konúngs berfætts sammæðra. [Þar var þá ok Ívar af Fljóðum, lendr maðr; hann átti Sigríði Hranadóttur, systur Sigurðar, ok var vinskapr þeirra máganna góðr. Sigurðr konúngr sat við drykk um kveldit, ok var mjök glaðr; hann setti höndina framm á borðit fyrir sik, ok hafði gullhríng í hendinni, ok mælti: þessi hríngr er nú gjaffalr, en sá maðr, er þiggja vill hrínginn, fari sendiför mína, en ekki mæli ek þetta til smámennis, heldr til lendra manna, ok skil ek frá Sigurð, mág minn, hans má ek eigi án vera í landinu. Þá svarar Ívar af Fljóðum: ekki mun mer þá hvatvísi at svara þessu máli, þvíat ek veit her eigi fleiri lenda menn en mik, ef Sigurðr Hranason er fráskildr. Nú er þat líkligt, at þú munt vel fyrirsjá, ok eigi skaltu illa atkomast, ok vil ek fara hvert er þú beiðir. Konúngr mælti: þat er mönnum kunnikt, at faðir minn [fór vestr til Írlands, ok er þat vitað, hver stórtíðindi gerðust um hans mál[1]. Nú vil ek þik þagat senda, at krefja [skatta ok skaðabóta fyrir þann missi ok mannskaða, er ver höfum þar fengit, ok láttu þess vân, ef eigi er viðskipazt þessa orðsendíng, at ek mun koma með her á hendr Írum, hefi ek átt við slíkt ofrefli, sem þar mun fyrir vera[2]. Skaltu nú þegar fara út til Kaupángs, ok taka

[1]) hafþi eignazt ríki mikit á Irlandi, þat er heitir Ulaztír, oc síþan er hann fèll frá, höfum ver eingin gøþi haft af því ríki í lènom ne scöttom, *M.* [2]) þess scattgildis, *M.*

þar af konúngsgarði fe, slíkt sem þú [vill hafa[1], ok önnur föng. Ívar mælti: eigi var mer vân at skjótara myndi ádynja[2] en svâ. Ívar tók þegar eitt lángskip, fór hann út til bæjar, ok bjóst þaðan til farar; sigldi hann vestr um haf, til Orkneyja fyrst, ok var þar um vetrinn. Um vârit fór hann til Írlands, ok átti þíng við landshöfðíngja; bar hann upp eyrindi Sigurðar konúngs, ok tjáði fyrir þeim, hvers hann hafði þar mist, ok hvat Írar áttu honum at bæta[3], eðr til hvers vâða horfðist, ef þeir vildi eigi skipast við orðsendíng konúngs; taldi hann þat göfgum mönnum þar í landi vera bæði vitrligra ok virðuligra, at vingast við slíkan höfðíngja, sem Sigurðr konúngr var, ok senda honum sæmiliga gripi ok gersimar, heldr en sitja fyrir þeirri hættu, ef hann færi með her sinn á hendr þeim. Tíndi hann ok tjáði fyrir þeim, at konúngr þóttist þar eiga at sjá eptir föðurhefndum, ok svâ hversu hann hafði hvetvitna undir sik brotið, bæði með ríki ok ráðum, þat er hann vildi, þótt hann ætti eigi jafnmikils at hefna sem her: en með því, segir Ívar, at þer vilit vel undirstanda orðsendíng konúngs, ok vâra umsýslu, ok senda honum fjárhluti at sinni, svâ at honum se sæmiligt við at taka, ok yðr framm at greiða, þá skal ek allan hlut í eiga, at þessa fegjalds se eigi optar af yðr kraft; munum ver þá svâ nafngipta, at þetta heiti vingjafir en eigi skattr. Svâ gat Ívar

[1]) þarft, *H.* [2]) áþjóta, *M.* [3]) gjalda, *H.*

flutt þetta mál, at Írar gengu undir fegjaldit, ok varð þat allmikit fe, er Ívar tók við, ok flutti austr til Noregs[1].

28. En nú er þar til at taka, sem fyrr var fráhorfit, at þat sama kveld, er Ívar af Fljóðum hafði farit af fundi Sigurðar konúngs, þá var konúngr ákafa kátr, ok sat leingi við drykk um aftaninn. Sigurðr Hranason var maðr kveldsvæfr, þótti honum illar náttsetur[2], beiddi hann konúng orlofs (at) gánga at sofa. Konúngr bað Sigurð gera sem hann vildi: en þú, Skjaldvör, segir konúngr, skalt sitja eptir, ok drekka með mer. Nu varð setan laung, svâ at menn drifu ör drykkjustofunni til svefns, hverr at öðrum; ok þá er þær Skjaldvör ok Sigríðr Hranadóttir gengu[3], þá fèkk konúngr þeim föruneyti, ok var Skjaldvöru fylgt til þeirrar skemmu ok sængr, sem Sigurðr bóndi hennar svaf í, en Sigríðr var leidd ein saman annan veg þagat til herbergis, er konúngr sjálfr skyldi sofa. Leið af nóttin. Um myrgininn eptir varð Sigurðr Hranason varr við þetta allt, hversu með var farit, ok varð ákafa reiðr, ok þá er konúngr var genginn til borða[4], ok var kominn í hásæti, þá kom Sigurðr eigi fyrr inn, en maðr var sendr eptir honum, gekk hann þegar til sætis síns, er hann kom inn, ok kvaddi ekki konúng. Þá mælti konúngr

1) *Kap. 27. v. í Hk frá orðunum*: þar var þá ok Ivar af Fljóðum. 2) qveldsetur, *H*; náttfarar oc vöcor, *M*. 3) skildust, *H*. 4) borðz, *H*.

til Sigurðar: eigi ferr þú nú, Sigurðr, jafn-vaskliga[1], sem þú ert vanr, kemr eigi til borðs sem aðrir menn, en kveðr oss með eingum sóma. Hann svarar: eigi hefir þú af því mikinn sóma, at eigi værir þú lítils verðr. Stirðr ok styggr erþú nú, mágr, segir konúngr, hrindum þessu af oss, ok verum kátir. Sigurðr svarar: ekki fæst[2] þat af mer slíka hneisu ok svívirðíng sem þú gerir til vâr. Þá reiddist konúngr ok mælti: alldjarfr er þjófrinn þinn, er þú talar svâ til vâr. Sigurðr svarar: ekki hefir ek þat nafn haft hertil, at heita þjófr. Konúngr mælti: hverr mun meiri þjófr en þú, stelr mik eigi minna fe á hverjum 12 mánuðum en 60[3] marka; þvíat þú hefir finnför ok finnkaup, ok lætr þú eigi meirr en helmínginn til vâr koma, af því fe sem ver eigum, ok þat skalþú víst vita, at þar skalþú skilum fyrir svara. Ekki mæltust þeir fleira þann dag við; en þó varð Sigurðr þess viss, at konúngr myndi þetta mál ekki niðrfella, en hann þóttist vanbúinn einn saman at rísa móti, með svâ miklu kappi sem at var gengit. Fór Sigurðr þá brott, þvíat hann treystist eigi þar at vera, ok eigi náði hann at ráða förum Sigríðar, systur sinnar. Sigurðr Hranason fór fyrst út til Kaupángs, ok dvaldist þar litla hríð. Fór síðan með tólfta mann út ör Þrándheimi ok suðr með landi, lètti hann sinni ferð eigi fyrr en hann kom austr í Vík á fund Eysteins konúngs, ok

1) jafnvarliga, *M.* 2) færr, *H;* fæ ec, *M.* 3) 40, *H.*

sagði honum[1], hversu farit hafði með þeim Sigurði konúngi. Eysteinn konúngr ásakaði hann mjök, er hann hafði mælt svâ djarfliga við Sigurð konúng, ok lèt þat úvarliga ok úforsjoliga gert við slíkan höfðíngja. En þó hafði Eysteinn konúngr Sigurð á[launtali við sik[2], ok rannsakaði allan málavöxt hans, ok setti alla ráðagerð, sem síðan kom framm[3].

29. Eptir þat voru menn sendir norðr til fundar við Skjaldvöru, þvíat hon hafði eptir verit í Kaupángi, þá er Sigurðr fór suðr; fluttu þeir[4] henni þau eyrindi, at Eysteinn konúngr myndi koma norðr um vârit eptir, ok leita at sætta þá[ Sigurð konúng ok Sigurð Hranason[5]. Sat Sigurðr konúngr þann vetr norðr í Þrándheimi, en Eysteinn konúngr austr í landi. En er vâraði, bjó Eysteinn konúngr austanferð sína, kom hann um vârit norðr til Þrándheims, ok ætlaði at sætta þá [Sigurð konúng ok Sigurð Hranason[5]; hèlt Eysteinn konúngr njósnum til, ef nokkut sefaðist hugr Sigurðar konúngs til nafna síns, ok fanst þat ekki. Konúngarnir fundust í Niðarósi, ok voru skamma stund í bænum, áðr Sigurðr konúngr lèt blása til móts, ok á mótinu gaf hann þá sök Sigurði Hranasyni, at hann hefði heimt fjárhlut konúnganna, ok dregit undir sik finnskattinn með

1) *einum saman, b. v. H.* 2) eintali við sic 3 daga, *M.* 3) *Hk hefir þenna kap. miklu styttra, getr þar ekki um aðdraganda þessa máls, annat en at Sigurðr Hranason var í róg borinn hjá konúngi.* 4) þer, *H.* 5) nafna, *H.*

ágirnd, ok at úvilja þeirra er áttu, lèt þar mikla refsíng eiga fyrir at koma, er konúnga eign var raskat; ságði at rèttr dómr ætti þar á at koma. En Sigurðr Hranason svarar á þá leið konúngs máli: Þat er mönnum kunnigt, segir hann, at Magnús konúngr berfættr fór með her sinn austr á Gautland, herjaði hann þar víða, ok tók mikla fjárhluti. Síðan setti konúngr þar menn sína, Sigurð ullstreing ok marga aðra höfðíngja, í ey þá er Paldinsey[1] heitir, en hann sjálfr sat annarsstaðar með sumt liðit; var ek þá þar í ferð með honum, ok kunni ek at bera honum sanna njósn, at Íngi konúngr Steinkelsson fór at honum með úvígjan her, ok ekki ráð var þar at sitja. Lèt hann þá at ek gerði vinsamliga til hans, er sú njósn kom; fór þá konúngr með allt[2] þat lið, er með honum var, til Víkrinnar, en Sigurðr ullstreingr ok allt hans lið var hertekit. Virði Magnús konúngr svå, at ek kæmi honum undan háska því sinni; ok eptir þat gipti hann mer Skjaldvöru, systur sína, hèlt hann mik fyrir trúan mann, ok veitti mer þat lèn, at ek skyldi hafa finnför ok kaup við Finna, meðan Magnús væri konúngr at Noregi eðr synir hans; skylda ek gjalda konúngi 60 marka vegna hver missari[3], en njóta sjálfr, þótt ek

[1]) Valdinsey, *H*; Valdisey, *M*. [2]) *v. í. H.* [3]) misseri, *H*, *M*.

fengi[1] meira. Nú þykkjumst ek vel at því fe kominn, er hann veitti mer, ok ek hefi vitni til. En þat sem ek hefi mælt til yðvar, herra konúngr! í bræði, eigi svâ virðuliga sem skyldi, þá vil ek þat allt bjóða á yðvart vald. Sigurðr konúngr lèzt ekki mundu þekkjast boð hans, ok hèlt framm femálinu. Þá svarar Eysteinn konúngr: þetta mál, bróðir, er þer hafit á hendr Sigurði, er svâ tilkomit, at þat átti ekki[2] at sækja á móti í Kaupángi, heldr[3] á þíngi; þvíat sökin veit til landslaga, en ekki til Bjarkeyjar-rèttar, ok er mönnum þat kunnigt, bróðir, at ekki á Bjarkeyjar-rèttr á því máli at standa. Þá mælti Sigurðr konúngr: vili þer, Eysteinn konúngr, þetta mál verja, er eigi kemr síðr til yðvar en vâr at sækja, þá skal ok við því búast. Stefndi Sigurðr konúngr þá þíng á hálfs mánaðar fresti norðr í Kepsisey[4], ok bað Sigurð Hranason svara þar málum fyrir sik. Gekk Sigurðr konúngr síðan af mótinu með sina sveit. Eysteinn konúngr bað Sigurð Hranason nefna vâtta til, at eydt[5] var málit fyrir Sigurði konúngi á mótinu at lögum.

30. Síðan bað Eysteinn konúngr Sigurð fara norðr á Steig til búss síns, ok draga at ser fjölmenní, sem mest mætti hann fá, ok fara með því öllu liði til þíngsins. Sigurðr gerði svâ. Hann kom norðr til Bjarkeyjar, ok bað ser liðs

[1]) fjenga, *H*; fenga, *M*. [2]) *v. í H, en finnst í M.* [3]) en, *b. v. H.* [4]) Kefsey, *M, óskirt.* [5]) ónýtt, *M.*

Viðkunn Jónsson. Hann svarar svâ, at hann vildi gjarna vera vin Sigurðar: en mer virðist svâ, segir hann, sem konúngar sjálfir eigist málit við. Er ek lendr maðr Sigurðar konúngs, ok því mun ek honum fylgja at. Litlu síðar gerði Sigurðr konúngr menn til Viðkunns, at hann færi á fund hans með fjölmenni, slíkt er hann mætti fá, ok svâ gerði hann; kom Sigurðr konúngr ok lið hans fyrri til þíngsins, ok hafði (hann) allmikit fjölmenni. En þá er Eysteinn konúngr sótti norðr, kom Sigurðr Hranason með miklu liði til móts við hann. En er þeir nálguðust eyna, þá mælti Eysteinn konúngr: nú skulum ver skipa liði vâru sem vaskligast[1], ok þegar er skipin koma í bryggjulægi, þá skulu allir menn uppgánga með [skjöldum ok vâpnum[2] ok fylktu liði, en fátt manna skal gæta skipa vârra; kemr mer þat í hug, at búkörlum[3], þeim sem fyrir eru með Sigurði konúngi, mun nýlunda í þessu þykkja, munu margir drífa af þínginu ok undrast oss; gaungum þá sem skjótast á þíngit, ok vefjum svâ lið þeirra í flokki vârum, ok mun þá fjölmenni vârt sýnast mikit. Þeir fóru nú svâ með, ok dreif fjöldi manna[4] at undrast þá, en fátt var eptir á þínginu með Sigurði konúngi, nema lið hans ok Viðkunns lið. Þá mælti Sigurðr konúngr, er hann sá at liðit dreif frá hon-

1) vaxcligast, *M.* 2) alvæpni, *H.* 3) búandcörlum, *M.* 4) í mót, *b. v. M.*

um: þat er þó sannast at allir bændr vilja þar vera, sem Sigurðr Hranason er. Viðkunnr svarar: eigi er svâ, herra! þetta er prettr Eysteins konúngs, þvíat hann veit at Háleygir eru undrlátir. Sigurðr konúngr hóf þá sitt mál, ok gaf Sigurði Hranasyni sömu sök um femálit, ok bað þá dæma[1] eptir landslögum. Sigurðr Hranason hafði hin sömu svör, ok öll boð fyrir ser, sem fyrr. Konúngr neitaði boðum hans, ok vildi þreyta lög um. Sigurðr Hranason mælti: fyrir sakir vârra teingda ok lángrar vináttu[2] ok margs góðs, er [hvârir hafa öðrum gert[3], gefit upp þetta mál, Sigurðr konúngr! en hlýðit ekki á ræður illra manna ok öfundarfullra, er oss rægja; mun yðr verða at því vegr ok virðíng, þvíat eigi hefi ek meira gott af finnskattinum, en hófi gegnir. Sigurðr konúngr svarar: eigi varði mik þess um hríð, at þú mundir því launa mer mikit lèn, at eigna þer mitt, ok hafa meira af vâru góðsi, en þer var leyft[4]. Sigurðr mælti: eigi er þat satt, sem yðr er sagt, at ek hafi meira [hlut af[5], en yðvart var leyfi til. Konúngr svarar: ekki munþú því einu viðkoma, at mæla slíkt af munni framm. Þá stóð upp Eysteinn konúngr, ok mælti: Ekki er vandalaust at ræða um þetta mál, ok veita nökkut svâ mótmæli Sigurði konúngi; er þess [mikill mun[6], hvârt veitt er at málinu til rèttinda, eða verðr í móti

1) mæla, *M.* 2) vingonar, *M.* 3) ec hefi yþr veitt, *M.* 4) lèð, *H.* 5) af yðru fe, *H.* 6) lángt í milli, *H*, *M.*

gengit Sigurði konúngi. Nú eigum við [jafnt at leggja báðir til þessa[1], en fyrir sakir nauðsynja Sigurðar Hranasonar ok mágsemdar vârrar, viljum ver enn nökkur orð leggja til hjálpar honum; telr hann, bróðir, sik úsannan at sök þessi, en biðr yðr minnast á lángan felagskap með teingdum. Sigurðr konúngr svarar: Þat er meiri stjórn, at slíkir hlutir se refsaðir at lögum. Eysteinn konúngr mælti: ef þú vill lögum atfylgja ok rèttri landsstjórn, þá er bezt at hann nái at njóta vitna[2] sinna; ok ef þer, bróðir, erut[3] ráðnir, at vilja lögin á málinu, þá er ráð at þer geymit geðs um, at sækja lögliga ok rèttliga málit, svá at lögkænir menn megi eigi þat finna, at þer mælit rángt ok í móti sannindum. Sigurðr konúngr svarar: þú sagðir mer í Kaupángi, at þetta mál átti[4] á þíngi at sækja. Þá svarar Eysteinn konúngr: Þíng þetta hafa sett[5] bændr með ser, til þess at hverr þeirra hafi sönn[6] lög af öðrum, en með því at sök er höfðuð á hendr lendum manni, þá á hana at sækja á lögþíngi, því sem her er í þessu fylki, en þat er Þrándarnes-þíng. Var þá rannsakat málit at lögum, ok sýndist lögmönnum at Eysteinn konúngr hefði lög at mæla í þessu. Þá stefndi Sigurðr konúngr þíng á Þrándarnesi á hálfs mánaðar fresti, ok bað Sigurð Hranason svara þar málum fyrir sik; gekk hann síðan til skipa sinna með lið sitt

1) báðir jafnt sök þessa, *H, M.* 2) vina, *M.* 3) til þess, *b. v. H.* 4) ætti, *H.* 5) lögmenn oc, *b. v. M.* 6) *v. í H.*

allt. En þeir Eysteinn konúngr ok Sigurðr Hranason nefndu enn vátta við, at málit var eydt á Kefsiseyjar-þíngi[1] at lögum; þeir mæltu þetta heldr leyniliga.

31. Nú stefndi Sigurðr konúngr at ser lendum mönnum ok lendra manna húskörlum; hann nefndi ör hverju fylki mikit bóndalið allt sunnan ör landi, ok dróst honum mikit lið; stefndi hann liði því öllu norðr með landi, ok hèlt fjölmenni því norðr á Hálogaland, ætlar nú svá greypiliga (at) at gánga, at gera Sigurð Hranason útlægjan þar norðr í sjálfs síns ætthaga. Stefndi hann nú til Þrándarnes-þíngs[2] öllum Háleygjum ok Naumdælum. Eysteinn konúngr bjóst með miklu liði, ok sótti til þíngsins. Þá mælti Eysteinn konúngr til sinna manna, at þeir skyldi fara ríkmannliga, skipa skjöldum þykt við stafna, taka vápn sín, ok láta búin; snúa þegar með skunda upp á land, er þeir koma at, ok sýna sik albúna til móts við Sigurð konúng. Þeir gerðu svá, gengu upp til þíngs at nefndum degi, ok höfðu hvárirtveggju mikit fjölmenni, ok kom Sigurðr konúngr enn fyrr með sitt fólk. En er Eysteinn konúngr nálgaðist Þrándarnes-þíng, mælti hann til Sigurðar Hranasonar: hver boð munþú bjóða, eðr hverjum svörum upphalda fyrir þik í dag á þínginu? Hann svarar: þar se ek til ráða ok forsjá, sem þer erut. Konúngr

1) Kefleyjar-þíngi, *M.* 2) Arnarheims-þíngs, *M.*

mælti: gakk nú higat[1], ef þú vill mín ráð hafa, ok fá mer í hendr með handsölum ok vitnum allt þitt mál til varnar fyrir Sigurði konúngi; köllum þá at við mik se málit, er þat miklu jafnara at við bræðr sjáimst á, ok reynim með okkr hvârr okkar konúnganna se lögkænni. Þeir gerðu svâ; gekk þá Eysteinn á þíngit með sitt lið. Sigurðr konúngr flutti framm málit á hendr Sigurði Hranasyni með slíkri freku sem fyrr eðr meiri. Þá svarar þegar Eysteinn konúngr, ok mælti: kunnigt er mönnum, hver boð Sigurðr Hranason hefir boðit fyrir sik Sigurði konúngi, þykkist hann lítt sakbitinn, þvíat hann bauð þat, at Sigurðr konúngr rèði einn. En þar sem hann hefir vitni til, at Magnús konúngr gaf honum upp finnferðina með slíkum máldaga, sem haldizt hefir hertil[2], ok skildi svâ fyrir at sá máldagi skyldi standa, meðan synir hans væri konúngar yfir Noregi, þá er nú sem fyrr, at ver viljum at hann komi vitnum fyrir sik, ok njóti sanninda í alla staði, en bæti þat allt sem eigi eru vitni til. En með því at Sigurðr konúngr vill ekki annat, en þreyta lög (um) til áfalls Sigurði, þá er enn hóf á, ef hann lætr ser líka, at lögum se fyrirsvarat[3]. Þá svarar Sigurðr konúngr: mikit kapp leggr þú á þetta mál, ok þótt meira starf verði[4] fyrir, áðr viðgángist málit, en ver hugðum, þá skal þó frammhalda, ok vilda

1) hegat, *H.* 2) *H*; til, *A.* 3) *Af þessum kap. hèrtil hefir M mjög stutt ágrip.* 4) þurfe, *H.*

ek hann sekan gera her í sínum frændhaga. Eysteinn konúngr svarar: fátt mun þat, bróðir, at eigi mun frammgánga, ef þer vilit fylgja, svâ marga stórhluti sem þer hafit vunnit, en her er vân at fáir menn ok smáir standi í mót. Sigurðr konúngr sagði at hann vildi at vísu, at málit færi til raunar, at[1] Magnús konúngr [mátti eigi[2] gefa leingr, en hann var konúngr at Noregi: ok skorti nú nökkut á, at eptir lögum se leitað, þá kenni ek Eysteini konúngi þar völd um, fyrir því at nú er til þess þíngs stefnt, sem Eysteinn konúngr sagði at lög skyldi um þreyta. Eysteinn konúngr svarar: at vísu hefir ek sagt, bróðir, at þer áttuð á Þrándarnesþíngi at sækja þetta mál á hendr Sigurði Hranasyni; en með því at málit skiptir svâ litum, at sjálfir konúngar eigist[3] við, þá má þat ekki á fylkisþíngi til leiðar snúast, þat skal til vegar gánga á lögþíngi einhverju, Frostoþíngi[4], Gulaþíngi eðr Heiðsæfisþíngi; nú hefir þetta mál gerzt í Frostoþíngi, fyrir því á þat þar at lúkast, ef lögin skal þreyta; þvíat ek hefir (nú) tekit mer á hönd allt þetta mál, er Sigurðr Hranason skyldi átt hafa, ok fyrir því eigum við nú saman málit konúngarnir; nú máttu þessu eigi í móti mæla. Þá tók Sigurðr konúngr svâ til máls: nú þótt svâ se, at þú hafir þetta mál þer í fáng tekit, ok sýnir þik svâ í mótgángi við mik, þá skal þat eigi

[1]) hvort, *H.* [2]) mætti, *H.* [3]) málit, *b. v. H.* [4]) Frostuþíngi, *H.*

fyrir því at heldr niðrfalla; stefndi hann þá Eysteini (konúngi) til Frostoþíngs, ok gekk við þat á brott; en Eysteinn konúngr nefndi ser enn vátta af hljóði, at enn var eydt málit fyrir Sigurði konúngi; en nú var svâ komit sumrinu, at liðit var Frostoþíng, ok varð at bíða þau missari[1]. Þat voru ok lög, þótt Frostoþíng væri nefnt, at þat mátti vel eiga í bænum í Niðarósi, í þann tíma sumars sem þíngit átti at vera.

32. Frá því er sagt á því sama sumri eitt sinn, er Sigurðr konúngr var í bænum, ok sat á tali við Sigríði Hranadóttur, at menn sá skip fara at bænum, ok grunaðu[2] at vera myndi Ívar af Fljóðum. Þá sendi Sigurðr konúngr Einar prest Skúlason, at vita hvârt Ívar væri kominn eðr eigi. En er Einar kom aptr fyrir konúng kvað hann þetta:

Þer hefig, þeingill Mæra[3],
(þinn er vegr mikill) segja
(ertu[4], svâ at eigi skortir,
alfróðr[5]) sögu góða:
eigi er Ívar bauga
enn sittu kyrr hjá henni
[fægi rjóðr[6] af Fljóðum[7]
fíngrmjórr kominn híngat.

Svâ hafði Ívar fyrr verit kallaðr. Þat sumar síðar kom Ívar í land, ok fèll þat mál þar niðr.

---

1) misseri, *H.* 2) grunaði, *M*; grunaði konúng, *H.* 3) Møra, *M.* 4) *H*; er þú, *A.* 5) allfróðr, *H*, *M.* 6) fegirjóðr, *M.* 7) *M*; Fljóði, *A.*

33. Eysteinn konúngr var í Þrándheimi um vetrinn. Um sumarit eptir gerði hvârtveggi konúngr orð lendum mönnum sínum ok öðrum handgengnum mönnum, at þeir skyldi fjölmenna til þíngsins. Ólafr konúngr, bróðir þeirra, var þá á lífi, er þetta var tíðinda. Honum var ok stefnt til þíngs með sína handgengna menn. Eysteinn konúngr var fyrir í bænum, ok hafði vistir sínar í konúngsgarði. Ólafr konúngr kom fyrr en Sigurðr konúngr, ok settist í bænum skamt frá Ólafskirkju. Sigurðr konúngr kom nökkuru síðar með miklu skipaliði; hann lagði upp í ána Nið, ok bygði hann með sína menn [á skipum[1] undir tjöldum. Þann dag er þeir skyldu þíng heyja, ok málum viðskiptast, var blásit í bænum, ok sagt at bændr ok þíngunautar skyldu fyrst gánga á þíngit, ok skipa dómum eptir lögum, ok var þar [mestr forgángsmaðr laganna Jón mörnefr[2], lendr maðr [ok göfugr, faðir Eindriða, er fèll undir Serk. Þar var með Ólafi konúngi Sigurðr Sigurðarson af Hvítasteini, sá lendr maðr[3], er einna var kallaðr vitrastr í Noregi. Eysteinn konúngr gekk fyrstr konúnganna til þíngs með sína sveit; hann var allfjölmennr, ok krafði þegar lenda menn at þeir skyldi verða honum samþykkir, ok styðja (ok styrkja) mál Sigurðar Hranasonar eptir efnum. Jón mörnefr[4] svarar, kvað mundu verð-

---

1) *v. í H, en finnst einnig í M.* 2) mest firemaðr Jóan Mörnefsson, *M.* 3) *þannig H, M; þó er orðit* Serk *óskírt í H, svá at einnig má lesa* Seck, *en í M stendr* Serc *mjök skírt; frá* [ *v. í A.* 4) Mörnefsson, *M.*

a mikinn vanda á, at skipta újafnt með þeim bræðrum; en lèt sik fúsastan at fylgja Eysteini konúngi, ef þat yrði rètt at lögum. Þá mælti Eysteinn konúngr: eingis vil ek yðr beiða annars, en [þer segit þat lög, sem[1] lög eru; en með því at ek fái[2] svâ umbúit með lögum, at þer verðit ekki skyldir at dæma um þau mál, sem her eru[3] framflutt í dag, þá vil ek þar hafa heit af yðr, at þer gerit þat eigi sakir ofríkis bróður míns at dæma í mót rèttu. At þessu varð rómr mikill. Því næst kom Ólafr konúngr á þíngit með sína sveit; hann hafði þeirra miklu minnst fjölmenni. Síðast kom Sigurðr konúngr, ok var lið hans náliga alvâpnat, nema þeir höfðu eigi skjöldu. Tók þá Sigurðr konúngr, ok flutti framm sókn síns máls á hendr Sigurði Hranasyni, sem honum þótti mest at lögum vera, með áliti ráðsmanna sinna, er umhugðu með honum. Eysteinn konúngr settist þá fyrir svör þess máls, ok varð þat fyrst at ræða á þínginu, hvârt Magnús konúngr mætti gefa nökkur lèn leingr en um sína daga, eðr hvârt sú vörn mætti vera málsins, ok kölluðu lögmenn at konúngr mætti gera aldarmál [um gjafir sínar[4], ok skyldi lýsa þeim máldaga í öllum lögþíngum í Noregi, í Frostuþíngi, Gulaþíngi (ok) Heiðsæfisþíngi. Síðan var eptir því leitað, hvârt Sigurðr Hranason hefði nökkut þeim máldaga lýst, leingr en um daga Magnúss kon-

[1]) þess er, *M.* [2]) fæ, *M.* [3]) ro, *M.* [4]) í sínom veizlom í ætt fram, *M.*

úngs, ok [urðu eigi[1] vitni til þess, at þat væri gert. Þá inti Sigurðr konúngr til þess, at hann vildi ekki þau lög láta vera í Noregi, at ne einn konúngr mætti [lèn veita[2] leingr en um sína daga; taldi hann þá eydda þessa vörn fyrir Eysteini konúngi, at Sigurðr Hranason mætti hafa fínnförina. Eysteinn konúngr svarar, lèzt vilja at konúngr mætti gera aldarmál um gjafir sínar þaðan í frá sem þar til. Þat mál samdist á þá leið, með umráði ríkra manna, at konúngar skyldu hluta um, hvârr ráða skyldi þaðan í frá, en hluti skyldi skera ok í skaut bera. Þá spurði Eysteinn konúngr Ólaf konúng, bróður sinn, hvârum hann vildi samþykkr vera um þetta mál. Hann svarar: við höfum leingi samanhaldit okkarri elsku, ok verit vel samlyndir, vil ek þat kalla mitt ráð um lög ok landsstjórn, sem þú vill vera láta, Eysteinn konúngr. Þá mælti Eysteinn konúngr: þat ræð ek þá, Sigurðr konúngr, at skera hinn þriðja hlutinn í skaut, þvíat jafnt er Ólafr konúngr son Magnúss konúngs sem við. Sigurðr konúngr svarar: sjá megu menn þat, at nú er leitað allra útvega, ok villtu þar hafa tvâ hluti í skauti, er ek hefi einn, en eingrar sæmdar ne virðíngar skal ek varna Ólafi konúngi. Síðan voru hlutir bornir í skaut, ok kom upp hlutr Sigurðar konúngs, at hann skal ráða, en hann kvað upp hit sama, sem fyrr var vili hans til.

1) *v. í M.* 2) gera lög, *M.*

34. At svâ komnu máli var eptirleitað, hvårt Sigurðr Hranason hefði haft feð án leyfi[1] þeirra er áttu. Nú áttu margir menn hlut í at ræða um, hversu þat hefði farit, ok varð eingi til at veita þar örskurð um, nema Bergþórr bokkr[2], son Sveins bryggjufótar; hann tjáði at Sigurðr var sannr at sök. Sigurðr konúngr beiddi þá lögmenn ok dómendr at dæma málit á hendr Sigurði Hranasyni, kallaði hann þá ljóst um málefni, ok lèzt þat fyrir ser ætla, at illa myndi hlýða þeim, er þann dóm kvæði upp, er honum líkaði eigi, at svâ vöxnu málinu. Eysteinn konúngr sagði at honum þótti allósannlikt, at dæma Sigurð sekan þess máls, er Magnús konúngr hafði veitt honum fyrir sína hönd ok sona sinna: ok eingi hefir rofit hertil, sagði hann. Nú veit ek eigi, nema yðr þykki minna vega mín reiði, en Sigurðar konúngs, en þat hygg ek at mer skal eigi liggja í minna rúmi, ef annat er dæmt en mer þykkir lög vera, þvíat ek ætla at [ek viti hóti heldr í lögunum[3] en hann. Þá svarar [Jón mörnefr[4]: eigi þykkir mönnum vandalaust, at veita örskurð um þetta mál, en þó munum ver þat gera verða, ef ver erum skyldir til, hversu sem þá líkar hverjum. Eysteinn konúngr mælti: þer skulut nú bíða [um litla stund[5], at fella dóminn á. Þá lèt hann gánga framm vitni sín ok vâtta, þá er nefndir voru fyrsta sinni á móti, at þetta mál var eydt

1) *þannig A, M*; leyfis, *H.* 2) bukkr, *H.* 3) mèr mune hóti nær fara, at ek kunna lögin, *H.* 4) Jóan mörnef, *M.* 5) líttat, *M.*

fyrir Sigurði konúngi; þarnæst flutti hann framm vitni sín ok vâttorð, þau er framfóru á Kefsiseyjarþíngi[1], at eydt var málit; síðan voru framborin þau vitni, er nefnd voru á Þrándarnesþíngi, at þar var ok eydt þetta mál. Eptir þat mælti Eysteinn konúngr: því skýt ek nú til lögmanna, at þer segit lög um, hvârt maðr má aldri svâ misfara með saksóknum sínum, at eigi skyli ávalt, [er vill, sækja hina sömu[2] sök; þvíat ek hygg þat lög vera, ef svâ mikill vyrði mismunr lögkænsku[3] manna, at mál vyrði eydt á þrimr[4] lögþíngum, ok vâttar atnefndir, at þaðan af skyldi aldri verða uppreist þess máls, ok eigi dómendr skyldir at dæma þat síðan. Nefndi hann þá vitni, at hann bannaði dómendum at dæma þetta mál. Þá svarar [Jón mörnefr[5]: dæma myndi ek málit, sem mer sýndist lögligâst, ef ek yrði skyldr til, en ek verð feginn at þetta standi fyrir dóminum; þvíat ek kalla at Eysteinn konúngr mæli lög. Þá svarar Sigurðr konúngr með reiði mikilli, ok mælti: vera má at Eysteinn konúngr hafi þetta mál eydt með lögkrókum sínum, en eptir er enn einn dómrinn, ok kann vera, at þeim [se ek[6] eigi úvanari en hann, þann at heyja, ok sá skal nú örslíta með oss, ef ver nám eigi rèttu. Gekk hann þá af þínginu til skipa sinna með allt sitt lið; en Ey-

---

1) Kepsiseyjarþíngi, *H*; Arnarnesþíngi, *M*. 2) jaga á enni sömo, *M*. 3) kunnustu, *M*. 4) eðr fjórom, *b. v. M*. 5) Jóan mörnef, *M*. 6) siac, *M*.

steinn konúngr ok Ólafr konúngr fóru til herbergja sinna. Eysteinn konúngr kom í stofuna, ok settist til drykkju; þá var hann kátr mjök. Sumir menn hans tjáðu, hversu mikill (munr) var vorðinn vizku þeirra bræðra, en sumir svarkuðu um, hvern enda þetta mál myndi hafa. Eysteinn konúngr spurði Sigurð Hranason, hversu honum líkaði málalykt eða liðveizlan. Hann svarar: líkar mer hit bezta yður meðferð um mitt mál; þvíat þer hafit mer veitt fullt lið í alla staði, ef eigi er oflið. Þá reiddist konúngr ok mælti: vant er at sjá, hverr sá maðr er, at þrek ok hugbørð hafi, til at þiggja fulla liðveizlu af ser meira manni, ok því er ek óhlutsamari, en ek myndi ella.

35. Litlu síðar leitaði Sigurðr Hranason ser færis[1], at gánga (út) ör drykkjustofunni: þat var síð um kveldit. En er hann sá at eingi maðr hèlt vörð á honum, þá gekk hann á brott skyndiliga einn saman. Hann var skikkjulauss í skallats kyrtli ok blám brókum, ok gyrðr í brækr; hann hafði höggspjót mikit í hendi á lágu skapti, svâ at taka mátti hendi til fals. Hann gekk ofan [um stræti[2], ok nam eigi fyrr staðar en hjá skutbryggju á skipi Sigurðar konúngs; þar sat maðr fyrir ok hèlt vörð. Sigurðr bað ser leyfis at gánga út á skipit, en varðmaðr lèt ekki fljótt við því. Þá mælti Sigurðr: vel um 2 kosti, gakk af

1) farborþa, *M.* 2) til sjófar, *H.*

bryggjunni, eðr spjótið stendr á þer. [Varðmaðr gekk af bryggjunni[1], en Sigurðr út á skipit í fyrirrúmit. Borð stóðu, ok varð ekki vart við Sigurð Hranason, fyrr en hann fèll á kne fyrir konúng, ok mælti: ekki vil ek, herra Sigurðr konúngr! at þit bræðr deilit illdeildum um mitt mál, sem nú horfist á, heldr gef ek [mik nú ok mitt höfuð[2] á yðvart vald ok miskunn, gerit af því slíkt er þer vilit; þvíat heldr vil ek skjótt deyja, en af mer hljótist missætti með ykkr Eysteini konúngi. Lögðu þá margir menn góð orð til, at konúngr tæki vel máli Sigurðar, er hann gekk á hans vald. Konúngr tok seint til orða, ok mælti svâ: víst erþú skörúngr, Sigurðr! þvíat þat ráð hefir þú upptekit, er öllum oss gegndi bezt. Nú stóð áðr til svâ mikils vâða, at þat kann eingi virða, nema guð einn; [þvíat ek hafði staðráðit, at gánga upp á Íluvöllu í morgin með allt lið mitt, ok berjast við Eystein konúng[3]. Nú skal taka sættir af þer, ef þú vill festa allt málit á mitt vald ok dóm. Sigurðr gerði svâ. Þá mælti Sigurðr konúngr: ekki skal nú dvelja sættargerðina; leingi hefir áðr hindrazt vârt mál[4]. Ek geri á hendr þer 15 merkr (gulls), þat skaltu gjalda allt á morgin, áðr en lokit se hámessu at Kristskirkju. Bræðr mínir vildu svívirða mik, en ek vil gæta þeirra sæmdar sem

1) Hann caus enn vildara, *M.* 2) nú fe mitt ok mik sjálfan, *H.* 3) *v. í M.* 4) *Öll þessi frásögn (30—35 Kap.) er mjög samandregin í Hk, en þar v. þat allt er eptir kemr af þessum kap.*

minnar: þú skalt gjalda 5 merkr Eysteini konúngi, aðrar 5 Ólafi konúngi, mer hinar þriðju 5, ok hafa goldit þeim báðum, áðr en þú geldr[1] mer. Þetta fe allt skal í eingu gjalda öðru en skíru gulli; þvíat mer er sagt, at þú munt gullauðigr vorðinn af skattfenu vâru konúnganna. En ef þú geldr þetta fe eigi svâ í alla staði sem nú er tínt, þá er lokit sætt vârri. Sigurðr Hranason svarar: þakka vil ek yðr, herra! er þer lètuð mik ná sættum (af yðr), hver raun sem á verðr um gullauðinn minn. Gekk Sigurðr Hranason þá af skipinu ok upp í bæinn. En er hann kom inn í stofuna fyrir Eystein konúng, sagði Sigurðr honum allt, sem farit hafði með þeim Sigurði konúngi. Eystein konúng setti dreyrrauðan, svâ at honum mátti nær einum fíngri dreyra vekja, ok mælti síðan: til allmikils vâða hefir þú oss stýrt, ok þegit illa mína liðveizlu, ok eingan hlut kann ek í at eiga þessi sætt. Gekk Eysteinn konúngr þá til svefns, en Sigurðr gekk til vina sinna, ok tók af þeim gull at láni, ok urðu þat allt saman, ok þat er hann átti áðr, vel 5 merkr í brendu gulli. Um morgininn, er lokit var formessum, gekk Sigurðr á fund Eysteins konúngs, ok bað hann láta taka skálir ok vega gullit; ok er þat var gert, mælti Sigurðr: nú vil ek, herra konúngr! at þer takit við fe þessu, kallit þat hvârt er þer vilit gjald

[1] gjaldir, *M.*

eðr liðslaun, ok eru þó minni en skyldi. Þá mælti Eysteinn konúngr: hvat fe skaltu gjalda bræðrum mínum, Ólafi konúngi ok Sigurði konúngi? Hann svarar: þar hef ek upp, sem mer þykkir skyldast, hversu sem önnur fara gjöldin. Eysteinn konúngr mælti: veit[1] ek at þú munt fe þetta hafa tekit at láni af mönnum, ok vil ek at þú þiggir nú þetta fe af mer at gjöf. Sigurðr þakkaði konúngi gjöfina, ok gekk þegar á fund Ólafs konúngs, ok kvaðst vilja gjalda honum gullit. Ólafr konúngr spurði, hvårt hann hefði goldit Eysteini konúngi. Sigurðr segir honum, hversu farit hafði með þeim. Þá mælti Ólafr konúngr: enn er samt sem fyrra dag, at ek kann mer ekki betri ráð en Eysteinn konúngr, ok vil ek gefa þer þetta fe[2]. Sigurðr Hranason gekk þá á fund Sigurðar konúngs, ok var þá hríngt til hámessu at Kristskirkju. Hann bað Sigurð konúng láta vega feït, ok var svå gert, ok [voru vel vegnar[3] 5 merkr. Þá spurði Sigurðr konúngr, ef konúngunum væri goldit. Sigurdr segir, at goldit var hvårumtveggja. Konúngr mælti: þá reyndist, sem mik varði, at þú vart mjök gullauðigr. Sigurðr Hranason sagði þá allt sem farit hafði, at báðir konúngarnir höfðu honum uppgefit, ok þetta var þat sama gull, sem hann hafði [þeim goldit.

1) þat vetti (*þ. e.* vænti), *M.* 2) oc metti svà ófriþr þeirra legjast, *b. v. M.* 3) reiddist þat vel, *M.*

Konúngr mælti[1]: ek vil ok gefa þer þetta fe með þeim skildaga, at ef missætti nökkut gerist milli vâr bræðra, þá vil ek at þú ser minn vin fyrir þessa sök. Sigurðr svarar: gjarna vildi ek þess biðja, at yðr skildi aldregi á, ok öllum yðr bræðrum vil ek gott; en hversu mikit fe sem viðliggr, ok þótt líf mitt liggi við, þá mun ek eingan mann um aldr virða framar en Eystein konúng, meðan ek lifi. Þa svarar Sigurðr konúngr: allra mestr munr mun þá vera, ef ek tek þetta fe; nú vil ek gefa þer fe þetta allt, þótt þú heitir mer eingri vináttu. Sigurðr Hranason þakkaði Sigurði konúngi með miklum blíðskap þessa gjöf ok allt annat, þat er hann gerði honum til sæmdar, [ok bað konúng gánga í garð sinn at snæða þann dag, með svâ marga menn sem hann vildi sjálfr. Konúngr játti því[2].

36. Eptir messuna gekk Sigurðr konúngr með 60 manna í garð Sigurðar Hranasonar, ok er þeir komu í drykkjustofuna, sá þeir þar ágætan umbúnað í tjöldum ok hervâpnum, var skjöldum skipat allt húsit um veggina, ok svâ fagrliga umbúizt, at sjálfr konúngr gerði at ágætum, ok allir þeir: þar var hin virðuligsta veizla, gekk því allan þann dag. Sigurðr Hranason ok hans menn gengu um beina, báru inn drykk ok aðra hluti, þá er hafa þurfti, ok um dag-

1) þagnaði, oc segir síþan, *M.* 2) *v. í M, Hk.*

inn, er þeir voru útgengnir, svâ at konúngr var einn eptir með sína sveit, þá mælti Sigurðr konúngr til sinna manna: hvar sá þer slíkan húsbúnað í lends manns hýbýlum[1], er eigi getr slíkan í konúngs herbergjum, miklu er sjá framar at hvívetna. Þá svarar Bergþórr bukkr: víst eru her góð vâpn ok fagrliga umbúizt, en allra mestr sómi væri þeim í, er veitir, at hann ætti nökkut sjálfr í slíkum gersimum, ok væri eigi allt at láni til tekit. Konúngr reiddist ok mælti: þá er öllum auðsæligust mannsins vinsæld, er hann hefir af öðrum allt þat er hann vill, en ekki er slíkt mælt góðgjarnliga. Sigurðr Hranason gekk þá í stofuna, ok hafði heyrt, hvat þeir höfðu viðmælzt. Sem hríngdi til aptansaungs, vildi konúngr gánga. Veitti Sigurðr þá konúngi stórmannligar gjafir, ok bað hann þagat gánga eptir aptansaung, at drekka Kristsminni. Konúngr gerði svâ. En er þeir komu í stofuna, voru brottu skildir allir, nema einn ridderaskjöldr forn hèkk við trapizu, ok þar hjá slæður fornar. Þá mælti Sigurðr konúngr: skjótt hefir her nú skipazt, Sigurðr! meðan ver höfum brott verit. Sigurðr Hranason svarar: Þat er sem vân er, herra: at hver vili hafa sitt, þvíat ek átti her eingan skjöld, utan þat er á yðrum dómi, hvârt ek skal þenna eiga, er nú hángir her eðr eigi. En svâ er tilfarit um skjöld þenna, at ver fórum í herferð með Magn-

1) hybulum, *A.*

úsi konúngi, feðr yðrum, til Írlands, ok gengum á land insta sinni, er eigi skyldi; kom þá í mót oss úvígr herr Íra, ok tókst bardagi, sem þer hafit spurt, ok gerðust þau stórtíðindi, at þar fèll Magnús konúngr, faðir yðvar, Eyvindr olbogi stallari, ok margir aðrir góðir dreingir; en flótti kom í lið vârt, ok runnu menn til skipa, hverr sem fara mátti, ok þóttumst ek eigi fyrstr vera í flóttanum. En þá er þeir sóttu ofan at skipunum, var fen nokkut djúpt á sjófarbakkanum, ok hlupu menn þar (yfir) sem atkomu; gátu sumir yfir hlaupit, en sumir eigi, voru þeir stángaðir með spjótaoddum, er eigi komust yfir. En þá er ver sóttum at feninu, sá ek mann renna fyrir mer, sá hafði skjöld þenna á baki, ok slæður um sik, ok þá er hann sá at mönnum fórst eigi vel um fenit, kastaði hann fyrst skildinum, en síðan sleit hann af ser slæðurnar; hann hafði á höfði silkihúfu hlaðbúna, ok þótti mer þat helzt frami hans, er hann hèlt[1] húfunni; en mer sýndist sem þar væri Bergþórr bukkr, en Viðkunnr Jónsson mun þat vita; þvíat hann var (þar), þá er ek tók upp slæðurnar ok skjöldinn, þvíat ek hafði eingan áðr í orrostunni, en nú hefi ek þenna skjöld varðveitt síðan, en nú dæmi þer, herra! hvârr okkar Bergþórs hafa á. Konúngr svarar stutt ok skjótt: hafþú skjöld! Gekk konúngr í brott, en Bergþórr varð reiðr mjök. Litlu

[1]) fleygði eigi, *H.*

síðar andaðist Ólafr konúngr af sótt, sem fyrr er ritað; en Sigurðr ok Eysteinn voru baðir konúngar, ok urðu aldri síðan vel samþykkir, en þó hèlzt friðr innanlands, meðan þeir lifðu. Sigurðr Hranason hafði lèn sem áðr, ok þótti hinn mesti sæmdarmaðr ok fullhugi[1].

37. Þat er mál manna, at eigi hafi meiri skörúngr verit ne stjórnsamari í Noregi en Sigurðr konúngr; en þó var þat, er áleið æfi hans, at varla fèkk hann gætt skaplyndis síns ok hugar, svâ at eigi yrði þat stundum með miklu áfelli, en jafnan þótti hann merkiligr konúngr ok ágætr af [ferð sinni[2]. Svâ bar til at Sigurðr konúngr var á Upplöndum at veizlu nokkurri; þar voru laugar gervar, en er konúngr var í lauginni, ok var tjaldat yfir kerit, þá þótti honum renna fiskr í kerinu hjá ser; þá sló á hann hlátri, svâ at því fylgdi staðleysi ok vitleysi[3], ok kom þat mjök optliga at honum (síðan). Ragnhildi, dóttur Magnúss konúngs berfætts, giptu þeir bræðr hennar Haraldi kesju, hann var Eiríksson góða Danakonúngs, voru synir þeirra Magnús, Ólafr, Knútr ok Haraldr.

38. Nikolás Danakonúngr Sveinsson fèkk Margrètar drotníngar, er fyrr hafði átt Magnús konúngr berfættr, ok hèt son þeirra[4] Magnús hinn sterki. Nikolás konúngr sendi orð Sigurði

1) *þenna kap. v. í M, Hk.* 2) *þannig M; Hk;* ferðum sínum, *H;* atferð sinni, *A. þat sem eptir kemr af þessum kap. v. í M.* 3) máttleysi, *H.* 4) *þannig H;* Nikolás ok, *b. v. A;* Nikoláss, *Hk.*

konúngi jórsalafara, ok bað hann veita ser lið ok styrk, allan þann sem hann mætti, af sínu ríki, ok fara með Nikolási konúngi austr fyrir Svíaríki til Smálanda, at kristna þat fólk; þvíat þeir er þar bygðu hèldu ekki kristni, þótt sumir menn hefði við skírn tekit. Var þann tíma í Svíaveldi mart fólk heiðit, ok mart illa kristið, þvíat þá voru þar nökkurir konúngar, þeir er kristni köstuðu, ok hèldu upp blótum, svâ sem gerði Blót-Sveinn eðr síðan Eiríkr konúngr hinn ársæli. Sigurðr konúngr hèt ferð sinni, ok gerðu konúngar stefnulag sitt í Eyrarsundi. Eptir þat bauð Sigurðr konúngr út almenníngi af öllum Noregi, bæði at liði ok skipum; en er saman kom herr sá, þá hafði hann vel 300 skipa. Nikolás konúngr kom fyrr miklu til stefnunnar, ok beið þar leingi; þá kurraðu Danir illa, ok sögðu at Norðmenn mundu ekki koma. Þeir rufu þá leiðángrinn, fór konúngr brottu ok allr herrinn. Því næst kom Sigurðr konúngr, ok líkaði honum illa; hèldu þó austr í Sumrar-ós[1], ok áttu þar húsþíng, talaði Sigurðr konúngr um lausyrði Nikoláss konúngs; kom þat ásamt, at þeir skyldi gera nökkut hervirki í landi hans fyrir þessar sakir. Þeir tóku upp þorp þat er heitir Tumaþorp[2], þat liggr skamt frá Lundi; hèldu síðan austr til kaupbæjar, þess er heitir Kalmarnir[3], ok herjaði þar ok svâ á Smálöndum,

1) *Einnig H, þó óskirt*; Sumar-os, *Hk.* 2) *þannig Hk*; Komaþorp, *A, H.* 3) Kalmarnar, *Hk.*

ok lagði vistagjald á Smálendínga, 15 hundruð nauta, ok tóku Smálendíngar við kristni. Síðan vendi[1] Sigurðr konúngr aptr herinum, ok kom í sitt ríki með mörgum stórum gersimum ok fjárhlutum, er hann hafði aflat í þeirri ferð; var sjá leiðángr kallaðr Kalmarna-leiðángr. Þat var sumri fyrr en myrkrit mikla. Þenna einn leiðángr reri Sigurðr, meðan hann var konúngr at Noregi[2].

39. Svâ [bar til[3] eitt sinn at Sigurðr konúngr gekk frá skytníngi til aptansaungs; voru menn drukknir mjök ok kátir. Sat konúngr ok hirðin úti fyrir kirkju, ok lásu aptansaunginn, ok varð saungrinn eigi greiðligr. Þá mælti Sigurðr konúngr: hvat karla er þat, er ek se þar hjá kirkjunni í feldi nökkurum stuttum[4]. Menn hans kváðust eigi vita. Konúngr mælti:

> Villir hann vísdóm allan,
> veldr því karl í feldinum[5].

Karl gekk fram ok mælti:

> Hykk at her megi þekkja
> heldr í stuttum feldi
> oss, en ek læt[6] þessa
> óprýði mer hlýða:
> værir[7] mildr, ef mœra[8]
> mik vildir þú skikkju

1) vændi, *A.* 2) *þenna kap. v. í M.* 3) barsc at, *M, Hk.* 4) *M; v. í A, H, Hk.* 5) feldi, *Hk.* 6) *M, Hk;* lít, *A, H.* 7) væri, *M.* 8) *þannig M;* mæra, *A, H, Hk.*

(hvat hafim[1] heldr en tötra),
hildíngr! muni vildri.

Konúngr mælti: kom til mín á morgin, þar sem ek drekk. Um daginn eptir kom þessi Íslendíngr, er síðan var kallaðr Þórarinn stuttfeldr, til drykkjustofunnar, þar sem Sigurðr konúngr sat. Maðr stóð úti fyrir stofunni, ok hafði horn í hendi, sá sagði svâ: þat mælti konúngr, Íslendíngr! at þú skyldir yrkja vísu, áðr þú gengir inn, ef þú vildir þiggja nökkura vingjöf at honum; en þú skalt kveða um þann mann, er Hákon heitir, ok er Serksson, ok geta þess í vísunni, at hann er kallaðr mörstrútr. Þessi maðr er talaði við Íslendíng var kallaðr Árni fjöruskeifr. En er þeir komu inn í stofuna, gekk Þórarinn fyrir konúng, ok kvað:

Þú vændir[2] mer, Þrænda
þengill, ef ek stef fenga
frænda Serks, at fundi,
fólkrakkr[3]; gefa nakkvat[4]:
lètzþú at Hákon heiti[5],
hildíngr hinn femildi!
enn[6] samir mer[7] at minnast,
mörstrútr, á þat gjörva.

Konúngr mælti: þat sagða ek aldri, ok munþú vera spottaðr, ok er þat ráð, at Hákon skapi þer víti fyrir; farþú í sveit hans. Hákon mælti:

---

1) hafi, *Hk.* 2) vendir, *H, M.* 3) albrakkr, *H.* 4) *M, H*; nökkut, *A.* 5) *Hk*; hèti, *A, H, M.* 6) *Hk*; nú, *A, H.* 7) *v. í M.*

velkominn skal Íslendíngr her með oss, ok se ek hvaðan þetta er atkomit. Settist Þórarinn niðr hjá Hákoni, ok voru menn kátir. En er áleið daginn, ok drykkr fèkk á menn, þá mælti Hákon: þykkist þú nökkut eiga bótþarfa við mik, Íslendíngr! eðr þótti þer eigi heldr sett vèlræði fyrir þik? Þórarinn svarar: víst þykkjumst ek þer bæta eiga. Þá munum við sáttir, ef þú yrkir aðra vísu um Árna fjöruskeif. Þórarinn lèzt þess albúinn; gengu síðan um þvert gólf[1] þar fyrir sem Árni sat. Þórarinn kvað:

fullvíða hefir fræðum
Fjöruskeifr um[2] her veifat
lystr[3] ok leiri kastað
lastsamr ara hins gamla:
[ok vantu eina kráku[3]
orðvandr á Serklandi
skeifr bartu högna húfu
hræddr varliga brædda[4].

Árni hljóp upp, ok brá sverði, ok vildi höggva til Þórarins. Hákon bað hann hætta, ok vera kyrran; kvað hann á þat mega minnast, at hann myndi bera lægra hlut, ef þeir ættist við. Þórarinn gekk þá fyrir konúng, ok sagði at hann hafði ort drápu um hann, ok bað hann hlýða, ok þat veitti konúngr; þat kvæði er kallat Stuttfeldar-drápa. En er lokit var kvæðinu, spurði konúngr hvat hann vildi ráða sinna. Hann

1) gólb, *H.* 2) *v. í H*; of, *M*, *Hl.* 3) *H sýnist hafa* lyst. 4) *sèst ekki í M.*

kveðst hafa ætlað ferð sína til Róms. Þá fèkk konúngr honum fe mikit, ok bað hann vitja sín, er hann kæmi aptr, ok kvaðst þá myndu gera sóma hans, en her er eigi greint, hvârt þeir fundust síðan.

40. Þat er sagt eitt sinn, þá er þeir bræðr voru báðir samt, at Sigurðr konúngr var kominn í sæti sitt, en Eysteinn eigi; þá mælti Íngibjörg Guttormsdóttir, kona Eysteins konúngs til Sigurðar konúngs: mörg ok mikil stórvirki munu leingi uppi, þau er þer, herra! hafit unnit út í löndum. Konúngr svarar með vísu:

Skjótt bar ek skjöldinn[1] hvíta
(skald[2] biðr at guð valdi)
ár til eggja skúrar
ótrauðr, en frá rauðan:
þat hefik högg of höggvit
handlaust[3] á Blálandi
(guð ræðr sókn ok sigri,)
svanni! þínum manni.

41[4]. Sex vetrum eptir andlát Ólafs konúngs bar svâ til, at Eysteinn konúngr var staddr á veizlu [suðr á Askstöðom[5]; þar fèkk hann bráðasótt, þá er hann leiddi skjót til bana[6]. Lík hans var flutt norðr til Kaupángs, ok jarðat at

1) scjölld enn, *M*; skjöld inn, *Hk*. 2) *H sýnist hafa* skalldr eðr skalldz. 3) handvist, *M*, *H*, *Hk*. 4) *Hk smeygir hèrinn kafla um skipsmíði og naustagjörð Eysteins konúngs í Niðarósi*. 5) *þannig lagfært*; einni, *H*; suðr á . . ., *A*; suðr askstöðom, *M*; á Stinn oc Hustöðom, *Hk*. 6) Hann andaðist 4. kalendas septembris, *b. v. Hk*.

Kristskirkju, ok er þat mál manna, at yfir eingis manns líki[1] hafi jafnmargr maðr svâ hryggr staðit í Noregi, síðan Magnús konúngr, son Ólafs hins helga, andaðist[2]. Eptir þat var Sigurðr einn konúngr í Noregi, meðan hann lifði.

42. Þat er sagt at einn Hvítdrottinsdag sat Sigurðr konúngr með vinum sínum ok miklu fjölmenni. Sem konúngr var kominn í hásæti sitt, sá menn at hann sat með miklu vanmegni ok þúngu yfirbragði; voru þá margir hræddir um, hversu af mundi reiða. Konúngr leit yfir lýðinn, örðgaði[3] augun, ok sá umhverfis sik á pallana; hann tók upp bókina dýru, er hann hafði haft í land, hon var öll ritin gullstöfum, svâ at eigi hafði meiri gersimi komit í einni bók í Noreg. Drotníngin sat hjá honum; þá mælti konúngr: mart kann skipast á mannsæfinni; ek átti 2 hluti, er ek kom í land, þá er mer þóttu beztir, þat var drotníngin ok bók [þessi, er ek held á[4], en nú þykki mer hvârr öðrum verri; þetta [tveggja hvârt[5] á ek nú svâ í eigunni, er mer þykkir verst allra hluta; drotníngin finnr eigi, hversu ferlig hon er, þvíat geitarhorn stendr ör höfði[6] henni, ok því betri sem mer þótti hon, því verri þykki mer hon nú; [en bók þessi dugir til einskis[7]. Því næst kastaði konúngr bókinni framm á eldinn, er' gjörr var

---

1) greptri, *H*; grepti, *Hk*. 2) Eysteinn var konúngr 20 vetr at Noregi, *b. v. Hk.* 3) avrgaði, *H*; *en M hefir* arþgaþi augonom. 4) sjá herna, *M.* 5) hvortveggja, *H*; *v. í M.* 6) enne, *H.* 7) *þannig Hk, v. í A, H.*

á hallargólfinu, en hann laust drotníngina kinnhest. Hon grèt, ok þó méir konúngsins mein, en mótgerð ser veitta. Sá maðr stóð fyrir konúngi, er hèt Óttar birtíngr, einn bóndason, hann var kertissveinn, ok skyldi þá þjóna um daginn; hann var lítill vexti ok þó kurteis, svartr á hár ok hörund, ok því þótti honum auknefni gefit, er hann var birtíngr kallaðr. Hann hljóp[1] til, ok greip bókina af eldinum, ok hèlt á. Hann mælti: úlíkir dagar, herra! þá er þú sigldir með fegurð ok prýði at Noregi, ok allir vinir þínir runnu móti þer með fagnaði, játtuðu allir þer konúngdóm með hinni mestu virðíng ok sæmd; en nú eru komnir yfir oss hrygðardagar, þvíat á þessi ágætu hatíð eru her komnir margir vinir þínir, ok megu eigi kátir vera sakir þinnar vanheilsu; gerit nú svâ vel, góði herra[2], þiggit mitt heilræði, gleðit fyrst drotníngina með blíðskap, er þer hafit mikit afgert við, ok þar út í frá alla höfðíngja yðra ok hirð, vini ok þjónostumenn. Þá mælti konúngr: hvat munþú kenna mer ráð? hinn herfiligsti kotkarlsson ok hinnar minnstu ættar. Hljóp hann þá upp, ok brá sverði, ok reiddi at honum grimliga báðum höndum. Óttar stóð rèttr, ok brá ser ekki við, ne blöskraði. Konúngr brá flötu sverðinu, er ofan reið at höfði Óttars, ok sló linliga utan á síðu[3]

1) hlypr, *M.* 2) *M. b. hèr inn:* hritt harminom, oc gleð vini þína, (er) allir vildo fegnir til þín coma, oc þigg þetta heilr., *o. s. fr.* 3) herðar, *Hk.*

honum. Því næst þagnaði konúngr, ok settist niðr í sætið; þögðu þá ok allir menn, þeir sem í höllini voru. Þá litaðist konúngr um, ok heldr hógligar en fyrr, ok mælti síðan: Seint má reyna mennina, hvílíkir eru; her sitja inni hinir mestu vinir mínir, lendir menn [ok stallarar, skutilsveinar ok[1] allir hinir ágætustu menn í landinu, ok varð eingum jafnvel til mín sem þessum smásveini, sem yðr mun þykkja lítilsverðr hjá yðr. Sjá sveinn er Óttar birtíngr, hann unni mer nú mest; ek kom herinn ærr maðr, ok vildag spilla gersimi minni, bætti hann þat með mer, svâ at ekki skaðaði, ok annarri hendi[2] hræddist hann ekki bana sinn; talaði síðan fagrt eyrindi, stilti svâ orðum um, at mer vyrði mest virðíng at, en eigi taldi hann þá hluti, er minn harmr aukaðist[3] við; þat felldi hann allt niðr, er þó mátti hann með sönnu rædt hafa; en þó varð svâ skörulig hans ræða, at eingi var svâ vitr hjá, at snjallara mál myndi frammbera en hann; þá hljóp ek upp örviti, ok lèt ek sem ek myndi höggva hann, en hann var svâ[4] fullhugi, sem eingi ótti væri um at vera. En þá er ek sá þat, lèt ek þetta verk fyrirfarast, þvíat hann var úverðugr dauða fyrir sína dygð. Nú skulu vinir mínir vita, hverju ek vil ambana[5]

1) *þannig M, Hk*; ok stallarar, *H*; stallarar ok skutilsveinar, *A*. 2) grein, *H*; *en M kemst hèr svâ at orði*: hann bøtti með mer þat annarri hendi, en hreddist eigi banann, talþi siþan, *o. s. fr.* 3) *A, M, Hk*; ykist, *H*. 4) sá, *H*. 5) avmbavna (*þ. e.* ömböna), *H*; launa, *M, Hk*.

honum: hann er áðr kertisveinn, nú skal hann vera lendr maðr minn, ok mun þat þó fylgja, sem eigi er minna, at hann mun [mestháttar maðr þykkja af stundu allra[1] lendra manna. Gakk nú, Óttar, segir konúngr, til sætis hjá lendum mönnum, ok þjóna eigi leingr. Óttar birtíngr gerðist síðan ágætr maðr í Noregi af mörgum góðum hlutum [ok dýrligum[2].

43. Sigurðr konúngr jórsalafari setti stól sinn ok höfuðstað í Konúngahellu, ok efldist sá kaupstaðr svâ mjök, at eingi var ríkari í Noregi. Konúngr lèt gera þar kastala af grjóti ok torfi, ok grafa um díki mikit. Í þeim kastala var gjörr konúngsgarðr, ok þar var krossins kirkja, ok þar lèt Sigurðr konúngr vera krossinn helga, ok þar fyrir altari var [tabolan, gjör[3] af gulli ok silfri, er hann hafði haft í land.

44. Svâ bar til einn tíma, at Sigurðr konúngr sat með mörgum mönnum mikilsháttar í stirðum hug; þat var föstukveld[4] eitt. Dróttsetinn spurði hvat til matar skyldi búa. Konúngr svarar: hvat nema slátr? Svâ stóð mikil ógn af konúngi, at eingi þorði móti at mæla, en allir urðu ókátir. Eptir þat bjuggust menn til borða. Því næst komu inn sendíngar, í fyrstu heitt kjöt. Allir menn voru hljóðir inni, ok harmaðu mein konúngs; ok áðr matrinn var signdr, tók til orða

[1]) fylgja enum mestum höfðíngjum ok þikja mestháttar, *H.* [2]) *M, Hk*; *v. í A, H.* [3]) tabulum gert, *H, M.* [4]) frjáqveld, *M, Hk.*

sá maðr er hèt Áslákr hani, hvatr maðr ok lítill vexti, ekki var hann ættstórr; hann hafði verit í útferðinni með Sigurði konúngi; hann mælti til konúngs: herra! hvat rýkr á diskinum fyrir yðr? Konúngi svarar: hvat vildir þú Áslákr hani, eðr hvat sýnist þer? Þat sýnist mer, sem ek vildi eigi at væri, segir hann, en þat er kjöt. En þótt svâ se, Áslákr hani! segir konúngr. Hann svarar: hörmuligt er slíkt at vita, er svâ skal missýnast þeim konúngi, er svâ mikla frægð ok sóma hefir fengit af ferð sinni ok mörgum öðrum góðum hlutum; ok öðru hèzt þú, þá er þú steigt[1] upp ör ánni Jórdán, er þú hafðir laugazt í því vatni, er sjálfr guðs son var skírðr í, en þú myndir slátr eta [á föstudögum[2]; bartu þaðan pálm í hendi, en kross á bríngu. Nú ef smærri menn gerði slíkt, þá væri stórra refsínga fyrir vert. Nú er eigi svâ vel skipuð sveitin, sem líklikt væri, ok vera skyldi, er eingi verðr til um slíkt at tala nema ek einn lítilsháttar maðr ok fátækr. Konúngr sat þegjandi, ok tók eigi til kjötsins, ok litlu síðar bað hann brott bera slátrdiskana, kom þá framm sú fæða, er vel hæfði at eta. Tók konúngr nökkut at gleðjast, sem áleið matmálit, ok drakk hann. Þá mæltu menn, at Áslákr myndi forða ser. Þat mun ek eigi gera, segir hann, veit ek eigi hvat þat vinnr[3], þvíat konúngr á heimult at

1) stètt, *H*, *M*. 2) frjádaginn, *M*; frjádag, *Hk*. 3) mun tjóa, *M*, *Hk*.

drepa mik; er þat sannast at nú er gott at deyja, er ek hefi því framkomit, sem ek vilda, at firra konúnginn glæp. Nökkuro síðar um kveldit kallaði konúngr Áslák, ok mælti: hverr eggjaði þik, Áslákr hani, at mæla slíkum beryrðum við mik í mannfjölda? Herra! segir hann, eingi nema ek sjálfr. Konúngr mælti: vita munþú nú vilja, hvers mer þykkir þú verðr fyrir ofdirfð þína. Hann mælti: villþú vel launa, herra! þá þigg ek þat glaðr; en ef öðruvís[1] verðr, þá er þat þitt. Þá mælti konúngr: þú munt minni amban fyrir hafa, en makligt er; ek vil gefa þer 3 bú, þvíat þannig skipti til, sem úlíkligra mundi þykkja, at þú firðir mik úhappi heldr en lendir menn mínir, þeir sem mer ætti mikil gæði at launa. Nú lauk svâ þessu máli.

45. Þat var enn jólakveldit fyrsta, er Sigurðr konúngr sat í höll sinni með mörgum höfðíngjum ok hirð sinni, ok er borð voru framsett, þá mælti konúngr: fái mer slátr! Menn hans svöruðu: eigi er þat, herra! siðr í Noregi, at eta slátr jólakveld. Hann svarar: [er þat eigi siðr[2]! þann sið vil ek hafa. Þá var innborit hnísuhold heitt. Konúngr stángaði í knífinum, ok tók eigi til. Þá mælti konúngr: fái mer konu! Menn hans komu inn með konu, sú hafði sítt faldit[3]. Konúngr tók hendi sinni til höfuðs

[1]) öðruviso, *H.* [2]) *v. í H, M.* [3]) *þannig A, M fullum stöfum; en bundit í H;* faldat, *Hk.*

henni, ok leit á. Hann mælti: úsællig kona ertu, ok ekki svâ at eigi megi sæma við slíkt. [Síðan leit hann á höndina, ok mælti: úfögr hönd ok eigi vel vaxin, en þó verðr sæma við slíkt. Hann bað hana rètta framm fótinn; [ok hon gerði svâ[1]; hann leit á ok mælti: ferligr fótr ok mjök mikill, en ekki má gaum at því gefa, sæma verðr við slíkt. Þá bauð hann at þeir skyldi leggja upp kyrtilinn, ok er hann sá fótlegginn, mælti hann: svei verði þínum legg, er bæði er blár ok digr, ok mun þú vera púta ein; færit hana ut, segir hann, ekki vil ek hana hafa.

46. Ofarliga á æfi Sigurðar konúngs var hann at veizlu at búi sínu suðr á Jaðri. Um morgininn, sem hann var klæddr, var hann fámæltr ok úkátr, ok hræddust menn hans, at þá mundi koma at honum vanstillit. Ármaðrinn, sá er veizluna hafði búit, var vitr ok höfðíngjadjarfr; hann krafði konúng máls, ok spurði ef hann hefði nökkur tíðendi fregit, þau er svâ væri mikil, at honum stæði fyrir gleði; eðr bæri þat til, at honum líkaði eigi veizlan, eðr nökkurir aðrir hlutir, þeir sem menn mætti bætr á ráða. Konúngr sagði at eingir hèldu þeir hlutir honum til úgleði, sem ármaðrinn taldi upp: heldr berr þat til, segir konúngr, at ek hugsa draum þann, er fyrir mik bar í nótt. Þat skyldi vera góðr draumr, herra! segir ármaðrinn, en gjarna vildim ver heyra. Konúngr mælti: ek

1) *Hk*; *v. í A, H.*

þóttumst her vera á Jaðri, ok sjá út í haf sorta mikinn, ok var för í sortanum, ok nálgaðist higat. Þá sýndist mer sem þat væri trè mikit, ok óðu limarnar uppi, en rætrnar í sjónum; en er trèð kom her at landi, þá braut þat við landit, ok rak víða um strandir; þá gaf mer sýn þá, at ek þóttumst sjá um allan Noreg hit ytra með sjánum, ok sá ek at í hverja vík voro rekin brot af þessu tre, sum smá en sum stærri. Ármaðrinn mælti: herra! þat er líkast um draum þenna, at þer munut sjálfir bezt [skilja, hvat hann merkir[1], ok viljum ver gjarna heyra, at þer ráðit drauminn. Konúngr svarar: þat þykki mer líkast um draum þenna, at hann mun vera fyrir kvâmu nokkurs manns hegat í land, ok mun hann her staðfestast, ok hans afkvæmi mun víða dreifast um landþetta, ok vera mjök misstórt.

47. [Litlu síðar fór ör landi einn ríkr maðr, er hèt Hallkell húkr[2]; hann fór vestr um haf, fyrst til Orkneyja ok þaðan til Suðreyja. Þar kom til fundar við hann sá maðr er nefndist Gillikristr; móðir hans fór með honum, ok sagði at hann hèt rèttu nafni Haraldr, ok var son Magnúss konúngs berfætts; rèðst Haraldr þá til ferðar med Hallkeli, fóru þeir austr til Noregs. Haraldr fór þegar á fund Sigurðar konúngs, er hann kom í land, ok flutti framm sitt eyrindi

[1]) scipta, *M.* [2]) Hallkell húkr, son Jóns smjörbalta, var lendr maðr á Mæri, *Hl.*

fyrir honum, ok beiddi at hann næði at sanna faðirni[1] sitt. Sigurðr konúngr bar þetta mál fyrir höfðíngja sína ok valdsmenn, lagði þar hverr til eptir sínu skaplyndi; voru þeir fleiri[2], er í móti blèsu Haraldi, en þar kom at allir báðu konúng sjálfan fyrir sjá. Lèt Sigurðr konúngr þá kalla Harald til sín, ok segir svâ til hans: eigi vil ek synja at þú fremir skírslu til faðernis þer, ef þú vill þat binda fastmælum, at þú skalt eigi beiðast konúngdóms í Noregi, meðan ek lifi eða Magnús son minn, þótt þer berist þat faðerni, sem þú segir. Þessu var játtað; fóru þessir svardagar framm, bjó Haraldr sik til skírslu, ok er þat mál manna at sú skirsla hafi gjör verit mest í Noregi; þar voru gjör glóandi 7[3] plógjárn, ok lögð niðr, ok gekk Haraldr þar eptir berum fótum, ok leiddu hann tveir biskupar. Hann kallaði meðan á hinn helga Kolumbam ; þarhjá var gjör rekkja hans. Þá mælti Magnús, son Sigurðar konúngs: eigi treðr hann[5] hugmannliga járnin. Konúngr svaraði: illa mælir þú ok grimliga, þvíat hann hefir framit þetta mál sköruliga. Síðan lètHaraldr fallast í rekkjuna, ok eptir 3 daga, sem skírslan var reynd, þá voru fætr hans úbrunnir; ok þótti þessi skírsla allfrek, þar sem hann gerði til faðernis ser at eins, en eigi til ríkis. Tók Sigurðr konúngr þá vel við frændsemi hans, en Magn-

1) *þannig A*; faðʼni, *H bundit.* 2) fléri, *H.* 3) 9, *Hk.* 4) *þannig A*; Kólumba, *H, M, Hk.* 5) þú *H, M.*

ús son hans ýfðist mjök við Harald, ok margir höfðíngjar viku (mjök) eptir honum til áleitni við Harald[1]. Haraldi var mjök stirt (um) norrænt mál, kylfdi[2] hann mjök til orðanna, ok höfðu margir menn þat[3] mjök at spotti, en Sigurðr konúngr lèt þat ekki [við veðri komast[4], ef hann var við.

48. Svâ bar til eitt sinn, þá Sigurðr konúngr fór fyrir land framm með lið sitt, at þeir lágu í höfn nökkurri, ok einn dag var veðr heitt, ok fóru menn á sund af skipunum[5]. Jón hèt sá maðr er bezt var syndr, ok hældu margir hans fræknleik. Sigurðr konúngr lá í lyptíng á skipi sínu með þúngum hug. Þeir menn voru hjá honum, er annar hèt Erlendr gapamunnr, annar var Einar prestr Skúlason; en er þá varði sízt, hljóp konúngr af skipinu á sund; hann lagðist at Jóni, ok færði hann í kaf, ok þegar hann kom upp, færði konúngr hann niðr öðru sinni; voru þá miklu leingr niðri; ok hit þriðja sinn, er konúngr færði Jón niðr, þá mælti Einar Skúlason: nú ferr í úvænt efni, ok væri þat drengilikt at hjálpa manninum, ok firra konúng úhappi.

1) Sigurðr konongr treystist svâ mjök vinsæld sinni vit allt landsfólk, at hann beiddist þess, at allir menn skyldo þat sverja, at Magnús, son Sigurðar konongs, skyldi einn vera konongr eptir hann, ok fekk hann þá svardaga af öllo landsfólki. Haraldr gilli var maðr hárr ok grannvaxinn, hálslángr, heldr lángleitr, svarteygr, dökkhárr, skjótligr ok fráligr, ok hafði mjök írskan búnað stuttklæddr ok lèttklæddr, *b. v. Hk.* 2) *þannig líka H, M*; kylldi, *Hk.* 3) hann, *H.* 4) duga, *Hk.* 5) konongsskipino, *M.*

Erlendr gapamunnr var allra manna mestr ok styrkastr; hann mælti: þat er vandi mikill, at eiga við konúng, en víst er þat at líf mannsins liggr við. Síðan kastaði hann ser af skipinu, ok lagðist at konúngi; greip hann ok færði niðr, svâ í annat sinn ok þriðja, ok lèt hann upp eptir lánga niðrivist; lögðust síðan til lands, en aðrir menn fluttu Jón til lands, kominn at bana, sátu þeir yfir honum, þar til er hann raknaði við. Haraldr gilli var á skipi Sigurðar konúngs, ok þó þá enn ekki mikils virðr. Haraldr bað Erlend forða ser, sagði at konúngr myndi hafa á honum reiði. Erlendr kveðst hvergi myndi undan flýja, en vera á landi um nóttum[1].

49. Sá maðr bjó á skipi næst Haraldi, er hèt Loðinn, hann var maðr ættsmárr, ok barst þó á mikit; hann lagði opt svívirðíngarorð til Haralds; kvaðst úgerla vita, hvat manna hann var, ok [abbaðist mjök[2] við svein hans. Nú bar svâ til á þessu sama kveldi, at Haraldr sagði sveininum, at hann skyldi rekkja[3] í húðfati hans um nóttina, en Haraldr gekk upp á land með Erlendi. En er Loðinn varð þess varr, lèzt hann ekki mundu þola, at knapar gengi uppá hann, ok spurði hverr honum hefði vísat at rekkja hjá dugandi mönnum. Sveinninn kvaðst þat gera, sem Haraldr bauð honum. Loðinn rak hann brott ör huðfatinu;

---

[1]) náttina, *H*; *Hk hefir þenna kap. mjög öðruvísi; er það Islendíngr, er þar segist svo vel sundfær verit hafa, en Sigurðr Sigurðarson, lendr maðr, er lífi hans bjargaði.* [2]) *A*, *M*; amaðist opt, *H*. [3]) hvíla, *H*.

fór sveinninn ok sagði til Haralds. Hann reiddist ok hljóp út á skipit, hirði[1] eigi þótt hann gengi nær klæðum Loðins. Hann hljóp upp reiðr, kvað hann opt[2] vilja ser svívirðíng veita. Haraldr segir at hann hafði minni skömm, en tilgerðir hans voru, ok hjó til hans, kom á öxlina, ok sveif[3] ofan á brínguna, varð þat svöðusár, hlupu menn þá ámilli. Fór Haraldr af skipinu, ok var á landi þá nótt.

50. Um myrgininn varp konúngr af ser klæðum, ok spurði þegar, hvar væri Erlendr gapamunnr. Einar Skúlason svarar: eigi vitum ver þat glögt, eða hversu vel mun honum frítt at koma á yðvarn fund? Eingu heit ek um þat, segir konúngr. Einar kvað þá vísu:

Erlendr hefir undan
alvalds gleði haldit
gramr skalattu gumna
Gapamunn[5] um þat kunna;
hafa [munu heiðar jöfra[6]
hliðrækjanda friðum[7]
geta verðr þess fyrir gotnum
galdrs nauðsynjar valdit.

Konúngr bað fara eptir honum, ok svâ var gert. En er hann kom á skipit, mælti konúngr til hans: hversu vel þóttist þú leika við konúng

[1]) hirte, *H.* [2]) *v. í H.* [3]) svéf, *H.* [4]) mikit sár, *H.* [5]) *H*; Gapamunnr, *A*; *en þetta orð ok þau 2 næstundanfarandi vísuorð sjást ekki í M.* [6]) mun heiðr á jöfrar, *H*; *mono heiþir jöfrar, M.* [7]) *hliðum eðr friðum, H.*

þinn í gær? Herra! segir hann, mjök[1] eptir því sem þer gerðut fyrir. Svâ var ok, segir konúngr; vel skal fyrir þer virða, þvíat þú sýndir við mik ástsemd ok karlmensku, þigg nú af mer sverð ok skikkju; skalþú vera vin minn, ok heita vaskr dreingr heðan af. En hvat hark var þat, er ek heyrða í gær kveld á skipinu? Honum var sagt. Konúngr mælti: kalli higat Harald ok Loðinn! En er þeir komu fyrir konúng, spurði hann ef þeir vildi leggja sitt mál á hans vald. Þeir játtu því. Þá mælti konúngr: ekki vænti ek at þit sèt[2] jafnir menn, en þó geri ek [fyrir áverka Loðins nokkut[3], fyrir þá skyld er hann var í minni sveit ok á mínu skipi; en þat væri makligra, at þú, Loðinn, værir rèttlaus. Nú ver eigi síðan svâ djarfr, at þú talir úsæmilig orð við Harald eðr aðra dugandi menn, þvíat þess er ván, at ver virðim hann meira en einn lítilsháttar mann. Loðinn sá þann sinn kost beztan, at láta vera kyrt, en konúngr skipaði Haraldi í sína sveit með sínum skutilsveinum, ok virði hann vel; [en Magnús konúngsson[4] ok þeir sem honum fylgdu öfunduðu hann at meir[5].

51. Þat var vani Sigurðar konúngs, þá er hann sat í kaupstöðum eðr at búum sínum, at

1) eptir makligleikum ok, *b. v. H.* 2) seeð, *H*; verþit, *M.* 3) *þannig H*; (vil ek gera) sóma til handa Loðni, *M*; nokkura sæmd Haraldi fyrir áverka sinn, *A.* 4) en menn Magnúss konúngs, *H.* 5) *Frá merkinu [ v. í M; en Hk hefir alla þessa frásögn mjög öðruvísi; heitir þar sá, sem amaðist við svein Haralds ok særðr var*, Sveinn Rímhildarson.

hann gekk snimma á kveldum at sofa, en Magnús son hans ok hans sveitúngar sátu laungum ok drukku. Haraldr fylgdi jafnan Sigurði konúngi, þá er hann gekk til svefns; en eitt kveld gátu þeir Magnús hann eptir dvalit, ok sátu þeir allir samt ok drukku lángt á nótt framm. Magnúsi hafði sendr verit hestr gauzkr, mikill vexti ok ágæta skjótr; ok um kveldit, er menn Magnúss[1] voru drukknir, gerðu þeir margrætt um, at eingi mundi hestr vera jafnskjótr. Um síðir viku þeir til Haralds málinu, ok spurðu ef hann vissi nökkurn hest jafnskjótan. Hann sagði ekki eitt svâ agætt, at eigi mætti verða annat slíkt. Þeir kváðu hann aldri mundu hafa sèt jafnskjótan hest; hann lèzt marga skjóta sèt hafa. Þeir mæltu: hefir þú skjótara hest sèð? Eigi hefi ek svâ atkveðit, segir hann. Þeir mæltu: svâ mæltir þú, ok svâ skaltu sagt hafa. Hann svarar: með miklum ákafa takit þer þetta; má ok vera at ek hafi sèt skjótari hesta, er þer þreytið þetta mál þó svâ mjök, ok því heldr at ek mun sèt hafa menn eigi seinni. Er eigi þat, sögðu þeir, at þú munir eigi vera seinni á fæti en hestrinn? Ekki segi ek þat, segir hann. Þá mælti Magnús: þat sagðir þú, ok þat skulum við reyna ok veðja um, skal ek leggja við gullhríng, en þú annat fe jafnmikit. Haraldr mælti: eigi er ek enn vorðinn svâ mikils fjár ráðandi í Noregi, at vert muni vera eins hríngs. Legg þá til[2]

[1]) *v. i H.* [2]) vil, *H.*

höfuð þitt, segir Magnús. Þat mun ek eigi gera, segir Haraldr. Þat skalþú gera, segir Magnús, ok skildu við svâ búit. [Þegar um morgininn var þetta sagt Sigurði konúngi. Hann svarar: þess var vân, at þannig myndi fara, fá mer nú hrínginn í hönd. Illa eru þer atstaddir, Noregs menn, er þer hafit æran konúng yfir yðr, en svâ segir mer hugr um, at þer mundut rauðu gulli kaupa, ef mættið, af stundu, at ek væri heldr konúngr yfir yðr en þeir Haraldr ok Magnús; annar er grimmr en annar úvitr[1]. Því næst komu þeir á völl einn slèttan, þar sem þeir skyldu skeiðit reyna. Haraldr var í línbrókum nafarskeptum[2], ok lèt hann leika laust kneït í brókinni; hann hafði stutta skyrtu ok möttul á herðum ok eitt kefli í hendi. Magnús var þá (ok) búinn ok á hest kominn. Þar var við Sigurðr konúngr ok mikit fjölmenni. Þá er þeir voru búnir, keyrði Magnús hestinn sporum á skeiðit. Haraldr var [hóti mun[3] skjótari, ok slíkr munr var, er þeir komu at skeiðsendanum. Þá mælti Sigurðr konúngr: fullreynt er þetta, ok er Haraldr eigi seinni. Konúngsson mælti: reyna skulum við meir. Þeir tóku annat skeið, ok var Haraldr jafnframm gagntaki konúngssonar; en er þeir komu til skeiðsenda, mælti Magnús: hvârt heldr þú í gagntak vârt? gef þik upp, ef þú hefir eigi við. Eigi skal enn uppgefast, segir

1) *v. í Hk, auk annars töluverðs orðamunar ok frásagnar.*
2) *þannig A, H, M.* 3) *þannig líka H;* hóta mun, *M.*

Haraldr; bjuggust þeir þá til hins þriðja skeiðsins; þá sá allir, þeir er við voru, at Magnús hafði fyrr viðbrugðit, svâ at hlið var í milli þeirra. Haraldr stökk þá í lopt upp, ok gall við, hljóp hann þá svâ framm á skeiðit, at varla þóttust menn sjá at fætr hans kæmi við jörðina, ok at skeiðsendanum lagðist hann niðr, ok spratt upp, [snerist aptr á skeiðit móti Magnúsi[1], ok mælti: heill Magnús frændi! Skildu þeir at því[2], at Sigurðr konúngr fèkk Haraldi veðfeït at úvilja Magnúss sonar síns.

52. Þá er áleið æfi Sigurðar konúngs, gerðist sú nýbreytni um ráð hans, at hann ætlaði at láta eina drotníngina, ok fá þeirrar konu, er Cêcilia hèt, hon var ríks manns dóttir. Ætlaði konúngr at gera bruðlaup sitt til hennar í Björgyn, lèt hann þar búa til mikillar veizlu. En er þat frètti Magni biskup, gerðist hann úkátr, ok einn dag gekk hann til hallar Sigurðar konúngs, ok með honum prestr hans einn, er Sigurðr hèt. En er þeir komu til hallarinnar, bað biskup konúng út gánga. Konúngr gekk út, ok hafði brugðit sverð í hendi; hann fagnaði biskupi, ok bauð honum inn at drekka með ser. Biskup svarar: annat er mit eyrindi; er þat satt, (herra!) at þer ætlið

1) *v. í H.* 2) En Sigurðr konongr hafði verit meðan at hámesso, ok vissi hann þetta eigi fyrr en eptir mat um daginn. Þa mælti hann reiðuliga til Magnúsar: þer kallit Harald heimskan, en mèr þikkir þú vera meira fól; eigi kantu utanlands siðo manna; vissir þú þat eigi fyrr, at menn í öðrom löndom temja sik meir við aðrar íþróttir. en at kýla öl, eða gjöra sik æran ok úfæran, ok vita eigi til manns, *b. v. Hk.*

(at) kvângast, ok láta eina drotnínginа? Satt er þat, biskup! segir konúngr; tók hann þá þegar at þrútna mjök ok blána í andliti. Magni biskup mælti: hví sýnist[1] yðr at gera slíkt í vârri biskupssýslu, at svívirða svâ mjök [guðslög heilagrar kirkju[2] ok vârn biskupsdóm? Nú vil ek þat gera, sem ek er skyldr, at banna yðr þetta úráð af guðs hálfu ok hins heilaga Petrí postula ok allra heilagra manna. Biskup stóð rèttr, meðan hann talaði við konúng, ok þó svâ sem hann byggi til hálsinn, ok væri búinn, ef konúngr lèti ofan ríða sverðit. En svâ sagði hann[3] prestrinn Sigurðr, er þá var með Magna biskupi, [en síðan var biskup í Björgyn[4], at svâ sýndist honum konúngrinn ógurligr, er hann reiddi sverðit, ok hvesti augun á biskup, meðan hann talaði, at hann þóttist nær ekki vita fyrir hræðslu. Síðan gekk konúngr inn í höllina, en biskup heim til sinna herbergja, ok var þá svâ kátr, at hvert barn kvaddi hann hlæjandi, ok lèk við fíngr sína. Þá mælti Sigurðr prestr: þó eru þer nú glaðir, herra! kemr yðr þat ekki í hug, at konúngr mun leggja á yðr reiði, ok mun þá vænna ráð at leita undan? Biskup mælti: líkara þykki mer, at hann mun þat eigi gera, en hverr væri dauðinn betri, en láta lífit fyrir heilagri kristni, ok banna þat sem eigi er viðsæmanda? Nú er ek glaðr, þvíat nú hefir ek þat atgert,

1) sýndist, *H*, *M*. 2) guðs heiðr ok heilaga kristne, *H*. 3) *v. í H*, *M*. 4) *v. í H*.

sem ek átti. Því næst gerðist þys mikill í bænum; bjóst konúngr brott ör bænum, ok flutti með ser mikil korn ok mölt ok hunáng, hèlt hann suðr í Stafángr, ok efnaði þar til veizlu. En er biskup, sá er þar rèð fyrir, varð þess varr, fór hann á fund konúngs, ok spurði ef þat væri satt, at hann ætlaði at kvângast, at drótnínginni lifandi. Satt er þat, biskup! segir konúngr. Biskup mælti: ef svâ er, herra! þá megit þer sjá, hversu mjök þat er bannat hinum smærrum mönnum; en eigi er úlíklikt at þer ætlið yðr slíka hluti framar sóma, er meira vald hafit, en þat er þó mjök í móti rèttu; ok eigi veit ek, hví þer vildut þetta gera í vârri biskupssýslu, at vanvirða svâ guðs boðorð ok helga kirkju[1] ok vârn biskupdóm. Nú munu þer vilja leggja til staðar vârs stóra fjárhluti, ok bæta svâ við guð ok oss þetta [mikla lagabrot[2]. [Þá mælti konúngr: tak þar fe upp; furðu úlíkir urðut þer Magna biskupi. Gekk biskup í brott[3], en konúngi líkaði eigi betr við þenna biskup, en hinn er forboðit lagði á. Síðan fèkk konúngr þessarrar konu, ok unni mikit.

53. Þá er Sigurðr konúngr sat austr í Osló, tók hann sótt mikla. Þá báðu vinir hans, at hann lèti þessa konu af hendi, er hann hafði svâ úlögliga fengit, ok hon sjálf í sóttinni bað hann gefa ser orlof at skilja við hann, sagði at honum mátti þat bezt gegna. Konúngr svarar: eigi kom mer þat í hug, at þú mundir vilja

[1]) kristne, *H.* [2]) stóra afbrot, *H.* [3]) *v.* í *H.*

fyrirlíta mik sem[1] aðrir. Snerist hann þá frá henni, ok var mjök rauðr í andliti. Eptir þat þýngdi sótt hans, svâ at af þeirri sótt fèkk hann bana; var lík hans flutt til graftrar[2], ok jarðat í Hallvarðskirkju; [liggr hann í steinvegginum utar frá kórinum fyrir sunnan framm[3]. Magnús, sonr Sigurðar konúngs, var þar þá í bænum; tók hann þegar allar konúngs fehirðslur, er faðir hans var andaðr. Sigurðr jórsalafari var konúngr yfir Noregi 27 vetr; hann var þá fertögr at aldri, er hann andaðist, ok var öld hans góð landsfólkinu, þvíat þá var bæði ár ok friðr.

---

1) allir, *b. v. H.* 2) graptar, *H.* 3) *v. í H; en í M. v. hèr blað.*

# Saga Haralds konúngs gilla ok Magnúss blinda.

MAGNÚS, son Sigurðar konúngs, var tekinn til konúngs í Osló yfir land allt, svâ sem alþýða hafði svarit föður hans[1], gerðust þá þegar margir menn honum handgengnir, ok svâ lendir menn. Magnús var hverjum manni fríðari, er þá var í Noregi; hann var maðr skapstórr ok grimmr ok atgerfimaðr mikill, en vinsæld föður hans hèlt hann mest til alþýðu vináttu. Hann var drykkjumaðr mikill, fegjarn, úþýðr ok údæll.

2. Haraldr Gilli var [hár á vöxt ok heldr grannvaxinn, hálslángr ok heldr lángleitr, svarteygr, dökkr á hár, skjótligr í öllu viðbragði[2], lèttlátr, kátr ok leikinn, lítillátr ok örr, svâ at hann sparði ekki við vini sína; ráðþægr svâ at hann lèt vini sína ráða með ser öllu því er þeir vildu. Slíkt dró hann til vinsældar ok orðlofs, þýddust hann margir menn ríkir eingum mun síðr en Magnús. Haraldr var þá í Túnsbergi, er hann spurði andlát Sigurðar konúngs, bróður

1) *Sjá bls.* 165, *athgr.* 1. 2) *H*; bragði, *A*; *en í Hk. v. á þessum stað allt frá merkinu. Sjá bls.* 165, *athgr.* 1.

síns, átti hann þá þegar stefnur við vini sína, ok rèðu þeir þat af, at eiga Haugaþíng þar í bænum. Á því þíngi var Haraldr til konúngs tekinn yfir hálft land, voru þat þá kallaðir nauðúngareiðar, er hann hafði svarit föðurleifð sína af hendi ser; tók Haraldr ser þá hirð, ok tók lenda menn, dróst honum þegar lið eingum mun minna en Magnúsi konúngi. Fóru menn þá milli þeirra, ok stóð svâ 7 nætr. En fyrir því at Magnús fèkk lið miklu minna, þá sá hann eingan annan sinn kost, en skipta ríki við Harald; var þá svâ skipt, at hálft ríki skyldi hafa hvârr þeirra við annan, þat er Sigurðr konúngr hafði átt, en skip ok borðbúnað, gersimar ok allt lausafe, þat er Sigurðr konúngr hafði átt, hafði Magnús, ok undi hann þó verr sínum hluta[1]. Rèðu þeir þá nökkura hríð landi í friði, ok hugðu þó mjök [ser hvârir[2]. Haraldr gat son, er Sigurðr hèt, við Þóru, dóttur Guttorms grábarða. Haraldr konúngr fèkk Íngiríðar, dóttur Rögnvalds; hann var son Ínga konúngs Steinkelssonar[3]. Magnús konúngr átti Kristín, dóttur Knúts lávarðs, systur Valdimars Danakonúngs. Magnús varð henni eigi unnandi, ok sendi hana aptr suðr til Danmerkr, ok gekk honum allt síðan þýngra. Fèkk hann þarfyrir mikinn úþokka af frændum hennar.

3. Þá er þeir höfðu verit 3 vetr 2 konúngar at Noregi, Magnús ok Haraldr, sátu þeir hinn

1) hlut, *H.* 2) sitt hvo.r, *H.* 3) Sviakonúngs, *b. v. Hk.*

fjórða vetr báðir norðr í Kaupángi, ok veitti hvârr öðrum heimboð, en þó var æ við bardaga búit með liði þeirra. En at vâri hèlt Magnús með skipaliði suðr fyrir land, ok dró lið at ser, allt þat er hann fèkk; leitaði hann við vini sína, ef þeir vildi veita honum styrk, til þess at taka Harald af konúngdómi, ok midla honum af ríki slíkt er þeim[1] sýndist; tjáði þat fyrir þeim at Haraldr hefði svarit ríkit af hendi ser. Fèkk Magnús konúngr til þess samþykki margra ríkismanna. Haraldr fór hit efra til Upplanda ok austr til Víkrinnar, dró hann ok lið at ser, þá er hann spurði til Magnúss konúngs, ok hvar sem þeir fóru, hjuggu hvârir bú fyrir öðrum, ok svâ drápust þeir menn fyrir. Magnús konúngr varð miklu fjölmennari, þvíat hann hafði haft allan þorra[2] landsins til liðssafnaðar. Haraldr var í Víkinni austanfjarðar, ok fèkk ser lið; tóku þá hvârir fyrir öðrum bæði menn ok fe. Þar var þá með Haraldi konúngi Kristrøðr bróðir hans sammæðri, ok lendir menn vâru margir með honum, en þó miklu fleiri með Magnúsi konúngi.

4. Haraldr konúngr var með lið sitt, þar sem heitir Fors í Ránríki, ok fóru þaðan út til sjófar. Lafranzvöku-aftan mötuðust þeir at náttverði, þar sem heitir Fyrirleif[3], en varðmenn

1) hönum, *Hk.* 2) þora, *A*, *sèst ekki í H, vegna gata á bókfellinu.* 3) Fiurleif, *H*; Fýrileif, *Hk.*

hèldu hestvörð alla [nóttina alla[1] vega frá bænum; urðu þeir þá varir við at lið Magnúss konúngs fór at bænum; hafði Magnús þá [nær 60[2] hundraða manna, en Haraldr hafði 15 hundruð. Þá kom varðmaðr, er bar njósn Haraldi konúngi, ok sagði at lið Magnúss konúngs var komit (mjök) at bænum. Hann svarar: hvat mun Magnús frændi vilja? eigi mun þat at hann vili berjast við oss. Þá svarar Þjóstólfr Álason: herra! svâ munu þer verða ráð fyrir yðr at gera ok liði yðru, sem Magnús konúngr muni hafa her samandregit í allt sumar, ok hann mun ætla at berjast, þegar hann finnr yðr. Þá stóð konúngr upp, ok mælti við sína menn: takit vâpn yðar; ef Magnús konúngr vill berjast, [þá skulu við berjast[3]. Því næst var blásit, ok gekk lið Haralds konúngs allt út frá bænum í akrgerði nökkurt, ok settu þar[4] upp merki sín. Haraldr konúngr hafði 2 hríngabrynjur, en Kristrøðr, bróðir hans, hafði einga brynju; hann var kallaðr hinn hraustasti maðr. Þá er Magnús konúngr ok hans menn sá lið
1134 Haralds konúngs, þá fylktu þeir sínu liði, ok gerðu svâ lánga fylkíng, at þeir skyldi kríngja allt um lið Haralds konúngs. Svâ segir Halldórr skvaldri:

Magnús fèkk þar miklu
(margs geingis naut hann) leingri[5]
(valr[6] nam völl at hylja
varmr) fylkíngar-arma.

---

1) *H*; *v. í A, Hk.* 2) 40, *H.* 3) *Á*; *v. í A, H.* 4) *H, Hk*; þeir, *A.* 5) leingi, *H.* 6) *þannig Hk*; vallr, *A*; valið, *H.*

Magnús konúngr lèt bera fyrir ser krossinn helga í orrostu. Þar varð orrosta mikil ok hörð. Kristrøðr konúngsbróðir hafði gengit með sína sveit í miðja fylkíng Magnúss konúngs, ok hjó til beggja handa, ok stukku fyrir honum menn á tvâ vega; ok einn ríkr bóndi, sá er verit hafði í liði Haralds konúngs, var staddr á bak Kristrøði; hann reiddi upp kesjuna tveim höndum, ok lagði millum herða Kristrøði, svâ at framkom í brjóstinu, ok fèll hann þar. Þá spurðu margir menn, hví hann gerði þetta hit illa verk. Hann svarar: nú veit hann þat, er þeir hjuggu bú mitt í sumar, ok tóku allt þat er heima var, en höfðu mik nauðgan með ser; slíkt hugsaði ek honum þá, ef ek fengi færi á. Eptir þat kom flótti í lið Haralds konúngs, ok flýði hann sjálfr ok allt lið hans. Þá var fallit mart manna af liði Haralds konúngs; þar fèkk banasár Ingimar at Aski Sveinsson, lendr maðr ör liði Haralds konúngs[1], ok nær 60 hirðmanna.

5. Haraldr konúngr flýði austr í Vík til skipa sinna; fór hann síðan suðr til Danmerkr[2] á fund Eiríks konúngs eymuna, ok sótti hann at trausi; þeir fundust sudr á Sjólandi[3]. Eiríkr konúngr tók vel við honum, ok mest fyrir því at þeir höfðu svarizt í bræðralag. Hann veitti Haraldi

[1]) *Hk. b. v. vísu, er Ingimar kvað áðr hann dó.* [2]) *Hk. b. hèrinn 2 vísum, annarri eptir Halldór skvaldra, en annarri eptir Ein. Skúlas.* [3]) Smálandi, *Hk.*

at veizlum ok yfirferð Halland, ok gaf honum 8 lángskip reiðalaus. Eptir þat fór Haraldr konúngr liði sínu norðr um Halland, ok kom þá [lið til hans[1]. Magnús konúngr lagði undir sik land allt í Noregi eptir orrostuna. Grið gaf hann öllum sárum mönnum, ok lèt græða sem sína menn, ok kallaði ser þá landit allt. Hann hafði allt hit bezta mannval í landinu; en er þeir rèðu ráðum sínum, þá vildi Sigurðr Sigurðarson ok [þeir Ingiríðarsynir[2] ok allir hinir vitrustu menn, at þeir hèldi flokkinum í Víkinni, ok biði þar, ef Haraldr leitaði sunnan. Magnús konúngr tók hitt upp með einræði sinni[3], at hann fór norðr til Björgynjar, ok settist þar um vetrinn, ok lèt liðit fara frá ser ok lenda menn til búa sinna.

6. Haraldr konúngr kom til Konúngahellu með lið þat, er honum hafði fylgt ör Danmörk, þá höfðu þar lendir menn ok bæjarmenn safnað fyrir, ok settu fylkíng upp frá bænum, en Haraldr konúngr gekk af skipum sínum, ok gerði menn til bóndaliðs, ok beiddi at þeir verði honum eigi vígi land sitt, ok lèzt eigi mundu beiðast meira, en hann átti at rèttu hafa. Fóru þá menn í milli, ok um síðir gengu bændr til handa, ok gáfu upp safnaðinn; gaf Haraldr þá til liðs ser lèn ok veizlur lendum mönnum, en rèttarbætr bóndum, [þeim er í lið snerist með hon-

1) mart Norðmanna til mótz vit hann, *Hk.* 2) þórir Ingiríðarson, *H*, *Hk.* 3) síno, *Hk.*

um[1]. Safnaðist þá mart fólk til hans. Haraldr konúngr fór austan um Víkina, ok gaf góðan frið öllum mönnum, nema menn Magnúss konúngs lèt hann ræna eðr drepa, hvar sem hann stóð þá. Þá er hann kom austan til Sarpsborgar, tók hann þar två lenda menn Magnúss konúngs, Ásbjörn ok Næreið[2], bróður hans, ok bauð þeim kost, at annarr skyldi hánga, en öðrum steypa í forsinn Sarp, ok bað þá sjálfa kjósa. Ásbjörn kaus at fara í Sarp, þvíat hann var ellri, en sá þótti dauðinn enn grimmligri, ok svå var gert; þess getr Halldórr:

Ásbjörn varð, sá er orðum
illa hèlt um[3] stilli,
(gramr fæðir val víða
vígs) í Sarp at stíga;
Næreið[4] lèt gramr á grimman
grandmeið Sigars fjanda
húsþínga galt heingja
hrannbáls[5] glötuðr mála.

Eptir þat fór Haraldr konúngr norðr til Túnsbergs, ok var þar vel við honum tekit; safnaðist ok þar til hans herr mikill.

7. Magnús konúngr sat í Björgyn, ok spurði þessi tíðindi. Þá lèt hann kalla á tal við sik þá höfðíngja, sem í våru bænum, ok spurði ráðs hversu með skyldi fara. Þá svarar Sigurðr Sigurðarson: her kann ek gott ráð tilleggja; láti

1) *v. í H.* 2) Nereið, *H, Hk.* 3) vit, *H, Hk.* 4) Nereið, *H, Hk.* 5) *Hk*; hranbáls, *H*; hrafnbáls, *A.*

þer skipa skútu með góðum dreingjum, ok fáit til at stýra mik eðr annan lendan mann, at fara á fund Haralds konúngs frænda þíns, ok bjóða honum sættir, eptir því sem rèttlátir menn gera milli yðvar[1], þeir sem her í landi eru, ok þat at hann skal hafa ríki hálft við yðr, ok þykki mer líkligt við orðafullting góðra manna, at Haraldr konúngr þekkist þetta boð, ok verði þá sætt milli yðvar. Magnús konúngr svarar: eigi vil ek þenna kost; eðr hvat stoðar þat þá, er ver vunnum undir oss allt ríkit í haust, ef ver skulum nú miðla hálft? ok gefit til annat ráð. Sigurðr mælti: svâ sýnist mer, herra! sem lendir menn þínir setist nú heima, ok vili eigi koma til þín, þeir sem í haust[2] báðu þik heimleyfis; gerðir þú þá mjök í móti mínum ráðum, er þú dreifðir svâ mjök frá þer fjölmenni því er ver höfðum; þvíat ek þóttumst vita, at þeir Haraldr mundu leita aptr í Víkina, þegar þeir spyrði at þar væri höfðíngjalaust. Nú er til annat ráð, ok er þat íllt, en vera kann at þó hlýði: gjör til gesti ok annat fólk með þeim, lát fara heim at lendum mönnum ok drepa þá, sem nú vilja eigi viðskipast nauðsyn þína, en gefit eignir þeirra þeim nökkurum, sem yðr ero öruggir, þótt áðr se ekki mikils virðir, látið þá keyra upp fólkit[3], ok hafit eigi síðr illa menn en góða; farit síðan austr í móti Haraldi með þat lið sem þer fáit, ok berizt við hann. Konúngr svarar:

1) *yðkar*, *H*, *Hk*. 2) *H*, *Hk*; heraði, *A*. 3) flokkinn, *H*.

úvinsælt mun þat verða, at láta drepa mart stórmenni, en hefja upp lítilmenni, hafa þeir opt eigi síðr brugðizt, en verr skipat landit; vil ek enn heyra fleiri ráð þín. Sigurðr mælti: vandast mer nú ráðagerðin, er þú vill eigi sættast, ok eigi berjast; förum ver þá norðr til Þrándheims, þar sem landsmegin er mest fyrir oss, tökum þat lið allt, er ver fám, kann þá vera at þeim Elfargrímonum leiðist at rekast eptir oss. Konúngr svarar: ekki vil ek nú flýja fyrir þeim, er ver eltum í sumar, ok ráð þú mer betra ráð. Þá stóð Sigurðr upp, ok bjóst til brottgaungu. Hann mælti: ek skal nú ráða þer þat, er ek se at þú vill hafa, ok framgengt mun verða: sitið her í Björgyn, þartil er Haraldr konúngr kemr her með múga hers, munu þer þá annathvárt verða at þola bana eðr skömm; ok var Sigurðr ekki leingr á þessi stefnu.

8. Haraldr konúngr fór austan með landi ok hafði allmikinn her, var þessi (vetr) kallaðr múgavetr. Hann kom til Björgynjar jólaaptaninn; lagði hann liðinu í Flóruvâga; þvíat hann vildi eigi berjast um jólin fyrir sakir helgar. En Magnús konúngr lèt búast við í bænum; hann lèt reisa valsslaungu út í hólmi, ok hann lèt gera járnrekendr, ok sumt af viðum, ok leggja um þveran vâginn yfir frá konúngsbryggju til múnkabryggju í Norðnesi. Hann lèt slá herspora, ok kasta[1] yfir á Jónsvöllum[2], ok eigi meir en

1) niðr. b. v. Hk. 2) Jónsvöllu, H.

þrjá daga var heilagt haldit um jólin, svâ at eigi væri[1] smíðat. En affaradag jólanna lèt Haraldr konúngr blása til brottlögu[2] liðinu;[3] 9 hundruð manna höfðu safnazt til Haralds konúngs um jólin. Hann hèt á hinn heilaga Ólaf konúng til sigrs ser, at láta gera Ólafskirkju þar í bænum með sínum at eins kostnaði. Magnús konúngr setti fylkíng sína út í Kristskirkju-garði, en Haraldr reyri fyrst at í Norðnesi. En er þeir Magnús sá þat, sneru þeir inn í bæinn ok inn í vâgsbotn. En er þeir fóru inn um strætið, þá hlupu margir bæjarmenn inn í garða til heimilis síns, en þeir sem yfir gengu á völluna, hlupu margir á hersporana. Þá sá þeir Magnús konúngr at Haraldr konúngr hafði róit öllu liði sínu yfir í Hegravík, ok gengu þeir þar upp, ok svâ lilt efra upp á bakka fyrir ofan bæinn. Þá sneri Magnús konúngr út eptir stræti, flýði þá liðit frá honum, sumt upp í fjall, sumt upp um Nunnusetr, sumt í kirkjur, eðr falst í öðrum stöðum. Magnús konúngr gekk ut á skip sitt, en þeim[4] var eingi kostr brott at fara; þvíat rekendrnar gættu fyrir utan, fylgdi konúngi (þá) ok fátt manna, voru þeir fyrir því til eingis[5] færir. Svâ segir Einar Skúlason í Haraldsdrápu:

Luku vág viku
vara kostr fara

1) var, *H.* 2) bæjarins öllo, *Hk.* 3) nær, *b. v. H, Hk.* 4) þá, *H.* 5) einskis, *H venjuliga.*

bryns Björgynja
braut háskrautum.

Litlu síðar komu menn Haralds konúngs út á skipit, var þá handtekinn Magnús konúngr, er hann sat aptr[1] í fyrirrúminu á hásætiskistunni, ok með honum Hákon faukr, móðurbróðir hans, hinn vænsti maðr [ok kallaðr eigi vitr[2], ok Ívar Özurarson, ok margir aðrir vinir hans voru þá handteknir, en sumir drepnir þegar.

9. Haraldr konúngr átti þá stefnur við ráðuneyti sitt, ok beiddi þá ráðagerðar með ser; en at lyktum þeirrar stefnu fengust þeir örskurðir, at taka Magnús svâ frá ríki, at hann mætti eigi kallast konúngr þaðan í frá. Var hann þá seldr í hendr konúngs þrælum, en þeir veittu honum meiðslur[3], stúngu út augu hans, ok hjuggu af honum annan fót, en síðast var hann geldr. Ívar Özurarson var blindaðr, en Hákon faukr var drepinn. Eptir þat lagðist land allt undir ríki Haralds konúngs; gerðist þá mjök eptirleitað, hverir verit hefði mestir vinir Magnúss konúngs, eðr hverir mest myndi vita fehirðslur hans eðr gersimar. Krossinn helga hafði Magnús konúngr haft með ser, síðan Fyrirleifar[4] orrosta var, ok vildi hann ekki tilsegja, hvar þá var kominn. Reinaldr[5] biskup í Stafángri var enskr, ok kallaðr mjök fegjarn; hann var mjök kærr Magnúsi konúngi, ok þótti mönn-

1) v. í H. 2) v. í H. 3) meizl, H. 4) Fýrizleifar, Hk. 5) Reinhallr, H, Reinhalldr, Hk.

um þat líklikt, at hann myndi fenginn til varðveizlu stórfjár ok dýrgripa Magnúss konúngs; voru menn sendir eptir honum, ok kom hann til Björgynjar; voru þá þessi kensl borin á hendr honum; en hann synjaði þverliga, ok bauð skírslur fyrir. Haraldr konúngr vildi ekki þat. Hann lagði á biskup at gjalda ser 12 merkr gulls. Biskup sagði at hann vildi eigi svâ vesæla stað sinn, vildi heldr hætta lífi sínu. Síðan heingdu þeir Reinald[1] biskup út í hólmi við valsslaungana. En er hann gekk til gálgans, hristi hann bótann af fæti ser, ok mælti: þat sver ek at ek veit eigi meira fe Magnúss konúngs, en þat sem þar er í bótanum; þar var í gullhríngr einn. Reinaldr biskup var jarðaðr í Norðnesi at Mikaelskirkju, ok voru þessi verk mjök löstuð. Síðan var Haraldr gilli einn konúngr at Noregi, meðan hann lifði.

10. Fimm vetrum eptir andlát Sigurðar konúngs urðu tíðindi mikil í Konúngahellu. Þeir voru þar þá sýslumenn Guttormr[2], son Haralds flettis ok Sæmundr húsfreyja; hann atti Íngibjörgu, dóttur Andreas prests Brúns(sonar); þeirra synir voru þeir Páll flipr ok Gunni fíll[3]. Ásmundr hèt son Sæmundar laungetinn. Andreas Brúnsson var mikill merkismaðr, hann saung at Krosskirkju; Solveig hèt kona hans; með þeim var þá at fóstri ok uppfæðslu Jón Lopts-

1) Reinhall, *H.* 2) *þannig H*, Guthormr, *A.* 3) fis, *Hk.*

son; hánn var þa 11[1] vetra gamall. [Loptr prestr Sæmundarson var ok þar þá. Dóttir Andreas prests hèt önnur Helga, er Einar átti[2]. Þat barst at í Konúngahellu drottinsnóttina næstu eptir Páskaviku at gnýr varð mikill úti á [stræt-um um allan bæinn[3], sem þá er konúngr fór með alla hirð sína; þarmeð lètu hundar svâ illa, at eigi mátti varðveita, ok [brutust á hurðir[4] [en allir er útkomo urðu[5] galnir, ok bitu allt þat er fyrir varð, menn eðr fenað, en allt þat er bitið var, ok blóði kom út á, þá ærðist; ok allt þat er hafanda var, lèt burð sinn ok ærðist. Þessi minníng varð náliga[6] hverja nótt frá páskum til uppstígníngardags. Menn óttuðust mjök undr þessi, ok rèðust margir á brott, ok seldu garða sína, ok fóru í herað eðr aðra kaupstaði, ok þótti [þeim öllum þetta mest vert, er vitrastir voru, ok hræddust þat[7], [ok sögðu[8], sem var, at þetta myndi vera fyrir miklum stórtíðindum, [þeim sem þá voru enn eigi framkomin[9]. En Andreas prestr talaði lángt ok snjallt hvítdrottinsdag, ok veik svâ lykt ræðu sinnar, at hann ræddi um vanda bæjarmanna, ok bað menn herða hugi sína, ok eyða eigi þann hinn dýrðliga stað, hafa heldr gæzlu yfir ser, ok hugsa ráð sitt, ok gæta sín í öllu, því er við mætti komast, eldi eðr úfriði, ok biðja ser miskunnar til guðs. Ör bænum

---

1) 9. *H.* 2) *v. í H.* 3) strætinu, *H.* 4) brutust út, *Hk.* 5) *Hk; v. í A; í H v. allt frá fyrra merkinu, nema* urðu. 6) *v. í H.* 7) *v. í H.* 8) *Hk; v. í A, H.* 9) *v. í H.*

bjuggust 13 byrðíngar, ok ætluðu til Björgynjar, ok týndust 11 með mönnum ok fe, ok öllu því er á var, en hinn tólfta braut ok hèldust menn, en feit týndist. Þá fór Loptr prestr norðr til Björgynjar með allt sitt, ok hèlt hann öllu heilu; Lafranzvöku-dag týndust byrðíngar. Eiríkr eymuni Danakonúngr ok Özur erkibiskup sendu orð báðir til Konúngahellu, ok báðu þá varast um stað sinn, sögðu at Vindr höfðu úti her mikinn, ok herjuðu víða á kristna menn, ok höfðu jafnan sigr. Bæjarmenn lögðu oflítinn hug á sitt mál, afræktust ok ómintust þess at meir, sem leingra[1] leið frá þeirri ógn, er yfir þá hafði komit.

11. Lafranzvöku-dag, þá er talit[2] var fyrir hámessu, kom Rettiburr Vindakonúngr til Konúngahellu; hann hafði hálft þriðja hundrað Vindasnekkjur, en á hverri snekkjunni voru menn 40 ok fjórir, ok hestar tveir. Dunimiz hèt systurson konúngs, en Uniburr[3] hèt höfðíngi einn, er rèð fyrir miklu liði. Þessir tveir höfðíngjar [reyru upp með her sínum[4] eystri kvísl, upp um Hísíng, ok komu svâ ofan at bænum, en sumu[5] liðinu lögðu þeir upp vestri kvísl til bæjarins. Þeir lögðu at landi við stikin, ok lètu þar upp hestaliðit, reið þat hit efra um Bratz[6]-ás[7], ok svâ upp um bæinn. Einar Andressmágr

1) leingr, *H.* 2) talat, *Hk.* 3) Unnibur, *H*, *Hk.* 4) herjuðu ok reru upp ena, *H.* 5) hinu, *H.* 6) *sèst ógloggt í H.* 7) *H*; *v. í A.*

bar þessi tíðindi upp til Kastalakirkju, þvíat þar var bæjarlýðrinn, er sótt hafði til hámessu. Einar kom, þá er Andreas prestr talaði. Einar sagði mönnum at herr fór at bænum með fjölda skipa, en sumt liðit reið utan um Bratzás. Þá mæltu margir at þar myndi vera Eiríkr Danakonúngr, ok væntu menn ser griða af honum. Hljóp þá fólkit allt ofan í bæinn til fjár síns ok vâpnaðist, ok gekk ofan á bryggjur, sá þeir þá þegar at úfriðr var, ok úflýjandi herr. Austrfarar skip 9 flutu í ánni fyrir bryggjum, er kaupmenn áttu. Vindr lögðu þar fyrst at, ok börðust við kaupmennina. Kaupmenn vâpnuðust ok vörðust leingi dreingiliga. Varð þar hörð orrosta, áðr kaupskipin urðu vunnin. Í þeirri hríð lètu Vindr hálft annat hundrað skipa at öllu liði[1]. En þá er bardaginn var (sem mestr), stóðu bæjarmenn á bryggjunum, ok skutu á heiðíngja. En er orrostan rènaði, þá flýðu bæjarmenn upp í bæinn, ok síðan til kastalans [allt fólk[2]; höfðu menn með ser dýrgripi sína ok allt fe, þat er menn máttu meðkomast. Solveig ok dætr hennar [ok 2 konur aðrar[3] gengu upp á land.

12. Þá er Vindr höfðu vunnit kaupskipin, gengu þeir á land, ok könnuðu lið sitt, ok birtist þá skaði þeirra. Þá hlupu þeir[4] sumir í bæinn, sumir á kaupskipin, ok tóku fe allt, þat er þeir vildu með ser hafa; því næst lögðu þeir

---

1) *sèst ekki í A*; liðino, *Hk.* 2) *v. í H.* 3) *v. í H.* 4) *v. í H.*

eld í bæinn, ok brendu hann allan, ok svâ skipin. Eptir þat hèldu þeir liðinu öllu at kastalanum, ok skipuðu til atsóknar. Rettiburr konúngr lèt bjóða þeim, er í kastalanum voru, at gánga út, ok hafa lífsgrið með vâpnum, klæðnaði, gulli ok silfri, en allir æptu á móti, ok gengu út á borgina, sumir skutu, sumir grýttu, sumir skutu staurum; varð þar mikil orrosta, fèll lið af hvârumtveggjum, ok þó miklu fleira af Vindum. Solveig kom upp á bæ þann er heitir Sólbjargir, ok sagði þar tíðindin; þá var skorin upp herör, ok sent til Skurbaga[1], þar var samburðaröl nökkut ok mart manna. Þar var sá bóndi, er Ölver hèt, miklimunnr[2], hann hljóp upp þegar, ok tók skjöld sinn ok hjálm ok mikla öxi í hönd ser, ok mælti: standit upp, góðir dreingir, ok takit vâpn yður, ok förum til liðveizlu við bæjarmenn; þvíat skömm mun þykkja hverjum manni er þat spyrr, at ver sitim her ok kýlim öl, en góðir dreingir skulu láta líf sitt í bænum fyrir vârar sakir. Margir svöruðu ok mæltu í móti, sögðu at þeir myndi týna ser, en koma bæjarmönnum at eingu liði. Þá hljóp Ölver upp, ok mælti: þótt allir þer dvelizt eptir, þá skal ek þó fara einn saman, ok láta skulu heiðíngjar einn eðr tvâ fyrir mer, áðr en ek falla. Hljóp hann þá ofan til bæjarins. Menn fóru eptir honum, ok vildu sjá ferð hans; ok vita ef honum mætti nökkut viðhjálpa. En er

1) Skyrbaga, *H allstaðar*; Skúrhaga, *Hk.* 2) *v. í H.*

hann kom svâ nær kastalanum, at heiðíngjar sá hann, þá hlupu í mót honum 8 menn alvâpnaðir, ok er þeir mættust, hlupu heiðnir menn umhverfis hann. Ölver reiddi upp öxina, ok laust fremri hyrnu undir kverkr þeim er á bak honum stóð, svâ at sneið í sundr kjálkana ok barkann; fèll sá opinn á bak aptr. Í því sama höggvi reiddi hann framm öxina fyrir sik, ok hjó annan í höfuðit, ok klauf þann í herðar niðr. Síðan sóttust þeir, ok drap hann þá enn tvâ, ok varð sjálfr sárr mjök; en þeir 4, er eptir voru, flýðu. Ölver rann eptir þeim, en díki nökkut var fyrir þeim, stóðu þeir hinir heiðnu þar fastir í, ok drap Ölver þá báða, stóð hann þá ok fastr í díkinu; en 2 einir komust undan af þeim 8 hinum heiðnum mönnum. Þeir er fylgt höfðu Ölvi, tóku hann, ok fluttu aptr með ser til Skurbaga, varð hann græddr at heilu, ok er þat mál manna, at eigi hafi einn maðr farit dreingiligri ferð. Lendir menn tveir, Sigurðr Gyrðarson, bróðir Filippuss, ok Sigarðr[1] komu með 6 hundruð manna til Skurbaga, ok hvarf Sigurðr[2] aptr með 4 hundruð manna, ok þótti síðan lítilsverðr, ok lifði skamma stund; en Sigarðr[3] fór til bæjarins með 2 hundruð manna, ok barðist við heiðíngja, fèll hann þar með öllu liði sínu.

13. Vindr sóttu kastalann, en konúngr þeirra ok stýrimenn stóðu fyrir utan bardagann. Í einhverjum stað, þar er Vindr stóðu, var sá einn

1) annar Sigurðr, *H.* 2) Gyrðarson, *b. v. H.* 3) *Hk*; Sigurðr, *A*, *H.*

maðr, er skaut af boga, ok fèkk maðr bana af hverri ör, er hann skaut. Tveir menn stóðu fyrir honum með skjöldu, ok hlífðu honum; þá mælti Sæmundr við Ásmund son sinn, at þeir skyldi báðir senn skjóta at skytanum: ek mun skjóta at þeim er skjöldinn berr. Hann gerði svâ; sá skaut skildinum fyrir sik; þá skaut Ásmundr milli skjaldanna, kom sú ör í enni skytanum, svâ at út gekk um hnakkann, ok fèll sá dauðr á bak aptr. En er Vindr sá þat, ýldu þeir allir sem hundar eðr vargar. Þá lèt Rettibur konúngr kalla til þeirra, ok bauð þeim grið, en kastalamenn neittu; síðan veittu heiðíngjar harða atsókn. Sá var einn af heiðnum mönnum, er svâ djarfliga barðist, at hann gekk allt at kastalahurðinni, ok lagði þann mann, er fyrir innan stóð hurðina, en menn báru á hann skot ok spjót; hann var hlífarlaus, en svâ fjölkunnigr at ekki vâpn festi á honum. Þá tók Andreas prestr vígðan eld, ok skar tundr, ok lagði eldinn í, ok blezaði, setti hann tundrið á örvarodd, ok fèkk Ásmundi, en hann skaut þessi ör með tundrinu at hinum fjölkunniga manni. Þetta skot beit svâ, at honum vann at fullu, ok fèll hann dauðr til jarðar. Þá lètu heiðíngjar illiliga sem fyrr, ýldu ok gnístu; gekk þá allt fólk til konúngs, þótti kristnum mönnum sem þá væri til ráðs, at þeir myndi [undan lètta[1]. Þá skildi túlkr, sá er kunni vindverku, hvat sá

1) vilja hætta, *H.*

höfðíngi sagði, sem Uniburr er nefndr. Hann mælti svâ: þetta fólk er íllt viðskiptis, ok þótt ver takim allt þat fe, sem í þessum stað er, þá mættim ver gefa til annat fe jafnmikit, at ver hefðim eigi her komit, svâ höfum ver látið mikit lið ok marga höfðíngja. Ok fyrst í dag er ver tókum at berjast við kastalamenn, þá höfðu þeir til varnar skot ok spjót; því næst börðu þeir oss með grjóti; nú berja þeir oss með keflivölum sem hunda: se ek fyrir því at þverra faung þeirra til varnar, ok skulum ver enn gera þeim harða hríð ok freistum þeirra[1]. En svâ var sem hann sagði, at þá skutu þeir staurum, en í fyrstu hríð höfðu þeir[2] úvarliga skotvâpn[3] ok grjót, [en er þeir sá at mínkaðist fjöldi af[4] staurunum, þá hjuggu þeir í tvav hvern staurinn[5]; en heiðíngjar sóttu at þeim, ok gerðu harða hríð, ok hvíldust í milli; gerðust þá hvârirtveggju móðir ok sárir: ok í einnihverri hvíld, þá lèt konúngr enn bjóða þeim grið, ok at þeir skyldu enn hafa vâpn sín ok klæði, ok þat er þeir bæri sjálfir út ör kastalanum.

14. Þá var fallinn Sæmundr húsfreyja[6]; var þat þá ráð þeirra manna sem eptir vâru í kastalanum, at gefa upp kastalann[7] í vald heiðinna manna, ok var þat hit úsnjallasta ráð, þvíat heið-

1) enn, *b. v. Hk.* 2) borit, *b. v. Hk.* 3) sín, *b. v. Hk.* 4) *þannig Hk*; at, *A.* 5) *Frá merkinu v. í H.* 6) húspreyja, *H.* 7) ok sjálfa sik, *b. v. Hk.*

íngjar efndu ekki orð sín. Tóku þeir alla menn, karla ok konur ok börn, drápu allt þat er sárt var ok úngt, ok þeim þótti íllt at flytja með ser, ok tóku allt fe, þat er þar var í kastalanum. Þeir gengu í Krosskirkju, ok ræntu hana öllu sínu skrúði. Andreas prestr gaf Rettibur konúngi refði [silfrbúit ok gyllt[1], en Dunimitz[2] systursyni hans (fíngrgull), ok því þóttust þeir vita, at hann myndi vera ráðamaðr nökkur í staðnum, ok virðu hann framar en aðra menn. Þeir tóku krossinn helga, ok höfðu brott; þeir tóku ok taboluna, er stóð fyrir altari, þá er Sigurðr konúngr hafði látið gera í Grikklandi, ok haft í land. Þeir lögðu hana niðr á gráðuna fyrir altarið; síðan gengu heiðíngjar út ör kirkjunni. Þá mælti Rettiburr konúngr: þetta hús hefir verit búit með mikilli ást við þann guð er þat á; [en svâ lízt mer at gætt muni hafa verit illa staðarins ok hússins, er ek se at guðinn er reiðr þeim sem varðveita[3]. Rettibur konúngr fèkk Andresi presti[4] skrínit, krossinn helga, bókina, plenaríum ok klerka[5] fjóra, en heiðnir menn brendu kirkjuna ok öll hús, þau sem í voru kastalanum[6], en eldr sá er þeir höfðu tendrat í kirkjunni, sloknaði tysvar. Þá hjuggu þeir ofan kirkjuna, tók hon þá at loga innan öll, [brann þar kirkjan ok[7] önnur hús. Þá fóru heiðíngjar

1) gullbúit, *H.* 2) *v. í H.* 3) *v í H, en finnst í Hk.* 4) kirkjona oc, *b. v. Hk.* 5) *bundit í A:* (klka) *en* klerka, *H, Hk; og stendr þat fullum stöfum í báðum skinnbókum; mætti annars hugsa at meiníngin væri* kaleika. 6) staðnum, *H.* 7) ok brann þá sem, *Hk.*

til skipa sinna með herfángit, ok könnuðu lið sitt; en er þeir sá skaða sinn, þá tóku þeir at herfángi allt folk, ok skiptu milli skipanna. Þá fóru þeir Andreas prestr á konúngsskipit með krossinn helga. Þá kom ótti yfir heiðíngja af þeirri bendíng, er yfir konúngsskipit kom hiti svâ mikill, at allir [þeir þóttust (nær) brenna. Konúngr bað túlkinn spyrja prestinn, hví svâ varð. Hann sagði at almáttigr guð, sá er kristnir menn trúðu á, sendi þeim mark reiði sinnar, er (þeir) dirfðust at hafa með höndum hans píslarmark, er eigi trúðu á skapara sinn:. ok svâ mikill kraptr fylgir krossinum, at opt hafa orðit fyrr þvílíkar jarteignir yfir heiðnum mönnum, þá er þeir höfðu hann með höndum, ok enn berari. Þá lèt konúngr skjóta kennimönnum á eptirbátinn, ok bar Andreas krossinn í fángi ser. [Þeir leiddu bátinn framm með endilaungu skipi ok framm fyrir barðit, ok aptr með öðru borði til lyptíngar[1], skutu síðan við forkum, ok hrundu bátinum upp at bryggjum. Andreas fór um nóttina með krossinn til Sólbjarga, ok var bæði hregg ok regn. Andreas flutti krossinn til góðrar gæzlu. Rettiburr konúngr fór á brott með þat lið sem eptir var aptr til Vindlands; ok mart þat fólk, er tekit hafði verit í Konúngahellu, var leingi síðan þjáð í Vindlandi; en þeir sem út voru leystir, ok aptr komu í

[1]) *v. í II.*

Noreg til óðala sinna, vurðu allir at minna þrifnaði en áðr. Kaupstaðrinn í Konúngahellu hefir aldri fengit uppreist slíka sem áðr var[1].

15. Magnús, er blindaðr hafði verit, [fór norðr í Niðarós, ok gaf sik í klaustr í Hólmi[2], ok tók við múnkaklæðum. Þá var skeytt[3] þángat Hernes mikla [á Frostu[4] í próventu hans, en Haraldr rèð þá einn[5] landi eptir um vetrinn, ok gaf öllum mönnum sættir, er hafa vildu, tók þá marga til hirðvistar, er verit höfðu með Magnúsi[6]. Svå segir Einar Skúlason, at Haraldr átti tvær orrostur í Danmörk, aðra við Hveðn, en aðra við Hlèssey[7]:

Ótryggum [lèzt þú[8] eggjar
eljun-þrár und hári
Hveðn á höldum roðnar,
hrafns-munnlituðr! þunnar[9]:
[áttuð sókn við slèttan
serkrjóðr hárs merki[10]
harðr[11] þar er hregg of virðum
Hleseyjar þröm blèsu.

---

1) *Alla þessa frásögn v. í M.* 2) var fluttr til Hólms, *M.* 3) *A, M;* keypt, *H.* 4) *A, M; v. í H.* 4) *þannig H, Hk, M;* enn, *A.*

6) Svâ segir Halldórr:
Nú er, auðsendir! undir
allr Noregr þik fallinn,
*þin liggr gipt á grono*
(*guþs* ráþ er þat) láþi:

Svâ segir Einar Skúlason:
Alls varþ ello
úngr geitúnga
lofaðr (Iønaðr) lífgjafi
lanz ráþandi; *b. v. M.*

7) Hlès ey, *H;* Hles ey oc hafþi sigr, *M.* 8) lèt ek, *H;* lèt, *M, Hk.* 9) þunnan, *H.* 10) átti s. v. slètta s. h. m., *Hk;* áþr þar er ógnar prúþom úlf-nistanda visto, *M, þó heldr dauft.* 11) harða, *Hk.*

16. Haraldr konúngr gilli var allra manna mildastr af fe. Þat er sagt at utan kom af Íslandi til biskupsvígslu Magnús Einarsson[1]. Haraldr konúngr tók ágætliga við honum, ok veitti honum mikla sæmd. Ok þá er skip þat var albúit til brotthalds, er biskup skyldi fara á út til Íslands, þá gekk biskup í stofu þá, er konúngr sat ok drakk, ok heilsaði honum. Konúngr tók honum vel ok blíðliga. Drotníngin sat hjá konúngi. Konúngr mælti: herra biskup! erut þer nú brottbúnir. Biskup sagði, at svâ var. Konúngr mælti: eigi hittu þer nú í tíma til, er þer komut svâ at borðin voru uppi, nú er ekki til at gefa yðr svâ virðuligt sem skyldi, éðr hvat er til at gefa biskupi? Fehirðir hans svarar: upp ætlum ver nú gefnar gersimar yðrar. Konúngr mælti: ek se hvat til er, borðkerit herna; þiggit þat, herra, [fe er í því[2]. Biskup þakkaði honum gjöfina, ok allan þann sóma, sem hann hafði veitt honum. Þá mælti drotníngin: far heill ok sæll, herra biskup! Konúngr mælti: þú sagðir „far heill ok sæll, herra biskup", hverja göfga konu[2] heyrðir þú slíkt mæla við biskup sinn, ok gefa honum ekki? Hon mælti: minn herra! hvat er nú til? Konúngr mælti: til er hægindit undir þer. Þat var fengit biskupi, þar var skorit um pell nýtt, var þat agætr gripr þesskyns; ok áðr biskup veik í brott, lèt konúngr taka þat hægindit, sem hann hafði undir ser,

[1]) Enarsson, *H.* [2]) fet er í, *M.* [2]) frú, *H.*

ok mælti: þiggit ok þetta hægindit, herra biskup, þau hafa leingi saman verit. Síðan fór biskup í brott, ok kom út til Íslands til stóls síns. Síðan leitaði biskup ráðs um, hvat af borðkerinu skyldi gera, þess er konúnginum gegndi bezt; en nökkurir menn lögðu þat til, at selt myndi vera, ok gefit fátækum mönnum verðit. Þá mælti biskup: annat ráð vil ek taka, gera skal af kalekk[1] [her at staðnom[2], ok vil ek svâ fyrir mæla, at allir þeir hinir helgu menn, sem her eru af helgir dómar í þessi kirkju, láti Harald konúng í hvert sinn njóta, er yfir þeim kalekk[1] er messa súngin. Svâ var gert, ok er sá kalekkr[3] [æ síðan[4] at staðnum í Skálaholti, en af pellunum, er yfir voru dregin hægindin, voru[5] gerfar fyrirsaungskápur þar at staðnum. Í slíkum hlutum má marka stórlyndi Haralds konúngs gilla. [Haraldr konúngr tók Þóru, dóttur Guttorms grábarða, ok lagði hana hjá ser, ok átto þau son er Sigurðr hèt; son átti hann ok við Ingiríði drottníngu, er Ingi hèt; dóttir Haralds konúngs het Brigit, önnur María. Brigit dóttur hans átti fyrst Ingi Hallsteinsson Svíakonúngr, síðan Magnús Heinreksson, síðast Birgir brosa. Haraldr konúngr var allra manna mildastr af fe við vini sína[6].

---

1) *þannig A*; kalek, *H, M, Hk.* 2) *M, Hk*; *v. í A, H.* 3) kalekr', *H, M, Hk.* 4) mestr, *M.* 5) ero nú *M, Hk.* 6) *b. v. E, og að mestu leiti Hk*; *v. í A, H.*

17[1]. Sigurðr er maðr nefndr, er uppfæddist í Noregi. Hann var kallaðr son Adalbrikz[2] prests. Móðir Sigurðar var Þóra, dóttir Saxa ör Vík, systir Sigríðar, móður þeirra Ólafs konúngs Magnússonar ok Kára konúngsbróður, er átti Borghildi, dóttur Dags Erlíngssonar[3]. Þeirra synir voru þeir Sigurðr (á) Austrætt, [ok Dagr; synir Sigurðar vâro þeir[4] Þorsteinn, Andreas daufi ok Jón er átti Sigríði, systur Ínga konúngs ok Skúla hertoga. Sigurðr var í bernsku settr til bókar[5], ok varð hann klerkr, ok vígðr til djákns. En er hann gerðist fullkominn at aldri ok afli, þá var hann allra manna vaskligastr, mikil maðr ok sterkr, ok á alla atgerfi var hann umframm alla jafnaldra sína, ok náliga hvern mann annan í Noregi. Sigurðr var snimma ofsamaðr mikill ok úeirinn um flest, hann var kallaðr Sigurðr slembidjákn; manna var hann fríðastr sýnum, heldr þunnhárr; ok þó vel hærðr. Þá kom þat upp fyrir *Sigurð*, *at móðir* hans sagði Magnús konúng berfætt vera föður hans; ok þegar er hann rèð sjálfr háttum sínum, þá afræktist hann klerkasiðu, fór hann þá af landi brott. Í þeim ferðum dvaldist hann lángar hríðir; hann fór út til Jórsala, ok kom til Jórdánar, ok sótti marga úkunna staði [svâ sem pálm-

1) *M hefir hèr mjög frábrugðna frásögn, er því* Saga Sigurðar slembidjacns *parúr innfærð seinast í þessu bindi, en hèr sleppt öllum orðamun úr henni um þetta efni.* 2) Aðalbrigz, *H.* 3) Eilifssonar, *Hh.* 4) *Hh; v. i A, H.* 5) bækr, *H.*

arum er títt[1]. En er hann kom aptr, þá dvaldist hann í kaupferðum nökkura vetr; [var hann staddr nökkura hríð[2] í Orkneyjum með Haraldi jarli, ok var með honum at drápi Þorkels fóstra Sumarliðasonar[3]. Sigurðr var ok uppi á Skotlandi með Davíd Skotakonúngi, ok var þar virðr mikils. Síðan fór hann til Danmerkr, ok var þat hans sögn ok hans manna, at þar hefði hann flutt skírslu til faðernis síns, ok bæri[4] svâ til, at hann væri[5] son Magnúss konúngs, ok vâru þar við fimm biskupar. Svâ segir Ívar Íngimundarson í Sigurðar-belki[6]:

Gerðu skírslu
um[7] skjöldúngs kyn
fimm biskupar,
þeir er framast þóttu:
svâ bar raunir[8],
at ríks konúngs
þess var [hins[9] milda[10]
Magnús faðir.

Vinir Haralds konúngs sögðu, at þat hefði verit svik ok lygi Dana.

18[11]. Þá er Haraldr gilli hafði verit 6 vetr konúngr, kom Sigurðr til Noregs, fór hann til fundar við Harald konúng, ok fann hann í

1) *v. í H.* 2) Einn vetr var hann staddr, *H.* 3) *v. í H.* 4) bar, *H, Hk.* 5) var, *H.* 6) *þannig líka báðar skinnbækr af Hk.* 7) of, *Hk.* 8) raun, *E.* 9) ens, *H.* 10) *þannig líka báðar skinbækr af Hk. þó útgáfan hafi:* hinn mildi. 11) *Hk hefir hèr töluverðan orðamun, en kemr at mestu leiti saman við M, úr hverri sagan öll er innfærð seinna.*

Björgyn. Gekk hann þegar fyrir konúng, birti hann fyrir konúngi faðerni sitt, ok beiddi at hann tæki við frændsemi sinni. Konúngr veitti einga skjóta örskurði um þat mál; bar hann þetta fyrir vini sína, ok átti við þá stefnur ok tal, en af tali þeirra kom þat upp, at konúngr bar sakir á Sigurð, um þat er hann hafði verit at aftöku Þorkels fóstra fyrir vestan haf. Þorkell hafði fylgt Haraldi konúngi til Noregs [þann fyrsta[1], er hann kom í landit; hafði Þorkell verit hinn mesti vin Haralds konúngs. Var þessu máli fylgt svâ fast, at þarfyrir var Sigurði gefin dauðasök, ok með ráði lendra manna var þat framgengt, svâ at eitt kveld síðarla gengu til gestir nökkurir, þar er Sigurðr var, ok kölluðu hann með ser; tóku skútu eina, ok reyru á brott frá bænum með Sigurð [suðr til Norðness[2]. Sigurðr sat aptr á kistunni[3], ok hugsaði sitt mál, grunaði hann at þetta myndi vera svìk. Hann var svâ búinn, at hann hafði blár brækr ok skyrtu ok möttul á tyglum at yfirhöfn; hann sá niðr fyrir sik, ok hafði hendrnar at möttulsböndunum, lèt stundum upp á höfuð ser, stundum lèt hann af. En er þeir komu[4] fyrir nesit[5], voru þeir kátir ok druknir, reyru ákafliga, ok ugðu fátt at ser. Þá stóð Sigurðr upp, ok gekk [til borðs[6]; en tveir menn, þeir er til gæzlu

1) þá fyrst, *H*, *Hk*. 2) *A*, *H*; norðr um Holdhellu, *E*. 3) skipit, *H*; kisto einni, *Hk*. 4) voru komnir, *Hk*. 5) náliga út til Mjólkrár, *b. v. Hk*. 6) út at borðinu, *H*; á borð, *Hk*.

voru fengnir við hann, stóðu upp ok gengu (með honum) at borðinu, tóku möttulinn báðir tveir, ok hèldu frá honum, sem títt er at gera við ríka menn. En er hann grunaði, at þeir hèldi fleirum klæðum hans, þá greip hann sinni hendi hvârn þeirra, ok steyptist utanborðs[1] með báða þá. Skútan rendi fram hart, ok varð þeim seint at víkja, ok laung dvöl áðr þeir næði[2] mönnum sínum, þeim er á sundi voru. Sigurðr tók svâ lángt kaf á brott, at hann var fyrr á landi uppi, en þeir hefði snúit skipi sínu eptir honum. Sigurðr var allra manna fóthvatastr, stefndi hann á land upp. Konúngsmenn fóru ok leituðu hans alla nóttina, ok fundu hann eigi. Hann lagðist í bergskor nökkura, honum svalaði mjök; fór hann þá ör brókunum, ok skar rauf á setgeiranum, ok smeygði á sik, ok tók út höndunum; hjálpaði[3] hann svâ lífi sínu at sinni. Konúngsmenn fóru aptr, ok máttu eigi leyna óförum sínum.

19. Sigurðr þóttist nú vita, at eigi myndi honum til hjálpar, at leita á fund Haralds konúngs, var hann þá í fylsnum[4] allt haustið ok öndverðan vetr. Var hann í bænum í Björgyn á laun með presti nökkurum, ok gildraði til, at hann mætti verða skaðamaðr Haralds konúngs, ok voru mjök margir menn at þessum ráðum með honum, ok sumir er þá voru hirðmenn

1) útbyrðis, *H.* 2) náðu, *H.* 3) halp, *Hk.* 4) *þannig A, H*; fylsknom, *Hk.*

ok herbergismenn Haralds konúngs, en þeir höfðu fyrr verit [hirðmenn Magnúss konúngs[1]; voru þeir þá í kærleikum miklum við Harald konúng, svâ at [þeir sátu nökkurir[2] yfir borði konúngsins. Lúcíomesso at kveldi töluðust við tveir menn er þar sátu, mælti annarr til konúngs: herra! nú höfum við skotið þrætu okkarri til yðvars örskurðar, ok höfum veðjat ask[3] hunángs hvârr okkar; ek segi at þú munt liggja í nótt hjá Íngiríði drotníngu, konu þinni, en hann segir at þer munit sofa hjá Þóru Guðbrandsdóttur[4]. Konúngr var mjök úvitandi, at þessi spurníng væri[5] með svâ mikilli vèl, ok svarar hlæjandi: eigi munþú hljóta veðfeit. Af þessum svörum þóttust þeir vita, hvar hans var at vitja á þeirri nótt, en höfuðvörðr var þá haldinn fyrir því herbergi, er flestir menn ætluðu at konúngr væri inni, ok drotníngin svaf í.

20. Sigurðr slembir ok nökkurir menn með hânum komu þar til herbergis, er konúngr svaf, brutu upp hurðina, ok gengu inn með vâpnum. Ívar Kolbeinsson vann fyrst á Haraldi konúngi. Konúngr hafði drukkinn niðrlagzt, ok svaf fast; vaknaði hann við þat er menn vâgu at honum, ok mælti í úvitinu: sárt býr þú nú við mik, Þóra! Hon hljóp upp ok mælti: þeir búa sárt við þik, er verr vilja þer en ek. Lèt þar Har-

1) *þannig H, Hk*; hjá Sigurði, *A.* 2) æ var nokkurr af þessum, *Hk.* 3) aski, *H, Hk.* 4) Guttormsdóttur, *Hk.* 5) mundi sett, *H.*

aldr konúngr líf sitt[1], en Sigurðr ok menn hans gengu í brott, lèt hann þá kalla [at ser[2] þá menn, er honum höfðu heitizt til föruneytis, ef hann fengi Harald konúng tekit af lífdögum. Þeir Sigurðr ok hans menn tóku skútu nökkura, ok skipuðu mönnum við árar, reyru um vâginn fyrir konúngsgarð. Tók þá at lýsa af degi. Sigurðr stóð upp, ok talaði við þá menn, er stóðu á konúngsbryggju, ok lýsti[3] vígi Haralds konúngs ser á hendr, ok beiddist af þeim at þeir tæki hann til konúngs, svâ sem burðir hans stóðu til. Þá dreif þagat á bryggjurnar mart manna af konúngsgarði, ok svöruðu allir sem[4] einum[5] munni, sögðu at þat skyldi aldri verða, at þeir veitti hlýðni ok þjónustu þeim manni, er myrt hafði bróður sinn: en ef hann er eigi bróðir þinn, sögðu þeir, þá áttu einga ætt til at vera konúngr. Þeir börðu saman vâpnum sínum, dæmdu þá alla útlæga ok friðlausa. Því næst var blásit konúngs lúðri, ok stefnt saman öllum lendum mönnum ok hirðmönnum, en Sigurðr ok hans menn sá þann sinn kost fegrsta[6] at verða á brottu. Hann hèlt þá norðr á Hörðaland, ok átti þar þíng við bændr; þeir gengu undir hann, ok gáfu honum konúngsnafn. Þaðan fór hann inn í Sogn, ok þíngaði

1) *M, Hk nefna hèr þá, sem inn-gengu með Sigurði, sjá seinna.* 2) *þannig lagfært,* at *v. í A, H*; til *sín, Hk.* 3) *H*; lýstu, *A.* 4) senn, *Hk; bundit í A, H:* sē. 5) eins, *H.* 6) líkastan, *H.*

þar; var hann ok þar til konúngs tekinn. Þá fór hann norðr í Fjörðu, var honum þar vel fagnað. Svâ segir Ívar Íngjaldsson[1]:

Tóku við mildum
Magnússyni
Hörðar ok Sygnir
at Harald fallinn;
sórust margir
menn á þíngi
buðlúngs syni
í bróður stað.

Haraldr var jarðaðr at Kristskirkju hinni fornu.

---

1) *A, H, þó bundit, i A*; Ingimundarson, *Hk.*

# Saga Ínga konúngs Haraldssonar ok bræðra hans.

Íngiríði drotníng, ok með henni lendir menn ok hirð sú, er Haraldr konúngr hafði haft, rèðu þat at hleypiskúta nökkur var gjör norðr til þrándheims, at segja fall Haralds konúngs, ok þat með at þrændir skyldu taka til konúngs Sigurð, son Haralds konúngs, er þar var norðr, ok Gyrðr Bárðarson fóstraði. En Íngiríð[1] drotníng fór þegar austr í Vík; Íngi hèt son þeirra Haralds konúngs, hann var þar í Víkinni á fóstri með Ámunda Gyrðarsyni. En er þau komu í Víkina, þá var stefnt Borgar-þíng[2]; þar var Íngi til konúngs tekinn; þá var hann á annan vetr. At því ráði hurfu Ámundi ok þjóstólfr Álason ok margir aðrir stórhöfðíngjar. En er þau tíðindi komu norðr til þrándheims, at Haraldr konúngr var af lífi tekinn, þá var þar tekinn til konúngs Sigurðr, son Haralds konúngs, ok hurfu at því Óttar birtíngr ok [Petr Sauða-Úlfsson[3] ok þeir bræðr Guttormr [Ásólfsson á[4]

1) *þannig A.* 2) *H, Hk; óglögt í A.* 3) Vetr Sauða-úlfsson, *H.* 4) Olafsson af, *H; en í Hk einúngis* af.

Reini ok Óttar balli[1] ok fjöldi annarra höfðíngja. Snerist[2] þá undir þá bræðr náliga allr lýðr, allra helzt fyrir þess sakir, at faðir þeirra var kallaðr heilagr; var þeim svâ land svarit, at undir eingan mann annan skyldi gánga ríki í Noregi, meðan nökkur sona Haralds konúngs væri á lífi.

2. Sigurðr slembidjákn[2] hèlt norðr með landi, ok þá er hann kom á Norðmæri, voru allt komin fyrir hann brèf ok jarteiginir ríkismanna, þeirra er snúizt höfðu undir hlýðni við sonu Haralds konúngs, ok fèkk hann þar einga viðtöku eðr uppreist. En með því at hann sjálfr var liðlítill, þá rèðu þeir at stefna inn í Þrándheim; þvíat hann hafði áðr gert orð fyrir ser inn þagat til vina sinna, ok til vina Magnúss er blindaðr hafði verit. En er hann kom til Kaupángs, reyri hann upp í ána Nið, ok kom festum á land í konúngsgarði, ok urðu þegar undan at lètta, þvíat allr lýðr stóð í móti; lögðu þeir þá út til Hólms, ok tóku þar út ör klaustrinu Magnús Sigurðarson af nauðgum múnkum; 1137 hann hafði tekit áðr múnksvígslu. Sú er fleiri manna frásögn at Magnús færi at sjálfs síns vilja, þótt hitt væri orð á gert til málsbótar honum; vænti Sigurðr ser af þessu liðsafla, ok svâ gafst. Þetta var þegar eptir jól. Fóru þeir Sigurðr út eptir firði. Síðan sóttu eptir þeim

[1]) bolli, *H*, *en Hk b. hèrinn* Asólfssynir. [2]) slembir, *H*, *Hk*.

Björn Egilsson, Gunnar af Gimsum, Halldórr Sigurðarson, Áslákr Hákonarson ok þeir bræðr Benedikt ok Eiríkr, ok hirð sú er fyrr hafði verit með Magnúsi ok fjöldi annarra manna. Þeir fóru með flokkinn suðr fyrir Mæri, ok allt fyrir Raumdalsmynni. Þeir skiptu þar liði sínu; fór Sigurðr slembir suðr með landi, ok vestr um haf þegar um vetrinn, en Magnús fór til Upplanda, ok vænti hann ser þar mikils liðs, sem hann fèkk; var hann þar um vetrinn ok um sumarit allt á Upplöndum, ok hafði mikit lið. En Íngi konúngr fór at honum með liði sínu; þeir hittust þar sem heitir í[1] Mynni; varð þar mikil orrosta, ok hafði Magnús meira lið. Svâ er sagt at Þjóstólfr Álason hefði Ínga konúng í kiltíng ser, meðan bardaginn var, ok gekk undir merki, ok kom Þjóstólfr í mikla-nauð[2] af erfiði ok atsókn. Er þat mál manna, at þá hafi Íngi konúngr fengit vanheilindi, þat er hann hafði allan aldr síðan, knýtti hrygginn, ok annar fótrinn var skemri en annar; ok svâ afl-lítill at hann var illa gengr, meðan hann lifði. Þá sneri mannfallinu á hendr Magnúss-mönnum, ok fèllu þessir í öndverðri fylkíngu[3]: Halldórr Sigurðarson ok Björn Egilsson ok Gunnar af Gimsum, ok mikill hluti liðs Magnúss, áðr hann vildi flýja. Svâ segir Kolli:

Unnuð austr fyrir Mynni
oddhríðir[4] [ok brak[5] síðan

1) fyrir, H. 2) raun, H. 3) Þorkel, b. v. Hk. 4) oddhríd, H, Hk. 5) en brast, Hk.

hilmir fèkk und hjálmi
hrafnsverðar lið sverðum[1].

Ok enn kvað hann:

Fyrr[2] lá hans, enn[3] harri
hríngmildr þaðan vildi,
verðúng öll [á velli
vigfimr[4] konúngr himni[5].

3. Magnús flýði fyrst austr á Gautland [ok þaðan til Danmerkr[6]. Í [þann tíma var[7] Karl jarl Sónason í Gautlandi; hann var ríkr ok ágjarn. Magnús blindi ok hans menn sögðu svâ, hvar sem þeir komu, fyrir höfðíngjum[8], at Noregr myndi liggja lauss fyrir, ef nökkurir stórhöfðíngjar vildi tilsækja, er eingi var konúngr yfir landi, ok lendra manna forráð var yfir landinu. En þeir lendir menn, er fyrst voru til forráða teknir, var nú hverr úsáttr við annan fyrir öfundar sakir. En með því at Karl var ágjarn til ríkis, ok áhlýðinn um fjártökur[9], þá safnar hann liði, ok ríðr austan í Víkina; gekk þar mart fólk undir hann fyrir hræðslu sakir. En er þat spurðu þeir Þjóstólfr ok Ámundi, þá fóru þeir í móti með þat lið er tilfèkst, ok höfðu með ser Ínga konúng. Þeir hittu Karl ok her Gauta austr á Krókaskógi, ok áttu þar aðra orrostu, ok fèkk Íngi

1) *Hk b. v. öðrum vísuhelm.* 2) fyst, *H.* 3) *í, H.* 4) *H, Hk; frá merkinu sèst ekki í A.* 5) *Hk b. v. öðrum vísuhelm.* 6) *v. í Hk.* 7) *H; sèst ekki í A.* 8) heiðíngjum, *H*; höfðíngja, *Hk.* 9) fortölur *H*; fyrirtölur *Hk.*

konúngr sigr. Þar fèll Munan Ögmundarson, móðurbróðir Karls jarls. [Ögmundr, faðir Munans, var son Orms jarls Eilífssonar ok Sigríðar, dóttur Finns jarls Árnasonar. Ástríðr, (dóttir) Ögmundar, var móðir[1] Karls jarls[2]. Mart fèll á Krókaskógi, en jarl flýði austr af skóginum. Íngi konúngr rak þá allt austr ör ríkino[3], ok varð þeirra för hin hæðiligsta. Svâ segir Kolli:

Lýsa mun ek hve ljósa
(laut hrafn í ben Gauta)
(örn fylldit[4] sik sjaldan)
sár-ísa rauð vísi[5]:
goldit varð[6] þeim er gerðu
glaum her-þundum[7] sverða
(raun er[8] at ríki þínu)
róg á Krókaskógi.

4. Magnús blindi sótti suðr til Danmerkr á fund Eiríks eymuna, ok fèkk hann þar góðar viðtökur; bauð hann Eiríki (konúngi) at fylgja honum í Noreg, ef hann vildi leggja undir sik landit, ok fara með Danaher í Noreg; ok sagði, ef Danakonúngr kæmi með styrk hans í Noreg, at eingi maðr myndi [þora at skjóta spjóti[9] í mót honum[10]; en konúngr skipaðist við fortölur Magnúss, ok bauð út leiðángri.

---

1) *þannig leiðrètt eptir Hk*; dóttir, *A*; *en í H v. þessa klausu.*
2) *v. í H.* 3) *þannig H*; ör Krókaskógi, *A.* 4) fylldi, *H.*
5) vísir, *H.* 6) var, *H.* 7) herðundum, *H*, *Hk.* 8) *v. í H.*
9) skjóta skapti, *H.* 10) þeim, *H.*

Hann fór með 6 hundruð[1] skipa norðr í Noreg. Magnús blindi ok hans menn voru í þessi ferð með Danakonúngi; en er þeir komu í Víkina, þá fóru þeir at nökkuru hófi með spekt ok friði austanfjarðar; en (er) þeir komu liðinu til Túnsbergs[2], þá var þar fyrir safnaðr mikill lendra manna. Vatn-Ormr Dagsson, bróðir Gregoríuss, rèð mest fyrir þeim. Þar máttu Danir eigi á land koma, ok eigi taka ser vatn, var þar mart drepit af þeim. Þeir lögðu þá inn eptir firði til Oslóar, ok var (þar) fyrir Þjóstólfr 1137 Álason. Svâ er sagt at þeir vildu bera skrín hins helga Hallvarz ör bænum um aptan, ok gengu svâ margir undir, sem við máttu komast, ok fengu þeir eigi leingra borit en utar á kirkjugólfit, en um myrgininn, er þeir sá at herrinn fór utan at Höfuðey, þá báru 4 menn skrínit upp ör bænum. En Þjóstólfr ok allt bæjarfólk fylgdi skríninu. Eiríkr konúngr ok hans lið sótti upp um bæinn, ok runnu sumir eptir þeim Þjóstólfi. Þjóstólfr skaut broddi at þeim manni er Áskell hèt; hann var stafnbúi Eiríks konúngs, ok laust undir kverkina, svâ at yddi út um hnakkann, ok þóttist Þjóstólfr eigi hafa skotið betra skot, þvíat ekki var bert á honum nema þat eitt. Skrín Hallvarz var flutt uppá Raumaríki, ok var þar þrjá mánuðu[3].

---

1) *Þannig skrifað í H:* VI. C; *en Hk hefir* 200. 2) *H;* Túnbergs, *A, hèr ok annars á stöku stöðum.* 3) *Þannig, A.*

Þjóstólfr fór um Raumaríki, ok safnaði liði um nóttina, ok kom ofan til bæjarins um morgininn. Eiríkr konúngr lèt leggja eld í Hallvarzkirkju ok víðara í bæinn, ok brendu[1] upp með hríngum. Því næst kom Þjóstólfr ofan með lið mikit, en Eiríkr konúngr lagði á brott skipaliði sínu, Þvíat þeir máttu hvergi á land koma fyrir norðan fjörðinn fyrir safnaði lendra manna; en hvar sem þeir leituðu til landgaungu, þá lágu eptir 5 eðr 6 eðr fleiri. Íngi konúngr lá í Hornborusundum með miklu liði; [en (er) Eiríkr konúngr spurði þat, þá sneri hann[2] aptr suðr til Danmerkr. Íngi konúngr fór þá eptir þeim, [ok henti af þeim[3] allt þat er þeir máttu, ok er þat mál manna, at eigi hafi verri ferð farin verit í annars konúngs ríki með jafnmiklu liði; ok líkaði Eiríki konúngi illa við Magnús ok hans menn, þótti þeir hafa mjök spottað sik, er honum höfðu komit í þessa ferð, lèzt ekki síðan skyldu vera þeirra vinr, slíkr sem hann hafði áðr verit.

5. Sigurðr slembidjákn[4] kom þat sumar vestan um haf til Noregs. En er hann spurði ófarir Magnúss frænda síns, þóttist hann vita at þá mundi hann eiga lítið traust í Noregi; sigldi hann þá allt útleið suðr með landi, ok kom framm í Danmörk. Hann hèlt til Eyrasunds,

[1]) brendi, *H.* [2]) ok Amundi fóstri hans Gyrðarson, ok börðust við Eirík konúng þar, ok drápo mart af hánum; flýði hann undan ok snerist, *Hk.* [3]) *H, Hk. v. í A.* [4]) slembir, *H, Hk.*

en suðr [frá Erri[1] hitti hann (Vinda-)snekkjur nokkurar, ok lagði til bardaga við þá, ok fèkk sigr; hrauð hann þar 8 skip, ok drap mart manna, en heingdi suma[2]. Aðra orrostu átti hann fyrir Mön við Vindr, ok hafði sigr. Þá hèlt hann sunnan, ok lagði upp í Elfi hina eystri kvísl, ok vann þar 3 skip af liði þeirra Þóris hvinantorða ok Ólafs, (sonar) Haralds kesju, systursonar síns. Móðir Ólafs var Ragnhildr, dóttir Magnúss konúngs berfætts. Sigurðr elti Ólaf á land. Þórir[3] var í Konúngahellu, ok hafði þar safnað fyrir. Sigurðr hèlt þagat, ok skutust þeir á, fèllu menn af hvârumtveggjum, ok mart varð sárt. Þar fèll Úlfheðinn Söxólfsson, norðlenzkr maðr, stafnbúi Sigurðar. Þeir Sigurðr fengu þar ekki uppgaungu; lagði Sigurðr þá brott, hèlt hann norðr í Víkina, ok rænti víða. Hann lá í Portyrju á Lúngbarðs[4]-síðu, ok sætti þar skipum, er fóru í Víkina ok ör, ok rænti. Túnbergs menn gerðu lið at honum, ok komu á úvart, svâ at þeir Sigurðr voru á landi, ok skiptu fengi sínu; kom sumt liðit ofan at þeim, en sumir lögðu skipum um þvera höfnina fyrir utan þá. Sigurðr hljóp á skip sitt, ok reyri út at þeim, en skip Vatnorms var þar næst, ok lèt hann síga á hömlu, en Sigurðr reyri út

1) fyrir Eyri, *Hk.* 2) *Hèr smeygir Hk inn kafla með vísum nokkrum, af hverjum orðamunr mun seinna innfærðr.* 3) Þjóstólfr, *Hk.* 4) Lungarðz, *Hk.*

hjá þeim, ok komst undan einskipa, en mart fèll af liði hans. Þá var þetta kveðit:

Varð eigi vel við styrju
Vatnormr í[1] Portyrju.

6. Sigurðr sigldi þá suðr til Danmerkr, [ok týndist maðr af skipi hans, sá hèt Kolbeinn Þorljótsson af Haðalandi, hann var á eptirbáti, er bundinn var við skipit, en þeir sigldu mikit. Sigurðr braut skipit, er þeir komu á land[2], ok var hann um vetrinn í Álaborg; en um sumarit eptir þá fóru þeir Magnús sunnan 7 skipum, ok komu á Lista úvart um nótt, ok lögðu skipum sínum at landi. Þar var fyrir Benteinn[3] Kolbeinsson, hirðmaðr Ínga konúngs, hinn hraustasti maðr. Þeir Sigurðr gengu þar upp í eldíng nætr, ok tóku hús á þeim, ok vildu leggja eld í bæinn; en Benteinn komst í útibúr nökkut með herklæðum, ok var vel búinn at vâpnum, ok stóð fyrir innan (dyrnar) með brugðit sverð, ok hafði skjöld fyrir ser en hjálm á höfði, ok var þá búinn til varnar; dyrnar voru lágar. Sigurðr spurði, hverr sveina fúsastr væri inn at gánga at Beinteini[4]. Þeir svöruðu at eingi var fúss til. En þá er þeir ræddu þetta tíðast, hljóp (Sigurðr) inn í húsit, en Benteinn hjó eptir honum ok misti. Sneri þá Sigurðr út at honum, ok skiptust þeir fám höggum við, áðr Sigurðr drap hann, ok bar höfuð hans út í

---

[1]) *á, H.* [2]) *v. í II, en finnst í Hk.* [3]) Beinteinn, *Hk allstaðar.* [4]) *þannig A hèr.*

hendi ser[1]. Tóku fe þat allt er í var bænum, fóru síðan til skipa sinna. En er Íngi konúngr ok hans vinir spurðu dráp Benteins, ok þeir Kolbeinssynir, Sigurðr ok Gyrðr, bræðr Benteins, þá gerði konúngr lið at þeim Sigurði, ok fór sjálfr ok tók skip undan Hákoni púngeltu[2] Pálssyni, ok dóttursyni[3] Ásláks Erlíngssonar af Sóla, systrúngi[4] Hákonar maga. Íngi konúngr elti Hákon á land upp, ok tók hvert fat þeirra. Þeir flýðu í Fjörðu inn undan, Sigurðr slókr[5], son [Eindriða í Gautdali[6], ok Eiríkr hæll, bróðir hans, ok Andreas kelduskítr, [son Gríms ör Vistorð[7]; en Sigurðr ok Magnús ok Þorleifr skjappa sigldu norðr hit ytra þrim skipum á Hálogaland. Var Magnús um vetrinn í Bjarkey með Viðkunni Jónssyni, en Sigurðr hjó stafna af skipi sínu, ok hjó á raufar, ok sökti niðr í Ægisfirði innanverðum. Sigurðr sat um vetrinn í Tjaldasundum [í Hin[8] þar sem heitir Gljúfrfjörðr[9]. Í innanverðum firðinum er hellir í bjargi; þar sátu þeir Sigurðr um vetrinn, meir en 20 menn, ok settu fyrir dyrnar, svâ at þær sá eigi ör fjörunni. Þeir fengu Sigurði vistir um vetrinn, Þorleifr skjappa ok Einar son Ögmundar af Sandi ok Guðrúnar Einarsdóttur, Arasonar af Reykjahólum.

7. Þann vetr er sagt at Sigurðr lèti Finna

1) *Hk b. hèrinn 2 vísum.* 2) túngeltu, *H.* 3) dótturson, *H.* 4) *Hk*; systrúngr, *A.* 5) stokkr, *Hk.* 6) Indriða í Gaurdal, *H.* 7) *Frá merkinu v. í H; en Hk skrifar* Orð *fyrir* Vistorð. 8) *v. í H*; í Kinn, *Hk.* 9) Gljúfrafjörðr, *Hk.*

gera ser skútur tvær inn í fjörðum, ok voru sambundnar[1], ok eingi saumr í, en viðjar[2] fyrir kne; ok rero 12 menn á borð hvârri. Sigurðr var með Finnum, þá er þeir gerðu skúturnar, ok höfðu Finnar þar munngát, ok gerðu honum veizlu. Síðan kvað Sigurðr þetta:

> Gott var í gamma,
> er[3] ver glaðir drukkum,
> ok glaðr gramsson
> gekk meðal bekkja:
> vara þar gamans vant
> at gamandrykkju,
> þegn kvaddi þegn
> þarlands, sem ek var.

Skútur þær voru svâ skjótar, at ekki skip tók þær á vatni, svâ sem kveðit er:

> Fátt eitt fylgir[4]
> furu háleyskri[5];
> svipar[6] und segli
> sinbundit[7] skip.

En um vârit fóru þeir Sigurðr ok Magnús norðan með skútur þær tvær, er Finnar höfðu gert. En er þeir komu í Vâga, drápu þeir þar Svein prest ok sonu hans tvâ.

8. Sigurðr hèlt þá suðr í Vikar, ok tóku þar Vilhjálm skinnara, hann var lendr maðr Sigurðar konúngs, annan Þóralda kept[8], ok

[1] simbundnar *eðr* sinibundnar, *H*; sini bundnar, *Hk*. [2]) viðlar, *H*. [3]) þar, *Hk*. [4]) flýgr, *H*. [5]) háleysk, *H*. [6]) svífr, *H*. [7]) *þannig Hk*; simbundit, *H*; sniðundit *eðr* sinbundit, *A*. [8]) kepp, *H*.

drápu þá báða. Þá fór Sigurðr suðr með landi, ok hitti Styrkárr glæsirófu suðr við Byrðu, er hann fór sunnan ör Kaupángi, ok drap hann. En er Sigurðr kom suðr til Valsnes, þá hitti hann Svínagrím, ok lèt höggva af honum hina hægri hönd. Eptir þat fór hann suðr á Mæri, þat er fyrir utan Þrándheimsmynni, ok tók þar Heðin[1] harðmaga ok Kálf kríngluauga, ok lèt hann Heðin undangánga, en þeir drápu Kálf. Sigurðr konúngr ok Sáða-Gyrðr, fóstri hans, spurðu til ferða Sigurðar, ok hvat hann hafðist at; þá sendu þeir menn at leita hans; fengu þar til forráða Jón kauðu, son Kálfs hins ránga, bróður Ívars biskups, ok [annan prest Jón[2] smyril. Þeir skipuðu Hreininn[3], er var 2 rúm ok 20, ok allra skipa skjótast. Þeir fóru at leita Sigurðar, ok fundu hann eigi, ok fóru aptr norðr með lítinn orðstír; því at menn segja svâ, at þeir sæi þá, ok þorðu eigi 'at leggja at þeim. Sigurðr fór þá suðr[4] á Hörðaland, ok kom í Herðlu; þar átti bú Einar, son Laxa-Páls, ok var hann farinn inn í Hamarsfjörð til gagndagaþíngs[5]. Þeir tóku fe allt, er heima var, ok lángskip hálfþrítögt, er Einar átti, ok son hans, fjögurra vetra gamlan, er lá hjá verkmanni hans, vildu sumir drepa sveininn, en sumir hafa á brott með ser. Verkmaðrinn mælti: þetta er minn son, en ekki

1) Hèðin; *H.* 2) annan, Jón prest, *H*, *Hk.* 3) *Hk*; Hreiminn, *A.* 4) norðr, *H.* 5) Gángdagaþíngs, *Hk.*

Einars, því er yðr ekki happ at drepa hann, ok eingi gripr at hafa hann brott; ok af hans orðum lètu þeir eptir sveininn, en þeir fóru brott. En er Einar kom heim, þá gaf hann verkmanninum fe til tveggja aura gulls, ok þakkaði honum sitt tiltæki, ok lèzt skyldu vera vinr hans jafnan síðan. Svâ sagði Eiríkr Oddsson, er fyrsta sinn ritaði þessa sögn[1], [at hann heyrði í Björgyn Einar Pálsson segja frá þessum atburðum[2]. Sigurðr fór suðr með landi, ok allt austr í Vík. Hann hitti Finn Sauða-Úlfsson austr á Kvildum, er hann fór at heimta landskyldir Ínga konúngs, ok lèt heingja hann. Eptir þat fóru þeir suðr til Danmerkr.

9. Þat er sögn nökkurra manna, þá er Sigurðr slembir hafðist við í kaupferðum, at einn vetr var hann á Íslandi með Þorgilsi Oddasyni á Staðarhóli í Saurbæ, ok vissu fáir menn, hverr hann var. Þat var um haustið, er sauðir voru í rètt reknir, ok ætlaðir til skurðar, ok er þeir hendu sauðina, hljóp einn sauðrinn at Sigurði, sem hann ætlaði þagat til nökkurrar hjálpar. Sigurðr rètti at honum höndina, ok lypti upp ör rèttinni ok lèt hlaupa á brott, ok mælti: eigi leita fleiri traustsins til vâr, en at trausti skal þeim verða. Þat gerðist enn um vetrinn, at kona ein hafði stolit, ok varð Þorgils henni reiðr, ok vildi refsa henni. Hon hljóp þar til hjálpar, er Sigurðr var, en hann setti hana hjá

[1]) frásögn, *Hk.* [2]) *v. í H; en finnst í Hk.*

ser í pallinn. Þorgils bað hann ser ekki skipta af við hana, ok segir hvat hon hafði gert. Sigurðr mælti: biðja vil ek henni friðar, hon hefir þó mitt traust sótt, ok gef henni upp sökina. Þorgils segir at hon skal víti fyrir taka. En er Sigurðr sá, at hann vildi henni ekki frið gefa fyrir bæn hans, þá hljóp hann upp ok brá sverði, ok bað hann til sækja. Þorgilsi leizt maðrinn með miklu yfirbragði, ok grunaði hverr vera myndi, lèt hann viðberast at gera á hluta hennar at sinni. Þar voru fleiri útlendir menn, ok hafði Sigurðr minst yfirlát. Einn dag er Sigurðr kom í stofu, tefldi austmaðr við einn heimamann; sá var skartsmaðr ok barst á mikit. Austmaðrinn kallaði á Sigurð[1], at hann rèði um taflit með honum; [þvíat honum leizt[2] gjör-farit; en sá maðr, er tefldi við austmanninn, hafði sáran fót, ok vægði tá hans. Sigurðr settist á pallinn, hann tók eitt strá ok dró eptir gólfinu. Ketlíngar våro á gólfinu, ok hlupu eptir stráinu, þartil er þeir komu á[3] hinn sára fót mannsins; hann spratt upp með ópi, en taflit svarfaðist; gerðu þeir nú þrætumál[4] hvárr hefði. En því er þessa getið at Sigurðr þótti nær ser taka þetta bragð. Eigi vissu menn fyrr, at hann væri lærðr, en þváttdaginn fyrir páska; þá saung hann yfir vatni, ok þótti hann því meiraháttar[5], sem hann

[1]) ok beiddi, *b. v. H.* [2]) Sigurðr sá á ok leizt honum *Hk.* [3]) við, *H.* [4]) úr, *b. v. H.* [5]) meirháttar, *A.*

hafði þar leingr verit. Um sumarit eptir, áðr þeir Þorgils skildu, mælti Sigurðr at Þorgils skyldi kunnliga senda menn til Sigurðar slembidjákns[1]. Þorgils spurði: hvat er þer at honum lángt? Hann svarar: ek er Sigurðr slembir, son Magnúss konúngs berfætts; fór hann síðan.

10. Víkverjar ok Björgynjar-menn mæltu at þat var úsómi, er Sigurðr konúngr ok vinir hans sátu kyrrir norðr í Kaupángi, þótt föðurbanar hans færi þjóðleið fyrir utan Þrándheimsmynni, en Íngi konúngr ok hans menn sátu í Vík austr við háskann, ok varði land þeirra, ok hafði átt margar orrostur. Þá sendi Íngi konúngr brèf norðr til Kaupángs með þessum orðum: Íngi konúngr, son Haralds konúngs, sendir kveðju Sigurði konúngi, bróður sínum, ok Sáða-Gyrði, Ögmundi svipti, Öttari birtíng ok öllum lendum mönnum, hirðmönnum ok húskörlum ok allri alþýðu, sælum mönnum ok vesælum, úngum ok gömlum, guðs ok sína. Öllum mönnum ero kunnig vandræði þau er við höfum, ok svâ æska, er þú ert 5 vetra gamall, en ek þriggja; [megum við ekki atfærast, nema við njótim vina okkarra ok góðra manna. Nú þykkjumst ek ok vinir mínir vera nærr staddir vandræðum ok nauðsyn okkar beggja en þú ok þínir vinir. Nú gjör svâ vel, at þú far á minn fund sem fyrst ok fjölmennastr[2], ok verum báðir saman, hvat sem ígerist. Nú

1) slembis, *H*, *Hk*. 2) *þannig A*, *H*.

er sá okkarr mestr vinr, er til þess heldr at við [sêm sem[1] sáttastir, ok jafnast haldnir í öllum hlutum. En með því at þú afrækist, ok vill eigi fara at nauðsynligri minni orðsendíng enn, sem fyrr hefir þú gert, skalþú við því búast, at ek mun fara á hendr þer með liði, skipti guð þá með okkr; þvíat eigi megum ver leingr hafa svâ búit, at sitja með svâ miklum kostnaði, sem her þarf fyrir úfriðar sakir, en þú tekr hálfar allar landskyldir ok aðrar tekjur í Noregi. Lifit í guðs friði. Þá stóð upp á þínginu fyrstr manna Óttar birtíngr ok mælti: þat er mál Sigurðar konúngs at mæla til Ínga konúngs, bróður síns, at guð þàkki honum góða kveðju sína, svâ starf ok torveldi, er hann hefir ok hans vinir í ríki þessu af beggja ykkarra' nauðsyn. En þótt sumt þykki heldr örðikt í orðum Ínga konúngs til Sigurðar konúngs, bróður síns, þá hefir hann í marga staði mikit til síns máls. Nú vil ek lýsa mitt lyndi, ok heyra hvârt þar fylgi vili Sigurðar konúngs ok annarra ríkismanna, at þú, Sigurðr konúngr! bú þik ok þitt lið, þat er þer vill fylgja, at verja land þitt, ok far sem fjölmennastr á fund Ínga konúngs, sem fyrst máttþú, ok styrki hvârr ykkar annan í öllum farsælligum hlutum,

[1]) *A skrifar hèr* sém, *með* é, *en ekki* siem, *þó í öðrum orðum sè sinlægt* ie *brúkað fyrir* è, *þykir því líkast að framburðrinn hafi ekki verið* sèm *eðr* sjem, *heldr sami og í orðinu* sem, *eingis leingra nokkut dreginn, hvað Danskir mundu skrifa* sæm sem. *Einnig Å skrifar* sém sem.

en almáttigr guð báða ykkr. Nú viljum ver heyra orð þín, konúngr! Petr, son Sauða-Úlfs, bar Sigurð konúng á þíngit, er síðan var kallaðr Petr burðarsveinn. Þá mælti konúngr: viti þat allir mínir menn, ef ek skal ráða, at ek vil fara á fund Ínga konúngs, bróður míns, sem fyrst má ek. Eptir þat talaði annarr at öðrum, ok hóf sinnig[1] hverr, en lauk í sama stað, sem talat hafði Óttar birtíngr; ok var þat ráðit, at stefna liði saman. Fór Sigurðr konúngr með því liði austr í Vík, ok hitti þar Ínga konúng bróður sinn.

11. Sama haust komu þeir Sigurðr slembir ok Magnús blindi sunnan ör Danmörku með 30 skipa bæði Danaliði ok Norðmanna. Þat var nær vetrnóttum. En er þat spurðu konungar ok þeirra lið, fóru þeir austr í mót þeim.
1139 Þeir hittust í hvolum við hólminn Grá; þat var hinn næsta dag eptir Marteinsmesso, þá var drottinsdagr. Íngi ok Sigurðr konúngar höfðu 20 skip, ok öll stór, [varð þar orrosta mikil, ok eptir hina fyrstu hríð flýðu Danir með 18 skip heim suðr til Danmerkr. Þá skildust[2] skip þeirra Sigurðar ok Magnúss. Magnús hvíldi í rekkju sinni; en er mjök var hroðit skip hans, þá tók Hreiðar Grjótgarðsson hann í fáng ser; hann hafði lengi fylgt Magnúsi, ok verit hirðmaðr hans. Hreiðar vildi hlaupa með Magnús á annat skip. Þá var

[1]) sína ræðu, *H.* [2]) hruðust, *Hk.*

Hreiðar skotinn spjóti milli herðanna ok þar í gegnum, ok svâ segja menn, at Magnús fengi af því sama skoti bana. Fèll þa Hreiðar á bak aptr á þiljurnar, ok þar Magnús á hann ofan; en þat mælti hverr maðr at hann þótti vel ok prýðiliga hafa fylgt sínum lánardrotni. Gott er hverjum er slíkan orðróm hlýtr. Þar fèll á skipi Magnúss Loðinn [stöppuðr af Brunastöðum[1] ok Brúsi Þormóðsson[2], stafnbúi Sigurðar slembidjákns, ok Ívar Kolbeinsson [ok Hávarðr fagri, fyrirrúmsmaðr Sigurðar. Sá Ívar Kolbeinsson [gekk inn at[3] Haraldi konúngi, ok vann fyrstr á honum[4]. Þar fèll mikill hluti liðs þeirra Magnúss, því at menn Ínga konúngs lètu eingan undangánga, þann er þeir máttu taka, þótt ek nefni fá menn. Þeir drápu í einum hólmi meir en 60 manna. Þar voru drepnir íslenzkir menn, Sigurðr prestr, son Bergþórs Másssonar[5], ok annar Klemet, son Ara Einarssonar[6]. Ívar skrauthanzki[7], son Kálfs hins ránga, er síðan var biskup í Þrándheimi norðr; hann var faðir Eiríks erkibiskups. Ívar hafði ávalt fylgt Magnúsi; hann komst á skip Jóns kauðu, bróður síns; en Jón átti Cêcilíu, dóttur Gyrðar Bárðarsonar, ok var þar í liði, ok þeir 3 komust á

---

[1]) Guðrøðr af Línustöðum, *H*; Saupruðr af Línostöðum, *Hk*. [2]) Þormóðarson, *Hk*. [3]) *þannig Å*; S. tekinu af, *A, þykir þat rángt lesit úr eldri bók af skrifaranum*; gekk fyrst inn, *Hk*. [4]) *Frá fyrra merkinu v. í H.* [5]) Márssonar, *H, Hk*. [6]) Ivarssonar, *H*; en 3 íslenzkir menn lifðo eptir, *b. v. Hk.* [7]) skrauthangi, *H*; skrauthánki, *Hk*.

skip Jóns, annarr Arnbjörn ambi, er síðan átti dóttur Þorsteins í Auðsholti, hinn þriði var Ívar dynta Starrason. Hann var bróðir Helga Starrasonar, en þrænzkr at móðurkyni, hinn vænsti maðr. En, er liðsmenn urðu varir við at þeir voru þar, þá gripu þeir til vápna sinna, ok gengu at þeim Jóni, en þeir bjuggust við, ok var við sjálft, at þar myndi alþýða berjast; en þat varð at sætt með þeim, at Jón leysti undan Ívar bróður sinn ok Arnbjörn, ok festi fe fyrir þá, en þat fe var honum gefit síðan. En Ívar dynta var leiddr á land upp ok höggvinn, þvíat þeir Sigurðr ok Gyrðr Kolbeinssynir vildu eigi taka fe fyrir hann; þvíat þeir kendu honum, at hann hefði verit at vígi Benteins bróður þeirra. [Þat sagði Ívar biskup, at þat hefði svâ yfir hann gengit, at honum hefði verst þótt, er Ívar var leiddr á land upp undir öxi, ok hvarf áðr til þeirra, ok bað þá heila hittast. Svâ sagði Guðríðr Birgisdóttir, systir Jóns erkibiskups, Eiríki Oddssyni, en hon lèzt þat heyra mæla Ívar biskup[1].

12. Þrándr Gjaldkeri hèt maðr, er stýrði skipi í liði Ínga konúngs. En þá var svâ komit at Ínga konúngs menn reru á smábátum at þeim mönnum er á sundi voru, ok drápu hvern er þeir náðu. Sigurðr slembir hljóp á kaf af skipi sínu, þá er hroðit var, ok steypti af ser brynju í kafi, svamm[2] hann síðan, ok hafði

[1]) *v. í H.* [2]) *þannig A*; svam, *H, Hk.*

skjöld yfir ser; en menn nökkurir af skipi Þrándar tóku á sundi mann einn, ok vildu drepa, en sá baðst undan, ek lèzt myndu segja þeim, hvar Sigurðr slembir var; þeir vildu þat. En skildir margir ok spjót, menn dauðir ok klæði flutu víða hjá skipunum. Sjá munu þer, segir hann, hvar flýtr einn rauðr skjöldr; þar er Sigurðr undir. Þeir reru þartil, ok tóku hann, ok fluttu á skip Þrándar; en Þrándr gerði orð Þjóstólfi, Óttari ok Ámunda. Sigurðr hafði haft á ser eldsvirki, ok fnjóskinn[1] í valhnotarskurn innan, ok steypt um utan vaxi. Því er þess getið, at hugkæmligt þótti, at búa svâ um, at aldri mátti vökna; [því hafði hann skjöldinn yfir ser, er hann svamm, at þá vissi eingi, hvârt sá skjöldr var eðr annarr, er margir flutu á sjónum[2]. Svâ sögðu þeir, at aldri myndu þeir hafa fundit hann, nema þeim væri sagt til hans. En er Þrándr kom til lands með hann, þá var sagt liðsmönnum, at hann var tekinn. Þá sló ópi á herinn af fagnaði. En er Sigurðr heyrði þat, mælti hann: margr vândr maðr mun her verða feginn af höfði mínu í dag. Þá gekk Þjóstólfr Álason þartil, er hann sat, ok strauk af höfði honum húfu hlaðbúna, ok mælti: hví varþú svâ djarfr, þrælssoninn! at þú þorðir at kallast son Magnúss konúngs?

[1]) *Þannig* eðr finoskinn, *A*; *H sýnist hafa:* hnjoskr *eðr* hinoskr; var fnjóskrinn, *Hk.* [2]) *v. í H.*

Hann svaraði: eigi þarftu at jafna föður mínum við þræl, þvíat lítils var þinn faðir verðr hjá mínum föður. Hallr son þorgeirs læknis Steinarssonar[1] var hirðmaðr Ínga konúngs, ok viðstaddr þessi tíðindi; hann sagði Eiríki Oddssyni fyrir, er hann ritaði þessa frásögn. Eiríkr ritaði bók þá [sem kölluð er Hryggjarstykki[2]. Í þeirri bók segir frá Haraldi gilla ok sonum hans, ok frá Magnúsi blinda ok Sigurði slembi allt til dauða þeirra. [Eiríkr var vitr maðr, ok var þenna tíma laungum í Noregi. Suma frásögn ritaði hann eptir fyrirsögn Hákonar maga, lends manns þeirra Haraldssona. Hákon ok synir hans voru í öllum þessum deilum ok ráðagerðum. Enn nefnir Eiríkr fleiri menn, er honum sögðu frá þessum tíðindum vitrir ok sannorðir, ok voru nær, svâ at þeir heyrðu eðr sá atburðina, en sumt ritaði hann eptir sjálfs síns heyrn eðr sýn[3].

13. Hallr þorgeirsson, er fyrr var nefndr, segir svâ at höfðíngjar vildu þegar láta drepa Sigurð slembi, en þeir menn er grimmastir voru, at reka á honum harma sinna, rèðu píslum hans, ok voru til þess nefndir bræðr Benteins, Sigurðr ok Gyrðr, ok Petr Burðarsveinn, er hefna vildi Finns, bróður síns, en höfðíngjar ok flest allt fólk gekk frá. þeir brutu fótleggi hans ok handleggi með öxarhömrum. þá

[1]) Steinssonar, *Hk.* [2]) er hann kallaði Hrygðarstykki, *H.* [3]) *v. í H.*

flettu þeir hann af klæðum, ok ætluðu at flá hann kvikan, ok klufu svörðinn í höfðinu. Þat máttu þeir eigi gera fyrir blóðrás. Þá tóku þeir svarðsvipur, ok börðu hann leingi, svâ at vandliga var öll húð af honum, sem flegin væri. Síðan skutu þeir stokki á hrygginn, svâ at í sundr gekk, þá drógu þeir hann til tress[1], ok heingdu, ok hjuggu síðan af höfuð, ok drógu brott líkama hans, ok reyrðu í hreysi nokkuro. Þat er allra manna mál, vina hans ok úvina, at eingi maðr í Noregi hafi verit betr at ser gjörr um alla hluti en Sigurðr, í þeirra manna minnum er þá voru uppi, en úgæfumaðr var hann um suma hluti. Svâ sagði Hallr at hann mælti fátt, ok svaraði fám orðum, [þótt orða væri yrkt á hann[2]; svâ ok þat at hann brást aldri við, er þeir píndu hann, heldr en þeir lysti á stokk eðr stein. En þat lèt hann fylgja, at þat mátti vera [um röskvan mann[3], þann er vel væri at þreki búinn, at hann mætti standast píníngar, svâ at hann hèldi munni, eðr brygðist lítt við; en hann sagði svâ at Sigurðr brá aldri máli sínu, ok jafn lèttmælt var honum þat sem hann mælti, sem hann sæti á ölbekk inni; hvârki mælti hann hærra ne lægra eðr skjálfhendra, en vandi hans var til; hann mælti allt til andláts síns, ok saung hríðum ör psaltera:

[1]) *þannig A, H, Hk.* [2]) ok fám mönnum, þó ath orða yrkti á hann, *H.* [3]) of góðan dreng, *Hk.*

nú lèzt Halli þat þykkja umframm eljun ok styrk annarra manna. En prestr sá er þar hafði kirkju skamt frá, lèt færa lík Sigurðar til þeirrar kirkju; sá prestr var vinr þeirra Haraldssona; en er þetta spurðist, þá köstuðu menn reiði á prest, ok lètu aptr flytja líkit, þagat sem áðr hafði verit, varð prestr þó fe fyrir at gjalda. En vinir Sigurðar fóru síðan eptir líkinu sunnan ör Danmörku með skip, ok færðu til Álaborgar, ok grófu at Maríukirkju þar, í bænum. [Svâ sagði Eiríki Ketill prófastr, er varðveitti Maríukirkju, at Sigurðr væri þar grafinn[1]. Þjóstólfr Álason lèt færa lík Magnúss blinda til Oslóar, ok grafa at Hallvarðskirkju hjá Sigurði konungi, föður hans. Loðinn saupruð[2] færðu þeir til [Túnsbergs, en allt lið annat grófu þeir þar[3].

14. Sigurðr ok Íngi höfðu ráðit Noregi 6 vetr. Þat vâr kom vestan af Skotlandi Eysteinn, hann var son Haralds gilla, ok Árni, [Sturla ok Þorleifr Brynjólfssynir ok Kolbeinn[4] hrúga. Þeir höfðu farit vestr um haf eptir Eysteini, ok fylgdu honum í land. Þeir hèldu þegar norðr til Þrándheims, ok tóku Þrændir við honum; var hann til konúngs tekinn á Eyraþíngi um gagndaga, svâ at hann skyldi hafa þriðjúng Noregs við bræðr sína. Sigurðr ok

1) *v. í H.* 2) Sopruð, *H.* 3) *þannig H, E, Å; en A hefir hèr:* Sturla ok Þorleif Brynjúlfsson ok Kolbein *í staðinn, þykir þat rángliga híngatflutt frá byrjun næstfylg. kap.; Hk hefir þat á báðum stöðum.* 4) *þannig H, Å, E (nema að þar v.* Sturla), *en frá merkinu v. í A.*

Íngi voru þá austr í landi; fóru þá menn milli þeirra, ok sættu þá, svâ at Eysteinn skyldi hafa þriðjúng ríkis. Bjaðauk hèt móðir Eysteins konúngs, hon kom með honum í Noreg.

Magnús hèt hinn fjórði son Haralds konúngs; hann fóstraði Kyrpínga-Ormr, var hann ok til konúngs tekinn, ok hafði sinn hluta af landi. Magnús var veill[1] á fótum, ok lifði hann skamma hríð, ok varð sóttdauðr. Hans getr Einar Skúlason með öðrum bræðrum hans; hann kvað:

Auð gefr Eysteinn lýðum,
eykr hjaldr Sigurðr skjaldar,
lætr Íngi slög sýngja[2],
semr Magnús frið bragna:
(fjöldýrs) hafa fjórir
(fólktjald[3]) komit aldri
(rýðr bragníngs kyn blóði)
bræðr und sól enn æðri.

15. Eptir fall Haralds konúngs gilla var Íngiríð[4] drotníng gipt Óttari birtíng. Hann var lendr maðr ok höfðíngi mikill, þrænzkr at ætt. Hann var mikill styrktarmaðr Ínga konúngi, meðan hann var í barnæsku. Sigurðr konúngr var ekki mikill vinr hans, þótti honum Óttar vera allt hallr undir Ínga konúng mág sinn. Óttar birtíngr var drepinn norðr í Kaupángi í einvígi um kveld, er hann skyldi gánga til

[1]) hrumr, *H.* [2]) sýngva, *Hk.* [3]) fólktjalds, *H.* [4]) *þannig A*; Ingiríðr, *H*, *Hk.*

aptansaungs, en er hann heyrði hvininn af höggvinu, þá brá hann upp hendi sinni ok skikkju í móti höggvinu, ok hugði at kastað væri snækekki at honum, sem títt var úngum sveinum. Hann fèll við höggit, en Álfr hroði[1] son hans kom þá í kirkjugarðinn. Hann sá fall föður síns, ok svâ at maðr, sá er vegit hafði, hljóp austr um kirkjuna. Álfr hljóp eptir honum, ok drap hann við saunghúshornit, ok mæltu menn at honum hefði vel gefit til um hefndina, ok þótti hann síðan miklu meiri maðr en áðr. Eysteinn konúngr var þá inn í Þrándheimi, er hann spurði fall Óttars birtíngs; hann stefndi þegar at ser liði. Hann fór út til bæjarins, ok varð allfjölmennr. Frændr Óttars ok aðrir vinir kendu ráðin Sigurði konúngi; hann var þá í Kaupángi, ok voru bændr mjök geystir á hendr honum, en hann bauð fyrir sik skírslur, ok festi járnburð, at svâ skyldi sanna mál hans, ok varð þat at sættum. Fór Sigurðr konúngr eptir þat suðr í land, ok urðu þessar skírslur aldri af höndum greiddar.

16. Íngiríð drotníng gat son við Ívari sneis; sá hèt Ormr, er síðan var kallaðr konúngsbróðir, hann var manna fríðastr sýnum, ok gerðist mikill höfðingi, sem enn mun síðar getið verða. Íngiríð drotníng var gipt Árna á Stoðreimi; hann var síðan kallaðr konúngsmágr; voru þeirra börn Íngi, Nikolás, Filippus í Herðlu[2]

1) rauði, Hk. 2) Herðslo, Hk.

ok Margrèt, er átti Björn bukkr[1], en síðan Símon[2] Kárason.

17. Erlíngr hèt son Kyrpínga-Orms ok Ragnhildar, dóttur Sveinka Steinarssonar. Kyrpínga-Ormr var son Sveins Sveinssonar, Erlendssonar ör Gerði. Móðir Orms var Ragna, dóttir Orms jarls Eilífssonar ok Íngibjargar[3], dóttur Finns jarls Árnasonar. [Móðir Orms jarls var Ragnhildr, dóttir Hákonar jarls hins ríka[4]. Erlíngr var vitr maðr ok mikill vin Ínga konúngs, ok með hans ráði fèkk Erlíngr Kristínar, dóttur Sigurðar konúngs Jorsalafara ok Málmfríðar drotníngar. Erlíngr átti bú á Stuðlu á Sunnhörðalandi. Erlíngr fór ör landi, ok með honum Eindriði úngi ok enn fleiri lendir menn; þeir höfðu frítt lið; þeir bjuggust til Jórsalaferðar. Fyrir þeirri ferð var Rögnvaldr jarl kali, ok með honum Vilhjálmr biskup, ok höfðu alls af Orkneyjum 15 lángskip. Sigldu þeir fyrst til Suðreyja, ok þaðan vestr til Vallands, ok síðan þá leið sem farit hafði Sigurðr konúngr Jórsalafari út til Njörvasunda, ok herjuðu víða út um Spán heiðna. Litlu síðar en þeir höfðu siglt um sundin, skildist frá þeim Eindriði úngi, ok þeir er honum fylgdu, með 6 skipum; fóru [þeir til Miklagarðs[5], en þeir Rögnvaldr jarl ok Erlíngr hittu á drómund einn í hafi, ok lögðu til 9 skipum, ok börðust við þá; en at

[1]) búkr, *Hk.* [2]) Símun, *H, Hk.* [3]) Sigríðar, *Hk.* [4]) *v. í H; en finst í Hk.* [5]) siðan ser hvârir, *Hk.*

lyktum lögðu þeir snekkjurnar undir drómundinn, báru þá heiðnir menn ofan á þá grjót ok vâpn, ok grýtur fullar af biki vellanda ok viðsmjöri[1]. Erlíngr lá sínu skipi næst inn (undir) Drómundinum, ok bar fyrir utan þat skip vâpnaburð heiðíngja. Þeir Erlíngr hjuggu raufar á drómundinnm, sumar í kafi niðri, sumar uppi á borðunum, svâ at þeir fóru þar inn. Svâ segir Þorbjörn Skakkaskáld í Erlíngsdrápu:

Hjuggu öxar eggjum
ugglaust hvatir glugga
þat[2] var næmt[3] á nýju
Norðmenn í kaf[4] borði:
eyðendr sá yðrar
arnar húngrs á jarnum
vág-fýlíngi[5] vèlar
vígskörð ofan börðust[6].

Auðun rauði hèt sá maðr, stafnbúi Erlíngs, er fyrstr gekk upp í drómundinn. Þeir vunnu drómundinn, ok drápu þar ógrynni manna, ok tóku ofa fe mikit, ok vunnu frægan sigr. Rögnvaldr jarl ok Erlíngr, er síðan var skakki kallaðr, komu í þeirri ferð til Jórsalalands, ok út til árinnar Jórdánar; sneru þá aptr utan yfir hafit fyrst til Miklagarðs. Þar lètu þeir eptir skip sín, fóru utan landveg, ok hèldu öllu heilu, þar til þeir komu í Noreg, ok var þeirra ferð

---

1) viðsmjörvi, *Hk.* 2) því, *Hk.* 3) nennt, *Hk.* 4) *H*, *Hk*; kass, *A.* 5) *Lagfært fyrir* fyglíngi, *A*; fyljúngi *eðr* fylvíngi, *H*; fylvíngi, *Hk.* 6) börðut, *Hk.*

allmjök lofuð. Þótti Erlíngr síðan miklu meiri maðr en áðr, bæði af ferð sinni ok kvánfángi; hann var spekíngr at viti, auðigr ok frændstór ok málsnjallr; hann var mest hallr at allri vináttu til Ínga konúngs allra þeirra bræðra.

18. Sigurðr konungr fór at veizlum í Vík austr með hirð sína. Hann fór um bæ, þann er ríkr maðr átti, er Símon hèt. En er konúngr reið í gegnum bæinn, heyrði hann í hús nökkut kveðindi svâ fagra, at honum fanst mikit um. Hann reið til hússins, ok sá inn at þar sat kona við kvern, ok kvað forkunnar fagrt við, er hon mól. Konúngr steig af hestinum, ok gekk inn til konunnar, ok lagðist með henni. En er hann fór brott, þá vissi Símon bóndi, hvat eyrindi konúngs hafði þagat verit. Kona þessi hèt Þóra, ok var verkakona Símonar. Síðan lèt Símon varðveita kost hennar. Eptir þat ól sú kona barn, ok var sveinn sá nefndr Hákon, ok kallaðr son Sigurðar konúngs; fæddist Hákon þar upp með Símoni Þorbergssyni ok Gunnhildi konu hans; fæddust ok þar upp synir Símonar, Önundr ok Andreas, ok unnust þeir Hákon mikit, svâ at þá skildi ekki nema hel.

19. Eysteinn konúngr Haraldsson var staddr austr í Vík nær landsenda. Hann varð úsáttr við bændr, Rêni[1] ok Hísíngsbúa, gerðu þeir safnað at honum. Hann hèlt við þá orrostu, ok fèkk sigr. Þar heitir Leikberg, er þeir börð-

[1]) *A, H;* á Reini, *Hk.*

ust. Hann brendi ok víða í Hísíng. Síðan gengu bændr til handa, ok guldu gjöld stór, en konúngr tók gisla af þeim. Svâ segir Einar Skúlason:

Víkverjum galt
(varð þannig halt)
gjörræði gramr
gjöfmildr[1] ok framr:
flest fólk var[2] hrætt,
áðr fengi sætt,
en gisla tók
sá er gjöldin jók.

Ok enn kvað hann:

Vann siklíngr sótt
við snarpa drótt,
leyfðr er lýðum bær
Leikbergi nær:
Rênir flýðu ríkt
ok reiddu[3] slíkt
(öld festi auð),
sem öðlíngr[4] bauð.

20. Litlu síðar byrjaði Eysteinn konúngr ferð sína ör landi vestr um haf. Hann sigldi til Orkneyja; hann spurði til Haralds jarls Maddaðarsonar[5] í Þórsá[6]. Hann lagði til með 3 smáskútur, ok kom þeim á úvart, en jarl hafði þrítugt skip, ok á 80 manna; en þvíat þeir vâro óbúnir við, þá fengu þeir Eysteinn

1) gjafmildr, *H*, *Hk*. 2) varð, *Hk*. 3) *Hk*; reiði, *A*; rèðu, *H*. 4) siklíngr, *H*. 5) *Hk*; Magðaðarsonar, *A*, *hèr*. 6) þórsey, *H*.

þegar uppgaungu á skipit; tók Eysteinn jarl höndum, ok hafði með ser á skip. Hann leysti sik út með þrim mörkum gulls, ok skildust þeir at því. Svâ segir Einar Skúlason:

Voru (Sogns[1]) með (sára)
syni Maddaðar staddir[2]
(má-grennir fremst) manna[3]
(máttugr) tigir átta:
þrimr[4] skútum[5] tók þreytir
þann jarl drasils hranna[6]
hraustr[7]; gaf hræskúfs[8] nistir
höfuð sitt frömum[9] jöfri.

Eysteinn konúngr sigldi þaðan suðr fyrir austan Skotland. Hann lagði til kaupstaðar þess á Skotlandi, er Apardjón[10] heitir; hann drap þar mart manna, [ok rænti staðinn[11]. Svâ segir Einar:

[Frètt hefik at fèll
(fólk[12] brustu svell[13])
(jöfur[14] eyddi frið)
Apardjánar[15] lið.

Aðra orrostu átti hann suðr við Hjartapoll[16] við ridderalið, ok kom þeim á flótta; hrauð hann þar skip nökkur. Svâ seigir Einar:

Beit buðlúngs hjörr,

---

1) Songs, *M.* 2) skaddir, *H.* 3) mogrennir fremsc manne, *M.* 4) þrim, *H.* 5) háttom, *M.* 6) hrafna, *H.* 7) *Hk*; hraust, *A.* 8) *Hk*; hræskips, *A.* 9) spöcum, *M.* 10) Fadjón, *H*; Apartjón, *M.* 11) *v. í H*; en rennti staðina, *M.* 12) fólcs, *M.* 13) *v. í H.* 14) fylkir, *H.* 15) Faðjónar, *H*; Apardjónar, *M.* 16) Hjartarpoll, *M.*

blóð fèll á dörr,
hirð fylgdist holl
við Hjartapoll:
Hugin gladdi heit
(hruðust[1] Engla beit)
(óx vitnis vín)
[2]) valkastar[3] Rín[4].

Þá hèlt hann enn suðr á Eingland, ok átti [ena þriðju orrostu[5] við Hvítabæ; hann fèkk sigr, ok brendi staðinn; [svâ segir Einar:

Jók hilmir hjaldr,
var[6] hjörva galdr,
hjóst Hildar ský
við Hvítabý:
ríkr[7] lèk við rönn[8]
(rauðst ylgjar tönn)
(fèkst fyrðum harmr
fyri) skógar-garmr[9].

Eptir þat herjaði hann víða um Eingland. Þá var Stefnir konúngr á Einglandi. Því næst átti Eysteinn konúngr orrostu við Skorpusker við riddera nökkura. Sva segir Einar:

Drap döglíngr gegn
(dreif streingjar regn)
við Skorpusker
skjaldkænan[10] her:

---

1) *M, Hk*; vit, *H.* 2) um *b. v. Hk.* 3) valbastar, *M.* 4) *seinna vísuhelm. v. í A.* 5) *H*; 3 orrostur, *A.* 6) þar var, *M, Hk.* 7) ríkt, *M, Hk.* 8) rann, *Hk*; *en H sýnist hafa* tavnn. 9) *vís. v. í A, allt frá merkinu.* 10) skaldkjænan, *H.*

rauf[1] styrjar garð,
þá er stökkva varð,
ranndolom sótt
reið manna gnótt[2].

Þarnæst barðist hann við Pílavík, ok fèkk sigr. [Svâ segir Einar:

Rauð siklíngr sverð,
sleit gyldis ferð
prútt Parta lík
í Pílavík:
vann vísir allt
for vestan salt
brandr gall við brún
brent Lángatún[3].

Þar brendu þeir ok Lángatún, mikit þorp, ok segja menn at sá bær hafi litla uppreist fengit síðan. Eptir þat fór Eysteinn konúngr brott af Einglandi, ok aptr til Noregs um haustið, ok ræddu menn um þessa ferð allmisjafnt[4].

21. Friðr góðr var í Noregi öndverða daga Haraldssona, ok var þeirra samþykki til nökkurrar hlítar, meðan hit forna ráðuneyti þeirra lifði. Þeir Íngi ok Sigurðr voru bernskir; höfðu þeir þá eina hirð báðir; en Eysteinn einn ser, var hann maðr fullkominn at aldri. En er andat var [fóstrneyti[5] þeirra Ínga ok

1) *þannig eðr raup, M.* 2) *Seinna vísuhelm. v. í A, H, Hk; en er hèr tekinn úr M.* 3) *M, Hk; v. í A, H.* 4) Eysteinn konúngr þóttisc þessa ferð hafa gert í hefnd þess, er Haraldr konúngr Sigurðarson fór vestr, ok fèll þar, *b. v. M.* 5) et forna ráðu, *H.*

Sigurðar, Sáða-Gyrðr Bárðarson, [Ámundi Gyrðarson[1], Þjóstólfr Álason, Óttar birtíngr, Ögmundr sviptir, Ögmundr dreingr[2], bróðir Erlíngs skakka; lítils þótti vert um Erlíng, meðan Ögmundr lifði; síðan skildu þeir hirð sína[3], Íngi ok Sigurðr, [rèðst þá til fulltíngs við Ínga konúng Gregoríus, son Dags Eilífssonar ok Ragnhildar, dóttur Skopta Ögmundarsonar. Gregoríus hafði auð fjár, ok var sjálfr hinn mesti skörúngr, gerðist hann forstjóri fyrir landráðum með Ínga konúngi, en konúngr veitti honum at taka af sinni eign slíkt er hann vildi[4]. Sigurðr konúngr gerðist mikill ofstopamaðr ok úeirinn um alla hluti, þegar er hann vóx upp; svâ var ok Eysteinn konúngr, ok þótti hann þó nökkut nærr sanni um ofstopa, en hann var allra fegjarnastr. Sigurðr konúngr gerðist mikill maðr ok styrkr, vaskligr sýnum, jarpr á hár, munnljótr en vel at öðrum andlitsköpum, allra manna var hann snjallastr í máli. Þessa getr Einar:

Snild berr snarpra[5] elda
sárflóðs [þess er[6] rýðr blóði
(gefit hefir guð sjálfr jöfri
gagn) Sigurðar[7] magni:
svâ es[8] sem[9] Rauma-ræsir
reiðorðr tölur[10] greiðir

1) *M*, *Hk*; *v. í A*, *H.* 2) son Kyrpínga-Orms, *M*, *Hk.* 3) brálliga *b. v. M.* 4) *v. í M.* 5) snarpa, *Hk.* 6) þars, *Hk.* 7) Sigurðr, *Hk.* 8) *Hk*; er, *A*, *H.* 9) þá, *H.*, *Hk.* 10) tavlu, *H.*

rausn viðr gramr sem[1] gumnar
glaðmæltr þegi aðrir[2].

Eysteinn konúngr var svartr á hár ok dökklitaðr, heldr hár meðalmaðr, vitr ok skynsamr, en þat dró mest ríki undan honum, er hann var (svâ) sínkr ok fegjarn. Hann átti Rögnu[3], dóttur Nikolás mása. Íngi konúngr var manna fegrstr í andliti, hann hafði gult hár ok heldr þunt, ok hrökk mjök. Lítill var uppvöxtr hans, ok traulla[4] mátti hann gánga einn saman, svâ var visinn annarr fótrinn, en knýttr var hann á herðum ok bríngu. Hann var blíðmæltr[5] vinum sínum, örr af fe, ok lèt mjök höfðíngja ráða með ser landráðum, vinsæll við alþýðu, ok dró slíkt allt saman undir hann mjök ríki ok fjölmenni. Brigiða hèt dóttir Haralds konúngs gilla; hon var fyrst gipt Ínga Hallsteinssyni Svíakonúngi, en síðar Karli jarli Sónasyni, en þá Magnúsi Svíakonúngi[6]. Þau[7] Íngi konúngr Haraldsson voru sammæðra. [Síðast átti Brigiðu Birgir jarl brosa; þau áttu 4 syni, einn var Filippus, annarr Knútr jarl, þriði Flóki[8], fjórði Magnús. Dætr þeirra: Íngigerðr, er átti Sörkvir konúngr, þeirra son var Jón konúngr; önnur dóttir þeirra Birgis hèt Kristín, þriðja Margrèt[9]. María hèt [önnur dóttir Haralds gilla; hana átti Símon skálpr[10], son Hallkels

[1]) þá er, *H.* [2]) allir, *H.* [3]) Ragnhildi, *H.* [4]) valla, *H.* [5]) ok dæll, *b. v. H, Hk.* [6]) *Sjá bls.* 98 *neðst.* [7]) *Hk*; þeir *A. H.* [8]) Folki, *Hk.* [9]) *Frá merkinu* [ *v. í H.* [10]) skarpr *hèr A.*

húks; þeirra son hèt Nikolás. Margrèt hèt hin þriðja[1] dóttir Haralds gilla, hana átti Jón Hallkelsson, bróðir Símonar. Nú gerðist mart í með þeim bræðrum, þat er til sundrþykkis var, en ek mun nú þess eins geta, er mer þykkir mestum tíðindum sætt hafa.

22. Nikolás kardínáli af Rómaborg kom í Noreg á dögum þeirra Haraldssona. Pávinn hafði hann sendan í Noreg. Kardínálinn hafði reiði á þeim Sigurði ok Eysteini, ok vurðu þeir at gánga til sættar við hann, en hann var ávalt sáttr við Ínga, ok kallaði hann son sinn. En er þeir voru allir sáttir við hann, veitti hann þeim at vígja Jón Birgisson til erkibiskups í Þrándheimi, ok fèkk honum pallíum[2], ok mælti svâ, at erkibiskupsstóll skyldi vera í Þrándheimi at Kristskirkju, þar sem hinn helgi Ólafr konúngr hvílir, en áðr höfðu lýðbiskupar einir verit í Noregi. Kardínálinn kom því við, at eingi maðr skyldi fara með vápn í kaupstöðum at úsekju, nema 12 menn þeir er fylgd áttu með[3] konúngi. Hann bætti at mörgu siðu Noregsmanna, meðan hann var í landi. [Eingi maðr[4] hefir sá komit í Noreg, at allir menn mæti jafnmikils, eða jafnmiklu mætti ráða við alþjóð[5] sem hann. Hann fór suðr aptr til Róms[6] með miklar vingjafir, ok sagði sik ávalt

1) *Frá merkinu v. 1 H.* 2) þat klæði er pallíum heitir, *M, Hk.* 3) at veita, *H.* 4) Eingin mann, *H.* 5) alþýðo, *H, M, Hk.* 6) *H*; Rómam, *A.*

mundu vera hinn mesta vin Norðmanna. En er hann kom suðr til Rómaborgar, þá andaðist bráðliga pávi, sá er áðr hafði verit, tók þá allr Rómaborgarlýðr Nikolaüm til páva, ok var hann vígðr til páva með nafni Adríaní. Svâ sögðu þeir menn, er um hans daga komu til Rómaborgar, at aldri átti hann svâ skylt at tala við aðra menn, at eigi mælti hann jafnan fyrst við Norðmenn, ef þeir vildu hafa mál hans. Hann var eigi leingi pávi, ok er nú kallaðr heilagr.

23. Eysteinn ok Sigurðr höfðu verit úsáttir, fyrir þá sök at Sigurðr hafði vegit hirðmann Eysteins konúngs, Harald hinn víkverska, er hús átti í Björgyn, ok annan Jón prest tábarð[1], [son Bjarna Sigurðarsonar[2]. Fyrir þá sök lögðu þeir með ser[3] sættarstefnu um vetrinn á Upplöndum. Þeir sátu leingi (2) á tali, en þat kom (upp) af tali þeirra, at þeir allir bræðr skyldu hittast í Björgyn eptir um sumarit. Þat fylgdi (ok) því máli, at þeir vildu at Íngi[4] konúngr hefði bú tvau eða þrjú, ok svâ mikil önnur auðæfi, at hann hefði 30 manna með ser, lèzt þeim þykkja hann eigi hafa heilsu til at vera konúngr. Íngi konúngr ok Gregoríus spurðu þessi tíðindi; fóru þeir til Björgynjar, ok fjölmenntu heldr. Sigurðr konúngr kom þar

1). *þannig H; A hefir þetta bundit:* Jón p'tab^rð, *en M hefir* Jóan p'tabarzson, *einnig Hk.* 2) *v. í H, M;* oc Bjarna Sigurðarson, *Hk.* 3) *H, Hk;* Sigurði, *A.* 4) *H, Hk;* eingi, *A.*

litlu síðar, ok hafði hann lið sýnu minna. Þá höfðu þeir Íngi ok Sigurðr verit konúngar 19 vetr yfir Noregi. Eysteinn varð seinni austan ör Víkinni, en þeir norðan. Þá lèt Íngi konúngr blása til þíngs út í Hólmi, komu þar Sigurðr ok Íngi ok fjölmenni mikit. Gregoríus hafði 2 lángskip ok vel 9tigi[1] manna, þeirra er hann fèkk allar vistir; hann hèlt betr húskarla sína en aðrir lendir menn, þvíat hann drakk aldri svâ í skytníngum, at eigi drykki húskarlar hans með honum. Hann gekk með hjálm gullroðinn á þíngit, ok allt hans lið var hjálmat. Íngi konúngr stóð upp, ok sagði mönnum frá, hvat hann hafði spurt, hvernig bræðr hans ætluðu við hann at skipa, [ok bað fólkit veita sèr lið[2], en alþýða manna gerðu góðan róm at máli hans, ok lètust vilja fylgja honum. Þá stóð Sigurðr konúngr upp, ok tók til máls, taldi þat úsatt, sem Íngi konúngr kendi þeim, kvað Gregoríum slíkt uppsetja, kvað ok eigi mundu lángt til, at sá fundr þeirra skyldi verða, ef hann mætti ráða, at hann skyldi steypa hjálminum þeim hinum gullroðna, ok lauk hann svâ sínu máli, at hann sagði þá báða eigi leingi lifa skyldu. Gregoríus svarar: þat hygg ek, Sigurðr konúngr, at þú þurfir lítt at fýsast þess

[1]) 9 togo, *M.* [2]) oc vil ec nú leita ráðs, oc biðja liþs oc fulltíngs vini mína, oc heldr vil ec líf mitt láta en föþorleifþ mína, *M.*

fundar, at við eigim íllt saman, er ek við því albúinn, þegar þú vill.

24. Fám dögum síðar var veginn húskarl Gregoríí úti á stræti af húskarli Sigurðar konúngs. Þá vildi Gregoríus gánga at þeim Sigurði konúngi, en Íngi konúngr latti, ok margir menn aðrir. En eitt kveld er Íngiríðr[1], móðir Ínga konúngs, gekk frá aptansöng, kom (hon) þarat, er drepinn var Sigurðr skrúðhyrna, hirðmaðr Ínga konúngs; hann var gamall, ok hafði mörgum konúngum á hendi verit, en hirðmenn Sigurðar konúngs höfðu vegit hann, Hallvarðr Gunnarsson ok Sigurðr, [son Eysteins trapala[2], ok kendu menn ráðin Sigurði konúngi. Íngiríðr[3] gekk þegar til fundar við Ínga konúng, ok segir honum vígit: nú munþú, segir hon, leingi lítill konúngr, ef þú vill ekki atfærast, þótt hirðmenn þínir se drepnir niðr annarr at öðrum sem svín. Íngi konúngr reiddist við átölur móður sinnar, ok er þau hniptust við, kom Gregoríus inngángandi hjálmaðr ok brynjaðr, bað hann konúng eigi reiðast, sagði hana satt mæla: er ek nú her kominn til liðs við þik, sagði Gregoríus, ef þú vill veita Sigurði konúngi atgaungu; eru[4] her meir en hundrað minna manna úti í garðinum, allir hjálmaðir ok brynjaðir, ok munum ver þaðan at þeim

[1]) *þannig hèr A*; Ingiríð, *H.* [2]) Gunnarsson, *M*; *en H skrifar* trafala. [3]) Ingiríð, *H.* [4]) *þannig M, H*; er, *A.*

sækja, er öðrum þykkir verst; en flestir löttu, ok sögðu at Sigurðr konúngr mundi vilja bæta úhapp sitt. En er Gregoríus sá, at letjast myndi atlagan, þá mælti hann til Ínga konúngs: Svâ bleðja þeir af[1], at þeir drápu húskarl minn fyrir skömmu, en nú hirðmann þinn; en því næst munu þeir vilja veiða mik eðr annan lendan mann, þann sem þeim þykkir þer mest afnám í vera, er þeir sjá at þú vill ekki atfærast; en taka [þik af konúngdómi[2], þá er vinir þínir ero drepnir. [Nú hvernveg sem[3] aðrir lendir menn þínir vilja, þá vil ek eigi bíða nauthöggsins, ok skulum við Sigurðr konúngr [koma saman á þessi[4] nótt, at því kaupi[5] sem þá má verða; en þat er bæði at þú ert illa attekinn fyrir vanheilsu sakir, enda ætla ek lítinn viljann til at halda vini þína. Er ek nú albúinn at gánga heðan til fundar við Sigurð; þvíat her er merki mitt úti í garðinum. Íngi konúngr stóð þá upp, ok kallaði til klæða[6] sinna, bað hvern mann búast, er honum vildi fylgja, kvað hann þá ekki mundu tjá at letja sik, lèzt leingi hafa undan eirt[7], kvað þá verða at sverfa til stáls með þeim.

25 Sigurðr konúngr drakk í garði Sigríðar sætu, bjóst hann við, en ætlaði þó at ekki mundi verða af atlögunni. Síðan gengu þeir at garð-

1) þer menninn, *b. v. Hk, en M, H eru samstemma A.* 2) af þer konúngdóminn, *H.* 3) En hvegi er, *M.* 4) caupa saman þessa, *M, Hk.* 5) *v. i M.* 6) vâpna, *Hk.* 7) ért, *M.*

inum, Íngi konúngr ofan frá smiðjubúðum, Árni konúngsmágr utan frá Sandbrú, Áslákr Erlendsson frá garði sínum, en Gregoríus frá strætinu, því at þaðan þótti verst at at sækja. Þeir Sigurðr konúngr skutu mjök út ör loptgluggum, ok brutu ofna, ok báru grjótið á þá. Þeir Gregoríus hjuggu upp garðshliðit, ok fèll þar Einar son Laxa-Páls í garðshliðinu af liði Sigurðar, ok Hallvarðr Gunnarsson, hann var skotinn í lopti einu, ok harmaði hann eingi maðr. Þeir hjuggu húsin; gekk þá lið Sigurðar konúngs af hendi honum til griða. Þá gekk Sigurðr konúngr á lopt eitt, ok vildi beiða ser hljóðs; hann hafði gullagðan skjöld, ok kendu menn hann, ok vildu eigi hlýða honum; en menn skutu at honum, svâ sem í drífu sæi, ok mátti hann þá eigi þar vera. En þá er liðit var gengit af hendi honum[1], en húsin hjuggust mjök, þá gekk hann út, ok með honum hirðmaðr hans, víkverskr at ætt, er hèt Þórðr húsfreyja. Þeir vildu þagat sem Íngi konúngr var fyrir, ok kallaði Sigurðr, at Íngi konúngr bróðir hans skyldi selja honum grið, en þeir voru þegar höggnir báðir; fèll Þórðr húsfreya með orðlofi miklu. Sigurðr konúngr var jarðaðr í Kristskirkju hinni fornu út í Hólmi. Þar fèll mart manna af liði Sigurðar, þótt ek nefni fátt, ok svâ af Ínga liði, en 4 menn af Gregoríó; ok svâ þeir menn, er með hvârigum voru, vurðu

[1]) *Hèr frá er eptir í M ein bls., sem ómögu ligt er at lesa.*

fyrir skotum á bryggjum niðri eðr á skipum úti. Þeir börðust 14[1] nóttum fyrir Jónsmessu baptistê, en þat var föstudag[2].

26. En [2 nóttum eðr þrimr[3] síðar kom Eysteinn konúngr austan[4] með 30 skipa, ok hafði þar Hákon, son Sigurðar konúngs, bróður síns, í för með ser. Eysteinn dvaldist í Flóruvâgum[5], ok lagði eigi til bæjarins; fóru þá menn miðil[6] þeirra bræðra, ok vildu sætta þá. Gregoríus vildi at þeir legði út at þeim, kvað eigi síðar betra: mun ek, segir hann, vera formaðr at því, en þú, konúngr! far eigi, þvíat nú skortir eigi lið til, en margir löttu, ok tókst af því eigi ferðin. Eysteinn konúngr fór austr í Víkina, en Íngi[7] norðr til Þrándheims, ok voru þá sáttir at kalla, ok hittust eigi sjálfir. Gregoríus fór austr litlu síðar, en Eysteinn konúngr, ok var uppi á Höfundi á Brattabergi[8] at búi sínu. Eysteinn var í Osló, ok lèt draga skip sín at ísi meir en 2 vikur sjóvar, þvíat íslög voru mikil í Víkinni. Eysteinn konúngr fór uppá Höfund, ok vildi taka Gregoríum; en hann varð varr við, ok fór upp undan á Þelamörk[9], ok þar norðr um fjöllin. Hann kom ofan í Harðángri, ok fór síðan í Eðni[10] til Stuðlu. Þar átti Erlíngr skakki bú; hann var farinn norðr til Björgynjar, en Kristín kona

1) 15, *H.* 2) Þrjádagr, *Hk.* 3) þrim nóttum, *H.* 4) norðan, *H.* 5) Flúrovogum, *H.* 6) *þannig A;* í meðal, *H* 7) *A skrifar hèr bundit:* Ing'. 8) Brattzbergi, *Hk.* 9) með níotygi manna, *b. v. Hk.* 10) Etni, *H.*

hans, dóttir Sigurðar konúngs, var heima; hon bauð Gregoríó þar slíkt allt, sem hann vildi hafa. Hann hafði þaðan lángskip, er Erlíngr átti, ok allt annat þat er hann þurfti. Gregoríus þakkaði Kristínu vel góðar viðtökur, ok lèt henni hafa farit stórmannliga fyrir ættar sakir, sem vân var. Þeir fóru þaðan til Björgynjar, ok fundu Erlíng, ok lèt hann allvel yfir tiltekju Kristínar. Fór Gregoríus þá norðr til Þrándheims, ok kom þar fyrir jól. Íngi konúngr varð honum hinn fegnasti, ok bað hann hafa af sinni eign allt þat er hann vildi. Eysteinn konúngr brendi bæ Gregoríí, ok hjó búit. En naust, þau er Eysteinn konúngr Magnússon hafði gera látit norðr í Kaupángi, er mest gersimi var, þau voru brend um vetrinn, ok skip góð með, er Íngi konúngr átti. Varð þat verk hit úvinsælasta, en ráðin voru kend Eysteini konúngi ok Filippó Gyrðarsyni, fóstbróður Sigurðar konúngs.

27. Um sumarit eptir fór Íngi konúngr norðan með lið, sem hann fèkk flest, en Eysteinn austan, ok safnaði ser liði. Þeir hittust austr í Seleyjum [fyrir austan Líðandi[1], ok var Íngi konúngr miklu fjölmennari; var þá við sjálft at þeir myndi berjast. Þeir sættust, ok varð þat at sætt, at Eysteinn konúngr festi at gjalda hálfan fimta tög marka gulls, skyldi Íngi konúngr hafa 30 marka, fyrir þat er Eysteinn konúngr

[1]) *v. í H*; ſ. norðan Líðandi, *Hk.*

hafði ráðit skipabrennunni ok naustanna; en Filippus skyldi vera útlægr, ok svâ allir þeir, er at höfðu verit at brenna skipin. Þeir menn skyldu ok vera útlægir, er sannir vurðu at áverkum við Sigurð konúng; þvíat Eysteinn konúngr kendi Ínga konúngi, at hann hèldi þá menn. Gregoríus skyldi hafa 15 merkr, fyrir þat er Eysteinn brendi fyrir honum. Eysteini konúngi líkaði illa, ok þótti vera nauða-sætt. Íngi konúngr fór frá stefnunni austr í Vík, en Eysteinn fór þá norðr í Þrándheim. Síðan var Íngi konúngr í Víkinni, en Eysteinn norðr, ok hittust ekki, en þau ein orð fóru í milli, at ekki voru til sættar, ok hvârtveggi lèt drepa vini annars, varð ok ekki af fegjaldinu Eysteins konúngs; kendi þat hvârr öðrum, at ekki hèldi þat er mælt var. Íngi konúngr ok Gregoríus spöndu mjök liðit undan Eysteini konúngi, voru í því liði Bárðr standali[1] Brynjúlfsson ok Símun skálpr, son Hallkels húks, ok mart annarra lendra manna. Halldórr Brynjólfsson, Jón Hallkelsson.

28. Þá er liðnir voru 2 vetr frá falli Sigurðar konúngs, drógu konúngar her saman. Íngi austan ör landi, ok fèkk hann 80 skipa, en Eysteinn norðan, ok fèkk hann hálfan fimta tög skipa. Þá hafði hann dreka hinn mikla, er Eysteinn konúngr Magnússon hafði gera látið[2]; höfðu þeir allfrítt lið ok mikit. Íngi konúngr lá skipum sínum suðr í Mostr, en

[1]) standbali, *H.* [2]) eptir Orminum lánga, *b. v. Hk.*

Eysteinn konúngr litlu norðar í Grænıngasundi. Eysteinn konúngr sendi suðr til Ínga konúngs Áslák únga Jónsson ok Árna Sturlu(son), Sæbjarnarsonar[1]; þeir höfðu eitt skip. En er Ínga menn kendu þá, lögðu þeir at þeim, ok drápu mart manna, tóku skipit ok allt þat er á var, ok hvert fat þeirra. Áslákr ok Árni ok nökkurir menn með þeim komust undan á land upp, fóru þeir til fundar við Eystein konúng, ok sögðu hversu Íngi konúngr hafði fagnat þeim. Eysteinn konúngr hafði þá húsþíng, ok sagði mönnum, hvern úfrið þeir Íngi vildu gera, ok bað liðsmenn fylgja ser: höfum ver lið svâ mikit ok gott, segir hann, at ek vil her hvergi undan flýja, ef þer vilit fylgja mer; en eingi varð rómr at máli hans. Hallkell húkr var þar, en synir hans báðir með Ínga konúngi, Símon ok Jón. Hallkell svarar, svâ at mjök margir menn heyrðu: fylgi gullkistur þínar (þer), ok veri land þitt! Um nóttina eptir reru þeir á brott mörgum skipum á laun, sumir til lags við Ínga konúng, sumir til Björgynjar, sumir inn í fjörðu.

29. At morni, þá er ljóst var, lá Eysteinn konúngr þar eptir 10 einum skipum. Þá lèt hann þar eptir drekann mikla, þvíat hann var þúngr undir árum, ok enn fleiri skip. Þeir hjuggu drekann mjök, ok svâ hjuggu þeir niðr munngát sitt, ok öllu spilltu þeir, því sem þeir

1) Snæbjarnarsonar, *Hk.*

máttu eigi með ser hafa. Eysteinn konúngr gekk á skip Eindriða, sonar Jóns mörnefs, fóru þeir norðr ok inn í Sogn, ok þaðan hit efra austr í Vík. Íngi konúngr tók skipin, ok fór austr hit ytra í Víkina. Eysteinn var fyrir austan Fold, ok hafði nær 12 hundruð[1] manna. Þá sá þeir skipalið Ínga konúngs, ok þóttust eigi lið við hafa; hleyptu þeir á skóg undan, flýði þá síns vegar hverr, svâ at konúngr varð við annan mann. Þeir Íngi konúngr urðu varir við farir Eysteins, ok svâ þat at hann var fámennr. Þeir fóru at leita hans. Símon skálpr hitti hann, er hann gekk undan hrísrunni einum at þeim. Símon heilsaði honum: heill lávarðr, segir hann. Konúngr svarar: [ek veit eigi[2], nema þú þykkist nú minn lávarðr. Þat er nú sem gerist, segir Símon. Þá bað konúngr, at hann skyldi honum undanskjóta: þvíat þat byrjar þer, þvíat leingi hefir með okkr vel verit, [segir hann[3]. Símon kvað þá ekki mundu af því verða. Konúngr beiddi at hlýða messo, áðr hann væri drepinn; þat var honum veitt. Síðan lagðist hann niðr á grúfu; ok breiddi út frá ser hendrnar, ok bað sik höggva í kross meðal herðanna, kvað þá skyldu reyna, hvârt hann þyldi járn eðr eigi, sem lagsmenn Ínga höfðu sagt. Símon mælti við þann, er höggva skyldi: ráðþú til, helzti leingi hefir konúngr

---

1) *v. í H.* 2) vétka ek, *Hk.* 3) þó at nú se annan vegh, *H, Hk.*

þessi skriðit her um lýng. Var hann þá höggvinn, ok þótti verða við hit prýðiligasta. Lík hans var flutt til Fors, þar fyrir sunnan kirkjuna undir brekkunni var líkit náttsett. Eysteinn konúngr var jarðaðr at Forskirkju; er leg hans á miðju kirkjugólfi, ok breidt yfir kögur, ok kalla menn hann helgan. Þar sem hann var höggvinn, ok blóð hans kom á jörð, spratt upp brunnr, en annarr þar undir brekkunni, sem líkit var náttsett. Af hvârutveggja því vatni þykkjast margir menn hafa bót fengit sinna meina. Þat er sögn Víkverja, at margar jarteignir yrði at leiði hans, áðr úvinir hans steyptu á leiði hans hundssoði. Símon skálpr var hit mesta úþokkaðr af þessu verki allri alþýðu; en sumir menn segja, at þá er Eysteinn konúngr var handtekinn, at Símon sendi menn til Ínga konúngs, en Íngi konúngr bað Eystein eigi koma í augsýn ser. Svâ hefir Sverrir konúngr rita látið. En svâ segir Einar Skúlason:

Mun sá er morði vandist
marg-illr, ok sveik stilli,
síðan[1] af slíkum ráðum
Símon skálpr of hjálpast?

---

[1]) þó, *H*; síð, *Hk*.

# Saga Hákonar konúngs herðibreiðs.

Hákon, son Sigurðar konúngs, var tekinn til höfðíngja yfir flokk þann, er áðr hafði fylgt Eysteini konúngi, ok gáfu flokksmenn honum konúngsnafn; þá var hann 10 vetra. Þar voru þá með honum Sigurðr, son Hávarðs hölds af Reyri, ok þeir Andreas ok Ögmundr[1] Símonarsynir, fóstbræðr Hákonar, ok mart annarra höfðíngja ok vina Eysteins konúngs ok Sigurðar konúngs. Þeir fóru fyrst upp á Gautland. Íngi konúngr kastaði sinni eigu[2] á allt þat, er þeir áttu í Noregi, ok gerði þá útlæga[3]. Íngi konúngr fór norðan[4] í Víkina, ok var þar, en stundum norðr í landi. Gregoríus var í Konúngahellu við háskann sjálfan, ok varði þar landit.

2. Um sumarit eptir komu þeir Hákon ofan af Gautlandi til Konúngahellu; þeir höfðu allmikit lið ok frítt. Gregoríus var þar í bænum, ok stefndi þíng fjölment við bændr ok bæjar-

1) Önundr, *Hk.* 2) eign, *H*; *Hk.* 3) útlagha, *H*, *Hk.* 4) fyrst austr, *H*; þá norðr, *Hk.*

menn, ok kvaddi ser liðs. Honum þóttu menn lítt róma sitt mál, ok lèzt hann illa trúa þeim. Hann fór brott tveim skipum inn í Víkina, ok var all-úglaðr. Hann ætlaði til fundar við Ínga konúng. Hann hafði spurt at Íngi konúngr fór með her mikinn norðan um Víkina; en er Gregoríus var skamt norðr kominn, þá mætti hann þeim Símoni skálp ok Halldóri Brynjúlfssyni ok Gyrð Ámundasyni, fóstbróður Ínga konúngs. Gregoríus varð þeim feginn mjök, hvarf Gregoríus aptr, ok þeir allir saman, ok höfðu 11 skip. En er þeir reru upp til Konúngahellu, þá höfðu þeir Hákon þíng fyrir ofan bæinn, ok sá för þeirra. Þá mælti Sigurðr af Reyri: nú er Gregoríus feigr, er hann ferr í hendr oss með fá liði. Gregoríus lagði at landi gagnvert bænum, ok vildi bíða Ínga konúngs, þvíat hans var vân, en hann kom eigi. Hákon bjóst við [í bænum[1]; hann lèt Þorljót skorpuskalla[2] vera höfðíngja fyrir því liði, er var á kaupskipum, þeim er lágu fyrir bænum. Hann var víkíngr ok ránsmaðr, en Hákon ok Sigurðr ok alþýðan var í bænum, ok fylktu á bryggjum. Allir menn höfðu þar gengit undir Hákon.

3. Þeir Gregoríus reru upp eptir ánni, ok lètu hefja skipin ofan forstreymis at þeim Þorljóti. Þeir skutust á um hríð, þar til er Þorljótr hljóp fyrir borð ok hans felagar; voru sumir drepnir, en sumir komust á land. Reru

[1]) *Hk*; *v. í A.* [2]) scaufoscalla, *Hk.*

þeir Gregoríus þá at bryggjum, ok þegar lèt Gregoríus skjóta bryggjum upp af sínu skipi undir fætr Hákonarmönnum. Þá fèll sá er bar merki Gregoríí, er hann ætlaði til uppgaungu. Þá kvaddi Gregoríus, til at taka upp merkit, Hall, son Auðunar Hallssonar. Hann gerði svâ, ok bar merkit upp á bryggjur. Gregoríus gekk þegar eptir honum, ok skaut skildi framm yfir höfuð honum. En þegar Gregoríus kom upp á bryggjurnar, ok Hákonarmenn kendu hann, þá hopuðu þeir, ok gafst þegar rúmit tvâ vega. En er fleira liðit kom upp af skipunum, þá sótti Gregoríus framm, ok hans menn, en menn Hákonar hopuðu fyrst, en runnu því næst upp í bæinn. Þeir Gregoríus fylgdu þeim, ok ráku þá tysvar upp ör bænum, ok drápu mart af þeim. Þat er mál manna, at eingi för hafi verit sköruligri, en sú er Gregoríus fór, þvíat Hákon hafði meir en 40 hundraða manna, en Gregoríus eigi öll 4 hundruð. Þá mælti Gregoríus við Hall Auðunarson eptir orrostuna: margir menn þykkja[1] mer mjúkari í orrostum en þer Íslendíngar, þvíat þer erut úvanari en ver Noregs menn, en eingir þykkja mer vâpndjarfari en þer. Litlu síðar kom Íngi konúngr, ok lèt drepa marga menn, þá sem við Hákoni höfðu tekit, en suma lèt hann fe gjalda; hann brendi fyrir sumum, suma rak hann ör landi. Hákon flýði upp á Gautland. Hann fór um

1) þykki, *A*; þikja, *H*.

vetrinn hit efra norðr í Þrándheim, ok kom þar fyrir Páska; tóku Þrændir hann þar til konúngs, at hafa föðurleifð sína, þriðjúng Noregs, [við Ínga konúng[1]. Íngi konúngr var í Víkinni ok Gregoríus, vildi Gregoríus (þegar) fara norðr at þeim, en margir löttu, ok varð ekki af því.

4. Hákon bjó um vârit norðan nær 30 skipa. Víkverjar fóru af liði Hákonar 12[2] skipum fyrir, ok herjuðu á Mæri hvâratveggju. Eingi maðr mundi fyrr herjat hafa verit milli Kaupánga. Jón, son Hallkels húks, safnaði bóndaliði, ok fór at þeim. Hann tók Kolbein óða, ok drap hvert mannsbarn af skipi hans. Síðan leitaði hann hinna, ok fann þá á[3] 7 skipum. Þeir börðust, en Hallkell, faðir Jóns, [gerði eigi[4] fara til móts við hann, sem þeir höfðu mælt. Þar fèll mart góðra bónda, en Jón sjálfr varð sárr. Hákon fór liði sínu suðr til Björgynjar, en er þeir komu í Stjórnveltu[5], spurðu þeir at Íngi konúngr var austan kominn fám nóttum áðr til Björgynjar ok Gregoríus; þorðu þeir Hákon þá eigi þagat at halda. Þeir sigldu suðr um Björgyn hit ytra, ok hittu lagsmenn Ínga [á þrim skipum[6], er seinni höfðu orðit austan. Þar var Gyrðr Ámundason, fóstbróðir Ínga konúngs; hann átti ok Gyríði, systur Gregoríí; ok annarr Gyrðr lögmaðr

---

1) *Hk*; til mótz vit Inga konúng, *H*; *sèst ekki í A.* 2) á átta, *H*; við 8, *Hk*. 3) *H*; af, *A*. 4) vildi eigi, *H*. 5) Stjór veltu, *Hk*. 6) *v. í H.*

Gunnhildarson, þriði Hávarðr klíníngr. Hákon lèt drepa Gyrð Ámundason ok Hávarð klíníng, en Gyrð lögmann hafði hann með ser, ok fór austr í Víkina.

5. En er Íngi spurði þat, fór hann austr eptir þeim; þeir hittust austr í Elfi. Íngi konúngr lagði upp í ána eptir hinni nyrðri kvísl, ok gerði njósn fyrir ser um þá Hákon. En Íngi konúngr lagði at landi út við Hísíng, ok beið þar njósnarinnar. En er njósnarmenn komu aptr, þá gengu þeir til konúngs, ok sögðu at þeir höfðu sèt lið Hákonar konúngs ok alla skipan þeirra, sögðu at þeir lágu upp við stikin[1], ok teingdu skutstafna sína upp í stikin; þeir hafa 2 austrfarar-knörru, ok hafa þá lagt yzta skipanna. Á knörrunum voru húnkastalar ok svâ framm í stafni á báðum. En er Íngi konúngr spurði, hvern viðbúnað þeir höfðu, þá lèt hann blása til húsþíngs öllu liðinu. Ok er þíng var sett, leitaði konúngr ráðs við lið sitt, kvaddi hann at því Gregoríum Dagsson ok Erlíng skakka, mág sinn, ok aðra lenda menn ok skipstjórnarmenn; hann sagði allan umbúnað þeirra Hákonar. Gregoríus stóð upp fyrstr, ok birti sinn vilja; hann sagði svâ: fundir vârir Hákonarmanna hafa atborizt nokkurum sinnum, hafa þeir optast haft meira lið, ok fengit þó minna hlut í vârum skiptum; en þó höfum ver nú miklu meira lið, ok mun þat nú

1) stickin, *H hèr og seinna.*

þykkja líkligt þeim mönnum, er fyrir skömmu hafa mist göfugra frænda sinna, at her mundi vel gefa til um hefndir; þvíat þeir hafa nú leingi áðr rekizt undan oss í sumar; höfum ver þat opt mælt, ef þeir biði vâr, svâ sem nú er sagt at vera muni, at ver munim hætta til fundar við þá. Ef þat er eigi móti konungs vilja, þá munum ver leggja til orrostu við þá, þvíat ek ætla enn, sem fyrr hefir verit, at þeir munu verða fyrir[1] at láta, ef ver leggjum skörugliga at, mun ek þar tilleggja, er öðrum þykkir torvelligast. At ræðu Gregoríí varð rómr mikill, ok lètust allir búnir at leggja at þeim Hákoni; var þá róit öllum skipunum upp eptir ánni, til þess er hvârir sá aðra. Þá viku þeir Íngi konúngr af árstrauminum undir eyna. Átti konúngr þá enn tal við alla styrimenn, ok bað þá skipa til atlögu; kvaddi hann þarat Erlíng skakka, sagði, sem satt var, at eingi var þar í því liði vitrari maðr ok kænni við orrostur, þótt sumir væri enn meiri ákafamenn; veik konúngr þá enn ræðunni til fleiri lendra manna, nefndi suma á nafn, en lauk svâ ræðunni, at hann bað þat hvern tilleggja, er helzt sá at ráði gegndi, en síðan alla saman verða á eitt sátta[2].

6. Erlíngr skakki svaraði ræðu konúngs: skyldr er ek, konúngr, at þegja eigi við yðr;

[1]) undan, *H.* [2]) *þannig H, Hk*; sáttir, *A.*

en ef þer vilit forvitnast, hvat mín ráðagerð mun vera, þá skal ek yðr þat láta heyra. Þessi ætlan, sem nú er stofnuð, er þvert frá mínu skapi, þvíat ek kalla þat vera úfæru, at berjast við þá at svâ búnu, þótt ver hafim mikit lið ok frítt; ef ver skulum veita þeim atlögu, ok róa árstraum þenna í mót; þar sem 3 menn eru í [hverju rúmi[1], verðr einn at róa, en annarr at hlífa þeim, hvat er þá nema einn þriðjúngr liðs vârs muni tilvera at berjast? Lízt mer svâ at úvígliga muni þeir komast við orrostuna, er við árarnar sitja, ok baki horfa við úvinum sínum. Nú gefit mer tómstund til ráðagerðar, en ek heit því þarímót, at ek skal þat ráð tilfinna, fyrr en 3 dagar se liðnir, at hógligar skulum ver viðkomast, at leggja á fund þeirra. Fanst þat mjök í ræðu Erlíngs, at hann latti atlögu, en eigi at síðr eggjuðu margir aðrir, ok sögðu þá Hákon mundu hlaupa á land upp enn sem fyrr: ok höfum ver þeirra þá ekki, sögðu þeir, en þeir hafa nú lítið lið, ok höfum ver ráð þeirra allt í hendi. Gregoríus ræddi um fám orðum, ok sneiddi svâ til, sem Erlíngi gengi þat mjök til, er hann latti atlögunnar, at hann vildi þau ráð únýta, er Gregoríus lagði til, heldr en hitt at hann kynni þetta gjörr at sjá en allir aðrir.

7. Þá mælti konúngr til Erlíngs: mágr! segir hann, nú viljum ver þínum ráðum fram-

[1]) hálfrými, *H*, *Hk.*

fara, hvernveg hátta skal atlögunni, en fyrir því at þess eru fleiri ráðamenn fúsari, þá skulum ver nú at þeim leggja í dag. Þá mælti Erlíngr: skútur allar[1] ok lèttiskip skulu róa út um eyna, ok upp hina eystri kvísl, ok svâ ofan at þeim, ok freista ef þeir meghi leysa þá frá stikunum, en þá skulum ver róa stórskipunum neðan at þeim, ok veit eigi, áðr reynt er, hvârt þeir leggja því betr at en ek, sem þeir eru óðari; þetta ráð líkaði öllum vel. Nes nokkut gekk framm milli þeirra Hákonar, ok sá hvârgi skipin frá öðrum. En er skútnaherrinn reyri ofan eptir ánni, þá sá þeir Hákon þat, en áðr höfðu þeir verit á tali, ok ráðit ráðum sínum, gátu sumir at þeir Íngi myndi atleggja, en margir ætluðu at þeir myndi eigi treystast, þvíat mjök þótti seinkast atlagan, en þeir treystu vel viðbúnaði sínum ok liði. Í þeirra flokki var mart stórmenni; þar var Sigurðr af Reyri ok þeir Símonarsynir[2], þar var ok Nikolás Skjaldvararson ok Eindriði, son Jóns mörnefs, er þá var ágætastr ok vinsælastr í Þrændalögum, ok margir aðrir voru þar lendir menn ok sveitarhöfðíngjar. En er þeir sá at Ínga menn reru mörgum skipum út eptir ánni, þá hugðu þeir Hákon, at menn Ínga myndi vilja flýja, ok hjuggu teingslin frá stikunum[3], gripu til ára,

---

[1]) sem ver höfum, *b. v. Hk.* [2]) Önundr ok Andres, *b. v. Hk.* [3]) *þannig Hk*; skipunum; *H.* stikkunum, *A*, *hèr.*

ok reru eptir þeim, ok vildu reka þá. Skipin rendu skjótt fyri straumi, ok er þá bar ofan eptir ánni fyrir nesit, er áðr bar í milli, þá sá þeir at meginliðit Ínga lá ut við eyna Hísíng. Ínga menn sá þá ok, hvar skip Hákonar fóru, ok hugðu at þeir myndi atleggja. Þar var þá þyss mikill ok vâpnabrak ok eggjan, ok lustu þeir upp herópi; en þeir Hákon sneru sínum skipum norðr at landinu, ok er þar [víkhvarf nökkut komit[1] af árstrauminum. Þeir bjuggust þar um, ok báru upp á land skutfestar, ok sneru út framstafni á öllum skipunum, ok teingdu saman öll skipin, lètu austrfara-knörruna liggja út frá öðrum skipunum, annan fyrir ofan, (en) annan fyrir neðan, ok teingdu þá við lángskipin, en í miðjum flotanum lá konúngsskipit, ok þarnæst Sigurðar skip, en á annat borð konúngsskipinu lá Nikolás, en þar næst Eindriði Jónsson. Öll hin[2] smærri skip (þeirra) lágu utarmeir. Þeir höfðu náliga hlaðit öll skip sín af vâpnum ok grjóti.

8. Sigurðr af Reyri talaði ok mælti: Þat er nu vænst at framm muni koma, er oss hefir leingi í sumar hætt[3] værit, at fundr vârr Ínga mun verða, höfum ver nú ok mjök leingi viðbúizt, ok hafa margir vârir menn stórt [berkt um[4], at eingi mundi fálma eðr flýja fyrir Ínga (eðr) Gregorió, ok er nú gott at minnast þeirra

---

1) vík nökkur komin, *H.* 2) enn, *H.* 3) heitit, *H*, *Hk.* 4) umtalað, *H*; bergt um, *Hk.*

orða; en ver megum með minna trausti umtala, er fyrr höfum vorðit nökkut tannsárir í vârum viðskiptum. Er þat, sem hverr hefir heyrt, at ver höfum mjök opt svaðilförum farit fyrir þeim; en eigi at síðr er oss nauðsyn at verða við sem mannligast, ok standa sem fastast; þvíat þann einn eigum ver útveginn, til þess at ver munim sigrinn hafa. En þótt ver hafim lið nökkuru færra en þeir, þá má þó auðna ráða, hvârir gagn hafa, ok er sú vân bezt í vâru máli, at guð veit at ver mælum rèttara. Íngi hefir áðr höggvit niðr bræðr sína tvâ, en þat er eingum manni leynt[1], hverjar föðurbætr hann hefir hugat Hákoni konúngi, þær at höggva hann niðr sem aðra frændr sína, ok mun þat sýnast þenna dag. Hákon beiddist eigi meira frá upphafi en þess þriðjúngs Noregs, er faðir hans hefir átt, ok var honum þess varnat; en at minni virðíng er Hákon betr tilkominn at taka arf eptir Eystein, föðurbróður sinn, heldr en Íngi eðr Símon skálpr, eðr aðrir þeir menn, er Eystein konúng tóku af lífi. Mörgum myndi svâ lítast, þeim er sálu sinni vildu þyrma, ok hefði þvílíkir stórglæpir á hendr borizt, sem Ínga, at eigi myndi þora fyrir guði at kallast með konúngsnafni, ok því undrumst ek, er guð þolir honum þá ofdirfð, ok þat mun guð vilja at ver steypim honum;

[1]) *v. í A; en sèst ekki nema* l..nt *í H;* blindt, *Hk.*

berjumst vér því djarfliga, at guð mun oss sigr fá; en ef vér föllum, þá mun guð þat ambana oss með margföldum fagnaði, er nú lèr hann vândum mönnum[1] at gánga yfir oss. Fari menn stilliliga, ok felmti eigi, ef orrosta tekst, gæti hverr sín ok sinna sveitbúa[2], en guð allra vâr. Góðr rómr var gjörr at máli Sigurðar, ok hètu allir góðu um at gefast vel. Hákon gekk upp á austrfararknörinn, ok var þar sett skjaldborg um hann; en merki hans var á lángskipinu, því sem hann hafði áðr áverit.

9. Nú er at segja frá Ínga-mönnum, þá er þeir sá at Hákonar-menn bjuggust til orrostu, var þá á ein í milli þeirra, þá gerðu þeir hleypiskútu út eptir liði sínu, því er á brott hafði róit, at þeir skyldu aptrsnúa, en konúngr ok annat liðit beið þeirra, ok skipaði liði sínu til atlögu. Þá töluðu höfðíngjar, ok sögðu liðinu fyriræltan sína; þat fyrst, hver skipin skyldu næst liggja[3], ok þá hvar hverir skyldu atleggja. Gregoríus mælti: vér höfum lið mikit ok frítt; nú er þat mitt ráð, konúngr! at þer sèt eigi í atlögunni, þvíat þá er alls gætt, ef yðvar er, en eigi veit hvar óskytja[4] ör geigar[5]. Þeir hafa þann viðbúnað at ör húnkastölum á kaupskipunum mun borit grjót ok skot, þá er þeim litlu úhættara, er fjarri eru. Þeir hafa lið eigi meira, en þat er við vârt hæfi, léndra manna, at halda

1) valds, *b. v. Hk.* 2) sveitúnga, *H.* 3) *H, Hk*; leggja, A.
4) *sèst ekki í H*; óskytjo, *Hk.* 5) skeikar, *H.*

orrostu við þá. Ek mun leggja mitt skip at þeirra skipi, því sem mest er, vænti ek enn at skömm raun se oss at berjast við þá; svâ hefir optast verit á vârum fundum, þótt annan veg hafi verit liðsmunr en nú er. Þetta líkaði öllum vel, er Gregoríus mælti, at konúngr sjálfr legði eigi til orrostu. Þá mælti Erlíngr skakki: því ráði vil ek atfylgja, at þer, konúngr, farit[1] eigi til orrostu; lízt mer svâ á viðbúnað þeirra, sem ver munim þurfa viðsjá at gjalda, ef ver skulum eigi fá mikit manntjón af þeim, þykki mer bezt um heilt at binda. Sú ráðagjörð, er ver höfðum fyrr í dag, þá mæltu margir þar í mót því er ek rèð, ok sögðu at ek vildi eigi berjast; en mer þykkir oss hafa snúizt nú til mikilla hæginda, er þeir eru brottu frá stikunum, er nú svâ komit at ek mun eigi letja at leggja til orrostu; þvíat ek se þat sem allir megu vita, hversu mikil nauðsyn er, at stökkva óaldarflokki þessum, er farit hefir um land allt með rán ok rifs. Mætti menn eptir þat byggja landit í friði, ok þjóna einum konúngi, þeim sem svâ er góðr ok rèttlátr sem Íngi konúngr, ok hefir hann þó leingi þolat ofsa ok újafnað frænda sinna, ok borit[2] brjóst fyrir allri alþýðu, ok lagt sik í margfaldan háska, til at friða landit. Mart talaði Erlíngr snjallt, ok enn fleiri höfðíngjar, ok kom í sama stað niðr, at allir eggjuðu atlögunnar. Þeir biðu þess, er

[1]) *Hk*; sèt, *A.* [2]) verit, *Hk.*

allt kom saman lið þeirra. Íngi konúngr hafði þá Bækisúðina, ok lèt hann þat at bæn vina sinna, at hann lagði eigi til orrostu, ok lá hann eptir við eyna.

10. Nú sem liðit var búit, greiddu þeir atróðrinn, ok lustu hvârirtveggju upp herópi, teingdu þeir Ínga-menn ekki sín skip, ok fóru ekki samfast, þvíat þeir reru þveran árstrauminn, ok sveif mjök stórskipunum. Erlíngr skakki lagði at skipi Hákonar konúngs, ok stakk stafni á milli ok skips Sigurðar af Reyri; tókst þá orrosta, en skip Gregorií sveif uppá grunn ok hallaði mjök, ok komust þeir ekki í fyrstu við atlöguna. En er Hákonar-menn sá þat, þá lögðu þeir at þeim, en skipit Gregorií lá fyrir. Þar lagði at Ívar, son Hákonar maga, ok sveif saman lyptíngunum. Ívar krækti stafnljá um Gregoríum, þar sem hann var mjóstr, ok hnykti at ser. Gregoríus hörvaði at borðinu út, ok [leinn[1] upp eptir síðunni[2]; var þá við sjálft, at hann myndi krækja hann fyrir borð. Gregoríus varð lítt sárr; þvíat hann hafði spángabrynju. Ívar kallaði á hann, ok kvað hann [þykt byrt[3] hafa. Gregoríus svarar: svâ býr þú um, at þess þarf við, ok geingr þó ekki af; var þá við sjálft, at þeir Gregoríus myndi verða fyrir borð at gánga, áðr Áslákr úngi kom akkeri í skip þeirra, ok dró þá af grunninu. Þá

1) svarfaði, *b. v. Hk.* 2) *ist. f. þetta frá merkinu hefir H*; laut við mjög. 3) þyckbyrt, *H.*

lagði Gregoríus at skipi Ívars, ok áttust þeir við lánga hríð; var skip Gregoríí meira ok fjölmennara, fèll mjök lið af Ívars skipi, en sumir hlupu fyrir borð, Ívarr varð sár mjök, svá at hann var úvígr. En er skip hans var hroðit, þá lèt Gregoríus flytja hann til lands, ok kom honum undan, ok voru þeir vinir síðan.

11. En er Íngi konúngr ok hans felagar sá, at Gregoríus var á grunninu, þá hèt konúngr á þá, at þeir skyldu tilróa. Hann mælti: þat var hit úsnjallasta ráð, er ver skyldum her eptirliggja, en vinir vârir fóru til bardaga. Ver höfum þat skip, sem mest er ok bezt skipat í öllum herinum. Nú se ek at Gregoríus er liðsþurfi, þeim manni sem ek á bezt at launa, ok leggjum til bardaga sem harðast! Er þat ok rèttast at ek se í orrostu, þvíat ek vil sigrinn eignast, ef fæst; en þótt ek vissi fyrir, at vârir menn myndi úsigr hafa, þá væri oss þó sá einn til, at vera þar sem áðr ero vârir menn; þvíat ek má ekki atfærast, ef ek missi þeirra manna, er röskvastir ero, ok leingi hafa verit brjóst ok forstjórar fyrir mer ok mínu ríki. Bað hann þá setja upp merki sitt, ok var svâ gert; reru þeir yfir ána. Þá var bardagi sem óðastr, ok fèkk konúngr ekki rúm til atlögunnar, svâ lágu þraungt skipin fyrir. Þeir lögðu þá undir austrfarar-knörrinn; þar var borit á þá ofan kesjur ok pálstafir ok grjót, svâ stórt at ekki stóð við, ok máttu þeir ekki þar vera. En er liðsmenn

sá at konúngr var kominn, þá rýmdu þeir fyrir honum; lagði hann þá at skipi þeirra Eindriða Jónssonar. Tóku þá Hákonar-menn at eyða smáskipin, ok gengu upp á knörruna, en sumir á land. Erlíngr, ok hans menn, átti harða atsókn; hann var í fyrirrúmi á skipi sínu; hann kallaði á stafnbúa sína, bað þá gánga upp á konúngsskipit. Þeir sögðu at þat var ekki dælt, ok þar voru járn á trjám fyrir. Erlíngr gekk framm í stafninn, ok dvaldist þar skamma hríð, áðr þeir greiddu uppgaungu á konúngsskipit, ok ruddu þat. Tók þá at flýja allr herrinn Hákonar, hljóp mart á kaf, en mart fèll, en allr fjöldinn komst á land. Svâ segir Einar Skúlason:

Margr fèll maðr af dreyrgu
marblaks[1] á kaf saxi,
(gnógt eldi fèkk gýgjar
glaumr) rak ná[2] fyrir straumi:
elfr var unda gjálfri
eitrköld roðin heitu,
vitnis[3] fèll með vatni[4]
varmt öldr í men[5] Karmtar.

Ok enn kvað hann:

Mörg flutu auð á úrga
(álm sveigði lið) hjálma
rauð flugu stál í stríðri
stafn-blóðig skip móðu;

---

[1]) marbaks, *H.* [2]) gna, *H.* [3]) vindis, *H.* [4]) vandi, *H.* [5]) *Hk*; munn, *A.*

áðr á grund af græðis
gæðínga lið flæði,
sveit var í rym rítar
rýr Hákonar dýrum.

Einar orti um Gregoríum Dagsson flokk þann sem kallaðr er Elfar-vísur. Íngi konúngr gaf grið Nikolási Skjaldvararsyni, þá er skip hans var hroðit, gekk hann þá til Ínga konúngs, ok var síðan með honum, meðan hann lifði. Eindriði Jónsson hljóp á skip Ínga konúngs, þá er skip hans var hroðit, ok bað ser griða; konúngr vildi gefa honum grið, en [son Hávarðs klíníngs[1] hljóp til, ok hjó hann banahögg, ok var þat verk mjök lastað, en [hann sagði at Eindriði[2] hefði ráðit drápi föður hans Hávarðs[3]. Eindriði var mjök harmaðr, ok þó mest í Þrændalögum. Þar fèll mart manna af liði Hákonar, en eigi fleiri höfðíngjar. Fátt fèll af Ínga liði, en mart varð sárt.

12. Hákon flýði upp á land, en Íngi fór sínu liði norðr í Víkina. Hann var í Víkinni um vetrinn, ok (þeir) Gregoríus. En er þeir komu til Björgynjar frá orrostunni, menn Ínga konúngs, synir Ívars af Eldu, Bergljótr ok þeir bræðr, þá drápu þeir Nikolás skegg, er gjallkeri hafði verit, ok fóru síðan heim norðr í Þrándheim. [Þeir komu[4] norðr til Þrándheims fyrir jól, en Sigurðr var stundum

1) Havarðr klíníngr, *H*. 2) Hávarðr sagði at Jón, *H*. 3) *v. í H*. 4) Hákon konúngr kom, *Hk*.

heima upp á Reyri. Gregoríus hafði tekit honum grið af Inga, at hann skyldi hafa eignir sínar allar, þvíat þeir Gregoríus ok Sigurðr voru náfrændr. Hákon konúngr var í Kaupángi um jólin. Einn aptan snimma jólanna börðust menn hans í hirðstofunni, ok höfðu þar 8 menn bana, en margir urðu sárir. En eptir hinn átta dag jóla, þá fóru menn Hákonar inn á Eldu, Álfr hroði, son Óttars birtíngs, ok nær 80 manna, komu þar á úvart öndverða nótt, þá er hinir voru druknir, ok lögðu eld í stofuna, en þeir gengu út ok börðust. Þar fèll Bergljótr, son Ívars, ok Ögmundr, bróðir hans, ok mjök mart manna. [Þeir höfðu verit inni nærri 30 manna[1]. Um vetrinn í Kaupángi norðr andaðist Andreas[2] Símonarson, fóstbróðir Hákonar konúngs. Erlíngr skakki ok menn Ínga konúngs, þeir er í Björgyn voru, lètu sem þeir myndi fara norðr þá ok þá um vetrinn at taka Hákon, ok varð ekki af. Gregoríus sendi þau orð austan ör Konúngahellu, ef hann sæti jafnnær, sem þeir Erlíngr, at hann myndi eigi sitja kyrr í Björgyn; [en Hákon lèt[3] drepa vini Ínga konúngs í Þrándheimi ok lögunauta þeirra.

13. Íngi konúngr ok Gregoríus fóru austan um vârit til Björgynjar, en þegar er Hákon spurði þat, ok þeir Sigurðr, at Íngi var farinn ör Víkinni, þá fóru þeir austr hit efra til Víkr. En er þeir komu til Björgynjar Íngi, þá gerð-

1) *v. í H.* 2) Andres, *Hk.* 3) ef Hákon lèti, *Hk.*

ist úsætti milli Halldórs Brynjúlfssonar ok Bjarnar Nikolássonar. Húskarl Bjarnar spurði húskarl Halldórs, hví hann væri svâ bleikr, er þeir mættust á bryggjum niðri, en hann kvað ser látið blóð. Húskarl Bjarnar mælti: eigi vildi ek svâ verða við blóðlátið, fiskbleikr[1] sem þú ert. Ek ætla, segir hinn, at þú myndir verr við verða ok údreingiligar. Eigi vurðu upphöfin meiri en svâ. Þá vógs orð af orði, þartil er þeir deildu, ok börðust því næst. Þá var sagt Halldóri Brynjúlfssyni, at húskarl hans var særðr á bryggjum. Halldórr drakk þar[2] í garðinum, gekk hann þá þegar til, en áðr voru þar komnir húskarlar Bjarnar, þótti Halldóri þar újafnt skipt; handtóku[3] þeir þá húskarla Bjarnar ok knúskuðu þá. Þá var sagt Birni bukk, at húskarlar hans voru barðir af Víkverjum niðri á bryggjum. Tóku þeir Sigurðr[4] þá vâpn sín, fóru til ok vildu hefna sinna manna, ok urðu þá averkar með þeim. Því næst var sagt Gregoríó, at Halldórr mágr hans þurfti liðs við; ok húskarlar hans voru höggnir úti á stræti. Þá hlupu þeir Gregoríus í brynjur sínar, ok fóru til. Þat spurði Erlíngr skakki, at Björn systurson hans berðist við þá Gregoríum, ok Halldór á bryggjum inn, ok honum var liðs þörf. Fór hann þá til þángat, ok var allfjölmennr, ok bað menn veita ser lið: er oss þat klæki, segir hann, ef einn víkverskr maðr skal gánga ofgángi

[1]) bastbleikr, *Hk.* [2]) þarhjá, *Hk.* [3]) stökuðo, *Hk.* [4]) Björn, *Hk.*

yfir oss her í frændhaga vàrum, mun oss sú skömm æ ok æ uppi. Þá komu Inga konúngi orð, at þeir börðust inn á bryggjum Gregoríus ok Erlíngr, ok fór konúngr til, ok vildi skilja þá, ok mátti eingu áorka, svâ voru þeir óðir hvârirtveggju. Gregoríus kallaði á Inga konúng, ok mælti: Farit frá, herra! ekki munu þer fá atvunnit svâ búit, er þat hinn mesti geigr, ef yðr verðr nökkut til meins, þvíat eigi kann vita, hverr sá er at eigi sparir þat úhapp við sik, ef hann þykkist í færi komast. Þá fór konúngr í brott, en þeir börðust. [Þar fèllu 13 menn, [ok höfðu 9 þegar bana, en fjórir önduðust síðar af sárum[1], en mart varð sárt[2]. En er þurru herhlaupin mestu, þá gengu þeir Gregoríus upp til Nikoláskirkju, en þeir Erlíngr eptir, ok kalluðu á þá. Síðan kom Íngi konúngr í annat sinn, ok sætti þá; vildu þat þá hvârirtveggju, at hann einn skipaði milli þeirra. Þá spurðu þeir, at Hákon var í Víkinni. Fóru þeir Íngi konúngr ok Gregoríus austr, ok höfðu mjök mart skipa. En er þeir komu í Víkina, stukku þeir Hákon undan, ok varð eingi orrosta. Þá fór Íngi konúngr inn til Osló[3], en Gregoríus var í Konúngahellu.

14. Gregoríus spurði litlu síðar til þeirra, þar sem heita Saurbæir, þat er uppi við mörkina; hann fór þagat, ok kom um nótt; hugðu

---

[1]) *v. í H.* [2]) *Frá fyrra merkinu v. í Hk.* [3]) *A sýnist hèr hafa* Oslu; Oslóar, *Hk.*

þeir at Hákon og Sigurðr myndi vera á hinum meira bænum, ok lögðu þar eld í hús. Þeir Hákon voru á hinum minna bænum, lögðu þeir til, þar er þeir sá eldinn, ok vildu duga sínum mönnum, þeim er þar voru fyrir. Þar fèll Munan, son Ála óskeyns[1]. Munan var bróðir Sigurðar konúngs, föður Hákonar. Þeir Gregoríus drápu hann, þá er hann vildi duga þeim, sem inni voru brendir; þeir[2] gengu út ok var mart manna drepit. Ásbjörn jalda komst af bænum; hann var víkíngr hinn mesti, ok þá vorðinn sárr mjök, en bóndi einn hitti hann, bað Ásbjörn bónda, at hann skyldi láta hann undan gánga, ok lèzt myndu gefa honum fe til. Bóndi lèzt þat myndu gera, er hann var fúsari, lèzt opt hafa gengit hræddr fyrir honum, ok hjó hann til bana. Þeir Hákon ok Sigurðr komust undan, en mart manna var drepit af honum. Gregoríus fór þá austr til Konúngahellu. Litlu síðar fóru þeir Hákon[3] til búss Halldórs Brynjúlfssonar á Vettaland[4], lögðu þar eld í hús, ok brendu. Halldórr gekk út, ok húskarlar hans, ok voru þegar höggnir; voru þar drepnir 20 menn alls. Sigríðr kona Halldórs, systir Gregoríí, hana lètu þeir gánga til skógar í náttserk einum. Þar tóku þeir Ámunda, son Gyrðar[5] Ámundasonar ok Gyríðar

---

1) *v. í H*; óskeins, *Hk.* 2) sumir, *Hk.* 3) konúngr ok Sigurðr, *b. v. Hk.* 4) eðr Veitaland, *A*; Vettaland, *Hk.* 5) *H*, *Hk*; Sigurðar, *A.*

Dagsdóttur, ok höfðu með ser; hann var þá 5 vetra.

15. Gregoríus spurði þessi tíðendi, ok þótti mikil, hann frètti ok vandliga, hvar þeir væri. Hann fór ör Konúngahellu ofarliga á jólum með miklu liði, ok kom til Fors hinn þrettanda dag jóla. Hann var þar um nóttina, ok hafði þar óttusaung affaradag jóla, ok var honum lesit guðspjall. Þá var laugardagr, ok er þeir Gregoríus sá lið Hakonar, þá sýndist þeim þat hálfu minna en sitt lið. Á ein var meðal þeirra, er þeir fundust, sú á heitir Hæfiá[1]. Ís[2] var illr á ánni, þvíat flóð gekk undir ísinn utan. Þeir Hákon höfðu höggvit vakir á ísinum, ok mokat yfir snjó, svâ at ekki mátti tilsjá. Þá er Gregoríus kom til árinnar, mælti hann: illr sýnist mer ísinn, er oss ráð at fara til brúar, er her er ofar á ánni. Bóndaliðit svaraði, kváðust eigi vita hverju gegndi, er hann skyldi eigi þora at sækja at þeim yfir ísinn eigi meira lið enn þeir höfðu fyrir; lètu ísinn fullgóðan, [kvaðst þeim horfin-heilla at þykkja[3]. Gregoríus sagði at honum hefði sjaldan þurft allmjök at frýja áræðis, kvað eigi enn þat skyldu; bað þá fylgjá ser ok gánga eptir vel, en standa eigi á landi, ef hann gengi (á) ísinn: með því at yðvart ráð er, segir hann, at ek gángi þenna vânda ís; er ek þess ófúss, en eigi þoli ek yðr frýjuorð; bað hann þá bera framm merki sitt. Gekk hann

[1]) Gefiá, *H*; Befiá, *Hk*. [2]) *þannig A*; íss, *H*. [3]) *v. í H*, *Hk*.

út á ísinn með liðinu. En þegar búendr fundu at ísinn var vândr[1], þá hvarf liðit aptr. Gregoríus lá í ísinum, ok eigi mjök; hann bað menn varast við, en eigi gekk með honum fleira en nær 20 menn, en allt annat liðit hvarf aptr. Maðr skaut at honum ör[2] flokki Hákonar, ok laust undir kverk honum. Gregoríus fèll þar, ok 10 menn með honum, ok lauk svâ æfi hans. En þat var almæli, at hann væri höfuð lendra manna í Noregi, í þeirra manna minnum er þá voru uppi, [ok verit bezt við Íslendínga, síðan Eysteinn konúngr Magnússon andaðist[3]. Lík Gregoríí var fært upp á Höfund, ok grafit í Gimsey, at nunnusetri því sem þar er. Þar var þá Baugeiðr abbadís, systir Gregoríí.

16. Ármenn[4] tveir fóru inn til Osló með tíðindin, at segja Ínga konúngi; en er þeir komu þar, þá heimtu þeir konúng á tal. Hann spurði, hvat þeir segði tíðinda. Þeir sögðu fall Gregoríí Dagssonar. Hví bar svâ illa at? segir konúngr. Þeir sögðu honum allan atburðinn. Konúngr mælti: þeir rèðu þá er verr kunnu. Þá er sagt at Íngi konúngr kunni þessu svâ illa, at hann grèt sem barn. En er þat gekk af honum, mælti hann: ek vildi fara til fundar við Gregoríum, þegar ek spurði dráp Halldórs; þvíat ek þóttumst vita, at Gregoríus myndi

1) ótraustr, *H.* 2) ör or, *Hk.* 3) *v. í H.* 4) Menn, *H.*

eigi svâ sitja leingi, at hann myndi eigi til hefnda ráða; en fólk þetta lèt sem ekki væri jafnskylt sem jóladrykkjan þessi, ok ekki mætti henni bregða; þvíat ek veit víst, ef ek hefði þar verit, at meira (ráði) myndi hafa verit framfarit, ella myndi við Gregoríus fara til einnar gistíngar báðir. En þar er sá maðr látinn, er mer hefir beztr verit, ok mest hefir landinu haldit í hönd mer. En þat hugði ek til þessa, at skamt mundi okkar í milli. Nú skal [ek einn[1] viðleggja, at fara til fundar við þá Hákon, ok skal vera annattveggja, at ek skal hafa bana, ella stíga yfir þá Hákon; en eigi er því heldr hefnt slíks manns, sem Gregoríus var, þótt þeir komi allir fyrir. Einn maðr svarar máli konúngs: lítt munþú þurfa at leita þeirra Hákonar; þvíat þeir ætla híngat til fundar við þik. Kristín, dóttir Sigurðar konúngs, bræðrúnga Ínga konúngs, var þar í Osló. Konúngr frètti þat til hennar, at hon ætlaði á brott ör bænum. Konúngr sendi henni orð, ok spurði hví hon vildi á brott. Henni lèzt þykkja agasamlikt, ok kvað þar eigi kvinna vist. Konúngr mælti: þess vil ek biðja, at þú farir eigi á brott, með því at ver höfum gagn, sem mik varir, þá skalþú her vel haldin; með því at ek falla, þá munu vinir mínir eigi ná at búa um lík mitt, en þú skalt biðja at þer se lofat, at búa

[1]) eið enn, *Hk.*

um líkit; máttu mer svâ helzt launa, þat er ek hefi vel til þín gert.

17. Blasíus-messo [at kveldi kom njósn Inga konúngi, at Hákonar væri ván til bæjarins. Þá lèt Ingi konúngr blása öllu liði sínu upp um bæinn, ok lèt fylkja[1]; var þá skorat nær 40 hundraða[2] manna. Hann lèt fylkíngina vera lánga, ok eigi meirr en 5 menn á þyktina. Þá mæltu menn hans at hann skyldi eigi vera í orrostunni, lèzt þeim þykkja mikil ábyrgð á honum, ok væri Ormr bróðir hans fyrir liðinu höfðíngi. Konúngr svarar: þat ætla ek, ef Gregoríus lifði, ok væri hann her nú, en ek væri fráfallinn, ok skyldi mín hefna, at hann myndi eigi liggja í fylsknum, heldr vera í orrostu sjálfr; en þótt ek se verr tilbúinn[3] en hann fyrir vanheilsu sökum, þá skal ek eigi verr viljaðr [en hann[4], ok er eingi ván at ek se eigi í orrostu þessi. Svâ segja menn at Gunnhildr, er Símon hafði átt, fóstra Hákonar, lèti sitja úti til sigrs honum, [en þat var ráð[5] at þeir skyldi berjast við Inga um nótt, en aldri um dag, ok þá myndi hlýða; en Þórdís skeggja[6] er sú kona kölluð, sem sagt er at úti sæti, en eigi vitum ver sann á því. Símon skálpr hafði gengit í bæinn, ok lagzt niðr at sofa, hann vaknaði við herópit[7].

---

1) *v. í H.* 2) hundruð, *H*, *Hk.* 3) *H*, *Hk*; *at*-skjótaðr, *A.* 4) *H*, *Hk*; við hann, *A.* 5) ok vitraðist þat, *H*; en svâ gekk fréttin, *Hk.* 6) seggja, *Hk.* 7) herhlaupit, *H.*

18. En er áleið nóttina, kom njósn til Ínga konúngs, at þeir Hákon færi þá utan á ísinn[1], [en íss lá allt frá bænum út til Höfuðeyjar. Íngi konúngr með her sinn gekk þá út á ísinn[2], ok setti fylkíng sína fyrir bæinn[3]; var Símon skálpr í þann arminn er út vissi til Þrælabergs, en í þann arminn er inn var fyrir nunnusetr var Guðrøðr Suðreyjakonúngr, son Ólafs bitlíngs, ok Jón, son Sveins Bergþórssonar bukks[4]. En er þeir Hákon komu at fylkíng þeirra Ínga konúngs, þá æptu hvárirtveggju heróp. Þeir Guðrøðr ok Jón báknuðu vâpnunum til þeirra Hákonar, ok lètu þá vita, hvar þeir voru fyrir. Síðan sneru þeir Hákon þar inn at; en þeir Guðrøðr flýðu þegar með 15 hundruð manna; en Jón, ok mikil sveit með honum, hljóp í lið Hákonar, ok barðist með honum. Þetta var sagt Ínga konúngi. Hann svarar: svâ mikit hefir skilit vini mína! aldri mundi Gregoríus svâ fara, meðan hann lifði. Þá báðu menn konúngs, at hesti skyldi skjóta undir hann, ok riði hann ör orrostu ok upp á Raumaríki: munþú þar fá, sögðu þeir, gnógt lið þegar í dag. Eingi hugr er mer á því, sagði konúngr; opt hefi ek heyrt yðr þat mæla, ok þykki mer satt, at lítið lagðist fyrir Eystein bróður minn, síðan hann lagðist á flótta, ok var hann vel at ser gjörr um alla hluti, þá er konúng fríða.

1) *ásinn, Hk.* 2) *Hk; v. í A, H.* 3) *bænum, H.* 4) *buks, H; búks, Hk.*

Nú kann ek sjá við vanheilindi mitt, hversu lítið fyrir mik mun leggjast, ef ek tek þat til, er honum skyldi svâ mjök vefjast, jafnmikit sem atferð okkra skildi ok heilsu, ok [allt eljun[1]. Ek var þá á annan vetr, er ek var til konúngs tekinn í Noregi; en nú er ek vel halfþrítögr; ek þykkjumst vandræði (ok ábyrgð) hafa meir haft í konúngdóminum, heldr en skemtan eðr inndæli. Ek hefi átt mjök margar orrostur, stundum með meira liði, stundum með minna, hefir sú gæfa mín mest verit, at ek hefi aldri á flótta komit; ráði guð lífi mínu, hversu lángt vera skal, en aldri mun ek á flótta leggjast[2].

19. En (er þeir) Jón ok hans felagar höfðu rofit fylkíng Ínga konúngs, þá flýðu þeir brott margir, er þar höfðu næstir staðit; skildist þá ok riðlaðist fylkíngin; en [þeir] menn Hákonar sóttu þá fast (at). Var þá komit at degi. Var þá sótt at merki Ínga konúngs, ok í þeirri hríð fèll Íngi konúngr, en Ormr bróðir hans hèlt upp orrostu. Flýði þá mart fólk upp í bæinn. Ormr fór tysvar inn í bæinn, síðan konúngr var fallinn, ok eggjaði liðit, ok í hvárttveggja sinn gekk hann út (á) ísinn, ok hèlt upp orrostu. Þá sóttu Hakonar-menn þann fylkíngararm, er Símon skálpr var fyrir. Í þeirri atgaungu fèll af Ínga liði Guðrøðr Skafhaugsson, mágr konúngs, en Símon skálpr ok Hallvarðr hítir[3] geng-

---

1) *þannig A, þó dauft*; alla eljan, *H*; alla eljun, *Hk.*
2) leggja, *H.* 3) hít, *H*; hikri, *Hk.*

ust á ok börðust með sveitir sínar, ok ókust út fyrir Þrælaberg; í þeirri hríð fèllu þeir báðir, Símon ok Hallvarðr. Ormr konúngsbróðir fèkk þar gott orð, en þó flýði hann at lyktum. Áðr um vetrinn hafði Ormr fastnat ser Rögnú[1], dóttur Nikoláss mása, er átt hafði Eysteinn konúngr Haraldsson; skyldi hann þá gánga at brúðkaupi sínu drottinsdaginn eptir. [Blasíusmessa var á föstudegi[2].

20. Ormr flýði austr á Svíþjóð til Magnúss bróður síns, er þá var þar konúngr. En Rögnvaldr bróðir hans var jarl. Þeir voru synir Íngiríðar ok Heinreks halta; hann var son Sveins Sveinssonar Danakonúngs. Kristín konúngs-[dóttir bjó um lík[3] Ínga konúngs; hann var lagðr í steinvegginn í Hallvarðskirkju utar frá kórinum syðra megin. Þá hafði hann verit konúngr hálfan þriðja tög vetra. Í orrostu þeirri fèll mart manna af hvârumtveggjum, ok þó miklu fleira af Ínga liði. [Árni Friðreksson fèll af Hákonar liði[4]. Þeir *Hákon tóku upp bruðlaupsveizluna* alla, ok stórmikit hlutskipti annat.

21. Hákon konúngr lagði þá land allt undir sik, skipaði sýslur allar sínum mönnum, ok svâ kaupstaðe. Hákon ok hans menn höfðu stefnur sínar í Hallvarðskirkju, er þeir rèðu landráðum. Kristín konúngsdóttir gaf fe til presti þeim, er kirkjulykla varðveitti, at hann

---

1) Ragnhildi, *H.* 2) Blasíusmesso, en hon var á föstud., *H.* 3) *H, Hk; sèst ekki í A.* 4) *v. í H; en finnst í Hk.*

leyndi manni hennar í kirkjunni, svâ at sá mætti heyra orð þeirra Hákonar. En er hon varð vör, hvat þeir ræddu[1], sendi hon þau orð til Björgynjar Erlíngi bónda sínum, at hann skyldi aldri trúa þeim. En er Erlíngr varð þessa vís[2], þá gerði hann svâ: hann sendi orð öllum höfðíngjum, þeim sem hann vissi at verit höfðu trúnaðarvinir Ínga konúngs, ok svâ hirðsveitinni ok handgengnum mönnum konúngs, þeim sem undan höfðu komizt, ok húskörlum Gregoríí. Hann gerði þeim stefnulag, en er þeir fundust, ok áttu tal sitt, þá rèðst þat þegar, at þeir skyldu halda saman flokkinum, ok bundu þat fastmælum í milli sín. Síðan töluðu þeir þat, hvern þeir skyldu til konúngs taka. Þá talaði Erlíngr skakki, ok leitaði ef þat væri ráð höfðíngja eðr annarra liðsmanna, at tekinn væri til konúngs son Símonar skálps, dótturson Haralds konúngs gilla, en Jón Hallkelsson byndist fyrir flokkinn; en Jón mæltist undan. Þá var leitað við Nikolás Skjaldvararson, systurson Magnúss konúngs berfætz, ef hann vildi gerast höfðíngi yfir flokkinum. En hann svaraði á þá lund, at þat var hans ráð: at taka þann til konúngs, er af konúngaætt er kominn, en þann til ráða fyrir flokkinn, er vænn er til vits; mun þá betra verða til liðs. Var þá leitað við Árna konúngsmág, ef hann vildi nokkurn sona sinna láta taka til konúngs; þeir voru bræðr Ínga

[1]) rèðo, *Hk.* [2]) viss, *H.*

konúngs. Hann svarar því at son Kristínar, dóttur Sigurðar konúngs jórsalafara, var bezt ættborinn til konúngdóms í Noregi: er þar ok sá maðr til forráða með honum, er skylda þerr til at vera forsjámaðr með honum ok ríkinu, er Erlíngr er faðir hans, maðr vitr ok harðráðr, ok reyndr mjök í orrostum, ok landráðamaðr góðr; mun hann eigi skorta til þessa máls framkæmd, ef hamíngja fylgir. Margir tóku vel undir þetta ráð. Erlíngr svarar: svâ heyrist mer til, sem þeir se flestir, er þessa máls er leitað við, at heldr færist undan at taka upp vandann. Nú sýnist mer jafnvíst, þótt ver hefim þetta mál, hvârt heldr er at tignin fæst, þeim er fyrirbindst flokkinum, eðr verðr hinnveg, sem nú hefir áðr mjök mörgum farit, þeim er slík stórræði hafa upptekit, at þeir hafa týnt allri eigunni, ok sumir þarmeð lífinu. En ef framgángr verðr at þessu ráði, þá má vera at þeir se nokkurir, er þenna kost vildi hafa upptekit, mun sá þess þurfa, er nú geingr undir þenna vanda, at setja ramliga skorður við, at eigi sæti hann þá mótgáng[1] eðr fjandskap, af þeim sem nú eru í þessu ráði. Allir jákvæddu[2] því, at geru þetta samband með fullum trúnaði. Erlíngr mælti: þat er frá mer at segja, at næst þykki mer þat bana mínum, at þjóna[3]

[1]) mótgángi, *H*, *Hk*. [2]) játtu, *H*. [3]) *þannig H*, *Hk*; *í A sèst ekki nema*...na, *er þá seinna viðbætt á spáziunni* haf; *en* hafna *þykir hèr mjög mótstríðandi samheinginu.*

Hákoni; ok þótt mer þykki þetta hit háskasamligsta ráð, þa vil [ek þó heldr til þess[1] hætta, at láta yðr fyrirsjá, ok mun ek taka við forráðum floksins, ef þat er allra yðvar ráð ok fýsi, ok vili þer allir binda þetta svardögum. Allir játtuðu því. Var á þeirri stefnu þat ráðit, at þeir skyldu taka til konúngs Magnús son Erlíngs. Síðan áttu þeir þíng í bænum, ok á því þíngi var Magnús Erlíngsson til konúngs tekinn yfir land allt; þá var hann 5 vetra gamall. Gengu þá til handa honum allir þeir menn er þar voru, ok handgengnir höfðu verit Ínga konúngi, ok hafði hverr þeirra slíka nafnbót, sem áðr hafði haft með Ínga konúngi.

22. Erlíngr skakki byrjaði ferð sína, ok rèð ser til skipa. Hann hafði með ser Magnús konúng ok alla handgengna menn, þá er þar voru. Þar var ok í för Árni konúngsmágr ok Íngiríðr, móðir Ínga konúngs, ok synir hennar tveir, [Hákon ok Jón kutiza, son Sigurðar storgs, ok húskarlar Erlíngs[2], ok svâ þeir sem verit höfðu húskarlar Gregoríí. Þeir höfðu alls 10 skip. Þeir fóru suðr til Danmerkr á fund Valdimars konúngs ok þeirra Búriz Heinrekssonar, bróður Ínga konúngs. Valdimar konúngr var frændi skyldr Magnúss konúngs. Þær voru systur, [dætr Haralds konúngs ör Görðum austan (hann var son Valdimars Jarizleifssonar[3]), Íngi-

[1]) *H, Hk; sèst ekki í A.* [2]) *v. í H.* [3]) *Frá merkinu [ v. í H; en innsetnínguna v. í Hk.*

björg, móðir Valdimars konúngs, ok Málmfríðr, móðir Kristínar, móður Magnúss konúngs. Valdimar konúngr tók vel við þeim, ok voru þeir Erlíngr laungum á málstefnu ok ráðagerðum, ok kom þat upp af tali þeirra, at Valdimar konúngr skyldi veita styrk Magnúsi konúngi allan af sínu ríki, þann er hann þurfti, til at eignast Noreg, ok halda síðan; en Valdimar konúngr skyldi hafa þat ríki í Noregi, sem haft höfðu hinir fornu frændr hans, Haraldr Gormsson ok Sveinn tjúguskegg, Víkina norðr til Rygjarbits. Var þessi ráðagerð bundin eiðum ok einkamálum. Síðan bjuggu þeir Erlíngr ferð sína af Danmörk, ok sigldu út af Vendilskaga.

23. Hákon fór þegar um vârit eptir páska[1] norðr til Þrándheims. Hann hafði þá öll skip, þau er átt hafði Íngi konúngr. Hákon átti þíng í Kaupángi, ok var hann þar til konúngs tekinn yfir allt land. Þá gaf hann Sigurði af Reyri jarlsnafn. Síðan fóru þeir Hákon suðr aptr, ok allt í Vík austr, fór konúngr til Túnbergs, en sendi Sigurð jarl austr í Konúngahellu með sumu liðinu, at verja þar landit, ef Erlíngr kæmi sunnan. Þeir Erlíngr komu at Ögðum, ok hèldu þegar norðr til Björgynjar. Þeir drápu þar Árna Brigiðarskalla, sýslumann Hákonar konúngs, ok fóru þegar austr aptr til móts við Hákon konúng. En Sigurðr jarl hafði ekki orðit varr við sunnanferðina Erlíngs, ok

[1]) viko, *b. v. Hk.*

var hann þá enn suðr við Elfi, en Hákon konúngr var í Túnsbergi. Erlíngr lagði at við Hrossanes, ok lá þar nökkurar nætr. Hákon konúngr bjóst við í bænum. Erlíngr lagði at bænum. Þeir tóku byrðíng einn, ok hlóðu með viði (ok hálmi), ok lögðu í eld, en veðr stóð upp á bæinn, ok rak byrðínginn at bænum. Hann lèt bera kaðla tvá á byrðínginn, ok teingja við skútur tvær, lèt róa svâ eptir, sem byrðínginn rak fyrir; en er eldrinn var kominn mjök inn at bænum, þá hèldu þeir köðlunum, er á skútunum voru, svâ at eigi mátti bærinn brenna, en reyk lagði svâ þykt í bæinn, at ekki sá á bryggjunum, þar sem fylkíng Hákonar konúngs stóð. Síðan lagði Erlíngr öllu liðinu utan eptir á veðr eldinum, ok skutu upp á þá. En er bæjarmenn sá at eldrinn nálgaðist hús þeirra, en margir urðu sárir af skotum, þá gerðu þeir ráð sitt, ok sendu Hróald prest lángtölu[1] á fund Erlíngs, at taka ser grið ok bænum, en Hróaldr kom aptr, ok sagði þeim at grið voru tekin. Þá rufu þeir fylkíng Hákonar konúngs. En er bæjarmannalið var brottfarit, þá þyntist liðit á bryggjunum; eggjuðu þá sumir Hákonarmenn, at við skyldi taka, en Önundr Símonarson, er mest hafði ráð fyrir þeim, sagði svâ: eigi mun ek berjast til ríkis Sigurðar[2], en hann se hvergi nærri. Síðan flýði Önundr, ok því næst allt lið með konúngi, ok fóru upp á land.

[1]) lánga út, *H*; lángtönn, *hèr A*. [2]) Sigurði jalle, *H*, *Hk*.

Þar fèll mart manna af liði Hákonar konúngs. Svâ var þá kveðit:

Önundr kvaðst eigi myndu
við orrostu kosta,
fyrr en sunnan sigldi
Sigurðr jarl[1] með húskarla:
mjök fara Magnúss rekkar
mætir upp at[2] stræti,
en Hákonar haukar
hart skunduðu undan.

Þorbjörn skakkaskáld segir svâ:

Greitt frá ek gumna-drottinn
gríðarfars[3] í víðu[4]
trauðr [era tennr[5] at rjóða
Túnsbergi þer[6] snúna:
hræddust bjartra brodda
bæjarmenn við rennu;
ugðu eld ok sveigðan
álm dynviðir málma.

Hákon fór hit efra norðr til Þrándheims. En er Sigurðr spurði þessi tíðindi, fór hann með skipum öllum, þeim sem hann fèkk[7], norðr til móts við Hákon.

24. Erlíngr tók skip þau öll í Túnsbergi, er Hákon konúngr átti; þar fèkk hann bækisúðina, er Íngi konúngr hafði átt, en Erlíngr fór þá, ok lagði undir Magnús alla Víkina, ok

---

1) *H, Hk; v. í A.* 2) um, *H*; á, *Hk.* 3) gríðar láks, *Hk.* 4) *sèst ekki í H.* 5) erat tenn, *Hk.* 6) þar, *H.* 7) it ytra, *b. v. Hk.*

svâ norðr allt þar sem hann fór, ok sat um vetrinn í Björgyn. Þá lèt Erlíngr drepa Íngibjörn sipil, lendan mann Hákonar konúngs norðr í Fjörðum. Hákon konúngr sat í Þrándheimi um vetrinn, en eptir um vârit bauð hann út leiðángri, ok bjóst[1] at fara suðr [til móts við Erlíng[2]. Þar var þá með honum [Sigurðr jarl[3], Jón Sveinsson, Eindriði úngi, Ögmundr[4] Símonarson, Filippus Petrsson, [Filippus Gyrðarson[5], Rögnvaldr kunta, [Sigurðr kæpa, Sigurðr hrúfa, Friðrekr kæna, Áskell af Forlandi, Þórðr, son Gunnars gjallkera, Staðar-Bjarni[6].

25. Erlíngr var í Björgyn, ok hafði lið mikit. Hann tók þat ráð, at hann lagði farbann fyrir kaupskip öll, er fara vildu norðr til Kaupángs, af því at hann hugði at Hákoni myndi koma ofskjótt[7] njósnin, ef skipin færi í milli, ok fann þó þat til, at Björgynjarmenn væri makligri, at hafa gæzku þá er á skipum var, þótt ódýrra væri keypt at byrðíngamönnum, en þeim þætti fallit: heldr en flutt se í hendr fjandmönnum vârum, sagði hann, ok úvinum, þeim til styrks. Nú söfnuðust skipin til bæjarins; þvíat mörg komu hvern daginn, en eingi fóru brott; ok þá lèt Erlíngr setja upp skip sín, þau sem lèttust voru, ok hafði þat orð á, at hann myndi

1) *H, Hk;* bauðst, *A.* 2) á fund Erlíngs, *H.* 3) *þykir útstrikat í A, en finst í Hk, og mun víst rètt, samkvæmt niðrlagi ens 3. kap.* 4) Önundr, *Hk; sjá bls.* 252, *athgr.* 1. 5) *v. í H.* 6) *v. í H.* 7) suðr, *b. v. H.*

þar bíða, ok veita viðtöku með vina sinna fulltíngi ok frænda, ef Hákon kæmi norðan. Ok einn dag litlu síðar lèt Erlíngr blása til stýrimannastefnu, ok gaf þá leyfi öllum kaupskipum, at fara hvert er menn vildu. En er menn höfðu þegit leyfi af Erlíngi, þeir sem fyrir byrðíngum rèðu, ok áðr lágu albúnir at fara með varnaði sínum, sumir með kaupum, sumir áttu önnur eyrindi; var þá veðr lètt, ok segltækt norðr með landi; en fyrr en nón kæmi þess dags, höfðu allir siglt, þeir sem búnir voru, sótti sá sína ferð ákafligast, er skip hafði skjótast. En er þetta samflot kom norðr á Mæri, þá var þar fyrir lið Hákonar, ok hann sjálfr var í liðsafnaði ok búnaði, stefndi til sín lendum mönnum ok leiðángrsliði. Hafði hann þá áðr lánga hríð ekki til tíðinda spurt af Björgyn, en nú fengu þeir eina njósn af öllum skipum, er sunnan fóru, at Erlíngr hefði sett upp skip sín í Björgyn, ok þeir myndi hans eiga þagat at vitja, ok sögðu at hann hafði mikit lið. Þaðan sigldi Hákon konúngr til Veeyjar, ok gerði frá ser inn í Raumsdal Sigurð jarl ok Önund Símonarson, at fá ser lið ok skip. Hann sendi ok menn frá ser á Mæri hvâratveggju. En er hann hafði dvalizt fár nætr í bænum, þá lagði hann braut, ok suðr nökkuru leingra; þótti sem þá myndi skjótara lið til hans koma.

26. Erlíngr skakki hafði leyft byrðíngum brottferð ör Björgyn drottinsdaginn. En þrið-

jadaginn, er lokit var messum, var blásit konúngslúðri; stefndi Erlíngr til sín liðsmönnum ok bæjarmönnum, ok lèt setja framm skip (sín), þau sem áðr voru uppsett. Erlíngr átti þá húsþíng við lið sitt ok leiðángrsmenn, sagði þeim ætlan sína, ok nefndi menn til skipstjórnar; lèt lesa upp, hverir skráðir voru á konúngsskipit; lauk svâ því þíngi. Bað Erlíngr hvern (mann) búast um í sínu rúmi, þar sem skipat var; lèt þann missa skyldu lífs eðr lima, er þá dveldist eptir í bænum, er hann legði brott Bækisúðinni. Ormr konúngsbróðir lagði þegar brott sínu skipi um kveldit, ok flest skip, þau er áðr höfðu verit á floti. Miðvikudaginn, áðr súngnar væri messur í bænum, lagði Erlíngr á brott öllu liðinu; þeir höfðu skip eitt ok 20; þá var blásandi byrr sunnan ör landi; Erlíngr hafði með ser Magnús konúng son sinn. Margir voru þar lendir menn, ok höfðu með ser hit fríðasta lið. Þá er Erlíngr sigldi norðr fyrir Fjörðu, þá sendi hann skútu inn af leið til búss Jóns Hallkelssonar, ok lèt taka Nikolás, son Símonar skálps ok Maríu, dóttur Haralds konúngs gilla. Þeir höfðu hann með ser út til liðs síns; fór hann út á konúngsskipit.

27. Föstudaginn þegar í óttu sigldu þeir á Steina-vâg. Hákon konúngr lá þá í þeirri höfn er heitir ......, ok hafði 14[1] skip. Hann

[1]) *þannig A, þó þykir þar fyrst hafa* 13 *skrifat verit;* XVII; *eðr* XXII, *II;* 13, *Hk.*

var sjálfr ok menn hans uppi á eyunni á leiki, en lendir menn hans sátu á haugi nökkurum. Þeir sá at bátr reyri sunnan at eyjunni, 2 menn voru þará, ok lètu fallast í kjölinn niðr, ok tóku framm árum eigi úákafligar. En er þeir komu at landi, festu þeir ekki bátinn, ok runnu báðir. En er þetta sá ríkismenn, ræddu þeir sín á milli, at þessir menn myndi segja kunna tíðindi nökkur; stóðu upp, ok gengu á móti þeim. Ok þegar þeir fundust, spurði Önundr Símonarson: kunni þit nökkut segja til Erlíngs skakka, er þit farit svâ ákafliga. Sá svarar er fyrr mátti máli uppkoma fyrir mæði sakir: Her siglir Erlíngr sunnan at yðr 20 skipum, eðr því nær, ok mörg ærit stór, ok munu þer nú sjá skjótt segl þeirra. Þá svarar Eindriði úngi: ofnær nefi, kvað karl, var skotinn í auga. Gengu þeir þegar skyndiliga þartil sem leikrinn var. Því næst kvað lúðr við, ok var blásinn herblástr, öllu liði til skipa sem ákafligast; var þat í þann tíma dags, er mjök var matbúit. Til skipanna stefndi allt fólk, hljóp hverr á þat skip, sem honum var næst, ok vurðu skipin újafnskipuð. Tóku [þá sumir[1] til ára, sumir reistu viðuna, sneru norðr skipunum, ok stefndu til Veeyjar, fyrir því at þeir væntu ser mikils liðs af bæjarmönnum. Þarnæst sá hvârir segl annarra. Eindriði úngi hafði þat skip, er

1) *Ilk*; þeir, *A*.

kallat var Draglaun, lángskip, [buza mikil[1], ok hafði þá orðit liðfátt á; þvíat þeir höfðu hlaupit á önnur skip, er þar höfðu á verit. Þat var seinst skipa Hákonar. En þá er Eindriði kom gegnt eyjunni Sekk, þá kom Bækisúðin eptir þeim, er Erlíngr skakkr[2] stýrði, ok festu saman þau skip. En Hákon var þá kominn náliga inn til Veeyjar, er þeir heyrðu lúðragánginn, þvíat aptr sneru skipin, þau er næst voru, ok vildu veita lið Eindriða. Lögðu þá hvârirtveggju til orrostu, ok varð ekki laung, áðr skipan raufst á skipi Hákonar konúngs, fèllu sumir, en sumir gengu fyrir borð.

28. Hákon steypti á sik grárri kápu, ok hljóp á annat skip; en er hann hafði þar dvalizt litla hríð, þóttist hann vita, at hann var þá með úvinum sínum kominn; ok er hann hugsaði fyrir ser, þá sá hann einga sína menn eðr skip sín allnær. Þá gekk hann á Bækisúðina, ok framm í stafnsveit, ok bað ser griða, en stafnbúar tóku hann til sín, ok gáfu honum grið. Í þessi hríð hafði vorðit mikit mannfall, ok þó meira af Hákonarmönnum. Fallinn var þá á Bækisúðinni Nikolás, son Símonar skálps, ok var hans dráp kent þeim sjálfum Erlíngs mönnum. Eptir þat varð hlið[3] á orrostunni, ok greindust ser hvâr skipin. Þá var Erlíngi sagt,

---

[1]) bussa mikil, *H*; *en Hk hefir* (lángskips-) búza mikil.
[2]) *þannig A.* [3]) hvíld, *H*, *Hk*.

at Hákon konúngr var þar á skipinu, ok stafnbúar hans höfðu tekit hann til sín, ok heituðust at verja hann. Erlíngr sendi mann framm á skipit, ok bað þat segja stafnbúum, at þeir varðveitti Hákon konúng, svâ at hann færi eigi á brott, en lèzt eigi myndu móti mæla, at konúngr hefði grið, ef þat væri ráð annarra ríkismanna, ok væri þaðan leitað um sættir. Stafnbúar mæltu at hann skyldi mæla allra höfðíngja heilastr. Þá lèt Erlíngr blása ákafliga, ok bað menn leggja at skipum þeim sem óhroðin voru, sagði at þeir myndi eigi komast í betra færi, at hefna Ínga konúngs. Þá æptu allir heróp, ok eggjaði hverr annan, ok greiddu til atlögunnar. Í þessum þys var Hákon konúngr særðr banasári. En er menn Hákonar konúngs vurðu þess varir, at hann var fallinn; þá reyru þeir at fast, köstuðu hlífum, ok hjuggu tveim höndum, ok hirtu ekki um líf sitt. Þessi ofrausn gerðist þeim sjálfum at skaða miklum, þvíat menn Erlíngs sá (þá) bera höggstaði á þeim. Fèll þar lið Hákonar, mikill hluti; bar þat mest til at liðsmunr var mikill, en menn Hákonar hlífðu ser lítt, en eingi hans manna þurfti grið at nefna, nema þeir einir er ríkismenn tóku á vald sitt, ok festu fe fyrir. Þessir fèllu af Hákonar liði: Sigurðr kápa ok Sigurðr hjúpa, Rögnvaldr kunta; en nökkur skip komust undan, ok reru inn í Fjörðu, ok hjálpuðu svâ lífi sínu. Lík Hákonar konúngs var flutt í Raumsdal inn,

ok þar jarðat. Sverrir konúngr, bróðir Hákonar, lèt *síðan* flytja hann norðr til Kaupángs, ok leggja í steinvegginn í Kristskirkju fyrir sunnan í kórinum.

29. Sigurðr jarl, Eindriði úngi, Önundr Símonarson, Friðrekr kæna ok enn fleiri höfðíngjar hèldu saman flokkinum, leifðu skipin í Raumsdal, ok fóru síðan til Upplanda. Erlíngr skakki ok Magnús konúngr fóru með sínu liði norðr til Kaupángs, ok lögðu land allt undir sik, hvar sem þeir fóru. Síðan lèt Erlíngr stefna Eyraþíng, var þar til konúngs tekinn Magnús of land allt. Dvaldist Erlíngr þar litla[1] hríð, þvíat honum þóttu þrændir ekki trúligir þeim feðgum. Var þá Magnús kallaðr konúngr yfir öllu landi. Hákon konúngr var fríðr maðr sýnum, vel vaxinn, hárr ok mjórr, ok þó heldr herðibreiðr; því kölluðu liðsmenn hann Hákon herðibreið[2], en fyrir því at hann var úngr at aldri, höfðu aðrir höfðíngjar ráðagerð fyrir honum. Hann var kátr ok lítillátr í máli, leikinn, ok hafði úngmennis æði; vinsæll var hann við alþýðu.

1) *Hk*; nokkura *A.* 2) *þannig A, H.*

# Saga Magnúss konúngs Erlíngssonar.

Markús á Skógi hèt maðr upplenzkr, frændi Sigurðar jarls; Markús fóstraði son Sigurðar konúngs (Haraldssonar); sá hèt Sigurðr. Hann tóku Upplendíngar til konúngs með ráði Sigurðar jarls ok annarra höfðíngja, þeirra sem fylgt höfðu Hákoni konúngi. Þeir höfðu þá enn styrk mikinn liðs, fór flokkrinn optliga í tvenníngu, var konúngr ok Markús minnr[1] á viðborða, en Sigurðr jarl með sínar sveitir ok lendir menn meir við háskann. Fóru þeir með flokkinn mest um Upplönd ok ofan í Víkina. Erlíngr skakki hafði jafnan með ser Magnús konúng son sinn, hafði hann þá skipastól allan ok landvarnir. Var hann í Björgyn um haustið nökkura hríð, ok fór þaðan austr í Vík, ok settist í Túnsbergi, efnaði þar til vetrsetu; safnaði at ser um Víkina sköttum ok skyldum, þeim er konúngr átti. Hann hafði frítt lið ok mikit; en með því at þeir Sigurðr jarl höfðu lítið af landi en mikit fjölmenni, varð þeim brátt fefátt, ok þar sem eigi voru höfðíngjar nær, varð eptir fenu leitað mjök aflaga, sumt

[1]) *þykkir útstrikat í A*; miðr, *H.*

með frekligum sakagiptum, en sumt berliga með ránum.

2. Í þann tíma stóð Noregs veldi með blóma miklum, var bóndafólkit auðigt ok ríkt, ok úvant ófrelsi eðr ofríki flokkanna. Gerðist brátt mikit orðlag ok stórar frásagnir, þá er rænt var. Víkverjar voru fullkomnir vinir Magnúss konúngs ok Erlíngs, olli því [Íngi konúngr Haraldsson[1], þvíat Víkverjar með sinn styrk höfðu jafnan þjónat undir þann skjöld. Erlíngr lèt hafa varðhöld á bænum, ok vöktu 12 menn hverja (nótt). Erlíngr átti jafnan þíng við bændr, ok var þá talat opt um úspektir Sigurðar-manna, ok með fortölum Erlíngs ok annarra liðsmanna, þá fèkst mikill rómr af bóndum til þess, at þat væri mikit happaverk, at menn lèti þann flokk aldri þrífast. Árni konúngsmágr talaði lángt um þetta mál, ok hart at lyktum; beiddi hann þess alla, er á voru þínginu, liðsmenn, bændr ok bæjarmenn, at þeir skyldi gera[2] vâpnatak at því, at dæma með lögum Sigurð jarl ok allan þann flokk til fjandans bæði lífs ok dauðan[3]. En með ákafa ok ústillíngu lýðsins, þá játtuðu því allir; var þetta údæmaverk gert ok fest, svâ sem lög voru til at dæma á þíngum. [Hróaldr prestr lángtala talaði um þetta mál; hann var manna snjallastr, ok kom sú tala mjök í sama stað, ok áðr hafði talat verit[4].

[1]) vinsæld Inga konúngs, *H.* [2]) hafa *H.* [3]) dauða, *H.* [4]) *Frá merkinu v. í H*; Erlíngr veitti um jólin í Túnsbergi, en hann gaf mála þar um kyndilmesso, *b. v. Hk.*

3. Sigurðr jarl fór með (hit) fríðasta lið sitt ofan í Víkina, ok gekk undir hann mart lið fyrir ofríkis sökum, en margir guldu fe. Fór hann svâ víða uppi á landi, kom framm í ýmsum stöðum. Voru þeir sumir í flokkinum, er ser leituðu grിða á laun til Erlíngs, [en þar komu þau annsvör móti, at allir menn, þeir er þess leitaði, skyldi fá lífsgrið, en þeir einir landsvist, er eigi væri í stórsökum við Erlíng[1]; ok er þat spyrja liðsmenn, at menn skyldu eigi landsvist hafa, þá hèlt þat mjök suman flokkinum; þvíat þeir voru margir, er sik vissu at því sanna, at Erlíngi mundu þykkja mjök sakbitnir. Filippus Gyrðarson gekk til sættar við Erlíng, ok fèkk aptr eignir sínar, fór hann heim til búa sinna. Litlu síðar komu þar menn Sigurðar jarls, ok drápu hann. Mörg slög veittu hvárir öðrum í eltíngum ok manna aftökum, ok er þat ekki ritað, sem eigi áttust höfðíngjar við.

4. Þat var á öndverðri föstu at njósn kom Erlíngi, at Sigurðr jarl mundi ætla á fund hans, ok var til hans spurt her ok hvar, stundum nærr en stundum firr meirr[2]. Erlíngr gerði þá njósnir [alla vega[3] frá ser, at hann skyldi varr verða, hvar sem þeir kæmi fram; hann lèt ok hvert kveld blása öllu liði upp ör bænum, ok lágu þeir í safnaði um vetrinn um nætr,

[1]) Frá merkinu v. í H. [2]) v. í H. [3]) Hk; v. í A.

ok var allt skipat liðinu til fylkíngar. Þá kom Erlíngi[1] njósn, at þeir Sigurðr jarl voru skamt þaðan á brott uppi á Re. Erlíngr byrjaði þá ferð sína[2] upp ör bænum, ok hafði með ser allt bæjarfólk, þat er vígt var ok vâpnat, ok svâ kaupmenn, nema 12 menn er eptir voru at gæta bæjar. Hann fór ör bænum týrsdaginn[3] í annarri viku lángaföstu eptir nón, ok hafði hverr (maðr) með ser tveggja dægra vist. Fóru þá um nóttina, ok var þeim seint at koma liði ör bænum. Um einn hest[4] voru 2 menn. Þá er skorat var lið, voru nær 13 hundruð. En er njósn kom móti þeim, var þeim sagt, at Sigurðr jarl var á Re á þeim bæ er Komsnes[5] hèt með 5 hundruð manna. Þá lèt Erlíngr kalla saman liðit, ok sagði þau tíðindi, er hann hafði spurt, en allir eggjuðu at þeir skyldi skunda, ok taka hús á þeim, eðr berjast þegar um nóttina. Erlíngr talaði ok mælti svâ: Þat mun nú þykkja líkligt, at fund vârn Sigurðar jarls muni brátt atbera[6]; eru ok margir menn þeir í þeim flokki, er oss mætti minnisöm vera þeirra handaverk, at þeir drápu Ínga konúng, ok svâ marga vâra vini, sem seint er at telja; gerðu þeir þau mörg verk með fjandakrapti ok níðíngsskap; þvíat þat stendr í lögum vârum ok landsrètt, at eingi maðr hefir svâ fyrirgert

1) *Hk*; önnur, *A*, *H*. 2) *Hk*; *v. í A*, *H*. 3) týssdaginn, *H*. 4) ok einn skjöld, *b. v. Hk*. 5) *I H sèst ekki nema* Ros...; *en Hk hefir* Ramnes. 6) *þannig lagfært fyrir* atberast, *A*; fundr vârr S. j. m. br. atberast, *Hk*.

ser, at eigi heiti þat níðíngsverk eðr morð, ef menn drepast um nætr. Hefir þessi flokkr leitað ser þeirra heilla at tilvísan fjölkunnigra manna, at þeir skyldi um nætr berjast, en eigi undir sólu; hafa þeir ok með [þvílíkri framferð[1] þann sigr vunninn, at stíga yfir höfuð þvílíkum höfðíngjum, sem þeir hafa at jörðu lagt. Nú höfum ver þat optliga (sagt ok) sýnt, hversu afleitir oss sýnist þeirra hættir, er um nætr berjast, skulum ver því heldr hafa hinna höfðíngja dæmi, sem oss eru kunnari, ok betra er eptir at líkja, at berjast um ljósa daga, ok með fylkíngu, en stelast eigi at þeim um nætr; höfum ver lið nógt móti þeim, skulum ver bíða dags, ok halda saman í fylkíngu, ef þeir vilja nökkur áhlaup oss veita. Eptir þat settist liðit niðr; toku sumir sundr heyhjálma nökkura, ok gerðu ser af ból, sumir sátu á skjöldum (sínum), ok biðu svâ lýsíngar[2].

5. Sigurðr jarl hafði svâ fremi frètt til Erlíngs, er hann var nær kominn; stóðu menn hans upp, ok vâpnuðust, ok vissu úgjörla hversu mikit lið Erlíngr hafði, vildu sumir flýja, en sumir bíða. Sigurðr var vitr maðr ok snjallr í máli, en kallaðr ekki mikill tilræðismaðr. Hann var þá fúsari at flýja, ok fèkk hann af því mikit ámæli. En er lýsa tók, fylktu hvârirtveggju liðinu. Sigurðr jarl fylkti fyrir ofan

[1]) *H*; *sèst ekki í A*; þvílíkri framkvæmd, *Hk*. [2]) Svalt var veðr ok vâta (var á) drifa, *b. v. Hk*.

brúna, milli[1] (ok) bæjarins. Þar fèll lítil á, en Erlíngr fylkti öðrum megin árinnar; á bak fylkíng þeirra voru menn á hestum vel vâpnaðir, þeir höfðu konúng með ser. Sigurðar-menn sá þá at liðsmun[2] var mikill, ok töldu þat ráð at leita á skóginn. Sigurðr jarl svarar: þat segi þer, at mer fylgi eingi hugr, nú skal þat reyna, gæti nú hverr sín, at eingi flýi ne fálmi fyrr en ek; ver höfum vígi gott. Látum þá gánga yfir brúna, en er merkit kemr yfir brúna, þá steypumst (ofan) á þá fyrir brekkuna, ok flýi nú eingi frá öðrum. Sigurðr jarl hafði rauðbrúnaðan kyrtil ok rauða skikkju, ok drepit upp skautunum[3], ok fitskúa á fótum. Hann hafði skjöld ok sverð, er bastarðr[4] var kallaðr. Jarl mælti þá: þat veit guð at heldr en þiggja mikit gull, vildi ek ná með bastarði einu höggvi til Erlíngs skakka.

6. Lið Erlíngs vildi gánga framm at brúnni. Hann bað þá fara upp með ánni: er á þessi lítil ok eigi torfær, þar sem slètt er. Var svâ gert. Fylkíngar Sigurðar jarls fóru upp eptir brekkunni gegnt þeim; ok er þraut brekkuna[5], ok gott var yfir ána, þá mælti Erlíngr, at þeir skyldi sýngja *pater noster*, ok biðja at þeir hefði gagn er betr gegndi. Þeir súngu þá [*kirie-eleison*, ok börðu vâpnum[6] á skjöldu, en

1) árinnar, *b. v. Hk.* 2) *þannig A*; liðsmunur, *H.* 3) blöðunum, *H.* 4) bastharðr, *H.* 5) *Hk*; brúna, *A*, *H.* 6) *sèst ekki í H.*

við þann gný flýðu[1] 3hundruð manna [af liði Erlíngs[2]. Gekk þá Erlíngr, ok hans menn yfir ána, en jarls menn æptu heróp, en þeim brást framhlaupit fyrir brekkuna á fylkíng Erlíngs, tókst orrostan á framanverðri brekkuni. Voru fyrst spjótalög, en síðan höggorrosta, ok fór á hæl jarls-merki, svá at Erlíngr ok hans menn komust upp á brekkuna. Varð þá skömm orrosta, áðr jarls-menn flýðu á skóginn. Þá var Sigurðr jarl eptir, ok báðu menn hann flýja. Hann svarar: framm nú, meðan ver megum. Þeir hjuggu þá til beggja handa, ok fèll þar Sigurðr jarl ok Jón Sveinsson ok 60 manna. Þeir Erlíngr lètu fátt manna, ok ráku flóttann at skóginum; þar stöðvaði Erlíngr liðit, ok hvarf aptr. Hann kom þar at, er þrælar konúngs vildu draga klæði af Sigurði, ok var hann eigi eyrindr. Hann hafði fólgit sverð sitt í umgerð, ok lá hjá honum. Erlíngr tók þat upp, ok laust með þrælana, ok bað þá brott skríða. Eptir þat hvarf Erlíngr aptr, ok settist í Túnsbergi. Sjau nóttum síðarr en jarl fèll [tóko Erlíngs menn Eindriða únga[3], ok var hann drepinn ok öll hans skipshöfn[4].

7. Markús af Skógi ok Sigurðr fóstri hans rèðu[5] ofan í Víkina, er vâraði, ok fengu ser þar skip. En ér Erlíngr spurði þat, þá fór

---

1) *flýði, A.* 2) *v. í H, en finst í Hk.* 3) *þannig Hk*; tók Erlíngr menn (mann, *H*) Einars únga, *A*, *H*. 4) skipsögn, *Hk.* 5) rèðust, *H.*

hann austr eptir þeim, ok hittust þeir í Konúngahellu; flýðu þeir Markús upp í eyna Hísíng, dreif þar ofan landsfólk, Hísíngsbúar, ok gengu í flokkinn[1] með þeim Markúsi. Þeir Erlíngr reru at landi, en Markússmenn skutu á þá. Þá mælti Erlíngr við sína menn: tökum skip þeirra, en gaungum ekki upp at berjast við landherr þenna. Hísíngsbúar eru illir heimsóknar, [menn harðir[2] ok úvitrir; munu þeir hafa litla stund flokk nær ser, þvíat Hísíng er lítit land. Var svâ gert, at þeir tóku skipin, ok fluttu yfir til Konúngahellu. Markús ok hans lið fór upp á Markir, höfðu þá hvârir njósnir til annarra. Erlíngr hafði fjölmenni mikit, ok nefndi þar lið af heruðum; veittu þá hvârigir[3] öðrum árásir.

8. Eysteinn, son Erlends hímalda, var kosínn til erkibiskups eptir Jón Birgisson. Eysteinn var vígðr á sama ári ok Íngi konúngr fèll. En er Eysteinn erkibiskup kom til stóls, var hann vel þokkaðr öllu landsfólki. Hann var maðr ættstórr ok skörúngr mikill; tóku Þrændir feginsamliga við honum, þvíat flest stórmenni í Þrændalögum var bundit í frændsemi eðr [nökkurum teingdum[4] við hann, en allir fullkomnir í vináttu. Erkibiskup hóf þá málaleitan við bændr, talaði fyrst um fjárþurft staðarins, ok þat með hversu mikla uppreist staðrinn þyrfti at hafa, ef hann skyldi þá vera þeim mun sæmi-

1) fylkíng, *Hk.* 2) *þannig H, sèst ekki í A.* 3) hvârir, *Hk.* 4) sifjum, *H.*

ligar haldinn en áðr, sem þá var hann tignari en fyrr, er þar var erkistóll settr. Hann beiddi þess bændr, at þeir skyldi veita honum silfrmetinn eyri í sinn sakareyri[1], en áðr hafði hann sakmetinn eyri, sem gekk í konúngs sakeyri[2], en þessa auralags er helmíngsmunr, at meiri er silfrmetinn eyrir, sem hann vildi hafa. En við styrk frænda erkibiskups ok vina, en framkæmd hans sjálfs, þá gekst þetta við, ok var dæmt at lögum um öll þrændalög, ok þetta gekst við um öll þau fylki, er í hans biskupsríki[3] stóðu.

9. Sigurðr ok Markus, þá er þeir höfðu látið skipin í Elfi, sá þeir at þeir fengu ekki fáng af Erlíngi; þá snerust þeir til Upplanda, ok fóru svâ hit efra norðr til þrándheims, var þeim þar vel fagnat; var Sigurðr þar til konúngs tekinn á Eyraþíngi, rèðust þar til floksins margir góðra manna synir, ok rèðu ser þá til skipa [mjök skjótliga[4]. Fóru þeir er sumraði suðr á Mæri, ok tóku allar konúngstekjur (hvar sem) þeir fóru. þessir voru í Björgyn lendir menn til landvarnar: Nikolás Sigurðarson, Nökkvi Pálsson[5], ok enn sveitarhöfðíngi[6] þórólfr dryllr, þorbjörn gjallkeri ok margir aðrir. þeir Markús fóru norðan[7], ok spurðu at Erlíngsmenn höfðu fjölment í Björgyn; sigldu þeir

[1]) sakeyri, *H*, *Hk*. [2]) *H*, *Hk*; *sèst ekki í A*. [3]) erchibiskupsríki, *H*, *Hk* [4]) ok bjuggust skyndiliga, *H*, *Hk*. [5]) *H*; *sèst ekki í A*. [6]) fleiri sveitarhöfðíngjar, *Hk*. [7]) norðr, *H*.

útleið suðr um; ok höfðu menn at máli, at þat sumar höfðu Markússmenn byr, hvert er þeir vildu (sigla).

10. En Erlíngr skakki, þegar hann spurði at þeir Markus höfðu norðan[1] snúit, þá hèlt hann norðr í Víkina, ok dró at ser lið, varð hann brátt fjölmennr, ok hafði skip stór ok mörg. En er hann sótti norðr í Víkina, fèkk hann andviðri, ok lá leingi her ok hvar í höfnum þat sumar. En er þeir Markús komu austr[2] á Lista, þá spurðu þeir at Erlíngr hafði her úvígjan í Víkinni, vendu þeir þá norðr aptr; en er þeir komu á Hörðaland, þá ætluðu þeir til Björgynjar, ok er þeir komu fyrir bæinn, reru þeir Nikolás innan í móti þeim, ok höfðu lið miklu meira ok skip stærri. Sá þeir Markús þá eingan annan sinn kost en róa suðr undan; stefndu sumir til hafs út, sumir suðr í Sund, sumir inn í Fjörðu, en Markús ok sumt lið með honum hlupu upp í ey þeirri er Skarpa heitir. Þeir Nikolás tóku skip þeirra, ok gáfu grið Jóni Hallkelssyni, ok nökkurum mönnum öðrum, en drápu flest þat er þeir náðu. Nökkurum dögum síðar fann Eindriði heiðafylja[3] þá Sigurð ok Markús, voru þeir fluttir til Björgynjar, var Sigurðr höggvinn út fyrir Grafdal, en Markús var heingdr við annan mann í Hvarfs-

[1]) *Hk*; norðr *A*, *H*. [2]) norðr, *H*. [3]) *H*; heiðafýla, *Hk*; *sèst ekki í A*.

nesi; þat var Mikals-messu[1]. Dreifðist þá flokkr sá er þeim hafði fylgt.

11. Friðrekr kæna, Bjarni hinn illi, Önundr Símonarson, Örnólfr skorpa[2]: þeir höfðu róit á haf út með nökkurum skipum, ok hèldu hit ytra austr fyrir land; en hvar sem þeir komu við land, rændu þeir ok drápu vini Erlíngs. En er Erlíngr spurði dráp þeirra Markúss, þá gaf hann heimleyfi lendum mönnum ok leiðángrsliði, en hann sjálfr hèlt þá sínu liði austr yfir Foldina, þvíat hann spurði þar til Markussmanna. Erlíngr hèlt til Konúngahellu, ok dvaldist þar um haustið. Á fyrstu viku vetrar fór hann út í eyna Hísíng með lið mikit, ok krafði þar þíngs. Hísíngsbúar komu ofan, ok hèldu þíng. Erlíngr bar sakir á hendr þeim, um þat er þeir höfðu hlaupit í flokk með [þeim Markúsi[3], ok fylkt liði í mot hánum. Özur hèt sá maðr, er ríkastr var af bóndum, ok talaði af þeirra hendi; var þar leingi þíngat, en at lyktum festu bændr í dóm Erlíngs. Hann gerði þeim stefnulag á viku fresti í bænum, ok nefndi til 15 bændr at koma þar; en er þeir komu, dæmdi Erlíngr á hendr þeim, at gjalda 3 hundruð nauta, fóru bændr heim, ok undu illa sínum hluta. Litlu síðar lagði ís á ána, ok fraus inni skip Erlíngs; þá hèldu bændr gjaldinu, ok lágu í safnaði um hríð. Erlíngr

1) Nikolássmesso, *H.* 2) *H*, *Hk*; í Skorpa, *A*, *hèr.* 3) *H*; Markúsi ok Sigurði, *Hk*; honum, *A.*

bjó þar til jólaveizlu, en Hísíngsbúar höfðu samburðaröl, ok hèldu sveit um jólin. Um nóttina eptir hinn fimta dag jóla fór Erlíngr út í eyna, ok tók hús á Özuri, ok brendi hann inni, ok alls drap hann 10tigi manna, ok brendi 3 bæi; fór síðan aptr í Konúngahellu. Eptir þat komu bændr til hans, ok guldu þá gjaldit.

12. Erlíngr skakki *bjóst þegar* um vârit, er hann mátti flota[1] skipum sínum fyrir ís, ör Konúngahellu. Hann spurði at þeir herjuðu norðr í Víkinni, er fyrr höfðu verit [Markússmenn[2]. Hann hèlt njósnum til um farir þeirra, ok hitti þá, þar er þeir lágu í höfn nökkurri. Önundr Símonarson ok Örnólfr skorpa komust undan, en Friðrekr kæna ok Bjarni hinn illi vurðu handteknir, ok drepit mart af sveitúngum þeirra. Erlíngr lèt binda Friðrek við akkeri, ok kasta fyrir borð, ok var Erlíngr af því verki hit mesta úþokkaðr í Þrændalögum, þvíat Friðrekr átti þar hina stærstu ætt. Bjarna lèt Erlíngr heingja, ok mælti hann þá, sem hann var vanr, hin[3] mestu orðskrípi, áðr hann var heingdr. Svâ segir Þorbjörn (Skakka-)skáld:

> Urð dro[4] austanfjarðar
> Erlíngr[5] at víkíngum,
> mein fèkk margr af Kænu[6]
> maðr, er hann fór þaðra:
> færðr var[7] fleinn meðal herða

---

[1]) fleyta, *Hk.* [2]) *H*, *Hk*; *sèst ekki í A.* [3]) enu, *H.* [4]) þar, *H.* [5]) *H*, *Hk*, *bundit í A.* [6]) kvænu, *H.* [7]) *v. í H.*

Friðreks, ofar nökkvi[1]
skolldi óþörf[2] öldu[3]
illgjarn við tre Bjarni.

Önundr ok Örnólfr ok þær sveitir, sem undan höfðu komizt, flýðu til Danmerkr, en voru stundum í Gautlandi eðr Víkinni.

13. Erlíngr hèlt síðan til Túnbergs, ok dvaldist þar leingi um vârit; en er sumraði hèlt hann norðr til Björgynjar. Þar var þá allmikit fjölmenni. Þar var þá Stephanus legáti af Róma ok Eysteinn erkibiskup ok allir[4] biskupar innlenzkir. Þar var ok Brandr biskup, er þá var vígðr til Íslands. Þar var Jón Loptsson, dótturson Magnúss konúngs berfætts. Þá hafði Magnús konúngr ok aðrir frændr Jóns tekit við frændsemi hans. Eysteinn erkibiskup ok Erlíngr voru opt á tali ok einmælum, ok eitt sinn var þat í ræðu þeirra, at Erlíngr spurði: er þat með sannindum, herra! er menn segja at þer hafit aukit auralög[5] um sakeyri yðvarn við bændr norðr í landit? En erkibiskup svarar: þat er víst satt at bændr hafa mer þat veitt, at auka auralag um sakeyri minn; hafa þeir þat gert at sjálfræði sínu, en með eingum pyndíngum[6], aukit í því guðs dýrð ok auðæfi staðar vârs. Erlíngr mælti: hvârt eru þat lög, herra! hins helga Ólafs (konúngs), eðr hafi þer nökkuru frekara tekit þetta mál, en svâ sem

[1]) nokkvi, *Hk.* [2]) á þorp, *H*; óþarfr, *Hk.* [3]) öldum, *Hk.* [4]) aðrir, *Hk.* [5]) auralag, *Hk.* [6]) pyntíngum, *H.*

ritað er í lögbókinni. Erkibiskup svarar: svâ mun hinn helgi Ólafr konúngr lögin hafa sett, sem hann fèkk þá jáorð ok samþykki alþýðu til, en ekki finst þat í hans[1] lögum, at bannat se at auka guðsrètt. Erlíngr svarar: vili þer auka yðvarn rètt, þá mundu[2] þer vilja styrkja oss til þess, at ver aukim jafnmiklu konúngsrèttinn. Erkibiskup svarar: aukit hefir þú nú áðr at nógu nafn ok ríki sonar þíns; en ef ek hefi aflaga tekit auralögin af Þrændum, þá ætla ek [stærrum bera[3] hin lagabrotin, er[4] sá er konúngr yfir landi, sem eigi er konúngsson; eru þat hvârki lög ne dæmi her í landi. Erlíngr mælti: þá er Magnús var til konúngs tekinn yfir Noregs ríki, var þat gert með yðvarri vitand[5] ok ráði, ok svâ annarra biskupa her í landi. Erkibiskup svarar: því hèzt þú þá, Erlíngr, ef[6] ver samþyktim[7] með þer, at Magnús væri til konúngs tekinn, at þú skyldir styrkja guðsrètt í öllum stöðum með öllum krafti þínum. Erlíngr (svarar): játta ek því, at ek hefi heitið at halda [guðs lög[8] ok landsins,[9] með öllum mínum styrk ok konúngs. Nú se ek her betra (ráð) til, en hvârr okkar kenni öðrum brigðmæli; höldum heldr öll einkamál vár; styrki þer til ríkis Magnús konúng, svâ sem þer hafit heitið, en ek

[1]) *H, Hk*; guðs, *A*. [2]) munu, *H, Hk*. [3]) stærra afbera, *Hk*. [4]) *H, Hk*; en, *A*. [5]) *þannig A, H*. [6]) er, *H*. [7]) samþykktum, *H, Hk*. [8]) ok styrkja guðs boðorð, *Hk*. [9]) lög *b. v. Hk*.

skal styrkja yðvart ríki til allra farsæligra hluta. Fór þá öll ræða mjúkliga með þeim. Þá mælti Erlíngr: ef Magnús er eigi svâ til konúngs tekinn, sem forn siðr er her í landi, þá megit þer af guðs[1] valdi gefa honum konúngsvígslu, svâ sem guðs lög eru til, [at smyrja konúng til veldis[2]. En þótt ek se eigi konúngr eðr af konúnga ætt kominn, þá hafa þeir konúngar nú verit flestir í vâru minni, er eigi vissu jafnvel til laga ok landsrèttar sem ek; en móðir Magnúss konúngs er konúngsdóttir ok drotníngar skilfenginnar[3], því er Magnús [drotníngarson[4] ok eiginkonu. En ef þer vilit gefa honum konúngsvígslu, þá má eingi maðr taka hann síðan af konúngdóminum með rèttu. Eigi var Villhjálmr bastarðr konúngsson, ok var hann vígðr ok kórónaðr til konúngs yfir Einglandi, ok hefir síðan haldizt konúngdómr í hans ætt á Einglandi, ok allir verit kórónaðir. Eigi var (ok) Sveinn Úlfsson í Danmörku konúngsson, ok var hann þar þó kórónaðr konúngr, ok síðan synir hans ok hverr eptir annan þeirra frænda kórónaðir konúngar. Nú er her í landi erkistóll, er þat mikill vegr ok tign lands vârs; aukum ver enn þá með góðum hlutum tign landsins, höfum konúng kórónaðan eigi siðr en Enskir menn eðr Danir. Síðan töluðu þeir erkibiskup ok Erlíngr optliga um þetta mál, ok allt sáttgjarnliga. Því næst

1) *yðro, Hk.* 2) *v. í H.* 3) skilfengin, *Hk.* 4) *sèst ekki í H.*

bar Erlíngr þetta mál fyrir legátann, ok fèkk auðvelliga snúit honum til samþykkis við sik; átti Erlíngr þá stefnur við lýðbiskupa ok aðra kennimenn, ok bar þetta mál fyrir þá, en allir svöruðu á eina lund, sögðu þat sitt ráð sem erkibiskup vildi vera láta; en fýstu at vígslan færi framm, þegar þeir fundu at erkibiskup vildi svâ.

14. Erlíngr skakki lèt búa í konúngsgarði til veizlu mikillar, ok var höllin mikla tjölduð öll pellum ok bekkklæðum[1], ok búin með hinum mesta kostnaði; var þar veitt hirðinni ok öllum handgengnum mönnum. Þar voru margir höfðíngjar ok fjöldi boðsmanna. Magnús tók þá konúngsvígslu af Eysteini erkibiskupi. Þar voru at vígslunni 5 aðrir biskupar, legátinn ok fjöldi kennimanna. Erlíngr skakki, ok með honum 12[2] lendir menn, [svörðu lagaeiðinn[3] með konúngi, ok þann dag, er vígslan var, hafði konúngr ok Erlíngr erkibiskup í boði sínu, Stephanum legáta ok alla biskupa, ok vàr sú veizla hin vegligsta, gáfu þeir feðgar[4] þar margar stórgjafir. Þá var Magnús konúngr 8 vetra; 3 vetr hafði hann áðr konúngr verit.

15. Valdimar Danakonúngr hafði þá spurt þau tíðindi af Noregi, at þar var þá Magnús einn konúngr, ok þá var eydt flokkum öllum (öðrum) þar í landi. Þá sendi hann menn sína með brèf-

[1]) bakklæðom, *Hk.* [2]) aðrir, *b. v. H.* [3]) sóru laghaeiða, *H.* [4]) *Hk*; þegar, *A.*

um til Magnúss konúngs ok þeirra Erlíngs, minti þá á einkamál þau, sem Erlíngr hafði bundit við Valdimar konúng, svâ sem fyrr var ritað, at hann skyldi eignast Víkina austan til Rygjarbits, ef Magnús vyrði einvaldskonúngr í Noregi. Sendimenn fóru, ok sýndu Erlíngi brèf Danakonúngs, ok er Erlíngr skildi tilkall, þat er Danakonúngr hafði í Noregi, þá bar hann þetta fyrir aðra menn, þá er hann skaut ráðum undir; en þeir sögðu allir eitt, at aldri skyldi Dönum miðla neitt[1] af Noregi; þvíat menn sögðu, sem satt var, at sú öld hafði verit verst þar í landi, er Danir höfðu vald yfir Noregi. Sendimenn Danakonúngs töluðu sitt mál við Erlíng, ok beiddu hann örskurða, en Erlíngr bað þá fara með ser í Vík austr um haustið, sagði at hann myndi þá veita örskurð, er hann hefði hitta þá menn í Víkinni, sem vitrastir voru. Fór Erlíngr um haustið austr í Vík, ok dvaldist í Túnsbergi, gerði menn yfir til Borgar, ok lèt þar stefna fjögurra fylkna þíng í Borg. Fór þá Erlíngr þagat með liði sínu. En er þíngit var sett, þá talaði Erlíngr, ok sagði frá því, hver ráðagerð hafði verit staðfest með þeim Danakonúngi, þá er þeir Erlíngr höfðu hafit flokk þann hit fyrsta sinn: vil ek, sagði hann, halda öll einkamál, þau er ver gerðum þá, ef þat er yðvart samþykki, bóndanna, at þjóna Danakonúngi heldr en þessum konúngi, sem her er vígðr ok krúnaðr[2] til lands. Bændr

---

[1]) *Hk*; *v. í A, H.* [2]) A; kórónaðr, *H*, *Hk.*

svöruðu máli Erlíngs, ok sögðu svâ: fyrir eingan mun viljum ver gerast menn Danakonúngs, meðan einn vâr er á lífi, Víkverjanna. Geystist þá at múgrinn allr með ópi ok kalli, báðu Erlíng halda eiða sína, er hann hafði svarit öllu landsfólkinu, at verja land sonar síns, en sögðust allir skyldu fylgja honum; sleit svâ því þíngi. Síðan fóru sendimenn Danakonúngs heim suðr til Danmerkr, ok sögðu sín eyrindi slík sem voru. Veittu Danir Erlíngi mikit ámæli, ok öllum Norðmönnum, sögðu at þeir voru aldri reyndir at góðu, ok fóru þau orð um, at Danakonúngr myndi eptir um vârit hafa úti her sinn, ok herja í Noreg. Erlíngr fór um haustið norðr til Björgynjar, sat þar um vetrinn, ok gaf þar mála með Magnúsi konúngi.

16. Vetr þann fóru nökkurir danskir menn um Upplönd, ok sögðu þat, sem margtítt er, at þeir skyldu fara til hins heilaga Ólafs konúngs til vöku. En er þeir komu í Þrándheim, þá hittu þeir marga ríkismenn, ok sögðu eyrindi sín, at Danakonúngr hafði sent þá, at leita ser vináttu til þeirra ok viðtöku[1], ef hann kæmi í land, en hann hèt at gefa þeim bæði ríki ok fe. Þessi orðsendíngu fylgdi brèf ok innsigli Danakonúngs, ok þat með at Þrændir skyldu senda í móti sín brèf ok innsigli. Þeir gerðu svâ, ok urpust[2] flestir vel við orðsendíng Danakonúngs. Sendimenn fóru austr aptr, er áleið lángaföstu.

[1]) vidr töko, *H.* [2]) urðu, *H.*

Erlíngr sat í Björgyn, en er vâraði, sögðu vinir Erlíngs honum pata þann, sem þeir höfðu spurt af byrðíngsmönnum, er komnir voru norðan ör Þrándheimi, at Þrændir væri berir í fjandskap við hann, ok þeir lýstu því á þíngum sínum, ef Erlíngr kæmi í Þrándheim, at hann skyldi aldri komast út um Agðanes með fjörvi. Erlíngr sagði at slíkt var upplost ok hegómi. Erlíngr lýsti því at hann myndi fara suðr á Barheim[1] til gagndaga-þíngs[2], ok lèt búa snekkju tvítögsessu, ok með skútu 15sessu, ok enn vistabyrðíng. En er skipin voru búin, þá lögðust á sunnanveðr hvöss. Þriðjadaginn í gagndögum lèt Erlíngr blása liði sínu til skipa, en menn voru trauðir ör bænum, þótti þeim íllt at róa[3] andróða. Erlíngr lagði út í Biskupshöfn, þá mælti hann: illa kunnit þer at róa andróða[4], takit nú þá ok reisit viðrnar[5], dragit síðan seglin, ok látum gánga norðr skipin. Þeir gerðu svâ, sigldu norðr um daginn ok nóttina. Miðvikudaginn at kveldi sigldu þeir inn um Agðanes, var þá fyrir þeim samflot nökkut, byrðíngar ok róðrarferjur ok skútur. Þat var vökulið, ok fór inn til bæjar, sumt fyrir þeim en sumt eptir, gáfu bæjarmenn fyrir þá sök eingan gaum at um lángskips seglin.

17. Erlíngr kom þann tíma til bæjarins, er saungst óttusaungr uppi at Kristskirkju. Þeir

1) Arnarheim, *H*; Unarheim, *Hk*. 2) *Hk*; gángandaþings, *A*. 3) við, *b. v. H.* 4) andróðr, *H*. 5) viðona, *Hk*.

Erlíngr hlupu í bæinn, var þeim sagt at Álfr hroði, son Óttars birtíngs, lendr maðr, sat þá enn ok drakk með sveit sína. Erlíngr veitti þeim atgaungu, var Álfr drepinn ok flest öll sveit hans; fátt fèll annarra manna í bænum, þvíat flest hafði gengit til kirkju. Þetta var um nóttina fyrir uppstigníngardag. Þegar um morgininn lèt Erlíngr blása öllu liði út á Eyrar til þíngs, ok á því þíngi bar Erlíngr sakir á Þrændi, ok kendi þeim landráð við konúng ok sik, nefndi hann til þess Bárð standala ok Pál Andresson [ok Taza-Bárð[1], hann hafði þá bæjarbygð, ok enn mjök marga aðra. Þeir svöruðu ok færðu sik undan sökum. Þá stóð upp kapalín[2] Erlíngs, ok hèlt upp mörgum brefum með innsiglum, ok spurði ef þeir kendi þar innsigli sín, þau er þeir höfðu sent um vârit Danakonúngi; voru þá lesin upp brefin. Þar voru ok þeir hinir dönsku menn með Erlíngi, er með brefin höfðu farit um vetrinn; hafði Erlíngr þá til þess fengit, sem þeir gerðu; at segja hvat hverr hafði mælt: Svâ mæltir þú, Taza-Bárðr[3], ok barðir á brjóstið: „ör þessu brjósti komu af upphafi öll þessi ráð." Bárðr svarar: ærr var ek þá, herra minn! er ek mælti slíkt. Vurðu þá eingi faung önnur, en festa [Erlíngi sinn dóm[4] á öllu því máli. Tók hann þar úgrynni fjár af mörgum manni, en lagði alla úgilda,

---

1) *v. í H*; Razabárð, *Hk.* 2) *sèst ekki í H.* 3) *þannig A, H*; Razabárðr, *Hk.* 4) allt óskorat dóm Erlings, *Hk.*

þá sem drepnir voru. Fór hann síðan suðr aptr til Björgynjar.

18. Valdimar konúngr hafði þat vâr úti her mikinn í Danmörk, ok hèlt liði því norðr í Víkina. En er hann kom í ríki Noregs konúngs, höfðu bændr þar fyrir[1] múg manns. Konúngr fór friðsamliga ok spakliga, en hvar sem Danir fóru við meginland, þá skutu landsmenn á þá, ok þótt einn eðr 2 væri, ok þótti Dönum þat fullr illvili landsmanna. En er konúngr kom til Túnbergs, þá stefndi hann þar þíng á Haugum, en ekki sótti til ör heruðum. Þá talaði Danakonúngr ok mælti svâ: auðsætt er um landsfólk þetta, at allir standa oss at móti; eigum ver nú 2 kosti fyrir höndum, þann annan at fara herskildi yfir landit, ok eira eingu, hvârki fe ne mönnum, hinn er annarr kostr, at fara suðr aptr við svâ búit; ok er þat heldr með mínu skapi, at fara með her í Austrveg til heiðinna landa, er nóg eru fyrir, en drepa eigi her kristit fólk, þótt þeir hefði makligleika til þess. En allir aðrir voru fúsir at herja, en þó rèð konúngr, at þeir fóru suðr aptr, ok var þá allviða rænt um úteyjar, ok hvervitna þar sem konúngr var eigi nær. Fóru þeir suðr aptr til Danmerkr, ok varð ekki at því sinni til tíðinda.

19. Erlíngr spurði at Danakonúngr var kominn í Víkina, þá bauð hann út almenníng um allt land at liði ok skipum, ok varð þat hit mesta

[1]) safnað ok, *b. v. Hk.*

herhlaup, hèlt hann her þeim austr með landi. En er hann kom til Líðandisness, spurði hann at Danaher var farinn suðr aptr til Danmerkr, ok hafði víða rænt í Víkinni. Þá gaf Erlíngr heimleyfi öllu leiðángrsliði, en hann sjálfr ok nökkurir lendir menn sigldu með mjök mörgum skipum suðr eptir Dönum til Jótlands. En er þeir komu þar sem heitir Dýrsá, þá lágu þar fyrir Danir, komnir ör leiðángri, ok höfðu skip mörg. Erlíngr lagði at þeim, ok barðist við þá; Danir flýðu brott[1], ok lètu mart manna; en þeir Erlíngr tóku[2] skipin, ok svâ kaupstaðinn, ok fengu þar allmikit fe, ok fóru síðan aptr norðr til Noregs; var þá úfriðr um hríð milli Noregs ok Danmerkr.

20. Kristín konúngsdóttir fór um haustið suðr til Danmerkr á fund Valdimars konúngs frænda síns; þau voru systrabörn; fagnaði Valdimar konúngr henni forkunnar vel, ok fèkk henni veizlur þar með ser, svâ at hon fèkk þar vel haldit sína menn; var hon opt á tali við konúng, ok var hann allblíðr til hennar. En eptir um vârit sendi Kristín menn til Erlíngs, ok bað hann fara á fund Danakonúngs, ok sættast við hann. Um sumarit var Erlíngr í Víkinni. Hann bjó þá eitt lángskip, ok skipaði hinu fríðasta liði sínu. Síðan sigldi hann yfir til Jótlands; þá spurði hann at Valdimar konúngr var í Randarósi; sigldi Erlíngr þagat, ok kom til bæjarins þann tíma, er

1) brátt, *Hk.* 2) rænlu, *Hk.*

flest fólk mataðist. En er þeir höfðu[1] tjaldat, ok fest skip sitt, þá gekk Erlíngr upp við 12ta mann, allir brynjaðir, höfðu höttu yfir hjálmum, en sverð undir mötlum, gengu til konúngsherbergis. Þá fóru sendíngar inn, ok var opin hurð; gengu þeir Erlíngr þegar inn fyrir hásætið. Erlíngr mælti: grið viljum ver hafa, herra konúngr, bæði her ok til heimferðar. Konúngr leit við honum ok mælti: er þú þar, Erlíngr! Hann svarar: Erlíngr er her, ok seg oss skjótt, hvårt ver skulum grið fá. Þar voru inni 80 konúngsmanna, ok allir våpnlausir. Konúngr mælti: grið skulu þer hafa, Erlíngr! sem þú beiðir, á eingum manni níðumst ek, ef á minn fund kemr. Þá kysti Erlíngr á hönd konúngi, gekk út síðan, ok til skips síns. Dvaldist hann þar um hríð með konúngi, töluðu þeir um sættargerð milli[2] landanna, ok kom þat ásamt, at Erlíngr settist þar í gislíng með Danakonúngi, en Ásbjörn snara, bróðir Absalons erkibiskups, fór í móti til Noregs í gislíng.

21. Þat var eitt sinn er þeir töluðu, Valdimar konúngr ok Erlíngr, Erlíngr mælti: þat þykki mer líkast til sætta, at þer hafit þat allt af Noregi, sem yðr var heitið í einkamálum várum; en ef svå er, hvern höfðíngja vili þer þaryfir setja, hvårt nökkut danskan? Nei, sagði konúngr. Eingi Danahöfðíngja mun vilja fara í

1) umbúizt eptir því sem Erlíngr vildi, *b. v. Hk.* 2) sín ok, *b. v. Hk.*

Noreg, ok fást þar við hart fólk ok óhlýðit, en hafa her áðr ærit gott[1]. Ek fór fyrir þá sök higat, segir Erlíngr, at ek vil fyrir eingan mun missa yðvarrar vináttu, en higat til Danmerkr hafa fyrr farit menn af Noregi, Hákon Ívarsson ok Finnr Árnason, ok gerði Sveinn konúngr frændi yðvar hvârntveggja þeirra jarl sinn. Eigi var ek nú minni valdsmaðr í Noregi, en þeir voru þá, ok gaf konúngr þeim yfirsókn á Hallandi, því ríki sem hann átti áðr. Nú þykki mer þer vel mega unna mer þess lèns, ef ek gerumst yðvar maðr handgenginn, at ek haldi af yðr þetta ríki; svâ enn Magnús son minn má mer eigi þess synja, en ek vil vera yðr skeyttr ok skyldr til allrar þjónustu, þeirrar er því nafni byrjar. Slíkt talaði Erlíngr ok annat þessu líkt, ok kom svâ at lyktum, at Erlíngr gerðist handgenginn 1170
Valdimari konúngi, en konúngr leiddi Erlíng til sætis, ok gaf honum jarldóm, ok Víkina til lèns ok yfirsóknar. Þá fór Erlíngr heim til Noregs, ok var síðan jarl, meðan hann lifði, ok [hèlzt í sætt[2] við Danakonúng jafnan síðan. Erlíngr átti 4 friðlusonu, hèt einn Hreiðar, annarr Ögmundr; þeir voru ser um móður, 3ði Finnr, 4ði Sigurðr; þeirra móðir var Ása hin ljósa; þeir voru ýngri. [Kristín konúngsdóttir ok Erlíngr áttu dóttur, er hèt Ragnhildr, hon var gipt Jóni Þórbergssyni af Rauðabergi[3]. Kristín konúngsdóttir fór af

1) *þannig H, Hk; með yðr, þykir ofaukit í A.* 2) hèlt sætt, *H;* hèlzt þá vel sætt, *Hk.* 3) *A, Hk; v. í H.*

landi með þeim manni er Grímr rusli hèt; þau fóru út í Miklagarð, ok voru þar um hríð, ok áttu þau börn nökkur.

22. Ólafr, son Guðbrands Skafhøgssonar, [Ólafr var son[1] Maríu, dóttur Eysteins konúngs Magnússonar, hann var á fóstri með Sigurði Agnhött á Upplöndum. En er Erlíngr var í Danmörku, þá hófu þeir fóstrar flokk, Ólafr ok Sigurðr, ok rèðust til margir Upplendíngar; var þar Ólafr til konúngs tekinn. Þeir fóru með flokkinn um Upplönd, ok stundum ofan í Víkina, stundum austr á Markir; ekki voru þeir á skipum. En er Erlíngr spurði til floks þess, þá fór hann í Víkina, ok var á skipum um sumarit, ok um haustið í Osló, ok var þar um jólin, ok veitti. Hann lèt halda njósnum uppi á landi um flokkinn, ok fór sjálfr upp á land at leita þeirra, ok Ormr konúngsbróðir með honum. En er þeir komu til vatns eins[2], tóku þeir öll skip er þar voru.

23. Prestr sá er þar saung, sem heitir á Ryðjökli, þat er við vatnið, bauð jarli til veizlu, [ok at þeir skyldi þar koma at kyndilmessu. Jarl hèt förinni[3], þótti þar gott at hafa tíðir, [reru þeir þagat yfir vatnit um kveldit fyrir[4] messudaginn. En prestr sá hafði annat ráð með höndum; hann sendi menn, at bera njósn þeim Ólafi um farir jarls. Hann gaf þeim Erlíngi styrkan drykk um kveldit, ok lèt mjök drekka. En er

[1]) ok, *H.* [2]) þess, er Rönd heitir, *H*; þess er heitir Vænir í Svíaríki, *Hk.* [3]) *v. í H.* [4]) *v. í H.*

jarl fór at sofa, þá voru rekkjur þeirra búnar í veizlustofunni. En er þeir höfðu litla hríð sofit, vaknaði jarl ok spurði, ef þá myndi vera óttusaungsmál. Prestr sagði at lítið var af nótt, bað þá sofa í ró. Jarl mælti: mart dreymir mik í nótt, ok illa sef ek. Hann sofnaði síðan annat sinn, ok vaknaði. Jarl bað þá prest uppstanda, ok sýngja tíðir. Prestr bað jarl sofa, sagði at þá var mið nótt; lagðist jarl þá en niðr, ok svaf litla hríð. Hann bað menn klæðast, ok hljóp upp; þeir gerðu svâ ok tóku vâpn sín, gengu til kirkju, ok lögðu úti vâpnin, meðan prestr saung óttusaung.

24. Ólafi kom njósnin um kveldit, en þeir gengu um nóttina 6 rastir, ok þótti mönnum þat furðu mikit farit; þeir komu á Ryðjökul um óttusaung. Niðamyrkr var sem mest; þeir Ólafr gengu at stofunni, ok æptu heróp, drápu þarinni nökkura jarlsmenn, er eigi höfðu gengit til óttusaungs. En er þeir heyrðu ópit, hljóp Erlíngr til vâpna, ok stefndu þeir ofan til skipanna. Þeir Ólafr mættu þeim við garð nökkurn, varð þar bardagi, óku þeir Erlíngr undan ofan með garðinum, ok hlífði garðrinn þeim. Þeir höfðu lið miklu minna, fèll mart af þeim, ok mart varð sárt. Þat hjálpaði þeim mest, at Ólafs-menn kendu þá eigi, svâ var myrkt, en Erlíngs-menn leituðu í ákafa til skipanna. Þar fèll Ari Þorgeirsson, faðir Guðmundar biskups, ok mart annarra hirðmanna varð sárt af Erlíngs-mönnum.

Erlíngr varð sárr á vinstri síðu; ok segja sumir menn, at hann hafi sjálfr dregit sverðit á sik, þá er hann brá. Ormr var ok mjök sárr, ok nauðuliga komust þeir á skipin, ok lètu þegar fra landi. Þat var kallat at þeir Ólafr bæri hina mestu úhamíngju til fundarins, svâ sem þeir Erlíngr voru framseldir, ef þeir Ólafr hefði meirum ráðum framfarit. Síðan kölluðu menn hann Ólaf úgæfu, en sumir kölluðu þá Hettusveina. Fóru þeir með flokk þann, enn sem áðr, uppi um land[1], en Erlíngr jarl fór út til skipa sinna í Víkina, ok var eptir um sumarit í Víkinni, en þeir Ólafr á Upplöndum, en stundum austr á Mörkum; höfðu þeir flokk þann svâ annan vetr.

25. En eptir um vârit foru þeir Ólafr út í Víkina, tóku konúngsskyldir, ok dvöldust þar leingi um sumarit. Erlíngr jarl spurði þat, ok hèlt liði sínu austr til móts við þá, ok varð fundr þeirra austanfjarðar, þar sem heitir á Staungum; varð þar orrosta mikil, ok hafði Erlíngr sigr. Þar fèll Sigurðr agnhöttr, ok mart af Ólafs-mönnum, en Ólafr kom á flótta; fór hann síðan suðr til Danmerkr, ok var hinn næsta vetr eptir á Jótlandi í Álaborg. En eptir um várit fèkk Ólafr sótt, þá er hann leiddi til bana, ok er þar jarðaðr[2], ok kalla Danir hann helgan.

26. Nikolás kúfúngr, son Páls Skoftasonar[3], var lendr maðr Magnúss konúngs. Han tók (hönd-

[1]) Upplönd, *Hk.* [2]) í Mario-kirkjo, *b. v. Hk.* [3]) Skaptasonar, *H.*

um) Harald, er sagt var at væri son Sigurðar konúngs Haraldssonar ok Kristínar konúngsdóttur, bróðir Magnúss konúngs sammæddr. Nikolás flutti Harald til Björgynjar, ok fèkk hann í hendr Erlíngi jarli. Þat var háttr Erlíngs, ef úvinir hans kæmi fyrir hann, at hann mælti fátt eðr ekki við þá, ok stilliliga þat er var, ef hann var ráðinn til at láta drepa þá; en hina hrakti hann sem mest í orðum, er hann vildi at lífit hefði. Erlíngr mælti fátt við Harald, ok var mönnum grunr á, hvat hann myndi fyrirætla. Þá báðu menn Magnús konúng, at hann skyldi friða fyrir Haraldi við föður sinn. Konúngr gerði svâ. Jarl svarar: slíkt ráða vinir þínir þer, en þú munt litla hríð ráða ríkinu í frelsi, ef þú skalt heilhuga ráðum einum framfara. Síðan lèt Erlíngr flytja Harald yfir í Norðnes, var hann þar höggvinn.

27. Eysteinn hèt sá maðr, er kallaðist son Eysteins konúngs Haraldssonar[1], hann var þá úngr maðr, eigi með öllu fullroskinn; er frá því[2] sagt, at hann kom fram á einu sumri austr í Svíaveldi, ok fór á fund Birgis jarls brosu. Hann átti þá Brigidam, dóttur Haralds konúngs gilla, föðursystur Eysteins; bar Eysteinn upp fyrir þau sín eyrindi, ok bað ser fulltíngs jarl. Bæði þau tóku vel hans máli, ok hètu honum sínu trausti, dvaldist hann þar um hríð. Birgir jarl fèkk Eysteini nökkurn liðskost, ok góða penníngа til skotsilfrs ser, ok leysti hann vel af hendi;

[1]) Sigurðarsonar, *H.* [2]) er, *ofaukit í A.*

hètu þau bæði honum sinni vináttu. Eysteinn ok hans menn fóru norðr í Noreg, ok komu ofan í Víkina; dreif þar þegar lið til hans, ok efldist flokkr sá; tóku þeir Eystein til konúngs, ok voru þar með flokkinn um vetrinn í Víkinni. En fyrir því at þeim varð fefátt, þá ræntu þeir víða; en lendir menn ok bændr gerðu lið at þeim, en er þeir voru ofrliði bornir, þá flýðu þeir á brott á skóga, ok lágu laungum á mörkum úti; gengu þá klæði af þeim, svâ at þeir spentu næfrum at fótleggjum ser; þá kölluðu bændr þá Birkibeina. Þeir hlupu opt í bygðina, ok komu framm ýmsa vega, ok rèðu þegar til áhlaupa, er eigi var fjölmenni fyrir. Þeir áttu nökkurar orrostur við bændr, ok höfðu ýmsir betr. Þrjár orrostur áttu Birkibeinar, svâ at fylkt var til, ok höfðu þeir sigr í öllum. Á Krókaskógi lagði þeim nær óför[1], kom at þeim bóndasafnaðr[2], fjöldi liðs. Birkibeinar feldu brota fyrir þá, ok hlupu síðan á mörkina.

28. Birkibeinar voru 2 vetr í Víkinni, svâ at þeir komu ekki norðr í land. Magnús hafði þá verit konúngr 13 vetr, er Birkibeinar hófust. Hit þriðja sumar rèðu þeir ser til skipa, fóru þá fyrir land framm, fengu ser fjár ok liðs. Þeir fóru fyrst um Víkina; en er áleið sumarit, stefndu þeir norðr í land, fóru svâ skyndiliga at ekki kom njósn fyrir þá, áðr þeir komu til Þrándheims. Birkibeinar höfðu mest í flokki sínum Marká-

1) óförum, *H*, *Hk*. 2) mikill ok, *l. v. Hk*.

menn eðr Elfargríma, ok mart manna höfðu þeir af Þelamörk. Vel voru þeir þá vápnaðir. Eysteinn konúngr þeirra var maðr fríðr, fagrleitr ok lítilleitr, ekki mikill vexti; hann var kallaðr af Markamönnum[1] Eysteinn meyla. Magnús konúngr ok Erlíngr jarl sátu í Björgyn, þá er Birkibeinar sigldu norðr um, ok vurðu ekki við þat varir. Erlíngr var maðr ríkilátr, spakr at viti, hermaðr hinn mesti, ef úfriðr var, landráðamaðr góðr ok stjórnsamr, kallaðr grimmr ok harðráðr, en hitt var þó mest, at hann lèt úvini sína fáeina landsvist hafa, þótt griðin fengi, ok vurðu fyrir þá sök margir til at hlaupa í flokkana, þegar er húfust móti honum. Erlíngr var hárr maðr ok harðvaxinn, nökkut barraxlaðr, lángleitr, skarpleitr, ljóslitaðr, ok gerðist [hárr mjök[2]; hann bar hallt höfuðit nökkut, hugaðlátr ok veglátr, hafði forneskju klæðabúnað, lánga upphluti ok lángermar á kyrtlum ok á skyrtum, valskikkjur ok uppháfa skúa. Slíkan búnað lèt hann konúng hafa, meðan hann var úngr; en þá er hann rèð sjálfr, bjó hann sik mjök í skart. Magnús konúngr var lèttlátr ok leikinn, gleðimaðr mikill[3].

29. Nikolás, son Sigurðar Hranasonar, hann var son Skjaldvarar, dóttur Brynjúlfs úlfalda, hon var systir Halldórs Brynjúlfssonar, en [sammæðra

---

[1]) sumum mönnum, *H*; mörgum, *Hk*. [2]) hvítr af hærum, *H*. [3]) ok þótti mikil skemtan at honum, *b. v. H*; *en Hk b. v.* ok kvennamaðr mikill.

við[1] Magnús konúng berfætt. Nikolás var hinn mesti höfðíngi; hann átti bú á Hálogalandi í Aungli, þar sem heitir á Steig; Nikolás átti ok garð í Niðarósi ofan frá Jónskirkju[2]; Nikolás var opt í Kaupángi, ok hafði hann ráð öll fyrir bæjarmönnum. Skjaldvöru, dóttur Nikoláss, átti Eiríkr Árnason, hann var ok lendr maðr.

30. Þat var Maríu-messu hina síðari, er menn gengu frá óttusaung[3], at Eiríkr gekk til Nikoláss, ok mælti: mágr! þat segja fiskimenn nökkurir, er utan eru komnir, at lángskip sigli utan eptir firðinum, ok geta menn at Birkibeinar muni vera, ok er sá til, mágr! at láta blása bæjarliði öllu út á Eyrar með vâpnum. Nikolás svarar: ekki fer ek at fiskimanna kvittum, mun ek gera njósn út á fjörðinn, [en höfum þíng[4] í dag; gekk Eiríkr heim. En er hríngði til hámessu, gekk Nikolás til kirkju; Eiríkr kom þá til hans ok mælti: þat hygg ek, mágr, at sönn se njósnin, eru þeir nú her, er sèt kveðast hafa seglin, þykki mer þat ráð at vèr ríðim ör bænum, ok safnim oss liði, þykki mer mannfátt í bænum. Nikolás svarar: kvartsamr[5] er þú, mágr, hlýðum fyrst messu, en gerum þá ráð vârt síðan; gekk þá Nikolás til kirkju. En er messa var súngin, þá gekk Eiríkr til hans, ok mælti: mágr! nú eru hestar mínir búnir; vil ek brott ríða. Nikolás bað

1) sammædd systir, *H* 2) þar sem skömmu átti Þorgeir kapalin, *b. v. Hk.* 3) í býnom, *b. v. Hk.* 4) *v. í H.* 5) kraksamr, *Hk.*

hann vel fara: ok munum ver hafa þíng á eyrum, segir hann, ok kanna lið í bænum. Reið Eiríkr brott, en Nikolás gekk [í garð sinn, ok síðan[1] til borðs; ok er vist var upptekin, þá kom maðr inn ok sagði: nú róa Birkibeinar í ána.

31. Nikolás bað menn vâpnast; en er þeir voru vâpnaðir, bað hann þá gánga upp í lopt, en þat var hit úsnjallasta ráð, fyrir því ef þeir hefði varit garðinn, þá hefði bæjarmenn komit til at duga þeim. Birkibeinar fylldu allan garðinn með sínu liði, ok gengu at loptinu umhverfis. Þeir kölluðu ok buðu Nikolási grið, en hann neitaði. Síðan börðust þeir. Hafði Nikolás til varnar bogaskot, handskot ok ofngrjót. Birkibeinar hjuggu húsin, ok skutu sem tíðast. Nikolás hafði víðan[2] skjöld ok gyltir naglar [ok strendr[3]. Birkibeinar skutu svâ, at uppi stóð á reyrböndunum; Nikolás mælti: [lyki skjöldinn[4] at mer. Þar fèll Nikolás ok mikill hluti sveitar hans, ok var hann hit mesta harmaðr. Birkibeinar gáfu grið öllum bæjarmönnum.

32. Síðan var Eysteinn þar til konúngs tekinn, ok gekk allt fólk undir hann. Hann dvaldist um hríð í bænum, fór síðan inn í Þrándheim, kom þar mart lið til hans. Þorfinnr svarti af Snavs[5] hafði sveit manna, [gekk hann til handa

[1]) *Hk*; *v. í A, H.* [2]) rauðan, *Hk.* [3]) í, ok stirnd hjálmsgjörð á, *Hk.* [4]) *sèst ekki í H*; *vegna stórs gats á bókfellinu*, lýgr skjöldrinn nú, *Hk.* [5]) *sèst ekki í H.*

Eysteini[1]. Öndverðan vetr fóru þeir út til bæjar; þá komu til þeirra synir Guðrúnar af Saltnesi, Jón ketlíngr, Sigurðr ok Vilhjálmr. Þeir fóru ör Niðarósi til Orkadals. Þá var skorat 20 hundruð manna; fóru svâ til Upplanda, þaðan út um Þotn ok Haðaland, þá á Hríngaríki[2].

33. Magnús konúngr fór um haustið með sumu liði sínu, ok Ormr konúngsbróðir, til Túnbergs, ok settist þar, en jarl var eptir í Björgyn, ok hafði þar mikit lið, ok skyldi gegna Birkibeinum, ef þeir færi hit ytra. Veitti konúngr í Túnsbergi um jólin. Magnús konúngr spurði til Birkibeina uppi á Re. Konúngr ok Ormr fóru þagat at þeim; snjór var mikill, ok veðr kalt, er þeir komu á Re, ok gengu þeir ör túni á veginn, fylktu þeir fyrir utan skíðgarðinn, ok tráðu þar gadd. Þeir höfðu eigi öll 15 hundruð manna. Birkibeinar voru á öðrum bænum, en sumt lið þeirra her ok hvar í húsum. En er þeir vurðu varir við herinn, hlupu þeir saman, ok skutu á fylkíng. En er þeir sá lið Magnúss konúngs, þótti þeim, sem var, at þeir höfðu lið meira, rèðu þegar til bardaga. En er þeir sóttu framm (á) veginn, máttu fáir senn gánga; en er af gekk veginum, mátti varla frammkoma; brást þá fylkíng þeirra; en þeir fèllu er fyrstir gengu framm; var þá niðrhöggvit merki þeirra, en þeir sem þar voru næst hopuðu, en sumir flýðu. Magnúss

1) *v. í Hk.* 2) lögðu þeir undir sik, hvar sem þeir fóru, *b. v. Hk.*

konúngs menn [fylgdu þeim[1], ok drápu hvern sem þeir náðu. Birkibeinar komu þá ekki fylkíng á, fèll þar mart ok flýði; var þá, sem opt kann henda, þótt frækuir menn ok vâpndjarfir se, ef slög stór fá, ok komi á flótta, at flestir verða illir aptrhvarfs; dreifðist þá flokkr þeirra víðsvegar. Eysteinn konúngr var á flótta; hann hljóp í hús nökkut, ok bað ser griða, ok þess at húsbóndi skyldi fela hann, en bóndi drap hann. Fór hann síðan á fund Magnúss konúngs, ok fann hann á Rúmsnesi[2]; var konúngr inni í stofu, bakaði sik við eld, ok mart manna. Fóru þá menn hans ok fluttu þagat líkit, báru inn í stofuna; bað konúngr þá menn tilgánga, ok kenna líkit. Birkibeinn einn [sat í krókpallinum[3], ok hafði eingi maðr at honum gaum gefit; en er hann sá lík höfðíngja síns ok kendi, stoð hann upp skjótt ok hart, hljóp framm á gólfit, ok hjó með öxi til Magnúss konúngs, kom á hálsinn við herðarnar. Maðr nökkurr er sá at öxin reið, skaut honum frá, ok við þat snaraðist öxin ofan á herðarnar, ok varð þat mikit sár. Hann reiddi upp öxina annat sinni, ok hjó til Orms konúngsbróður, hann lá í pallinum, höggit stefudi á báða fótleggina. En er Ormr sá at maðr vildi drepa hann, brást hann við skjótt, kastaði fötunum framm yfir höfuð ser; kom höggit í pallstokkinn, stóð öxin föst, en vâpn stóðu á Birkibeini svâ þykt, at varla mátti hann

1) *þannig H, Hk*; flýðu, *A.* 2) Ramnesi, *Hk.* 3) lá (í) pallinum, *H.*

falla; sá þeir þá at hann hafði dregit um gólfit eptir ser iðrin, var þess manns hreysti allmjök lofuð. Magnúss konúngs menn ráku leingi flóttann, ok drápu allt þat er þeir máttu. Þar fèll Þorfinnr af Snavs ok fjöldi annarra Þrænda.

34. Birkibeinar höfðu samansafnazt með fjölmenni miklu, voru þeir harðir ok hinir vapndjörfustu, heldr úspakir, ok fóru mjök geystir[1], þegar þeir þóttust hafa styrk mikinn. Þeir höfðu í sínum flokki fátt ráðagerðarmanna, eðr þeirra sem vanir væri landstjórn eðr herstjórn; en þótt sumir kynni betr, þá vildi allr fjöldinn þat hafa, er sjálfum sýndist, þóttust þeir öruggir af liðsfjölda sínum ok hreysti. En þat lið er undan komst var mart sárt, en allt felaust, ok lítt búit at vâpnum ok klæðum; sótti sumt austr á Markir, sumt á Þelamörk, þat flest sem þar átti kyn. Allir forðuðu ser, þvíat lítil þótti vân grîða af konúngi eða jarli.

35. Magnús konúngr fór út aptr til Túnsbergs[2]; hann var allfrægr af sigri þessum. Þat var allra manna mál, at Erlíngr jarl væri brjóst ok forysta[3] fyrir þeim feðgum. En eptir þat er Magnús konúngr hafði sigrat svâ [styrkan flokk ok fjölmennan[4] við minna lið, þótti öllum mönnum sem hann myndi yfir allt gánga, ok hann myndi vera því meiri hermaðr en jarl, sem hann var ýngri; [ok lýkr her at segja frá þeim Magnúsi konúngi ok Erlíngi jarli[5].

[1]) ok rasandi, *b. v. H*, *Hk.* [2]) *Hk*; Eiðaskógs, *A.* [3]) brynja, *H* [4]) mikinn her, *H.* [5]) *v. í H*, *Hk.*

# Saga Sigurþar slembidjácns.

Sá maðr er nefndr, er Sigurðr hèt, son Þóro Saxadóttur, en hon sagþi þat faþerni hans, at hann veri son Magnúss berføz, en vinir Magnúss[1] konúngs oc trúnaþarmenn leyndo þesso for vannqveþis söcum, er *Sigríþr*, systir Þóro, var *móþir Olafs* konúngs Magnússonar. Sigurðr var fóstraðr suþr í landi með presti þeim, er Albrict hèt, oc var þat yfirbragð fyrir sumom mönnom, at hann veri prestzins son, sem Ivarr Ingimundarson segir í qveþi því, er hann orti um Sigurð:

óx í øscu
við *A*þalbricti ...

Hann nam á únga aldri klercdóm, oc þá sendi prestrinn hann til biscups, oc gaf hann Sigurði víxlor, svâ at hann var djácn; oc er hann görþiz fullkominn maðr at aldri, þá var hann allra manna vaxligastr, mikill oc sterer, oc at allri atgörvi var hann umfram lángt alla sína jafnaldra oc náliga hvern mann annan í Noregi; en þegar er hann rèð sjálfr háttom sínom, þá afrøcþiz hann klerca siþo, oc fór af landi á brot, oc í þeim ferþom dvalþiz hann lángar hríþir. Þat er sagt at (hann) var staddr í Orcneyjom með (Haraldi jarli; svâ segir Ivarr:)

| | |
|---|---|
| Var með jarli | unz siçlíngar |
| afkárlyndom | sócnar hvatir |
| vargs verþgjafi | Fóstra .... |
| vestr í eyjom: | .... rufo. |

Þar var Sigurðr at ráþom oc vígi ens göfga manns,

[1]) *þannig M.*

er Þorkell fóstri hèt. Þaðan fór hann upp (á Scotland, oc var með Davíd Scotakonúngi; svâ segir Ivarr:)

| | |
|---|---|
| Sótti síþan | var með vísa |
| Sigurðr af eyjom | Viljams bani |
| dýrr at ráþom | fleinþíngasamr |
| Davíd konúng: | fimm misseri. |

Konongi virþiz hann vel oc öþrom höfþíngjom; var hann þar um hríþ í miclom sóma, sem scáldit sagþi:

| | |
|---|---|
| Þótti dýrom | bøtti vísi |
| Dafinnz liþom | verþúngar liþ, |
| öngr maþr cominn | haíþi úngr conúngr |
| øþri þángat; | almanna lof. |

Þess er oc getit at meþan Sigurðr var með konúngi, at hann átti nacqvarar orrostor, oc fècc jafnan sigr; svâ segir Ivarr:

| | |
|---|---|
| Ol hertogi | þars for jöfri |
| hrafna í fjörþom, | austan comnom |
| sculfu sceyti | morþals metendr |
| í Scota blóþi: | merki báro. |

Oc enn:

| | |
|---|---|
| Bar Sigurði | orr orrosto |
| sigr at hendi | inn frá Stauri. |

Oc enn segir hann:

| | |
|---|---|
| Háþi hilmir | scýrstr at öllo |
| hervíg fjögor | í Scotaveldi. |

Oc eptir þetta fór Sigurðr út í lönd, oc byrjaþi ferþ sína til Róms, oc allt fór hann út til Jórsalalanz oc til Jórdánar, oc sótti helga dóma, þá sem pálmarom[1] er títt, sem Ivarr segir:

| | |
|---|---|
| Vann Róms göto | sótti síþan, |
| ræsir þrænda | ok synþom hrauþ, |
| føti farna, | hers oddviti |
| sá er frama drýgþi: | helga dóma. |

Oc her segir hann frá því, er Sigurðr fór til Jórsala,

[1]) *lagfært fyrir* pamarom, *M.*

ok sótti gröf drottins vârs, oc keypti ser svâ guþs miscunn oc mikinn veraldar sóma:

Sótti breiþa
borg Jórsala
örr oddviti
út í löndom:
áþr í vatni,
því er vígþi guð,
Sigurþr af ser
synþir þvegi[1].

Þat er oc sagt at 5 byscopar gerþo scírslo hans, oc førþo hann í ætt. Svâ segir Ivarr:

Görþo scírslo
um scjöldúngs kyn
fim byscopar,
þeir er framarst þótto:
svâ bar raunir
at rics konúngs
þess var enn milldi
Magnús faþir.

[Síþan fór Sigurþr utan af Jórsalalandi um Gricland, Fracland, Saxland, sem Ivarr segir:

Lèto síþan
súðvigg búin,
østiz øgir
utan or Griekjom:
sótti Fracca
fremþar ræsir,
áþr Saxa sjót
Sigurþr kannaþi;

oc því nest[2] segir í qveþino, at þá qvemi hann í eyjarnar:

Hèll snarr konúngr
snekkjo cinni
vígligr um ver
vestr[3] í eyjar[4].

Þat er oc sagt, at hann hafþiz í caupferþom við.

*Frá Sigurþi slembi.*

2. Einn vetr var hann á Islandi með Þorgilsi Oddasyni í Saurbø, oc visso fáir hverr[5] hann var. Þat var um haustit, er sanþir voro í rètt recnir, oc etlaþir til scurþar; oc er þeir hendo sauþina, hljóp einn sauþrenn at honum Sigurþi[6], sem hann leitaþi þannoc hjálpar. Sigurþr rèttir at honum hönd sína, oc kippir út or rèttinni, oc letr hlaupa upp í fjallit, ok mælti: eigi leita fleiri [til] traustzins til vâr, en at trausti scal þat[7]

---

1) *Þessa og undanfar. vísur v. í Hk.* 2) *viðbætt af getgátu.* 3) *lagfært fyrir* vesta, *M.* 4) *Frá merkinu* [ *v. í Hk.* 5) *lagfært f.* herr, *M.* 6) Sigurðr lèt, *b. v. Hk.* 7) þeim, *A mun rèttara.*

verþa. Þat görþiz oc um vetrinn, at kona hafþi tekit, oc varþ Þorgisl henne reiþr, oc villdi refsa henne. Hon hljóp þángat til hjálpar, sem Sigurþr var, oc hann setti hana hjá ser í pallinn. Þorgils bað hann framselja konona, oc sagþi (hvat) hon hafþi gört. Sigurþr bað henne friþar: þó hefir hon mitt traust sótt, ok gefi henni upp sökina. Þorgils segir at hon scal víti firir taca. Oc er Sigurþr sá, at búandi vill eigi heyra høn hans, hleypr hann upp, oc brá sverþi, oc bað hann tilsøkja. Oc er Þorgils sá, at hann vildi vígi verja, leizc honom maðrinn með miclo ifirbragþi, oc grunar hverr. vera mon, oc lèt viðberaz at gera á hluta hennar, oc gaf henne friþ. Þar voro fleire útlendir menn, oc hafði Sigurðr minnzt ifirleti. Einn dag, er Sigurðr com í stofo, tefldi annarr austmaðr við heimamann Þorgils; sá var scarzmaþr mikill, oc barsc mikit á. Oc kallaþi austmaðr á Sigurþ, at hann rèþi um taflit með honom, [for því at hann kunni þat sem aðrar iðróttir[1]; oc er hann leit á, þótti honom mjöc farit vera taflit. En sá maðr, er tefldi við austmanninn, hafþi sáran fót, oc þrútnaþi tá hans, oc vegþi. Sigurþr settiz í pallinn, oc tecr eitt strá, oc dregr eptir gólfino; en ketlíngar hljópo eptir gólfino; hann dregr æ firir þeim stráit, þar til er kömr ifir fót honom, [oc nú laupa at ketlíngarnir, oc hlaupa á fótinn[2]; en hann spratt[3] upp, oc qvaþ við, en taflit svarfaþiz, göra þeir nú þrætumál, hvárr hafþi[4]; oc því er þessa getit, at hann þótti ner ser taca bragþit. Eigi visso menn fyrr, at hann veri lærðr, enn þvâtdaginn for páscha, þá söng hann ifir vatni með presti; æ þótti þess meira um hann vért, sem hann hafþi lengr verit. Oc um sumarit (eptir), áþr þeir Þorgils scilþi, mælti Sigurþr, at hann scyldi kunnliga senda mann til Sig-

1) *v. í Hk.* 2) *v. í Hk.* 3) *lagf. f.* spatt, *M.* 4) þeirra hefði, *Hk.*

urþar slembidjácns. Þorgils segir: hvat er þer at honom lángt. Hann svarar: ec em Sigurþr slembidjácn, oc sonr Magnúss konúngs; scilþo þeir með því, oc fór hann síþan utan.

*Dráp Haralds konúngs.*

3. I þann tíma var Haraldr [konúngr einn[1] ifir Noregi, ok var þat mælt, at hann veri ecki vitr maþr, oc eigi jafngrimmr sem Magnús Sigurþarson frendi hans. Nú com Sigurþr í Noreg, ok byrjar hann ferþ sína á fund Haralds konúngs til Björgynjar, oc gecc brátt á konúngs grið, oc flutti sitt ærendi. Oc er konúngs ráðgjafar urþo þessa varir, þá røddo menn þat, ef Sigurþr veri til ríkis leiddr, at hann mondi þeim verþa of stórr, svà sem Magnús hafþi verit, en þeir voro þá mjöc í kyrrsæti, oc rèþo mjöc lendir menn landráþom, oc gáfu þeir þat ráð til, at konúngr lèti taka Sigurþ ok drepa hann, oc finna honom þá söc, en[2] hann hafþi verit at vígi Þorkels fóstra vestr í eyjom. Þessi ráþagörþ fór fram, at eitt qvöld síþarla gengo til gestir noccorir, þar er Sigurþr var, oc kölloþo hann með ser; tóco scúto noccora, oc rero á brot frá bønom með Sigurþ, oc norþr um Holdhello. Sigurþr sat á kisto énni, oc hugsaþi sitt mál, oc grunaþi at vera myndo svic, [oc hann varþveitto 2 menn í fyrirrúmino í höftom[3]; oc þá er þeir rero cátir, oc ugþo fátt at ser, þá mælti Sigurþr við þá er hann varþveitto: standit upp með mer, ec vil gánga á borþ, ansa bát minn. Þeir stóþo upp, [oc leysto hendr hans, en føtr hans voro í höptom[4], en hann greip í herþar þeim báþom, oc steypþi þeim utanborþs með ser oc svà í kaf, var við sjálft at þeir mondo drucna, áþr þeir yrþi tecnir, er þeir röro

[1]) einn konúngr, *Hk rèttara.* [2]) *þannig M*; er, *Hk.* [3]) *v. í Hk, er hefir þarámóti klausu um búning Sigurðar, sja bls.* 201, *l.* 20-24. [4]) *v. í Hk, yfir höfuð getr þar ekki um, at hann hafi bundinn verit.*

mikit, en Sigurþr com fjarri upp, oc var þá lauss, oc svam til lanz, sva at þeir höfþo hans ekki. Comz hann svá undan með rás, því at hann var allra manna fóthvatastr, stefnir hann í fjall upp, en konúngsmenn leitoþo hans alla nótt, oc fundo hann eigi. Hann lagþiz í fjallscor nacqvara, svalaþi honom mjöc, fór hann af bróconom, oc scar rauf á setgeiranom, oc smeygþi á sic, tóc út höndonom hjá, oc hjálpaþi svá lífi síno at sinne. Konúngsmenn hurfo aptr, oc mátto eigi leyna sínom óförom. Sigurþr scilþi nú, at eigi var optarr til hjálpar at leita á konúngs fund, stefnir þá ór landi oc til Danmerkr, oc var sú hans sögn, oc at vitnisburþ vina hans, at hann hefþi framit scírslo um faðerni sitt við ráð 5 biscopa[1], en vinir Haralds sögþo at þat veri svic oc lygi Dana. At hausti fór Sigurþr slembidjácn af lanuongo norþr í Noreg[2], oc tóco við honom vinir hans, oc leyndo honom með ser. Hann var með presti einom. Haraldr konúngr var þá í bønom oc mart ríkismanna með honum; þar var oc Ingiríþr drottníng. Þau átto einn son, er Ingi er nefndr, oc var í Vík austr at fóstri. Haraldr konúngr átti annan son, er Sigurþr hèt; hans móþir var Þóra Gutthorms dóttir, oc var sá norþr í Þrándheimi, fóstraði ..............
........................................... hans sjálfs, oc þeir er jafnan sáto ifir hans borþi í mielo ifirlæti; oc á eino qveldi ........................... røddoz við 2 menn er sáto ifir konúngs borþi, oc mælti annarr til konúngs: herra! segir hann, nú höfum við (felagar) scotit lausn[3] (þrætu ockarrar til yðvar)rar orlausnar, oc höfom við veðjat aski hunángs, hvârr okkarr satt segir; ec segi at þú mont liggja í nótt hjá Ingiríþi

[1]) Sjá bls. 329 l. 7. [2]) Hk. getr þess ekki at hann hafi í þetta skipti úr landi farit. [3]) mjög dauft og óvíst í M, en þat sem eptir kemr í milli innsetníngarmerkjunum er nærri öldúngis ólesandi.

drottníng, en hann segir at þer monoð liggja hjá Þóro Guthormsdóttur. Konúngr svarar hlæjandi, oc var mjöc óvitandi, at sjá spurníng var sett með svá mikilli vèl, oc segir hann mono [eigi hljóta[1] veþfeït; oc af því þóttoz þeir vita, hvárt hans mondi at vitja; en hölnðvörþr var haldinn ifir því herbergi, er flestir hugþo at konúngr mondi sofa í, oc drottníng hvíldi, [oc þat var ena nesto nótt eptir Lúciomesso[2], at Sigurþr slembidjácn, oc nacqvarir menn með honom höfþo stórreði þetta[3] með höndom. Sigurþr com til herbergis, þess er konúngr hvíldi, oc drápo fyrst varðmenn, oc bruto upp hurþina, oc gengo inn með brugðnom sverþom; en konúngr hafþi druccinn niðrlagz, oc svaf fast, oc vacnaþi við þat, er menn vágo at honom, oc mælti þat í úvitinu: sárt býr þú nú við mic, Þóra! En hon ljóp upp oc mælti: þeir búa sárt við þic, er verr vilja þer en ec. Þar lèt Haraldr konúngr líf sitt. Þessir menn gengo inn at honom með Sigurþi: Ögmundr, son Þrándar scaga, Kolbjörn[4] Þorljótsson af Bataldri, Erlendr íslendíngr. Eptir þat gengo þeir Sigurþr í brot, oc letr hann calla at ser þá menn, er heitiz höfþo til föroneytis við hann, ef Haraldr konúngr fengi bana. Taca þeir Sigurþr scuto eina, oc scipa mönnum við árar, oc róa út á vàginn fyr konúngsgarþ, tóc þá at lýsa af degi. Þá stóð Sigurþr upp, oc talaþi við þá er stóþo á bryggjonom, oc lýsti vígi Haralds á hönd ser, oc beiddiz af þeim viðtöco, at þeir tøki hann til höfþíngja, sem hann var ettborinn til. Þángat dreif mart lið or konúngsgarði, oc mælto allir á eina lund, sögþo at þat scyldi aldregi verþa, at þeir þjónaþi þeim manni, er myrt hafþi bróþor sinn: en ef eigi hefir Haraldr konúngr þinn bróþir verit, þá er oc ófallit at kalla þig

1) *þannig Hk*; eiga, *M*, *þykir misskrifat.* 2) Lúciomesso at qveldi, *Hk.* 3) *viðbætt af getgátu.* 4) Kolbeinn, *Hk.*

konúng, þvíat þú átt þá[1] önga ætt til konúnga at telja; oc lustu upp allir vâpnataki, at þeir scyldo[2] vera útlagir[3] oc friþlauser; oc því nest var blásit konúngs lúþri, oc stefnt saman lendom mönnom oc hirþmönnom. En Sigurþr oc hans menn sá sinn cost þann venstan, at verþa brotto, oc hèlt hann [norþr á Hörþaland[4], oc átti þar þíng við bøndr, oc gengo þeir undir hann, oc gáfo honom konúngsnafn. Þá fór hann inn í Sogn, oc norþr um fjall oc í Fjörþo, oc tóco flestir vel hans máli. En Ingiríþr drottníng oc hirðmenn oc lendir menn bera ráð sín saman, oc fylgja Víeverjar henne í Víc austr. Ferr hon til Inga sonar síns, oc taca hann til konúngs á Borgarþíngi, var hann þá á annan vetr; voro í þeim ráþom Amundi oc Þjóstólfr Alason, oc margir aðrir stórir höfþíngjar. En Þrøndr tóco til konúngs Sigurþ Haraldsson, þá var hann á fjórþa vetr; var hann til konúngs tekinn á Eyraþíngi; voro í þeim ráþom Ottarr birtíngr, Petr Ulfsson, Gothormr á Reini, Ottar balli, oc fjölþi annarra manna, oc sneriz undir þá brøþr náliga allr lýþr, oc allra helz fyr þer[5] sacar, er faþir þeirra var kallaþr heilagr, oc var þeim svâ landit svarit, at undir öngan annan scyldi gánga, meðan nacqvarr lifþi sona Haralds; svâ segir Ivarr scáld:

| | |
|---|---|
| Tóko síþan | svörþoz margir |
| Sigurþ til landa[6] | menn á þíngi |
| Hörðar[7] oc Sygnir | buþlúngs syni |
| at Harald fallinn: | í bróþor stað. |

Her vícr hann svâ til, at því sem fyrr var sagt, at þeir tóco við Sigurþi slembidjácni at konúngi. [Haraldr gilli var 16 vetr konúngr at Noregi, oc 2 síþan er þeir börðoz á Fyrileif[8].

[1]) *vidb. af getgátu.* [2]) *lagf. f.* scyll, *M.* [3]) *þannig M, þó bundit.* [4]) á Norðr-Hörðaland, *Hk.* [5]) *bundit* (þ') *í M* [6]) *Hk er hèr samstemma A, sjá bls.* 205. [7]) *Hk*; Hörða, *M.* [8]) *v. í Hk. en þar segir eins og í A, að Sigurðr hafi komit til Noregs á 6ta ári ríkis hans.*

*Frá Sigurþi konúngi slembi.*

4. Sigurþr slembir sótti norðr um Stað, oc er hann com á Norþmøri, voro allt comin firc hann bref oc jarteiknir at ráþi þeirra manna, er eigi vildo gánga undan sonom Haralds, oc fècc hann þegar mótstöþor oc uppreist óvina. Oc með því at hann var liðfár, þá fóro þeir undan norþr til Þrándheims, oc leita á fund Magnúss Sigurþarsonar ins blinda. Fór Sigurþr slembir til Hólms, oc tóc þar með valdi or klaustrino Magnús frænda sinn af nauþgom múncom, en sú er fleire manna sögn, at Magnús føri at vilja sínom, þótt annat veri (orð á-)gört til málsbótar honom, oc venti Sigurþr ser af þesso liþsafla sem gafsc. Sigurþr konúngr var inn í bønom, oc voro með honom margir ríkir menn, oc var Sigurþi slembi ekki þangat førilict at fara. Sigurþr slember hafþi með ser alla vini sína, oc rero inn í ána, oc coma festom í konúngsgarþ, oc urþo undan at leita, þvíat allr lýþr stóð at móti; fór síþan í brott, venti ser styrks oc liþsafla af frendom sínom oc (vinom) Magnúss, oc þat bráz eigi með öllo. Fluttiz þá a braut með Magnúsi þegar eptir jólin, oc þá sótti eptir honom Björn Erlingsson, Gunnarr af Gimsom, Halldórr Sigurþarson, Aslácr Háconarson oc þeir brøðr, Benedict oc Eiríer, oc hirþen sú er verit hafþi með Magnúsi, oc fjölþi annarra manna, oc fara þeir suþr fyr Møri með floccinn oc allt fyr Raumsdals mynni, oc scipto þar liþi síno; fór þa Sigurþr vestr um haf, en Magnús til Upplanda, oc venti ser þar mikils afla, [sem hann fècc[1], var hann þar um vetrinn, oc um sumarit, oc hafþi þá mikit liþ. En Ingi bjósc í móti með síno liþi, oc hittusc þar sem heitir í Mynni; varþ þar mikil orosta, oc hafþi Magnús meira liþ. Svá er sagt at Þjóstólfr Alason hafþi Inga konúng í kiltíngo ser, meðan bariz var, oc gecc undir merkjom, oc

[1]) *Hk; v. í Af.*

hafþi mikla mannraun af erfiþi oc a'sócn; oc er þat mál manna, at þá hafi Ingi konúngr fengit vanheilindi, þat er hann hafþi alla æfi síþan, at knýtti hrygginn oc annan fótinn, oc var sá scemri, oc svâ afllítill, at aldregi varþ hann gengr, meþan hann lifþi; en þó sneri mannfallino á hönd Magnúsi konúngi, oc fèllo þessir í öndurþri fylkyngo: Þorkell oc Halldórr Sigurþarsynir[1], Björn Erlíngsson, Gunnarr af Gimsom, oc mikill luti liðs Magnúss konúngs, áþr en hann vildi flýja. Svâ segir Kolli inn prúþi:

Unnoð austr for Mynni
oddhríþ [oc brátt[2] síþan
hilmir fècc und hjálmi
hrafns ferþar[3] lið sverþom[4]:
lögþoð er[5] en eirat[6]
[orsynja þic[7] brynjo
(úngr varþir þú, þengill!
þitt land) saman randir.

oc enn qvað hann:

Fyrr lá hans en harra[8]
hríngmildr þaþan vildi
verþúng öll á velli
vígfimr konúngr himni[9]:
sundr klauf[10] siclíngr þrønda
[song-fúss um[11] Magnúsi,
þer fècz hálfo hæri[12]
hersciptir[13] jöfurr gipto[14].

Magnús konúngr flýþi þaðan austr í Gautland til Karls Sörqvissonar[15], hann var vitr[16] maþr oc ágjarn. Magnús

---

[1]) Sigurðarson, *Hk.* [2]) enn brast, *Hk.* [3]) verðar, *Hk.* [4]) *Sjá hèr fyrir framan bls.* 208. [5]) þer, *Hk.* [6]) eirar, *Hk.* [7]) örr synjaðir, *Hk.* [8]) harri, *Hk.* [9]) *Sjá hèr fyrir ofan bls.* 209. [10]) klauft, *Hk.* [11]) sókufús enn, *Hk.* [12]) hærri, *Hk.* [13]) her scriptir, *Hk.* [14]) gipta, *Hk.* [15]) jarls Sónasonar, *Hk.* [16]) ríkr, *Hk.*

konúngr oc hans menn sögðu svá, hvar sem komo fyri höfþíngja, at Noregr mondi vera lanss, ef nacqvarir stórir höfþíngjar vildi søkja, er engi var konúngr í landino, oc lendra manna forráð oc stjórn; oc þeir er nú ero helzt til ráða tecnir af lendom (mönnom), þá vex nú öfund milli þeirra, oc vill engi sem annarr. Oc með (því) at Karl jarl var ágjarn til ríkis oc áhlýþinn um fortölor, þá samnar hann liþi, ok ríþr á Víkina austan, oc gecc mart fólk undir hann fyr hrezlo sacir. [En er[1] þetta spyrr Þjóstólfr Alason oc Amundi, þá fara þeir í móti með þat liþ, er þeir fá, oc höfþo með ser Inga konúng. Þeir hitta Karl (oc) Gautaher austr á Krócascógi, oc átto þar aðra orrosto, oc varþ þar mikit mannspell, oc fècc Ingi konúngr sigr[2]. Þar fèll mart manna af Gautom, oc flýþi jarl austr af scóginom, en Ingi konúngr rac flóttann allt austr or ríki síno, oc varþ þetta en heþiligsta för. Svá segir Kolli:

Lýsa mont[3] hve ljósa
(laut hrafn í ben Gauta)
(örn fyldit sic sjaldan)
sárísa ranþ vísi:
goldit varþ þeim er görþo
glamm herþendom[4] sverþa
(raun er at ríki þíno)
róg á Crókascógi[5].

Magnús blindi sótti til Danmerkr á fund Eiríks eymuna, oc fècc þar góþar viðtöcor; bað hann Eirík konúng, ef hann vildi fara með Danaher til Noregs, oc leggja undir sic landit, oc hann mon fylgja honum, oc sagði ef hann kømi með [mikinn afla[6], at engi mondi þora

[1]) *Hk; v. í M.* [2]) *Hk b. v. klausu, sem lesa má hèr fyrir ofan bls.* 210, *l.* 1–5. [3]) mun ek, *Hk.* [4]) herðondom, *Hk.* [5]) *Sjá hèr f. framan bls.* 120. [6]) styrk hers sins, *Hk.*

at scjóta spjóti í móti honom. Konúngr banð út leiþángri, oc fór með 2hundruð scipa norþr í Noreg, oc var Magnús blindi oc hans menn í liþi með Danakonúngi. Ferr Eiríkr austan um Víkina, oc fóro til hófs nacqvars með specð oc friði; oc er þeir como í Túnsberg, var þar fyrir samnaðr lendra manna [oc Ingi konúngr[1]. Þar mátto þeir eigi á land komasc, oc eigi vatn taca ser, var þar mart drepit af þeim, þaþan hèldo þeir inn til Osló; þar var (fyrir) Þjóstólfr Alason. Svá er sagt at þeir vildo bera scrín Hallvarz ens helga or bønom um aptaninn, er þeir urþu varir við liþit, oc tóco svâ margir undir, sem við mátto komaz; en svá þúngt var, at þeir mátto eigi lengra bera, en utar á kirkjugólfit. Um morgoninn sá þeir scipaliþit, er utan sigldi hjá Höfuðey. Þá báro 4 menn scrínit or bønom. Þjóstólfr gek or bønom oc allt liþit með scríníno, en scrínit fór upp á Raumaríki til Forss, oc var þar 3 mánoþr[2]. Þjóstólfr nam staþar fyr ofan bøinn, oc runno sumir eptir þeim Þjóstólfi, en stafnbúi eirn varþ scjótastr, er Askell hèt En Þjóstólfr scaut broddör móti honom, oc laust undir qverkina, svâ at út kom í hnakkann, oc þótti þetta eitt et bezta scot, þvíat ekki var annat bert á honom. Þjóstólfr fór upp á Raumaríki, oc samnaþi liþi um nóttina, en þeir Eiríkr lögþo ell í Hallvarzkirkjo oc allan bøinn oc brendo upp með hríngom. Því næst kom Þjóstólfr ofan með miclo liþi, en Eiríkr lagþi á brot síno liþi, oc mátto þeir hvergi á land komaz þeim megin fjarþar for samnaþi lanzmanna[3], en eptir lágo 6 eða 7, hvar sem þeir como á land. Ingi konúngr var í Hornborasundum oc Amundi, fóstri hans, Gyrþarson, Lögbersasonar, oc mikit liþ, oc börþoz þeir Eiricr þar, oc drap Ingi konúngr mart manna af honom. Flýþi Eiricr konúngr undan

[1]) Inga konúngs, *Hk.* [2]) *þannig M*; mánaði, *Hk.* [3]) lendra manna, *Hk.*

suðr til Danmarcar. Þat mælto menn at eigi hefþi verri ferþ farin verit meþ miclo[1] liþi. En Eiríki þótti Magnús oc lið hans hafa logit at ser, at Noregr mondi auþr fyrirliggja; oc eigi mondi spjóti scotit í móti þeim, oc lètzc aldregi þeim scyldo slícr vinr sem áþr.

*Frá sonum Haralds konúngs.*

5. Nú er at segja frá sonum Haralds konúngs, Inga oc Sigurþi[2], sem sagt hefir vitr maþr oc scynsamr, Eiríer Oddzson, oc er þessi frásögn [mest eptir sögo[3] Háconar maga, lenz manns; hann sat yfir, oc sagþi frá þessom tíþindom, er ritat var fyrsta sinne; en hann sjálfr oc synir hans voro í[4] þessom ferþom oc í flestom[5] orrostom; [voro honom þeir menn kunnir, er her ero nefndir; hefir sá oc er ritaþi sögona fleire sannorþa menn nefnda til þessar frásagnar[6].

*Frá Sigurþi.*

6. Sigurþr slembir com þat sumar í Danmörk[7], oc háþi orrostor 2 [í Eyrarsundi[8] við Vindr, aðra suþr við Erri, oc hrauþ þar 8 scip [oc drap mart manna[9], en hengþi suma. Dvalþiz hann þá í Suðrlöndom um [sceið, er[10] hann vissi öngan sinn afla í Noregi, oc var þar mest um mótstöþo, sem voro Þrendr oc Mørir. Svá segir Ivarr:

Riso við vísa
vestan comnom
Þrøndr[11] oc Mørir
þeir er þrifom nítto;
brugþuz hölþar
í huga sínom
mennzco mildom
Magnúss syni[12].

Oc frá því segir hann, er Sigurþr fór af Noregi, oc[13] hann com í Svíaríki, sem hèr segir:

1) jamnmiklo, *Hk.* 2) slembi, *b. v. Hk.* 3) *v. í Hk.* 4) öllum, *b. v. Hk.* 5) *v. í Hk.* 6) oc voro allar aðrar ferðir kunnar, *Hk.* 7) *Hk hefir hèr* vestan um haf til Noregs, *o. s. fr. eins og A, hèr f. ofan bls.* 212. 8) *v. í Hk, A, og þykir hèr rángt.* 9) *Hk, A; v. í M.* 10) hríð en *Hk.* 11) þrændir, *Hk.* 12) seyni, *Hk.* 13) at, *Hk.*

Drifo til reipa
í roþo[1] veðri
reyndir at risno
ræsiss þegnar:
urþo seggir
segls at geta[2],
þá var svalt á sæ,
en sumir jóso.
  Scók veþrvita
í våtom byr
gulli glæstan
um grams scipi:
klöccar urþo,
en konúngr stýrþi,
sneccjo sneisár
of Sigurþi[3].
  Hratt hvast skipi
í hvöto veðri
röst ríþandi
oc ramir straumar:
festo seggir
snekkjo lánga
kynstórs jöfurs
við Kalmar-nes[4].

Þá var hann cominn í Danakonúngs veldi, oc görþi ser þar marga höfþíngja at vinom, konúnginn sjálfan at upphafi, sem her segir:

Ser framliga
friþar leitaþi
ilrjóþr ara
við Jóta gram[5].

[Ivarr getr þess sem fyrr er sagt, at hann átti orrosto við Erri:

Møtti Vinþom
sá er vega þorþi,
sócndjarfr Sigurþr,
suþr við Erri.

Oc enn segir hann:

Hrauþ úngr konúngr
átta sneccjor,
vargr gein um val
Vinda ferþar:
hnè fyr eggjo
óþjóþar lið[6]...

Aþra orrosto átti hann fyr Møri[7], oc drap þar mart Vinda, [sem Ivarr segir:

Enn lèt aþra
austr for Møri[8]
gramr geirþorinn
gunni háþa:
neytti våpna,
þá er Vindr huigo,
örr oddviti
öþro sinni[9].

[1]) rauðo, *Hk.* [2]) *þ. e.* gæta, *Hk.* [3]) *þessa vísu v. í Hk.*
[4]) *þannig líka Hk, án orðamunar.* [5]) *Einnig Hk, án orðamunar.*
[6]) *Frá merkinu v. í Hk.* [7]) *þannig M;* Mön, *Hk, en* Møri *getr verit partr Bleikingar eðr Smálands.* [8]) *þannig M skírt.*
[9]) *Frá merkinu v. í Hk.*

þaðan hèlt hann í Elfina í eystri qvísl, oc [tóc þar 6[1] scip af liþi Þóris hvinantorþa, oc Olafs Haraldssonar kesjo[2], oc elti Olaf á land upp, sem hèr segir:

Vann í Elfi, sculfn sceyti,
þar er jöfurr barþiz, scot mögnoþoz,
fall fólcstara[3] hnigo hríngviþir
til föþorleifþar: hvârratveggjo.

Þjóstólfr var í Koníungahello, oc scyldi þar verja landit, oc Sigurþr hèll liþi síno þángat, oc scutoz þeir á, oc mátti Sigurþr eigi á land gánga; fèllo menn af hvârotveggja liþi, oc mart varþ sárt. Þar fèll Ulfheþinn Söxólfsson, norþlenzer maþr oc stafnbúi Sigurþar. [Þessa getr Ivarr:

Vann leyfðr konúngr setto undan
af liþi Þóris Olafs liþar,
þrjú scip hroþin þeir er or Elfi
í þeirri för: eltir voro[4].

En þá er Sigurþr lá í höfn þeirri, er Portyrja heitir, á Límgarz[5] síþo, oc setti þá scipom, er fóro í Víkina eða braut, oc renndi; en Túnbergsmenn gerþo lið at honum, oc como á úvart, svâ at þeir Sigurþr voro á landi, oc scipto fengi síno, kom sumt lið ofan at þeim, en [þeir lögþo[6] scipom um þveran vâginn for utan höfnina. Þar fèll mart manna af Sigurþi. Þar fèll Fiðr geit oc Askell Smiðsson, en Sigurþr comz á scip sitt, oc röri at þeim út, en scip Vatnorms var þar nest, lèt hann síga á hömlo, en Sigurþr röri út [til hafs[7], oc komz undan einscipa. Þá var þetta (qveþit):

(Var eigi vel við styrjo)
Vatnormr í Portyrjo.

---

[1]) vann þar 3, *Hk*, *A*, *eins og skáldit seinna.* [2]) *Hk. b. hèrinn því sama sem A*, bls. 213, l. 8-10. [3]) *þannig Hk*; *í M mætti einnig lesa* fólcscara. [4]) *Istaðinn f. þetta frá* [ *hefir Hk*: Sigurðr lagði brott, oc hèllt norðr í Víkina, oc rænti viða. [5]) Lungarðs, *Hk*. [6]) sumt lagði, *Hk*. [7]) hjá þeim, *Hk*.

Sigldo þeir á haf, oc er siglt var mjöc, fórsc maðr af scipi hans, sá hèt Kolbeinn Þorlácsson af Bataldri[1], hann fórsc á eptirbáti, er bundinn var við scipit. Sigurþr slembir [brá útleið, er hann kom suþr........[2].

*Um Sigurð konúng slembi.*

7. En of sumarit eptir fóro þeir Magnús báþir saman sunnan 7 scipom, oc [tóco þá[3] á Lista ... á úvart um nótt, er þeir lögþo at landi. Þá var firir Benteinn Kolbeinsson, hirþmaðr Inga konúngs, oc enn vascasti maþr at öllo, gengo þar upp í netreldíng, oc komo á úvart, oc tóco hús á þeim, oc vildo leggja eld í bøinn. Benteinn comz út, oc í hús noccot meþ herclepom, oc var vel búinn, oc etlaþi at verjaz[4], þá mælti Sigurþr: hverr vill sveina inngánga at Benteini, þat er nú [vaskliga gört[5]. Engi varþ scjótt búinn til. Benteinn heyrþi hvat þeir mælto, oc svarar: hverr sem inngengr, þá skal hann finna vâpn fire ser. Myrct var í húsino, oc stóð Benteinn við dyrnar með brugþit sverþ; scjöld hafþi hann fire ser, oc hjálm á höfþi, oc var enn rösqvasti maþr. Sigurþr stóð í frá noccot, oc sá at engi var búinn til inngöngo, þá tók hann gráfeld er hann hafþi, [oc stè á[6], oc sneri[7] um hönd ser, oc brá sverþino, oc sneri upp at húsino, [oc hafþi ekki um[8], oc var í scyrto einni, oc hafþi ekki á höfþi, oc feykir inn í húsit, sem kólfi scyti, svât scjótliga[9] var hann í innanverþo húsino[10], oc sócti at honum utar, oc hjó hann þegar banahögg, oc com svâ út, at hann hafþi höfuþit í hendi ser: oc heldr vascligr maðr-

---

1) af Haðalandi, *b. v. Hk.* 2) braut skipit, er þeir komo suðr til Danmerkr, oc var hann um vetrinn í Alaborg, *Hk.* 3) komo, *Hk.* 4) *Hk er hèr fjölorðari og samstemma A, bls.* 215. 5) kurteisi, *Hk.* 6) *v. í Hk.* 7) vafði, *Hk.* 8) *v. í Hk.* 9) *lagf. f.* scjóliga, *M.* 10) *Hk er hèr fjölorðari = A, bls.* 214.

enn, þvíat allra manna var hann snøfrligastr[1], [sem segir í qvæðino[2]:

| | |
|---|---|
| Hèlt á Lista | Dréf til scógar |
| lofþúngr scipom | fyr scjöldúngi |
| örr fyr Agþir | landmanna liþ, |
| austan af nesjom: | þar er logar brunno: |
| hnè hersa kyn, | vöcþo drengir |
| herr var í landi, | meðan[3] dörr roþin |
| brunno bygþir | blóð Benteini, |
| fyr buðlúngi. | áþr bana fengi. |

þeir[4] fóro síþan til scipa sinna, oc hèldo í brott. [Sigurþr var mikill maþr oc venn, jarpr á hár, oc nacqvat ennisnauþr, blácygr oc rèttleitr, liþr á nefino, ... kendr oc fimr, oc hverjom manni görvari at ser um alla luti[5]. En er Ingi konúngr frá dráp Benteins, oc þeir brøþr Kolbeinssynir, Sigurþr oc Gyrþr, þá görþi konúngr liþ at þeim, oc fór sjálfr, oc tóc scip undan Hákoni púngelto, syni Páls oc dóttorsyni Asláks Erlíngssonar[6] af Sóla, oc systrúngi Háconar maga. Ingi konúngr elti Hákon á land upp oc lið hans allt, oc tóc hvert fat þeirra. En þeir flýþo í fjörþo inn undan: Sigurþr storer[7], sonr Einriþa í Gaulardal[8], oc Eiríer hæll, bróþir hans, oc Andres keldoseitr, son Gríms[9]. En Sigurþr oc Magnús blindi oc Þorleifr scjappa sigldo norðr et ytra 3 scipom á Hálogaland; oc var Magnús eptir þann vetr í Bjarceyjo norðr með Viðkunni Jóanssyni; en Sigurþr var á Finnmörk[10] þann vetr á laun, oc meirr en 20 menn með honum, en hann hjó stafna af scipi síno, oc söcþi niþr í Egisfirþi innanverþom. En þat var mælt at þeir fengi honom vistir,

1) snæfrmannligastr, *Hk.* 2) Svá segir Ivar, *Hk.* 3) með, *Hk.* 4) tóco fe allt er var í bænum, oc, *b. v. Hk.* 5) *v. í Hk.* 6) Scjálgssonar, *b. v. Hk.* 7) stockr, *Hk.* 8) Gautdali, *Hk.* 9) or Orð, *b. v. Hk.* 10) *Hk skírir nákvæmar frá stuðnum, eins og A, sjá bls. 215*

þorleifr scjoppa[1] oc Einar Ögmundarson af Sandi oc Guðrúnar Einarsdóttur Arasonar af [Reykjanesi af Hólom[2]. þann vetr er sagt at Sigurþr orti víso:

Gott var í gamma, vara þar gamans vant
þars ver glaþir druccom, at gamans-drykkjo[3]
oc glaþr gramsson þegn gladdi þegn
gekk meþal bekkja: þar lanz sem[4] var.

Oc um vârit eptir fór hann norþan, oc hafþi scútor 2, er Finnar höfþo gört honom; engi var saumr í, með sini var bundit, oc viðjar fyr knc, oc röro 12 menn á borð[5] svâ scjótt at ekki[6] tóc[7] á vatni. Þetta montu heyrt hafa qveþit:

Fátt eitt fylgir svipar[9] með[10] segli
furo háleyscri[8] sinbundit scip.

Hann com út í Vâga, oc tóc þar Svein prest oc sono hans 2, oc lèt drepa þá alla. [Svâ segir Ivarr, enn nesta vetr eptir er Benteinn var drepinn, at Sigurþr var á valdi Háleyja:

þann vetr enn nesta olli fall
naþra deyþi feðga þriggja
hugfullr konúngr úlfs ángrtöpoþr
með Háleyjom; út í Vâgom[11].

þaþan fór hann í Vikar oc tók þar Vilhjálm Scinnara lendan mann, oc annan þóralda kept, oc drap þá báða. [Svâ segir Ivarr:

þat var et nesta vâpnascipti,
norþr í Vâgom er Viljálmr fèll[12].

Síþan fór hann suþr, oc møtti Styrcári glesirófo[13] suðr við Byrþom[14], er hann fór sunnan or Caupángi, oc drap hann. [Svâ segir Ivarr:

1) *þannig hèr M.* 2) Reykjahólum, *Hk.* 3) gaman-drykkjo, *Hk.* 4) ec, *b. v. Hk.* 5) hvârri, *b. v. Hk.* 6) skip, *b. v. Hk.* 7) þær, *b. v. Hk.* 8) *lagf. f.* hályyscri, *M.* 9) *óljóst í M.* 10) und, *Hk.* 11) *Frá merkinu v. í Hk.* 12) *v. í Hk.* 13) *óljóst í M.* 14) Byrðo, *Hk.*

Metti síþan — olli stillir
suðr við Byrðo — Styrcárs bana,
gramr gunnþorinn — bar benþiþurr
Glæsirófo: — blóðga vengi[1].

Oc er hann com suþr til Hvalsness[2], þá hitti hann Svína-Grím, oc lèt höggva af honom höndina høgri. [Svâ segir Ivarr:

Veitti vísi — hann lèt missa
for Valsnesi — mildíngs hnefa
sóen snarpliga — høgri handar
Svína-grími: — áðr hjaldr lykize[3].

Þá fór hann suþr á Møri fyr utan Þrándheimsmynni, oc tók þar Heþin harþmaga oc Kálf klingroauga[4], oc lèt Heþin undan gánga, en drap Kálf. [Þat segir Ivarr at hann tøki Finn höndom:

Møtti Finni — lèto nýtan
fremþargjörnom — naddveþrs-boþa
örr oddviti — Ulfs arfþega
austr á Qvildrom: — öndo týna.

Oc enn segir hann:

Vann for Møri — hann lèt Kálfi
mildíngr rekr (teer?) — klíngroauga
Heðin með höndom — heldr harðliga
oc hans liþa: — heiptir goldnar.

Oc enn segir hann;

Herscildi fór — allt ið ytra
harri Sygna — eyjar oc strandir.

Oc enn qvað hann:

Sjá knátti þar — scarþa scjöldo
for Sigurþi — scöpt blóðroþin
bitra branda — veþrblásin væ
brynjor høggnar, — of vegondom[5].

1) v. í Hk. 2) Valsness, Hk. 3) lagf. f. lykyzk, M; en frá merkinu v. í Hk. 4) kríngloauga, Hk. 5) Frá merkinu v. í Hk.

Ingi[1] konúngr oc Gyrþr fóstri hans spurþo til farar Sigurþar, oc svâ hvat hann görþi. Þá sendo þeir menn at leita hans[2], Jóann kuzo[3], son Kálfsránga, bróþor Ivars biscups, oc annan Jóan prest smyril. Þeir scipoþo Hreininn, er allra scipa var scjótastr, 2 rúm oc 20, oc fóro suþr at leita þeirra. En svâ sögþo menn at þeir sei þá, oc legþi eigi at, oc fóro aptr við lítinn orztír. Sigurþr fór til þess er hann com á Hörðaland, suþr í Herþlo; þar átti Einarr bú, son Laxa-Páls, oc var farinn inn í Hamar[4] til gagndaga-þíngs, en þeir tóco þar fe allt, oc lángscip hálfþrítogt, oc son hans 4 vetra gamlan, er hvíldi hjá vercmanni hans, er þeir como. Sumir vildo drepa sveininn, en sumir hafa með ser; vercmaþrinn mælti við þá: lítil hefnd[5] mon yþr íþiccja at drepa, oc lítil gøþi[6] at hafa með yþr, oc minn son er sjá, en eigi Einars. Þeir fóro í brott, oc höfþo eigi sveininn með ser. En er Einarr com heim; gaf hann vercmanni (fe) til tveggja aura gullz, oc lètzc ávalt scyldo vera vinr hans. Þeir Sigurþr fóro austr í Víkina, oc tóc Finn Sauða-Ulfsson[7], er hann fór at heimta lanzscyldir, oc festo hann upp, oc sigldo síþan suðr til Danmercr[8].

*Brefsendíng Inga konúngs.*

8. Þat mælto Víkverjar oc Björgynjarmenn, at þeim þótti úsannlict, er Sigurþr konúngr vildi eigi coma, at verja land með Inga brøðr sínom, oc sögþo mikinn mun, er Ingi konúngr var við háskann allan oc hans lið, oc hafþi margar orrostor háþar við ....; (en Sigurðr konúngr oc hans vinir sáto kyrrir) í Caupángi norðr, þótt söþorbanar hans føri þjóðleiþ for Þrándheimsmynni. Þá sendi (Ingi kónúngr bref með innsiglum) sínom norðr

[1]) Sigurðr, *Hk.* [2]) fengo þá til forráða, *b. v. Hk.* [3]) kauðo, *Hk.* [4]) Hamarsfjörð, *Hk.* [5]) happ, *Hk.* [6]) tilslægr, *Hk.* [7]) austr á Kvildrum, *b. v. Hk.* [8]) *Hèr til heyra vísurnar bls ... l....*

til Þrándheims. Þat var á ritino: at Ingi konúngr sendir qveþju Sigurþi brøðr sínom oc hans ráþoneyti (Sáða-Gyrði, Ögmundi svipti) Ottari birtíngi, oc öllom lendom mönnom hans, oc svâ hirþmönnom oc húscörlom, vinom okkrom, búondom oc ......... allri alþýþo, selom oc veslom, úngom oc gömlom, guðs oc sína. Vandreþi okor ero öllom mönnom kunnig ... (oc svâ æsca), sú er þú ert 5 vetra gamall, en ec 3 vetra, oc megom ekki athafaz nema við njótim vina okkara oc góþra manna, eñ vinir mínir þiccjaz við vandreþi comnir, en þer oc yðrir vinir hafit kyrrseti oc hóglífi. Görit nú svâ vel, at þer søkit til míns fundar sem fjölmennztir, oc verom báþir saman, hvatki er ígöriz. Nú er sá okkar vinr mestr, er til þess heldr, at við sem sem sáttastir oc jafnhaldnir af öllo; en með því at þer afrøkiz oc görit eigi fara, sem þer hafit fyrr gört, at nauðsynligri orþsendíngo minni, scaltu við því búaz, at ec mon gera lið á hendr þer, oc scipti þá guð með oer, þvíat eigi þiccjomc ver standaz mega, at hafa fjölmenni með oss, sem ver þurfom við ótta þenna, en þú teer lannzscyldir allar hálfar við oss í Noregi. Lifit í guðs friþi. Þá stóð upp Ottar birtíngr oc mælti: þat er mál Sigurþar konúngs, at mæla til Inga konúngs bróður síns, at guþ þacci honom qveðju sína góþa, oc erfiþi oc fjölskyldi oc margfaldan básca, er þú verþr opt viðstaddr af nauðsynjom ockrom, oc svâ þínir vinir. Eñ þótt sumt þicci heldr örþict í orþom Inga konúngs við Sigurþ, bróður sinn, þá hefir hann þó mikit til máls síns um suma luti. Nú vil ec scjótt lýsa ifir míno scapi, ef þar fylgir vili konúngs oc annarra manna: at þú, Sigurþr! farir á fund Inga konúngs, bróþor þíns, sem fyrst máttu, með þat lið er þú fær, oc efli hvârr yckar annan í öllom farselligóm lutom, en almáttigr guð efli báþa ykr. Nú viljom ver heyra orþ þín, konúngr. En konúngr var borinn á þíngit, bar hann Petr Sauða-Ulfsson, en þetta mælti konúngr: viti allir menn

þat, ef ec má ráþa, þá vil ec *fara* at hitta Inga bróþor minn sem fyrst má ec. Síþan mælti hverr þeirra í orþa stað annars, sem vandi þeirra er til, oc tölþo um tölor lángar, beþi Gyrðr oc Ögmundr oc margir aðrir lendir menn, en þó com í sama staþ niþr, sem Ottar hafþi mælt fyr ändverþo. Síþan fóro þeir í Víc austr til fundar við konúng.

*Frá Sigurþ slembi.*

9. En þat it sama sumar komo þeir Sigurþr slembir með 30 scipa ner vetrnóttum í Noreg, beði Dana lið oc Norþmanna, [sem her vísar til:

Fýstist sunnan
Sigurþr á Lesti
með lítit lið
lönd at søkja:
bjósc með hánum
til herfarar
margs andvani
Magnús konúngr.

Hèlt þrimtògom
þjóðnýtr konúngr
sneckjom sunnan
við sócn búinn:
ugþo lýþir
lið Sigurþar,
lèc scjöldr við scjöld
á scipom vísa[1].

þeir brøþr Ingi oc Sigurþr spurþo, oc fóro í mót þeim með 20 scipom allstórom, [sem her segir:

Fóro leyfþir
með liþi miclo
Haralz hróþr-synir
herstefno til:

þá er at mildom
Magnússyni
atróþr á sjá
Ingi knúþi[2].

þeir hittoz sunnodaginn nesta eptir Marteinsmesso, en hon var laugardaginn áðr, tócz þá með þeim orrosta, [sem her segir:

Hraut í stöngom;
þar er hildíngar
við víg vanir
vàpna neytto:
friþr slitnaþi
frenda á millom,

guþr geisaþi
gecc hildr saman.
Stunþo seggir,
stál roðnoþo,
scaut bjartr konúngr
báþom höndom:

[1]) v. í Hh. [2]) v. í Hh.

hörþ spjót bito,
benjar sviddo,
herscip ruþusc,
hvàrratveggjo.
Flugo hundruþom
herstefno til
sárgögl um sjá
sveita at drecca:
eyddo oddar
jöfurs fulltrúom,
morþ mielaþiz,
þá er Magnús fèll[1].

þegar í fyrsto hríþ lögþo Danir frá 18 scipom, oc heim suþr, [sem her segir:

Flýþo Jótar
átjan scipom,
þeir er Sigurþi
sunnan fylgþo:
raufsc ræsis lið,
þá er ríkr konúngr,
vanr vàsförom,
vâpna neytti[2].

þá hruþosc scip þeirra Sigurþar oc Magnúss. En þá er mjöc var hroþit scip Magnúss, en hann hvíldi í reckjo sinne, þá tóc Hreiþarr Grjótgarzson, er lengi hafþi fylgt honom, oc verit hirþmaðr hans, tóc hann í faðm ser, oc vildi hlaupa með hann á annat scip. þá var Hreiþarr scotinn spjóti milli herþanna, oc þarígögnom, oc þat sögþo menn, at þar fengi Magnús bana af því eno sama scoti, oc fèll Hreiþarr á bac aptr á þiljornar, en Magnús á hann ofan; oc þat mælto allir, at hann þótti vel oc prúlliga hafa fylgt síuom lánardrotni, oc gott er hverjom er slícan orþróm getr. þar fèll Loðinn af Línostöþom oc Brúsi þormózson, stafnbúi Sigurþar. Ivarr Kolbeinsson oc Hávarþr fegir. [Svà segir í drápo Inga konúngs:

Rauðri dreif þá er rjúfa
rèð öll fyr gram scjölldo
mjöll áþr Magnús fèlli
morþgjarn þrumo járna:
harmar öngr, því at Ingi
áttu ráþa vel láþi
döct fèll drjúgt á scocka (stokka?)
dráp Sigurðar vápna.

[1] v. i Hk. [2] v. i Hk.

Sýndi sjálfr at landi
snjallr, en þú brátt allri
(vel um hrósar því vísi)
valköst munins fösto:
Ulfs börnom varþ arnar
einkar tíþr í víðo
(borþ ruþo fregir fyrþar)
fundr Lángeyjar sundi.

Þat mælti Magnús konúngr blindi, er hann fècc scotit: þat com 7 vetrom til síþ[1]. Her fèll mikill hluti liþs þeirra, þvíat ecki gecc undan, þat er náð varþ. Þeir drápo í einom hólmi meirr en 60[2] manna. Þá fèllo 2 íslenzkir menn, Sigurþr prestr, son Bergþórs Mássonar, annarr Clemet, son Ara Einarssonar. En Ivarr scratthanki[3], son Kálfs ens ránga, er síþan var biscop í Þrándheime norþr, hann hafþi ávalt fylgt Magnúsi; hann comsc á scip Jóans køþo, bróþor síns. Jóan átti Cecilío, dóttur Gyrþar Bárþarsonar, oc var þar í liþi. 3 komoz þeir á scip Jóans: annarr Arnbjörn ambi, er síþan átti dóttur Þorsteins í Auþsholti; þriþi var Ivarr dynta Starrason, bróþir Helga Starrasonar, innþrønscr[4] at móþorkyni, inn vensti maðr; oc er liþsmenn urþo varir við, at þeir voro þar, þá gripo þeir til vápna, oc géngo at þeim Jóani, en hann bjósc við þeim, oc var við sjálft at þar mondi alþýþa berjaz, en þat varþ at sætt með þeim Jóani, at hann leysti undan Ivar oc Arnbjörn, oc festi fe fyr þá, en þat fe var honom gefit síþan. Ivarr dynta var leiddr á land upp oc höggvinn, þvíat þeir Sigurþr oc Gyrþr Kolbeinssynir vildo eigi fe taca fyrir hann; þvíat þeir kendo honom, at hann hefþi verit at drápi bróþur þeirra. Þat sagþi Ivarr, at þat hafþi svá liþit ifir hann, at honom þótti mest, er nafni hans var leiddr á land upp undir öxi,

1) *Frá merkinu v. í Hk.* 2) 40, *Hk.* 3) scrautthánki, *Hk.*
4) enn þrænskr, *Hk.*

oc hvarf til þeirra, oc baþ þá heila hittaz. *Svà sagþi* Gyríþr[1] húsfreyja Birgisdóttir, systir Jóans crchibiscops at hon (heyrði Ivar biscop þetta mæla) .........

10. [Nú er at segja frá Sigurþi konúngi slembi, at uppgöngur *tókoz á scip hans, en hann varþiz með* miclo ágæti, oc veitti mörgom mönnom scaþa; søkja þeir nú aptr at firirrúmino, svâ segir Ivarr:

Hrauþsc ..... þá er skjöldúngs son
austan comnom, af scipi síno
bito slög suðrøn sócnførr *m*...
sneckjo með stöfnom: sunz kostaþi.

Síþan könnoþo þeir valinn, oc fundo eigi Sigurþ slembi[2], oc rero á bátom [at leita hans[3], oc fundo mann einn á sundi, oc vildo drepa; en sá baðsc undan, oc lètzc mundo segja, hvar Sigurþr slembir væri, oc þat vildo þeir. Scildir oc spjót oc dauþir menn fluto víþa á senom hjá sciponom. Þá mælti maðrinn: sjá mono þer, hvar flýtr einn rauþr scjöldr, þar er hann undir. Þá rero þeir þángat, oc tóco hann, oc flutto hann til lanz. Hann hafþi hlaupit fyr borþ, þá er scip hans var hroþit, oc steypþi brynjonni af ser í kafi, þvíat hann var manna bazt syndr, hann hafþi elzvirki á ser, oc var fjóscrinn[4] í valhnotarscurmsli, oc steypt um vaxi. Hann hafþi scjöld ifir ser, er hann svam, til þess at eigi metti vita, hvárt sá scjöldr veri, eðr annarr, er margir fluto. Svâ sögþo þeir at aldregi myndo þeir hitta hann, ef eigi veri þeim sagt til, oc því er þess getit, hverso hann bjó um elzvirkit, at þeim þótti hugqvemliga gört, at búa svà um at aldregi vettiz; [svà segir Ivarr:

Varþ á vatni sá er manna var
víkíngr tekinn, mestr fullhugi[5].

[1]) Guðríðr, *Hk.* [2]) *Frá merkinu v. í Hk.* [3]) *Hk hefir þetta nokkut öðruvísi, og er hèr samstemma A, sjá bls.* 224.
[4]) *þannig M.* [5]) *v. í Hk.*

En þá er þeir komo til lanz, var sagt liðsmönnom, at Sigurðr var hanntekinn, þá sló ópi á herinn fyr fagnaþi, oc er Sigurþr heyrþi þat, mælti hann: margr maðr vândr mon her feginn görr í dag á[1] míno höfþi. Síþan gecc Þjóstólfr Alason þángat, oc mælti við hann: hví vartu svâ djarfr, þrælssonrinn, at þora at segja, at þú verir son Magnúss konúngs? Hann svarar: ekki máttu feðr mínom jafna við þinn föþor eða þrel; þvíat lítils var þinn faþir verþr hjá mínom föþor. Svâ segir Hallr, son Þorgeirs lecnis Steinssonar, oc hirþmaðr Inga konúngs, er þar var þá viðstaddr, at þeir reðissmenn konúnganna vildo láta drepa hann þegar, en þeir er sinna harma átto mest at reka, rèþo mest píníngo hans, en hann nefndi til þess sono Kolbeins oc Petr Sauða-Ulfsson, en alþýþa manna geck frá, [oc vildo eigi ásjá[2]. [Þá batt Petr með streng handleggi hans, svâ at yfir upp geck holdit. Þá mælti Sigurþr: fast bindr þú nú, Petr. Hann svarar: þá kendir þú mer þat, er þú drapt Finn bróþur minn austr á Qvildrom[3]. Þá brutu þeir fótleggi hans í sundr með öxarhömrom, oc svâ handleggi, oc síþan klufo þeir svörþ[4], oc flógo hann or klæþom sínom, oc hýddo hann með svarþsvipom, þartil er svâ görla var seinn af honom, söm hann veri fleginn kvicr, oc þat segja menn at hann syngi saltara, meþan þeir píndo hann, [oc tóc þar ávalt til, sem hann hvarf frá, þótt öngvit fèlli á hann á milli, oc bað þá fyr úvinom sínom. Svâ segir Ivarr:

Þat tel ec illa
er jöfurr seyldi
kynstór koma
í kvalar slícar:
tecr Sigurþi

síþan engi
maþr rösqvari
um meþalkafla.
Söng saltara,
meþan Sigurþ píndo

1) af, *Hk.* 2) *v. í Hk.* 3) *v. í Hk.* 4) *Her þykir vanta í nokkut; en eingin eyða sèst í M. Hk kemr saman við A í allri þessari frásögn.*

jöfurs óvinir, bavþfrecn jöfurr,
ýta drottinn: þeim er vellscata
bað fyr brögnom veitto píslir[1].

[Oc þá er hann vissi ecki í þenna heim[2], drógo þeir hann til tres eins, oc hengþo hann þar upp. [Svâ segir Ivarr:

Frá ec at lèti vildi gánga
líf sitt konúngr, gramr til scriptar,
þá er saltara en því þjóðkonúngr
súngit hafþi: þeygi náþi[3].

Oc er hann var dauþr, urþo allir á eitt sáttir beþi vinir hans oc óvinir, at engi maþr hefþi gervari at ser verit en Sigurðr um alla luti, svâ at menn viti, en þó hefir hann verit ógiptomaðr. [Eigi hefi ec fire því fára orþa hans getit, at eigi hafa ec mart heyrt kent honom, at hann hafi mælt viþ þá; en[4] Hallr hefir svâ sagt, at hann mælti fátt, oc svaraði fám einom mönnom, þótt orþom yrpi á hann, oc svâ segir hann at Sigurþr brásc eigi heldr viþ, en þeir drepi á stocc eða stein, oc þat lèt hann fylgja, at þat mætti vera of góðan dreng, þann er vel væri [á þrec[5] búinn oc hreysti, at svâ metti standaz píníngar, at því at hann hèldi munni sínom, eða brygþi ser lítt við; en svâ hefir Hallr sagt, at aldregi brá hann máli síno, heldr enn hann seti á ölbecc milli vina sinna; hvârki mælti hann þá hæra ne legra, ne scjálfhendra, en vanþi hans var til, oc melti mjöc til þess er hann andaþiz. En prestr, sá er þar hafþi kirkjosócn[6] scamt frá, lèt líc Sigurþar føra þángat til kirkjo, en sá var vinr þeirra Haraldssona; en þeir lögþo reiþi á hann firir þetta, oc galt hann þeim fe firir, oc þeir lèto føra braut líkit í hreysi.

[1]) *Frá merkinu v. í Hk.* [2]) Enn síðan scuto þeir stock á hrygginn svâ at sundr gekk, *Hk.* [3]) oc hjuggo síðan af honum höfuðit, *Hk, íst. f. vísuna.* [4]) *v. í Hk.* [5]) at þreki, *Hk.* [6]) kirkjo, *Hk.*

Oc síþan sótto vinir hans líkit sunnan or Danmörc, oc flutto suþr til Alaborgar, oc grófo þar at Maríokirkjo. Svâ sagþi Ketill prófastr, er varþveitti Marío-kirkjo, at Sigurþr veri þar grafinn. En Þjóstólfr Alason lèt føra líc Magnúss konúngs til Osló, oc grafa í Hallvarz-kirkjo hjá Sigurþi föþur hans[1], [en Loðin sauprúþ førþu þeir til Túnsbergs[2], en allt liþ annat grófo þeir þar[3], oc fóro á brot með sigri miclom. Þess minniz Böðvarr halti í drápo, er hann orti um Sigurþ konúng Haraldzson.

Nú scal lýst hve, Lista,
læsciarr konúngr[4], harra
görþiz afregs orþa
efnd, þíns föþor hefndir:
lötoð hjálms at hólmi,
hríþ spurþiz sú víþa,
ofkúgi dő jöfra,
allvaldr, Sigurþ falla.

Oc enn qvað hann:

Magnús varþ at morþi
málsnjallr í bavð falla,
rèþ firir ræsis dauþa
ríkr þjóðkonúngr slícom:
meirr rac þic til þeirra,
þrec-sterer konúngr[4], verka
(flagþs hest haf[5] ... flestom
fylldom) nauþr en scyldi.

Þar fèll allt oc örvir
(úlfr rauþ á her dauþom
teþr) í taugnings[6] veþri
tveir jöfrar liþ þeirra.

---

[1]) sínom, *Hk rángt.* [2]) *Hk hefir hèr mjög rángsnúinn texta, sjá bls.* 228, *athug.* 3. [3]) *Það sem eptir er v. í Hk.* [4]) *bundit í M.* [5]) *bundit í M með striki yfir f.* [6]) *Lagfært í M. fyrir* taugnungs, *sem fyrst hefir skrifað verið.*

## Af Einari Skúlasyni.

Einarr Skúlason var með þeim brøðrom, Sigurði oc Eysteini, oc var Eysteinn konúngr mikıll vin hans, oc Eysteinn konúngr bað hann til at yrkja Olafsdrápo, oc hann orti oc førþi norþr í þrándheimi í Kristzkirkjo sjálfri, oc varþ þat með miclom jartegnom, oc kom dýrligr ilmr í kirkjona, oc þat segja menn at þær áminníngar urþo af konúnginom sjálfum, at honom virþiz vel qveþit. Eysteinn konúngr virþi Einar mikils, oc eitt sinn er þat sagt at konúngrinn Eysteinn var cominn í seti, en Einarr var eigi cominn. Eysteinn konúngr hafþi þá gört hann stallara sinn, en þetta var norþr í þrándheime. Hafþi Einarr verit til nunnosetrs á Bacca. þá mælti konúngr: vítr ertu nú scáld, er þú kömr eigi undir borþ, ok ert þó konúngs scáld. Nú monom við eigi sáttir, nema þú yrkir nú víso, áþr ec drecca af kerino. þá qvaþ Einarr víso:

Oss lèt abbadissa
ángri firðum svángan
dygg, þótt víf en vígþo
víti fyr þat gyrþa:
en til átz með nunnom
ógnar raks á Bacca,
drós gladdit vin vísa,
varat[1] stallarinn kallaþr.

Nú líkar konúngi allvel.

2. þat er oc sagt, þá er Sigurþr konúngr var staddr í Björgyn, varþ sá atburþr at í bønom voro leicar, oc hèt annarr jarlmaðr, oc hann jarlmaðr tóc

[1]) *lagf. f.* varat, *M.*

kið eitt oc át frjádag, oc konúngr vill þat refsa honum, ok lèt taca hann oc hýða, oc er Einarr kömr at, þá mælti hann: hart vilí þer nú búa við jarlmann, felaga vârn. Konúngr mælti: þú mont nú ráþa; víso scaltu yrkja, oc meþan þú yrkir, scal hann hýþa. Einarr mælti: þat mondi hann vilja, jarlmaþr, at mer yrþi eigi alltorfynt; en fim högg lusto þeir hann, þá mælti Einarr: nú er vísan ort:

Austr tóc illa cristinn
jarlmaþr frá búcarli
(gróþr var kjötz á kauþa)
kiþlíng, hinn er slær fiðlu:
vöndr hröcc, vámr lá bundinn
velmáll á scip þillar (þolar?)
song leikara lengi
limi barþan prima.

3. Þat barsc at eitt sumar, at sú cona com til Björgynjar, er Ragnhildr hèt, dýrlig kona. Hana átti Poll Scoptason. Hon hèlt eino lángscipi, fór svâ vegliga sem lendir menn, dvalþiz þar í bønom; oc er hon bjóz í brot, þá sá konúngr ferþ hennar, oc mælti: hvat er nú scálda með oss? segir konúngr. Þar var Snorri Bárþarson; honom var ekki anþfynt, oc tóc hann ekki svâ scjótt til, sem konúngr vildi. Þá mælti konúngr: eigi mondi svâ fara, ef Einarr væri her með oss; hann var þá nacqvat svâ frásceili orþinn konúngi fyr ógá, oc spyrr konúngr ef hann veri í bønom, oc mælti at fara scyldi eptir honom, oc er hann com á bryggjornar, mælti konúngr: velkominn scáld! se nú hversu vegliga ferþ kono þessar er búin, yrc nú víso, oc haf lokit áþr scipit gengr út for Hólm! Einarr svarar: eigi mon þat cauplaust. Konúngr spurþi, hverjo scal caupa? Einarr svarar: þú scalt scyldr til oc hirðmenn þinir 7 út í frá, at sitt orþ muni hverr yðarr í vísonni, oc ef þat brestr, gefit mer jafmarga aska hunángs, sem

þer munit eigi orþin. Konúngr játti því. þá qvaþ Einarr víso:

Hola báro ristr hlýrom
hreystisprund at sundi
bless elreki of ási
Utsteins vefi þrútna:
varla heldr und vildra
viemarr á jarþríki,
breiþan við brimsgáng suþum
barmr lyptíngar farmi.

þá mælti konúngr: þat ætla ec at ec muna: „Hola báro ristr hlýrom;" já veit guð: „barmr lyptíngar farmi." Aldregi munþo þeir þat er í milli var. Einarr var þá í konúngssveit oc í öllu samlagi við konúngsmenn.

# Upphaf Gregoríí.

Nú er andað ráþoneyti þeirra brøðra, þat er trúast var. þá görþoz þeir atburþir at maþr hèt Geirsteinn, hann bjó norþr í Noregi, auþigr maþr oc rángláatr, capsfullr oc úeirþar. Sonr hans hèt Hjarrandi oc annarr Hísíngr, þeir voro oo újafnaþarmenn, sem faþir þeirra, oc mielir áburþarmenn. Systir þeirra var frilla Sigurþar konúngs Haraldssonar, oc voro þeir vinir hans, oc sáto þeir allir feðgar í konúngs trausti. Scamt frá Geirsteini átti jarþir oc bú ágæt cona oc fræg at ætt oc mörgom góþom lutom, er Gyþa hèt, systir Ragnhildar, er átti Dagr Eilífsson, höfþíngi mikill austan or laudi, oc átti jarþir austr viþ Túnsberg. Geirsteinn leggr hug til Gyþo oc ofrást, en henni fèllzc þat ecki í scap; oc er hann fann þat, ylmþiz hann í móti, oc fjannscapaþiz til hennar, oc segir meire von at henne verþi misráþit. Síþan venr hann fe sitt í acra hennar,

